# KONUNGA-SÖGUR

AF

# SNORRA STURLUSYNI

TOM. II.



*Cassis et Calcaria sancti Olafi, qualia in templo S. Nicolai Holmiæ exstant.*

HOLMIÆ,
EXCUD. ELMÉN ET GRANBERG,
MDCCCXVII.

# KONUNGA-SÖGUR

AF

SNORRA STURLUSYNI.

---

Saga af Olafi hinom Helga.

---

Holmiæ,
Excud. ELMÉN et GRANBERG
MDCCCXVII.

VII.

# SAGA OLAFS KONUNGS HINS HELGA, HARALLDS-SONAR.

## CAP. I.

## UPPFÓSTR OLAFS HELGA, HARALLDS-SONAR.

Olafr sonr Harallds hins Grænska fæddiz upp med Sigurdi Syr stiúpfödor sínom, oc Asto módor sinni. Rani hinn Vídförli var med Asto; hann veitti fóstor Olafi konungi Harallds syni. Olafr var snimma gerviligr madr, frídr synom, medalmadr á vöxt: vitr var hann snimma, oc ordsniallr. Sigurdr Syr var búsyslo-madr mikill, oc hafdi menn sína miök í starfi; oc hann siálfr fór optliga at siá um akra, oc eng, edr fenad, oc enn til smida, eda þar er menn störfudo eitthvat.

## CAP. II.

## FRÁ OLAFI OC SIGURDI KONUNGI SÝR.

Þat var eitt sinn at Sigurdr konungr villdi rída af bæ, þá var engi madr heima á bænom: hann qvad-

di Olaf stiúpson sinn at södla ser hest. Olafr geck til geitahúss, tók þar buck, þann er mestr var, oc leiddi heim, oc lagdi á södol konungs: geck þá oc sagdi hönom, at þá hafdi hann búit hönom reidskióta. Þá geck Sigurdr konungr til, oc sá hvat Olafr hafdi gert; hann mællti: audsætt er, at þú munt vilia af höndom ráda qvadningar mínnar: mun módor þinni þat þickia sæmiligt, at ec hafi engar qvadningar vid þic, þær er þer se ímóti skapi; er þat audsætt, at vid manom ecki vera skaplíkir; mantu vera miklo skapstærri, enn ec em. Olafr svarar fá, oc hló vid, oc geck í brott.

## CAP. III.
## FRÁ ÍÞRÓTTOM OLAFS.

Olafr Haralldsson, er hann vóx upp, var ecki hár, medalmadr, oc allþrekligr, sterkr at afli, lióslarpr á hár, breidleitr, liós oc riódr í andliti, eygdr forkunnar vel, fagreygdr oc snareygdr, sva at ótti var at siá í augo hanom, ef hann var reidr. Olafr var íþróttamadr mikill um marga luti, kunni vel vid boga, scaut manna best handscoti, oc syndr vel, hagr oc siónandr vid smídir allar, hvart er hann gerdi, edr adrir menn. Hann var kalladr Olafr Digri. Hann var diarfr oc sniallr í máli, brádgörr at öllom þroska, bædi afli oc vizco, oc hugþeckr var han öllom frændom sínom, oc kunnmönnom, kappsamr í leikom,

oc villdi fyrir vera öllom ödrom, sem vera átti fyrir sakir tignar hans oc burda.

## CAP. IV.

## UPPHAF HERNADAR OLAFS KONUNGS.

Olafr Haralldsson var þá XII vetra gamall, er hann steig á herskip fyrsta sinn. Asta módir hans feck til Rana, er kalladr var konungs fostri, til forráda fyrir lidino, oc til umsiá med Olafi; þvíat Rani hafdi opt ádr verit í hernadi. Þá er Olafr tók vid lidi oc skipom, þá gáfo lidsmenn hönom konungs nafn, sva sem sidvenia var til, at herkonungar, þeir er í viking voro, er þeir voro konungbornir, þá báro þeir konungs nafn þegar, þótt þeir sæti hvergi at löndom. Rani sat vid styrihömlo: því segia sumir menn, at Olafr væri háseti, enn hann var þó konungr yfir lidino. Þeir helldo austr med landino, oc fyrst lil Danmerkor. Sva segir Ottar Svarti, er hann orti um Olafr konung:

Ungr hrazto á vit vengis
vígrackr konungr blacki
þú hefir dyrom þrek dræra
Danmarkar þic vándan.
Vard nytlignzt nordan
(nú ert ríkr af hvöt slíkri)
fra ec til þess er fórot
fór þín, konungr, görva.

Enn er haustadi, sigldi hann austr fyrir Svíavelldi; tók þá at heria oc brenna landit: þvíat hann þóttiz Svi-

om eiga at launa fullan fiandskap, er þeir höfdo tekit af lifi Haralld födor hans. Ottar Svarti segir þat berom ordom, at hann fór þá austr or Danmörk:

Öttod árom skreyttom
austr í Sallt med flaustom
bárod land af landi
landvördr á skip randir.
Nettod segls oc settot
sundvarpadi stundom
sleit miök róin miklar
mörg ár und þer báror.
Drótt vard driúgligr ótti
dólglinnz at för þinni
svan brædir namto sídan
Sviþiódar nes rióda.

## CAP. V.

## OROSTA HIN FYRSTA.

Þat hafist bardiz Olafr vid Sótasker hina fyrsto orosto; þat er í Svíaskeriom. Þar bardiz hann vid víkinga, oc er sá Sóti nefndr er fyrir þeim red: hafdi Olafr lid miklo minna oc skip stærri; hann lagdi sín skip í milli boda nockorra, oc var víkingonom óhægt at atleggia. Enn þau skip er næst lögdoz þeim, þá komo þeir á stafnliám, oc drógo þau at ser, oc rudo þau. Víkingarnir hurfo frá, oc höfdo látit lid mikit. Sigvatr skalld segir frá þessari orosto, i því qvædi, er hann taldi orostor Olafs konungs:

Lángr bar út enn únga
iöfra kund at sundi

þiód ugdi ser sídan
siá meidr konungs reidi.
Kann oc til margs enn manna
minni fyrsta sinni,
hann raud æztr fyrir austan
úlfs fót vid sker Sóta.

## CAP. VI.
## HERNADR Í SVÍÞIÓD.

Olafr konungr hellt þá austr fyrir Svíþiód, oc lagdi inn í löginn, oc heriadi á bædi lönd. Hann lagdi allt upp til Sigtúna, oc lá vid forno Sigtúnir. Sva segia Svíar, at þar se enn griótlöd þau er Olafr let gera undir bryggiosporda sína. Enn er haustadi, þá spurdi Olafr Haralldsson til þess, at Olafr Svía konungr dró saman her mikinn, oc sva þat, at hann hafdi iárnom komit fyrir Stocksund oc sett lid fyrir. Enn Svía konungr ætladi at Olafr Haralldsson mundi þar bida freyra: oc þótti Svía konungi lítils verdt um her Olafs konungs Haralldssonar, þvíat hann hafdi lítit lid. Þá fór Olafr konungr Haralldsson út til Stocksunda, oc komz þar eigi út. Kastali var fyrir vestan sundit; enn her mans fyrir sunnan. Enn er þeir spurdo, at Svía konungr var á skip kominn, oc hafdi her mikinn oc fiölda skipa; þá let Olafr konungr grafa út í gögnom Agnafit til hafs; þá voro regn mikill. Enn um alla Svíþiód rennr hvert rennanda vatn í löginn: enn einn ós fellr út í

haf or leginom, oc sva miór, at margar ár ero breidari. Enn þá er regn ero mikil oc sniánám, þá falla vötnin sva æsiliga, at fors-fall er út um Stocksund; enn lögrinn flóar vída upp á löndin. Enn er gröptrinn kom út i siáin, þá hlióp vatnit oc straumrinn út: Let þá Olafr konungr á skipom sinom leggia öll styri or lági, oc draga segl vid húno. Byr var á blásandi. Þeir styrdo med árom, oc gengo skipin mikit út yfir grunnit, oc komo öll heil á hafit. Enn Sviar fóro þá á fund Olafs Svía konungs, oc sögdo hönom at Olafr Digri var þá kominn á haf út. Svia konungr veitti þeim stórar átölor, er gætt skylldo hafa, at Olafr qvæmiz eigi út. Þat er nú sídan kallat Konungs-sund; oc má þar ecki stórskipom fara, nema þá er vötn æsaz miök. Enn þat er sumra manna sögn, at Svíar yrdi varir vid, þá er þeir Olafr höfdo útgrafit fitina, oc vatnit fell út; oc sva, at Sviar fóro þá til med her mans, oc ætlado at banna Olafi at hann færi þar út. Enn er vötnin grófo út tveggia vegna, þá fello baekarnir, oc þar fólkit med, oc tyndiz þar fiöldi lids. Enn Svíar mæla þesso ímót, oc telia hegóma at þar hafi menn fariz. Olafr konungr sigldi um haustit til Gotlands, oc biózk þar at heria. Enn Gautar höfdo þar samnat, oc gerdo menn til konungs, oc budo hönom giölld af landino. Þat þeckiz konungr, oc tekr gialld af þeim, oc sitr þar um vetrinn. Sva segir Ottar Svarti:

Gilldir komto at gialldi
Gotnescom her flotna

þordot þer at varda
þat land iöfor brandi.
Rann enn madr of minna
margr byr um þrek varga
húngr fra ec austr hinn yngri
Eysyslo lid þeya.

## CAP. VII.

## ÖNNOR OROSTA.

Her segir sva, at Olafr konungr fór, er váradi, austr til Eysyslo oc heriadi; veitti þar landgaungo. Enn Eysyslir komo ofan oc helldo orosto vid hann. þar hafdi Olafr konungr sigr, rak flótta, heriadi oc eyddi landit. Sva er sagt, at fyrst er þeir Olafr konungr komo vid í Eysyslo, þá budo bændor hönom gialld: enn er gialldit kom ofan, þá geck hann ímóti med lidi alvapnado; oc vard þá annan veg enn bændor ætlado; þviat þeir fóro ofan med ecki gialld, helldr med hervapnom, oc bördoz vid konung, sem fyrr var sagt. Sva segir Sigvatr skálld:

þá var enn oc önnor
Olafr ne svik fáloz
odda þíng í eyddri
Eysyslo geck heya.
*Sitt átto flör fótom*
fár beid or stad sára
enn þeir er undan runno
allvalldr búendor giallda.

## CAP. VIII.

## ÞRIDIA OROSTA.

Sidan sigldi hann aptr til Finnlands oc heriadi þar oc geck á land upp. Enn lid allt flydi á skóga, oc eyddi bygdina at fe öllo. Konungr geck lángt á landit upp, oc yfir skóga nockora: þar voro fyrir dalbygdir nockorar: þar heita Herdalar; þeir fengo lítit fe, enn ecki af mönnom. Þá leid á daginn, oc sneri konungr ofan aptr til skipa. Enn er þeir komo á skóginn, þá dreif lid at þeim öllom megin, oc scaut á þá, oc sótto at fast. Konungr bad menn lifa ser. Enn ádr konungr qvæmi af skóginom let hann marga menn, oc margir urdo sárir; kom sid um qvöldit til skipa sinna. Þeir Finnar gördo med fiölkyngi um nottina ædi vedr, oc storm siávar. Enn konungr let upptaka ackerin, oc draga upp segl, oc beitto um nóttina fyrir landit. Mátti þá enn, sem optar, meira haminga konungs, enn fiölkyngi Finna: fengo þeir beitt um nóttina fyrir Balagards-sído, oc þadan i hafit út. Enn her Finna fór it efra, sva sem konungr sigldi it ytra. Sva segir Sigvatr:

Hríd vard stáls i stridri
straung Herdala gaungo
Finnlendinga at fundi
fylkis nids hin þridia.
Enn austr vid lá leysti
leid víkinga skeidar
Balagards at bardi
brim scídom lá sída.

## CAP. IX.

## OROSTA HIN FIÓRDA Í SUDRVÍK.

Þá sigldi Olafr konungr til Danmerkr; hitti hann þar Þórkel hinn Háfa, bródor Sigvallda Jarls, oc redz Þórkell til ferdar med hönom: þvíat hann var þá búinu ádr at fara í hernad: Sigldo þeir þá sudr fyrir Jótlands sído, oc þar sem heitir Sudrvík, oc unno þar víkingaskip mörg. Enn víkingar þeir er iafnan lágo úti, oc redo fyrir lidi miklo, leto sik konunga kalla, þótt þeir ætti engi lönd til forráda: Lagdi Olafr konungr þar til bardaga: vard þar orosta mikil; feck þar Olafr konungr sigr, oc fe mikit. Sva segir Sigvatr,

Enn qvádo gram gunnar
galldr uphöfom vallda
dyrd fra ec vel þeim er vardiz
vinnaz fiórda sinni.
þá er ólítill úti
iöfra lids á midli
fridr geck sundr í slídri
Sudrvík Dönom kudri.

## CAP. X.

## OROSTA HIN FIMTA VID FRÍSLAND.

Þadan sigldi Olafr konungr sudr til Fríslands, oc lá fyrir Kinnlima sído í hvösso vedri. Þá geck konungr á land med lid sitt, enn landsmenn rido ofan ímóti, oc bördoz vid þá. Sva segir Sigvatr skálld:

Vig vanto hlenna hneigir
hiálmom grimt it fimta

þoldo hlyr fyrir hári
hríd Kinnlima sído.
þá er vid rausn at ræsis
reid her ofan sceidom
enn í gegn at gunni
geck hilmis lid reckom.

## CAP. XI.

## DAUDI SVEINS TIÚGUSKEGGS.

Olafr konungr sigldi þá vestr til Englands; þat var þar tídinda, at Sveinn Tiúguskegg Dana konungr var þenna tíma i Englandi med Danaher, oc hafdi þar þá setit um hríd, oc haft land Adalráds konungs; höfdo þá Danir vída gengit yfir England; var þá sva komit, at Adalrádr konungr hafdi flyit landit, oc farit sudr í Valland. þetta sama haust, er Olafr konungr kom til Englands, urdo þau tídindi þar, at Sveinn konungr Haralldsson vard bráddaudr um nótt i reckio sinni. Oc er þat sögn Enskra manna, at Eadmundr hinn helgi hafi drepit hann, med þeima hætti sem hinn helgi Merkurius drap Julianum níding. Enn er þat spurdi Adalrádr Engla konungr á Flæmingialand, þá snyr hann þegar aptr til Englands. Enn þá er hann kom aptr í landit, sendi hann ord öllom þeim mönnom, er fe villdo þiggia til þess, at vinna land med hönom: Dreif þá mikit fiölmenni til hans. þá kom til lids vid hann Olafr konungr med mikla sveit Nordmanna. þá

lögdo þeir fyrst til Lundúna, oc helldo skipa hernom utan í Temps, enn Danir helldo borginni. Ödrom megin árinnar er mikit kauptun, er heitir Sudvirki; þar höfdo Danir mikinn umbúnat, grafit díki stór, oc setto fyrir innan vegg med vidom oc grióti oc torfi, oc höfdo þar í lid mikit. Adalrádr konungr let þar veita atsókn mikla; enn Danir vördo; oc feck Adalrádr konungr ecki atgert. Bryggior voro þar yfir ána, milli borgarinnar oc Skudvirkis, sva breidar, at aka mátti vögnom á víxl. A bryggionom voro vígi gerr, bædi kastalar oc bord-þök forstreymis, sva at tók upp fyrir midian mann: enn undir bryggionom voro stafir, oc stódo þeir nidr i grunn i ánni. Enn er atsókn var veitt, þá stód herinn á bryggionom, um allar þær, oc vardi þær. Adalrádr konungr var miök hugsiúkr hvarnog hann skylldi vinna bryggiornar. Hann kalladi á tal alla höfdingia hersins, oc leitadi ráda vid þá, hvernog þeir skylldo koma ofan bryggionom. Þá segir Olafr konungr, at hann mun freista at leggia til sino lidi, ef adrir höfdingiar vilia at leggia. A þeirri málstefno var þat rádit, at þeir skylldo leggia her sinn upp undir bryggiornar: Bió þá hverr sitt lid oc sin skip.

## CAP. XII.
## OROSTA HIN SIÖTTA.

Olafr konungr let gera flaka stora af vidarlaugom, oc af flötom vidi, oc taka í sundr til vandahus, oc

let þat bera yfir skip sín, sva vítt, at þat tók af bordom út; þar let hann setia undir stafi sva þykt oc sva hátt, at bædi var hægt at vega undan, oc yrit stint fyrir grióti ef ofan væri áborit. Enn er herinn var búinn, þá veitto þeir atródr nedan eptir ánni, oc er þeir koma nær bryggiouom, þá var borit ofan á þá bædi scot oc grjót, sva stórt at ecki hellt vid hvarki hiálmar ne skilldir, oc skipin meiddoz siálf ákafliga: Lögdo þá margir frá. Enn Olafr konungr oc Nordmanna lid med hönom rero allt upp undir bryggiornar, oc báro kadla um stafina, þá er upphelldo bryggionom, oc tóko þá oc rero öllom sciponom forstreymis, som mest mátto þeir. Stafirnir drógoz med grunni, oc allt til þess er þeir voro lausir undir bryggionom. Enn fyrir því at vapnadr her stód þykt á bryggionom, þar var bædi griót mart, oc hervapn mörg, enn stafirnir voro undan brotnir; þá bresta af því nidr bryggiornar, oc fellr fólkit mart ofan á ána, enn allt annat lidit flydi af bryggionom, sumt í borgina, enn sumt í Sudvirki; oc eptir þat veitto þeir atgaungo í Sudvirki, oc unno þat. Enn er borgarmenn sá þat, at áin var unnin Temps, sva at þeir ecki mátto banna skipfarar upp í landit, þá hræddoz þeir, oc gafo upp borgina, oc tóko vid Adalrádi konungi. Sva segir Ottar Svarti:

Enn brantto ela kennir
yggs gunn þorin bryggior

linns hefir lönd at vinna
Lundúna þer snúnat.
Höfdo hart um krafdir
hilldr óx vid þat skilldir
gáng enn gamlir sprúngo
gunnþinga járnhríngar.

Oc enn qvad hann þetta:

Komto í land oc lendir
ládvördr Adalrádi
þin naut reckа rúni
ríki efldr at slíko.
Hardr var fundr sá er færdot
fridlands á vit nidia
red átt studill ádan
Jatmundar þar grundo.

Enn segir Sigvatr frá þesso:

Rett er atsöen hin setta
snarr þengill baud Englom
átt þar er Olafr sótti
yggs Lunduna bryggior.
Sverd bito Völsc enn vördo
víkingar þar díki
átti sumt í sletto
Súdvirki lid búdir.

## CAP. XIII.

## OROSTA HIN SIÖUNDA.

Olafr konungr var um vetrin med Adalrádi konungi; þá átto þeir orosto mikla á Hríngmaraheidi á Ulfkelslandi; þat ríki átti þá Ulfkell Snillingr; þar fengo konungarnir sigr. Sva segir Sigvatr skalld:

Enn let siöunda sinni
sverd-þíng háit verda
endr á Ulfkells landi
Olafr sem ec fer máli.
Stód Hríngmara-heidi
herfall var þar alla
ello kind er olli
arfvördr Haralds starfi.

Enn segir Ottar sva frá þessari orosto:

þengill fra ec at þúnga-
þinn her scipom ferri
raud hríngmara-heidi
hlód valkösto blódi.
Lant fyrir ydr ádr leti
landfólk í gny randa
Engla ferd at iördo
ótt enn mörg á flótta.

þá lagdiz landit enn vída undir Adalrád konung, enn þíngmenn oc Danir helldo mörgom borgom, oc vída helldo þeir þá enn landino.

## CAP. XIV.

## OROSTA HIN ÁTTUNDA OC NÍUNDA.

Olafr konungr var höfdingi fyrir herinom, þá er þeir helldo til Cantarabyrgis, oc bördoz þar, allt til þess er þeir unno stadinn, drápo þá fiöllda lids oc brendo borgina. Sva segir Ottar Svarti:

Atgaungo vanto yngvi
ætt siklinga mikla
blídr hilmir tókto breida
borg Kantara um morgin.

Lek vid rönn af riki
(refto bragna konr gagni)
alldar frá ec at alldri
elldr oc reykr at þú belldir.

Sigvatr telr þessa hina átto orosto Olafs konungs:

Veit ec at víga mætir
Vindom hættr hin átta
styrkr geck vördr at virki
verdungar styr gerdi.
Sinn máttot bæ banna
borg Kantara sorgar
Mart feckz prúdom pörtom
port greifar Oleifi.

Olafr konungr hafdi þá landvörn fyrir Englandi, oc fór med herscipom fyrir land fram, oc lagdi upp í Nyamódo; þar var fyrir Þíngmanna lid; oc átti þar orosto: oc hafdi Olafr konungr sigr. Sva segir Sigvatr skalld:

Vann úngr konungr Englom
ótraudr scarar randar
endr kom brúnt á branda
blód í Nya módo
Nú hefi ec orostor austan
ógndvalds nió taldar
her fell Danser þar er dörrom
dreif mest at Oleifi.

Olafr konnngr fór þá vída um landit, oc tók giölld af mönnom, enn heriadi at ödrom kosti. Sva segir Ottar:

Máttid Enscrar ættar
ölld par er tókt vid giölldom

vísi vægdar lausom
vídfrægr vid þer bægia.
Gulldot gumnar sialldar
göll döglingi holloz:
stundom fra ec til strandar
stór þíng ofan fóro.

Þar dvalldiz Olafr i þat sinn III vetor.

## CAP. XV.

## OROSTA HIN TÍUNDA Í RÍNGSFIRDI.

Enn it þridia vár andadiz Adalrádr konungr; tóko þá konungdóm synir hans Eadmundr oc Eadvardr; þá fór Olafr konungr sudr um siá, oc þá bardiz hann í Ríngsfirdi, oc vann kastala á hölunom, er víkingar sáto í; hann braut kastalann. Sva seigir Sigvatr skálld:

Tögr var fullr i fögrom
fólkveggs drífar, hreggi
hellt sem hilmir mællti
Hríngsfirdi lid þíngat.
Ból let hann á hólli
hátt víkingar átto
þeir badot ser sídan
slíks scotnadar brotna.

## CAP. XVI.

## OROSTA ELLIFTA OC HIN TÓLFTA OC ÞRETTANDA.

Þá hellt Olafr konungr lidi síno vestr til Grislo-pol-

la

la, oc bardiz þar vid víkinga, fyrir Vilhialmsbæ: þar hafdi Olafr konungr sigr. Sva segir Sigvatr:

Olafr vanto þars iöfrar
ellifta styr fello
úngr komto af því þíngi
þollr í Grislo pollom.
þat fra ec víg at veitto
Viljalms fyrir bæ hiálma
tala mint er þat telia
tryggs jarls háit snarla.

Því næst bardiz hann vestr í Fetlafirdi, sem segir Sigvatr:

Tönn raud tólfta sinni
tvr fylgiandi ylgiar
vard í Fetlafirdi
fiörbann lagit mannom.

Þadan fór Olafr konungr allt sudr til Seliopolla, oc átti þar orosto; þar vann hann borg þá er heitir Gunnvalldsborg; hun var mikil oc forn, oc þar tók hann Jarl, er fyrir red borginni, er het Geirfidr. Þá átti Olafr konungr tal vid borgarmennina; hann lagdi gialld á borgina, oc á Jarl til útlausnar, XII þúsund gullskillinga. Slíkt fe var hönom golldit af borginni, sem hann lagdi á. Sva segir Sigvatr:

þrettanda vann þrænda
(þat var flótta böl) dróttin
niallr í Selio-pollom
sunnarla styr kunnan.
Upp let gramr í gamla
Gunnvalldsborg um morgin
Geirfidr het, sá gerva
gengit jarl of fengin.

## CAP. XVII.

## OROSTA HIN FIÓRTANDA OC DRAUMR OLAFS KONUNGS.

Eptir þat hellt Olafr konungr lidi síno vestr í Karlsár oc heriadi þar, átti þar orosto. Enn þá er Olafr konungr lá í Karls-ám, oc beid þar byriar, oc ætladi at sigla út til Nörvasunda, oc þadan út í Jórsalaheim, þa dreymdi hann merkiligan draum, at til hans kom merkiligr madr, oc þeckiligr, oc þó ógrligr, oc mælti vid hann, bad hann ætlan þeirri hætta at fara út í lönd: far aptr till Odala þinna, þviat þú munt vera konungr yfir Noregi at eilifo; hann skildi þann draum til þess, at hann mundi konungr vera yfir landi, oc hans ættmenn lánga æfi.

## CAP. XVIII.

## OROSTA HIN FIMTANDA.

Af þeirri vitran sneri hann aptr ferdinni, oc lagdiz vid Peitoland, oc heriadi þar, oc brendi þar kaupstad þann er Varrandi het. Þess getr Ottar:

Nádot úngr at eyda
ógnteitr jöfur Peito
reyndot ræsir steinda
rönd á Tuscalandi.

Oc enn segir Sigvatr sva:

Máls vann Mæra hilmir
munnriódr er komt sunnan
gagn þars gamlir sprúngo

geirar upp at leiro.
Vard fyrir víga niördom
Varrandi siá fiarri
brendr á bygdo landi
bær heitir sva Peito.

## CAP. XIX.

## FRÁ RUDO JÖRLOM

Olafr konungr hafdi verit í hernadi vestr í Vallandi II sumor, oc einn vetr; þá var lidit frá falli Olafs konungs Tryggvasonar XIII vetor. Þá stund höfdo rádit fyrir Noregi Jarlar; fyrst Eiríkr oc Sveinn Hákonar synir; enn sídan Eiriks synir Sveinn oc Hákon. Hákon var systorson Knúts konungs Sveins sonar. Þá voro í Vallandi Jarlar II, Vilhialmr oc Rodberd, fadir þeirra var Ríkardr Rúdo-Jarl; þeir redo fyrir Nordmandi. Systir þeirra var Emma drottning, er Adalrádr Engla konungr hafdi átt; synir þeira voro þeir Eadmundr oc Eatvardr hinn gódi, Eatvígr oc Eatgeir. Ríkardr Rudo-Jarl var son Ríkardar, sonar Vilhialms Lángaspiótz; hann var son Gaungo-Rolfs, Jarls þess er vann Nordmandi; hann var son Rögnvallds Mæra-Jarls hins Ríka, sem fyrr er ritat. Frá Gaungo-Rolfi ero komnir Rudo-Jarlar, oc töldo þeir lengi sidan frændsemi vid Noregs höfdingia, oc virdo þat lengi sídan, oc voro hinir mesto vinir Nordmanna alla stund, oc átto fridland í Nordmandi allir Nordmenn, þeir er þat villdo þeck-

iaz. Um haustit kom Olafr konungr í Nordmandi, oc dvaldiz þar um vetrinn i Signò, oc hafdi þar fridland.

## CAP. XX.

## FRÁ EINARI ÞAMBARSKELFI.

Eptir fall Olafs Tryggvasonar gaf Eiríkr Jarl grid Einari Þambarskelfi, syni Eindrida Styrkárssonar. Einar fór med Jarli nordr í Noreg. Sagt er at Einar hafi verit allra manna sterkastr, oc bestr bogmadr, er verit hafi i Noregi, oc var hardskeyti hans umfram alla menn adra: hann skaut med backa kólfi i gögnom uxahúd hráblauta, er heck á ási einom; skídfærr var hann hvariom manni betr; hinn mesti var hann iþróttamadr oc hreystimadr; hann var ættstór oc audigr. Eiríkr Jarl oc Sveinn Jarl gipto Einari systor sína Bergliótо Hákonar-dóttor; hon var hinn mesti skörungr; Eindridi het son þeirra. Jarlar gáfo Einari veitzlor stórar í Orkadal, oc gerdiz hann ríkastr oc göfgastr í Þrændalögom, oc var hann hinn mesti styrkr Jarlanna oc ástvin.

## CAP. XXI.

## FRÁ ERLINGI SKIÁLGSSYNI.

Þá er Olafr Tryggvason red fyrir Noregi, gaf hann Erlingi mági sínom hálfar landskylldir vid sic, oc at helmingi allar konungstekior milli Lídandisnes oc

oc Sogns. Olafr konungr gipti adra systor sina Rögnvalldi Jarli Ulfssyni; hann red lengi fyrir vestra Gautlandi. Ulfr fadir Rögnvallds var bródir Sigridar hinnar Stórrádo módor Olafs Svia konungs. Eirikr Jarl let ser eigi líka, at Erlingr Skiálgsson hefdi sva mikit ríki, oc tók hann undir sik allar konungseigor, þær er Olafr konungr hafdi veitt Erlingi. Enn Erlingr tók jamt sem ádr allar landskylldir um Rogaland, oc gulldo landsbúar opt tvinnar landskylldir, enn at ödrom kosti eyddi hann jardarbygdina. Litit feck Jarl af Sakeyri, þvíat ecki helldoz þar syslomennirnir, oc þvíat eins fór Jarl þar at veizlom, er hann hefdi mikit fiölmenni. Þess getr Sigvatr.

Erlingr var sva jarla
átt er skiölldungr máttit
Olafs mágr at ægdi
aldyggs sonar Tryggva.
Næst gaf sina systor
snarr búþegna harri
Ulfsfedor var þat adra
alldrgipta Rögnvalldi.

Eirikr Jarl orti fyrir því ecki á at beriaz vid Erling, at hann var frændstór oc frændmargr, ríkr oc vinsæll; sat hann iafnan med fiölmenni, sva sem þar væri konungs hird. Erlingr var opt á sumrom í hernadi, oc feck ser fiár, þvíat hann hellt teknom hætti um rausn oc stórmensko, þótt hann hefdi þá minni veizlor, oc óhallqvæmari, enn um daga Olafs konungs mágs síns. Erlingr var allra manna frídastr oc mestr oc sterkastr, vígr hvariom manni betr, oc

um allar íþróttir líkastr Olafi konungi Tryggvasyni: hann var vitr madr oc kappsamr um alla luti, oc hinn mesti hermadr. Þess getr Sigvatr:

Erlingi vard engi
annar lendra manna
ör sá er átti fleiri
orostor stód þorrin.
Þrek bar seggr til sóknar
sinn því at fyrst geck innan
milldr í marga hilldi
mest enn örr at flesto.

Þat hefir iafnan verit mál manna, at Erlingr hafi göfgastr allra lendra manna verit í Noregi. Þau voro börn Erlings oc Astrídar: Aslakr, Skiálgr, Sigurdr, Lodinn, Þórir, oc Ragnhilldr, er átti Þórbergr Arnason. Erlingr hafdi iafnan med ser XC frelsingia edr fleira, oc var þat bædi vetor oc sumar, at þar var máldryckia at dagverdar bordi, enn at náttverdi var úmællt druckit. Enn þá er Jarlar voro nær, hafdi hann CC manna edr fleira. Alldri fór hann fámedri enn med tvítogsesso alskipada. Erlingr átti skeid mikla, II rúm ens fiórda tugar, oc þó mikla at þvi: hann hafdi hana í víking edr stefno leidangr, oc voro þar á CC manna edr meirr.

## CAP. XXII.

## FRÁ ERLINGI HERSI.

Erlingr hafdi iafnan heima XXX þræla, oc umfram annat man; hann ætladi þrælom sinom dagsverk, oc gaf þeim stundir sídan oc lof til, at hvarr

er ser villdi vinna um röckor eda um nætor; hann gaf þeim akrlönd at sá ser korni, oc færa ávöxtinn til fiár ser; hann lagdi á hvarn þeirra verk oc lausn; leysto margir sik hin fyrsto misseri eda önnor, enn allir þeir er nockr þrifnadr var yfir, leysto sik á III vetrom. Med því fe keypti Erlingr ser annat man; enn leysingiom sínom visadi hann sumom í sílldfiski, enn sumom til annara fefanga; sumir ruddo markir, oc gerdo þar bú í. Öllom kom hann til nockors þroska.

## CAP. XXIII.
## FRÁ EIRÍKI JARLI.

Þá er Eiríkr Jarl hafdi rádit fyrir Noregi XII vetor, kom til hans ordsending Knúts Dana konungs mágs hans, at Eiríkr Jarl skylldi fara med hönom herferd vestr til Englands med her sinn, þviat Eiríkr var frægr miök af hernadi sinom, er hann hafdi borit sigr or II orostom, þeim er snarpastar höfdo verit á Nordrlöndom. Önnor sú er þeir Hákon Jarl oc Eiríkr bördoz vid Jomsvikinga; enn su önnor er Eiríkr bardiz vid Olaf konung Tryggväson. Þess getr Þordr Kolbeinnsson:

Enn hefz leyfd þar er lofda
lofkenda frá ec senda
at hiálm sömom hilmi
hiarls drotna bod Jarli:
At skylldligaz skylldi

(skil ec hvat gramr letz vilia)
endr til' ásta fundar
Eiríkr koma þeirra,

Jarl villdi eigi undir höfot leggia ordsending konungs; fór hann or landi, enn setti eptir í Noregi lands at gæta Hákon Jarl son sinn, oc feck hann í hönd Einari Þambarskelfi mági sinom, at hann skylldi hafa landrád fyrir Hákoni, þvíat hann var þá eigi ellri enn XVII vetra. Eiríkr kom á England til fundar vid Knút konungr, oc var med hönom er hann vann Lundunaborg. Eiríkr Jarl bardiz fyrir vestan Lundunaborg; þar felldi hann Ulfkel Snilling. Sva segir Þordr Kolbeinsson:

Gullkennir let gunni
grædis hest fyrir vestan
þundr va leyfðr til landa
Lundon saman bundit,
Feck regn þorins recka
rann of þínga mannom
yglig högg þar er eggiar
Ulfkell bláar skulfo.

Eiríkr Jarl var á Englandi einn vetr, oc átti nockorar orostor, enn annat vár eptir ætladi hann til Rúmferdar; þá andadiz hann af blódláti þar á Englandi.

## CAP. XXIV.

## DRÁP JATMUNDAR.

Knútr konungr átti margar orostor á Englandi vid sono Adalráds Engla konungs, oc höfdo ymsir sigr; hann kom þat sumar til Englands er Adalrádr an-

dadiz; þá feck Knútr konungr Emmo drottningar; voro börn þeirra: Haralldr, Hördaknútr, Gunnhilldr. Knútr konungr sættiz vid Eadmund konung, skyllדi hafa hálft England hvar þeirra. A sama mánadi drap Heinrekr Strióna Eadmund konung. Eptir þat rak Knútr konungr af Englandi alla sono Adalráds konungs. Sva segir Sigvatr:

Oc senn sono
sló hvern oc þó
Adalráds eda
útflæmdi Knútr.

## CAP. XXV.

## FRÁ OLAFI OC ADALRÁDS SONOM.

Þat sumar komo synir Adalráds konungs af Englandi til Rúdo i Vallandi til módorbrædra sinna, er Olafr Haralldsson kom vestan or víkingo, oc voro allir þann vetr í Nordmandi, oo bundo lag sitt saman med þeim scildaga, at Olafr konungr skyllדi hafa Nordimbraland, ef þeir eignadiz England af Dönom. Þá sendi Olafr konungr um haustit Rana fóstra sinn til Englands, at eflaz þar at lidi, oc sendo Adalráds synir hann med iartegnom til vina sinna oc frænda. Enn Olafr konungr feck hönom lausafé mikit, at spenia lid undir þá; oc var Rani um vetrinn í Englandi, oc feck trúnad margra ríkis-manna, oc var landsmönnom betr viliat at hafa samlenda konunga yfir ser; enn þó var þá ordinn sva mikil[1] styrkr Dana í Englandi, at allt landsfólk var undirbrotit ríki þeirra.

## CAP. XXVI.

## OROSTA OLAFS KONUNGS.

Um várit fóro þeir vestan allir saman, Olafr konungr oc synir Adalráds konungs, oc komo til Englands, þar er heitir Jungofurda, gengo þar á land upp med lidi síno, oc til borgar. Þar voro fyrir margir menn er þeim höfdo lidi heitit; þeir unno borgina, oc drapo mart manna. Enn er vid urdo varir Knúts konungs menn, þá drógo þeir her saman, oc urdo brátt fiölmennir, sva at synir Adalráds konungs höfdo ecki lids afla vid, oc sá þann sinn kost hellz at hallda í brott aptr til Rúdo. Þá scildiz Olafr konungr vid þá, oc villdi eigi fara till Vallands; hann sigldi nordr med Englandi allt til Nordimbralands, hann lagdiz at í höfn þeirri er köllot er Furovald, oc bardiz þar vid bæarmenn oc kaupmenn, feck þar sigr oc fe mikit.

## CAP. XXVII.

## FERD OLAFS KONUNGS TIL NOREGS.

Olafr konungr let þar eptir vera lángscipin, enn bió þadan knörro tva, oc hafdi þar á XX menn, oc CC albryniada, oc valit miök; hann sigldi nordr í haf um haustit, oc fengo ofvidri mikit í hafi, sva at mannhætta var; enn med því at þeir höfdo lids

kost gódan oc hamingio konungs, þá lyddi vel. Sva segir Ottar:

Val fasta biótto vestan
vedr örr tva knörro
hætt hafit er í ótta
opt skiöllldunga þopti.
Nædi straumr ef stædi
strángr kaupskipom ángra
innan bords um unnir
erringar lid verra.

Oc enn sva:

Eigi ræddoz ægi
er forot siá storan
allvalldr of getr alldar
engi nytri drengi.
Opt var fárs enn forsi
flaust ratt af ser brattom
neytt ádr Noreg hittot
nidungr Harallds midiann.

Her segir þat, at Olafr konungr kom utan at midiom Noreg, enn sú ey heitir Sæla, er þeir tóko land, út frá Stadi. þá mællti Olafr konungr, let þat mundi vere tímadag, er þeir höfdo lent vid Sælo i Noregi, oc qvad þat vera mundo goda vitnescio er sva hafdi atboriz. þá gengo þeir upp á eyna, stígr konungr þar ödrom fæti, sem var leira nockor, enn studdiz ödrom fæti á knæ. þá mællti hann: fell ec nú, segir konungr. þá segir Rani: eigi fellto konungr, nú festir þú fætor í landi; konungr ló vid oc mællti: vera má sva, ef Gud vill: Gánga þá ofan til scipa, oc sigldo sudr til Ulfasunda; þar spurdo þeir til Há-

konar Jarls, at hann var sudr í Sogni, och var hans þá van nordr þegar er byr gæfi, oc hafdi hann eitt skip.

## CAP. XXVIII.

## TEKINN HÁKON JARL Í SAUDUNGS-SUNDI.

Olafr konungr hellt inn af leid scipom sínom, er hann kom sudr yfir Fialir, oc sneri inn til Saudungssunda, oc lögdo þeir síno megin sundsins hvaro scipino, oc höfdo milli sín kadal digran. A þeirri sömo stundo reri at sundino Hákon Jarl Eiríksson, med sceid scipadri, oc hugdo þeir vera í sundino kaupscip II, róa þeir í sundit fram milli scipanna. Nú draga þeir Olafr konungr strengina upp undir midian kiöl skeidinni, oc undo med vindásom; þegar er nockot festi skeidina, geck upp aptr enn steiptiz fram, sva at siárinn fell inn um söxin, oc fyllti skeidina, oc þvi næst hvolfdi. Olafr konungr tók þar af sundi Hákan Jarl, oc alla þá menn hans, er þeir nádo, handtaka þeir, enn sumir tyndoz af grióti oc scotom, enn sumir sucko nidr. Sva segir Ottar.

Blá gióda tókto brædir
bengiálfurs oc þá siálfa
skatti gnægdr med skreytto
skeid Hákonar reiddi.
Ungr sóttir þu þróttar
þíngs má grennir híngat
máttit Jarl þau er áttod
áttlönd fyrir því standa.

Hákon Jarl var uppleiddr á scip konungs; var hann allra manna frídastr er menn höfdo sed; hann hafdi hár mikit oc fagrt sem silki, oc bundit um höfot ser gull-hladi, oc settiz hann í fyrir-rúmit. Þá mællti Olafr konungr: eigi er þat logit af ydr frændom, hvarso frídir menn þer erot synom, enn farnir ero þer nú at hamingio. Þá sagdi Hákon: ecki er þetta óhamingia er oss hefir hendt; hefir þat lengi verit, at ymsir hafa sigradir verit, sva hefir þat oc farit med ydrom oc vorom frændom, at ymsir hafa betr haft; em ec litt kominn af barns alldri; voro ver nú oc ecki vel vid komnir at veria oss; vissom ver nú ecki vanir til úfridar; kann vera at oss takiz annat sinn betr till, enn nú. Þá svarar Olafr konungr: grunar þic ecki þat, Jarl, at her hafi sva atborit, at þú munir nú hvarki fá hedan í frá sigr ne úsigr. Jarl segir: þer munot ráda konungr at sinni. Þá segir Olafr konungr: hvat villto tilvinna, Jarl, at ec láta þic fara at sinni, hvart er þú villt heilan oc úskaddan. Jarl svarar: hvars hann villdi beidaz: konungr segir: enskis annars enn þú farir or landi, oc gefir sva upp riki ydar, oc sverir þess eida, at þer halldit eigi orostor hedan í frá í gögn mer. Jarl svarar, lez sva göra mundo. Nú vinnr Hákon Jarl Olafi konungi eida, at hann skal alldri sidan beriaz ímóti hönom, oc eigi veria Noreg med úfridi móti Olafi konungi, ne sækia hann. Þá gefr Olafr konungr honom grid oc öllom hans mönnom;

Tók Jarl vid scipi síno, því er hann hafdi þangat haft; róa menn nú í brott leid sína. Þess getr Sigvatr skálld:

Ríkr qvad ser at sækia
Sandungs konungr naudir
fremdar giarn í forno
fund Hákonar sundi.
Strangr hitti þar þengill
þann Jarl er vard annar
æztr oc ætt gat besta
ungr á Danska túngo

## CAP. XXIX.

## FERD HÁKONAR JARLS AF NOREGI.

Eptir þetta byr Jarl sic sem scyndiligaz or landi, oc siglir vestr til Englands, oc hittir þar Knút konung, módorbródor sinn, segir hönom allt hvarnog farit hefir med þeim Olafi konungi. Knútr konungr tók vid hönom forkunnar vel; setti hann Hákon inann hirdar med ser, oc gefr hönom mikit valld í síno ríki; dvalldiz Hákon Jarl þar lánga hríd med Knúti. Þá er þeir Sveinn oc Hakon redo Noregi, gerdo þeir sátt vid Erling Skiálgsson, oc var bundit med því, at Aslakr son Erlings feck Gunnhilldar dóttor Sveins Jarls: Scylldo þeir fedgar Erlingr oc Aslakr hafa veizlor þær allar er Olafr konungr Tryggvason hafdi fengit Erlingi: Gerdiz Erlingr þá fullkomin vinr Jarlanna, oc bundo þeir þat svardögom sín í milli.

## CAP. XXX.

## VIDRBUNADR ÁSTO.

Olafr kouungr hinn Digri snyr nú austr med landi oc átti vida þíng vid bændor, oc gánga margir tilhanda hönom, enn sumir mæla ímóti, þeir er voro frændor eda vinir Sveins Jarls: Fór Olafr konungr fyrir því scyndiliga austr til Víkr, oc hellt lidi síno inn í Víkina, oc setr upp skip sín, snyr þá á land upp á fund Sigurdar konungs, mágs síns. Oc er hann kom á Vestfolld, þá fögnudo hönom þar vel margir menn, þeir sem verit höfdo kunnmenn edr vinir födor hans; þar var oc mikit ætterni hans um folldina; hann fór um haustit á land upp til Sigurdar konungs mágs síns, oc kom þar snimma einhvarn dag. Enn er Olafr konungr kemr nær bynom, þá liópo þar fyrir þiónusto-sveinar til bæarins, oc inn í stofuna. Asta módir Olafs konungs sat þar inni, oc konor nockrar med henni; þá sögdo sveinarnir henni um ferd Olafs konungs, oc sva, at hans var þángat brátt van. Asta stendr upp þegar, oc het á karla oc konor at búaz um þar sem best; hon let IV konor taka búnad stofunnar, oc búa sciótt med tiölldom oc um becki: II karlar baro hálminn á gólfit: II setto Trapizona oc skaptkerit; II setto bordit; II setto vistina; II sendi hon brott af bynom, oc allt scylldi sem sciótazt búit þat er hafa þyrfti; II baro inn ölit; enn allir adrir bædi konor oc kar-

lar gengo út í gardinn. Sendimenn fóro til Sigurdar konungs, þar sem hann var, oc færdo hönom tignarklædi oc hest hans med gylltom södli, enn bitullinn settr smelltom steinom oc allr gylltr. IV menn sendi hon fiögra vegna í bygdina, oc baud til sín öllo stórmenni at þiggia veizlo, er hon gerdi fagnadar-öl ímóti syni sínom. Alla menn adra er fyrir voro let hon taka hinn besta búnat er til átto, enn þeim lánadi hon klædi er eigi átto siálfir.

## CAP. XXXI.

## FRÁ BÚNADI SIGURDAR KONUNGS

Sigurdr konungr Syr var þá staddr út á akri, er sendimenn komo til konungs, oc sögdo hönom þessi tídindi, oc sva allt þat er Asta let athafaz heima á bænom; hann hafdi þar marga menn, sumir skáro korn, sumir bundo, sumir áko heim korni, sumir hlódo í hialma edr í hlödor; enn konungr oc II menn med hönom gengo stundom á akrinn, stundom þar er ladit var kornino. Sva er sagt um búnat hans, at hann hafdi kyrtil blán oc blár hosor, háva skúa oc bundna at legg, grá kápo oc grán hött vídan, oc url um andlit, staf í hendi, oc ofan á silfrhólkr gylltr, oc í silfr-ríngr. Sva er sagt frá lunderni Sigurdar konungs, at hann var syslomadr mikill, oc umbúnadarmadr um fe sitt oc bú, oc red siálfr bú-

búnadi; engi var hann skartsmadr, oc helldr fámáligr; hann var allra manna vitrastr, þeirra er þá voro í Noregi, oc audgastr at lausafe; hann var fridsamr oc úágiarn. Asta kona hans var ör oc rík-lundot. Þessi voro börn þeirra: Guttormr var ellstr, þá Gunnhilldr, þá Hálfdan, þá Ingirídr, þá Haralldr. Þá mællto sendimenn: þá ord bad Asta at vid skylldim bera þer, at nú þótti henni allmiklo máli skipta, at þer tækiz stórmannliga, oc bad þess at þú skylldir meirr líkiaz í ætt Haralld ens Hárfagra at skaplyndi, enn Rana Mió-nef módorfödr þinom, edr Nereid Jarli enom gamla, þótt þeir hafi verit spekingar miklir. Konungr segir: tidindi mikil segi þer, enda beri þer allákafliga; látit hefir Asta mikit yfir þeim mönnom fyrr, er henni var minni skyllda til, oc se ec at sama skaplyndi hefir hon enn, oc tekr hon þetta med miklom ákafa, ef hon fær sva útleiddan son sinn, at þat se med þvílíkri stórmensko, sem nú leidir hon hann inn. Enn sva lítz mer, ef þetta skal vera, at þeir er sik vedsetia í þetta mál, mano hvarki siá fyrir fe sino ne fiörvi. Þessi madr, Olafr konungr, bersk ímóti miklo ofrefli; oc á hönom oc hans rádom liggr reidi Dana konungs oc Svia konungs, ef hann helldr þesso fram.

## CAP. XXXII.
## VEITSLAN.

Nú er konungr hafdi þetta mællt, þá setz hann

nidr, oc let draga af ser skóklædi, oc setti á fætor ser kordúna hosor, oc batt med gylltom sporom; þá tók hann af ser kápona oc kyrtilinn, oc klæddi sik med pellzklædom, oc ytzt skarlatzkápo, oc gyrdi sik med sverdi búno, setr gylltan hiálm á höfot ser, stigr þá á hest sinn. Hann gerdi verkmenn í bygdina, oc tók ser XXX manna vel búna er rido heim med hönom. Enn er þeir rido upp í gardinn fyrir stofuna, þá sá hann ödromegin í gardinom, hvar brunadi fram merki Olafs, oc þar hann siálfr med, oc C manna med hönom, oc allir vel búnir; þá var oc skipat mönnom allt milli húsanna: Fagnadi Sigurdr konungr þegar af hesti Olafi konungi, stiúpsyni sínom, oc lidi hans, oc baud hönom inn til dryckio med ser; enn Asta geck til oc kysti son sinn, oc baud hönom med ser at dveliaz, oc allt heimillt lönd oc lid, er hon mætti veita hönom. Olafr konungr þackadi henni vel ord sín. Hon tók í hönd hönom, oc leiddi hann inn í stofuna, oc til hásætis. Sigurdr konungr feck menn till at vardveita klædnad þeirra, oc gefa korn hestom þeirra; enn hann geck til hásætis sins, oc var sú veizla gör med eno mesta kappi.

## CAP. XXXIII.

## MÁLSTEFNA OLAFS KONUNGS OC SIGURDAR KONUNGS.

Enn er Olafr konungr hafdi þar eigi lengi verit,

þá var þat einhvern dag, at hann heimti til tals vid sik oc á málstefno Sigurd konung mág sinn oc Asto módor sína, oc Rana fóstra sinn. þá tók Olafr konungr til máls: sva er, segir hann, sem ydor er kunnigt, at ec em kominn híngat til lands, oc verit ádr lánga hrid utanlands; hefi ec oc mínir menn haft þat eina alla þessa stund til framflutningar oss, er ver höfom sótt í hernadi, oc í mörgom stödom ordit til at hætta bædi lífi voro oc sálo; hefir margr madr fyrir oss, sá er saklauss hefir verit, ordit at láta feit, enn sumir lífit med; enn yfir þeim eignom sitia útlendir menn, er átti minn fadir oc hans fadir, oc hvarr eptir annan vorra lángfedga, oc er ec ódalborinn til. Oc láta þeir ser eigi þat einlítt, helldr hafa þeir undir sik tekit eigor allar vorra frænda, er at lángfedgatali erom komnir frá Haralldi enom Hárfagra; midla þeir sumom lítit af, sumom med öllo ecki. Nú skal því upplúka fyrir ydor, er mer hefir miök lengi í skapi búit, at ec ætla at heimta födorarf minn; oc mun ec hvarki koma á fund Dana konungs ne Svía konungs at bidia þá ne einna muna um, þótt þeir hafit nú um hríd kallat sína eign, þat er var arfr Haralld ens Hárfagra; ætla ec helldr, ydor satt til at segia, at sækia oddi oc eggio frændleifd mína, oc kosta þar at allra frænda minna oc vina, oc þeirra allra er at þesso máli vilia hverfa med mer: Skal ec oc sva upphefia þetta tilkall, at annathvart skal vera, at ec skal eignaz ríki þat allt

til forráda, er þeir felldo frá Olaf konung Tryggvason, frænda minn, edr ec skal her falla á frændleifd minni. Nú vænti ec um þik Sigurdr mágr, edr adra þá menn í landino, er ódalbornir ero her til konungdóms, at lögom þeim er setti Haralldr Hárfagri, þá mun ydr eigi sva mikilla muna ávant at þer munit upphefiaz, at reka af höndom frændaskömm þessa, at eigi muno þer alla ydr vidleggia at efla þann er forgángsmadr vill vera at hefia upp ætt vora. Enn hvart sem þer vilit lysa nockorn manndóm um þenna lut, þá veit ec skaplyndi alþydunnar, at til þess væri öllom títt, at komaz undan þrælkan útlendra höfdingia, þegar er traust yrdi til; hefir ec fyrir þá sök þetta mál fyrir engan mann borit fyrri enn þik, at ec veit at þú ert madr vitr, oc kant góda forsiá til þess, hvernog reisa skal frá upphafi þessa ætlan, hvart þat skal fyrst ræda af hliódi fyrir nockorom mönnom, edr skal þat bera þegar í fiölmæli fyrir alþydo; hefi ec nú nockot rodit tönn á þeim, er ec tók höndom Hákon Jarl, oc er hann nú or landi stockinn, oc gaf hann mer med svardögom þann luta rikis, er hann átti ádr. Nú ætla ec at oss muni lettara falla at eiga um vid Svein Jarl einn samann, helldr enn þá at þeir væri bádir til landvarnar. Sigurdr konungr svarar nú: eigi byr þer litit í skapi, Olafr konungr; er þessi ætlan þín meir af kappi enn forsiá, at því

sem ec virdi, enda er þess von, at lángt man í milli vera litilmensko minnar, oc áhuga þess hins mikla, er þú mant nú hafa; þvíat þá er þú var lítt af barnalldri kominn, varto þegar fullr af kappi oc úiafnadi í öllo því er þú m ttir, erto nú oc reyndr miök í orosto, oc samit þik eptir sidvenio útlendskra höfdingia. Nú veit ec at sva fremi munto þetta hafa upptekit, at ecki mun tiá at letia þik, er oc varkon á, at slíkir lutir liggi ì miklo rúmi þeim er nockvat skaplyndi hefir, er öll ætt Haralls Hárfagra oc konungdómr fellr nidr. Enn i engom heitom vil ec bindaz, fyrr enn ec veit ætlan edr tiltekio annara konunga á Upplöndom: enn vel hefir þú þat gert, er þú lezt mik fyrr vita þessa ætlan enn þú bærir þat i hámæli fyrir alþydo; heita vil þer umsyslo minni vid konunga, oc sva vid adra höfdingia edr annat landsfólk, sva skal þer oc, Olafr konungr, heimillt fe mitt til styrks þer. Enn sva fremi vil ec at ver berim þetta fyrir alþydo, er ec se at nockr framqvæmd mætti afverda, edr nockr styrkr fæz til þessa stórrædis, fyrir því at sva skallto til ætla, at mikit er í fáng tekit, ef þú villt kappi deila vid Olaf Svía konung, oc vid Knút, er nú er bædi konungr i Englandi oc í Danmörk, oc mun rammar skordor þurfa vid at reisa ef lyda skal; enn ecki þyki mer úlikligt, at þer verdi gott til lids, því alþydan er giörn til nyungarinnar: Fór sva fyrr er Olafr kon-

ungr Tryggvason kom til lands, at allir urdo því fegnir, oc naut hann þó eigi lengi konungdómsins. Þá er sva var komit rædonni, tók Asta til orda: sva er mer umgefit, sonr minn, at ec em þer fegin ordin, oc því fegnost, at þinn þroski mætti mestr verda; vil ec til þess engi lut spara þann er ec á kosti; enn her er litt til ráda stoda at siá er ec em; enn heldr vildi ec, þótt því væri at skipta, at þú yrdir yfir konungr í Noregi, þótt þú lifdir eigi lengr í konungdóminom enn Olafr Tryggvason, helldr enn hitt, at þú værir eigi meiri konungr enn Sigurdr Syr, oc yrdir ellidaudr. Oc eptir þessi ord slito þeir mál-stefnunni: Dvalldiz Olafr konungr þar um hríd med öllo lidi síno. Sigurdr konungr veitti þeim annanhvarn dag at bordhalldi fiska oc miólk, enn annanhvarn slátr oc mungát.

## CAP. XXXIV.

## FRÁ UPPLENDINGA KONUNGOM.

I þenna tíma voro margir Upplendinga konungar, þeir er fyrir fylkiom redo, oc voro þeir flestir komnir af ætt Haralld ens Hárfagra. Fyrir Heidmörc redo II brædor Hrærekr oc Hríngr, enn í Gudbrandsdölom Gudrödr; konungr var oc á Raumariki; einn konungr var oc sá er hafdi Þotn oc Hadaland; á Valldresi var oc konungr. Sigurdr konungr átti stefnolag vid fylkis-konunga uppi á Hadalandi; oc var

á þeirrí stefno Olafr Haralldsson. Þá bar Sigurdr upp fyrir fylkis-konunga, þá sem hann hafdi stefnolag vidgert, rádastofnan Olafs mágs sins, oc bidr þá styrks bædi at lidom oc rádom oc samþycki; telr þá upp hvar naudsyn þeim var á at reka af höndom þat undirbrot, er Danir oc Svíar hafi þá undirlagt; Segir, at nú man tilverda sá madr er fyrir man gánga þesso rádi; telr þá upp mörg snilldarverk þau, er Olafr konungr hefir gert i ferdom sínom oc hernadi. Þá segir Hrærekr konungr: satt er þat, at miök er nidrfallit ríki Harallds konungs hins Hárfagra, er engi hans ættmadr er yfirkonungr í Noregi; nú hafa menn her í landi ímiss vidfreistat; var Hákon Adalsteins fóstri konungr, oc undo allir því vel. Enn er Gunnhilldar synir redo fyrir landi, þá vard öllom leidt þeirra ofríki oc úiafnadr, at helldr villdo menn útlenda konunga yfir ser, oc vera siálfrádari, því at útlendir höfdingiar voro þeim iafnan fiarran, oc vöndudo litt um sido manna, höfdo slíkan skatt af landi, sem þeir scildo ser. Enn er þeir urdo úsáttir Haralldr Dana konungr oc Hákon Jarl, þá heriado Jomsvíkingar i Noreg, þà redz ímóti þeim allr múgr oc margmenni, oc hratt þeim úfridi af ser; eggiado menn til þess Hákon Jarl at hallda landi fyrir Dana konungi, oc veria oddi oc eggio; enn er hann þóttiz fullkominn til ríkis af styrk landsmanna, þá gerdiz hann sva hardr oc frekr vid landsfólk, at menn þolldo hönom eígi, oc drápo Þrændir siálfir hann, oc hófo þá til ríkis Olaf Tryggvason,

er ódalborinn var til konungdómsins, oc fyrir allra luta sakir vel til höfdingia fallin; geistiz at því allr landsmúgr, at vilia hann hafa at konungi yfir ser, oc reisa þá upp af nyo þat ríki er eignaz hafdi Haralldr hinn Hárfagri. Enn er Olafr konungr þóttiz fullkominn at ríki, þá var fyrir hönom engi madr siálfrádi; geck hann vid freko at vid oss smákonungana, at heimta undir sic þær scylldir allar, er Haralldr hinn Hárfagri hafdi her tekit, oc enn sumt frekara; enn at sidr voro menn fyrir hönom siálfráda, at engi red á hvern gud trúa scylldi; enn er hann var frá landi tekinn, þá höfom ver nú halldit vinátto vid Dana konung, oc höfom ver af hönom traust mikit haft um alla luti, er ver þurfim at krefia, enn siálfrædi oc hóglífi innanlands, oc ecki ofríki. Nú er þat at segia frá míno scaplyndi, at ec unni vel vid sva búit; veit ec eigi þat, þótt minn frændi se konungr yfir landi, hvart batna skal vid þat minn rettr nockot; enn ella man ec engan lut eiga i þessari rádagerd. Þá mællti Ringr bródir hans: birta mun ec mitt scaplyndi; betra þiki mer, þótt ec hafi et sama ríki oc eignir, at minn frændi se konungr yfir Noregi, helldr enn útlendir höfdingiar oc mætti enn vora ætt upphefia her í landi. Enn þat er mitt hugbod um þenna mann Olaf, at audna hans oc hamingia mani ráda, hvart hann skal ríki fá edr eigi; enn ef hann verdr einvallds konungr yfir Noregi, þá mun sá þykia betr hafa, er stærri

luti á til at telia vid hann, um hans vinátto. Nú hefir hann í engan stad meira kost enn einhvarr vor, enn því minna at ver höfom nockor lönd oc ríki til forráda, enn hann hefir alls engi; erom ver oc eigi sídr ódalbornir til konungdóms. Nú viliom ver geraz sva miklir lidsinnis menn hans, at unna hönom ennar æzto tignar her í landi, oc fylgia þar at med öllom vorom styrk. Hví mani hann oss þat eigi vel launa, oc lengi muna med gódo, ef hann er sva mikill manndómsmadr, sem ec hygg, oc allir segia? Nú manom ver á þá hætto leggia, ef ec skal ráda, at binda vid hann vinátto. Eptir þat stód upp hvarr at ödrom oc taladi, oc kom þar nidr, at þess voro flestir fúsari, at binda felagskap vid Olaf konung. Hann het þeim sinni vinátto fullkominni oc rettar-bót, ef hann yrdi einvallds konungr yfir Noregi: Binda þeir þá sætt sína med svardögom.

## CAP. XXXV.
## GEFIT OLAFI KONUNGS-NAFN.

Eptir þat stefndo konungar þíng; þá bar Olafr konungr up fyrir alþydo þessa rádagerd, oc þat tilkall er hann hefir þar til ríkis; bidr þá bændor ser vidrtöko til konungs yfir landi, heitir þeim þar ímóti lögom fornom, oc því at verià land fyrir utlendom her oc höfdingiom; talar hann um þat langt oc

sniallt, oc feck gódan róm at máli síno. Þá stódo upp konungar, oc töludo annar at ödrom, oc flutto allir þetta mál oc erindi fyrir lydinom: Vard þat þá at lyktom at Olafi var gefit konungs-nafn yfir landi öllo, oc dæmt hönom land at upplendskom lögom.

## CAP. XXXVI.

## FERD OLAFS KONUNGS UM UPPLÖND.

Þá hóf Olafr konungr þegar upp ferd sína, oc let bióda upp veizlor fyrir ser þar sem konungsbú voro: Fór hann fyrst um Hadaland, oc þá sótti hann nordr í Gudbransdali: Fór þá sva sem Sigurdr Syr hafdi getit, at lid dreif til hans sva mart, at hann þóttiz eigi hálft þurfa, oc hafdi hann þá nær CCC manna. Þá endoz hönom ecki veizlornar, sem áqvedit var; þvíat þat hefir verit sidvenia, at konungar fóro um Upplönd med LX manna edr LXX, enn alldri meir enn C manna; fór konungr þá skiótt yfir oc var eina nótt í sama stad. Enn er hann kom nordr til fiallz, þá byriar hann ferd sína, kemr nordr um fiallit, oc fór til þess er hann kom nordr af fiallino. Olafr konungr kom ofan í Uppdal, oc dvalldiz þar um nótt. Sidan fór hann um Uppdalsskóg, oc kom fram í Medaldal, krafdi þar þíngs, oc stefndi þar til sín bændom. Sidan taladi konungr á þíngino, oc krafdi bændor ser vidrtöko, baud þeim þar ímót rett oc lög, sva sem bodit hafdi O-

Jåfr konungr Tryggvason. Bóendor höfdo engi styrk til þess at hallda ósætt vid konung; oc lauk sva, at þeir veitto konungi vidrtöko, oc bundo þat svardögom. Enn þó höfdo þeir ádr gert niósn ofan í Orkadal, oc sva í Skön, oc leto segia um ferd Olafs konungs allt þat er þeir visso af.

## CAP. XXXVII.
## ÚTBOD UM ÞRÁNDHEIM.

Einar þambarscelfir átti bú oc húsabæ á Skön; enn er hönom kom niósn um farar Olafs konungs, þá let hann þegar skera upp herör, oc senda fiögra vegna, stefndi saman þegn oc þræl med alvæpni, oc fylgdi þat bodi, at þeir skylldi veria land fyrir Olafi konungi. Ör-bod fór til Orkadals, oc sva til Gaulardals, oc drózc þar allr her saman.

## CAP. XXXVIII.
## FERD OLAFS KONUNGS Í ÞRÁNDHEIM.

Olafr konungr fór med lidi síno ofan til Orkadals; fór hann allspakliga, oc med fridi; enn er hann kom út á Griótar, mætti hann þar bóanda samnadi, oc höfdo þeir meir enn DCC manna: Fylkti þá konungr lidi síno, þvíat hann hugdi at bændor mundi beriaz vilia. Enn er bændor sá þat, þá tóko þeir

at fylkia, oc vard þeim allt úmiúkara, þvíat ádr var ecki um rádit, hverr höfdingi scylldi vera fyrir þeim. Enn er Olafr konungr sá þat, at bóndom tókz úgreidt, þá sendi hann til þeirra Þóri Gudbrandson; enn er han kom, segir Þórir, at Olafr konungr vill ecki beriaz vid þá; hann nefndi XII menn, þá er ágætastir voro í þeirra flocki, at koma til fundar vid Olaf konung. Enn bændor þektoz þat, oc gánga fram yfir egg nockora er þar verdr, þar til er stód fylking konungs. Þá mællti Olafr konungr: þer bændor hafit nú vel gert, er ec á kost at tala vid ydr, þvíat ec vil þat ydor segia um erindi mitt hingat til Þrándheims. Þat er í upphafi at ec veit at þer hafit ádr spurt, at ver Hákon Jarl fundoz í sumar, oc lauk sva varom sciptom, at hann gaf mer riki þat allt, er hann átti her í Þrándheimi; enn þat er sem þer vitot Orkdæla-fylki, oc Gauldæla-fylki, oc Strinda-fylki, oc Strind: Enn ec hefir her vitnismenn þá er þar voro, oc handsal ockar Jarls sá, oc heyrdo ord oc eida, oc allan scildaga er Jarl veitti mer: Vil ec ydr lög bióda oc frid, eptir því sem fyrir mer baud Olafr konungr Tryggvason. Hann taladi lángt oc sniallt, oc kom þar at lokom, at hann baud bændom II kosti: þann annan, at gánga til handa hönom, oc veita hönom lydni; sá var annar, at hallda vid hann orosto. Sídan fóro bændor aptr til lids síns, oc sögdo sín erindi, leitado þá ráds vid allt fólk hvarn þeir scyll-

do aftaka. Enn þótt þeir kærdi þetta um hríd milli sín, þá kuru þeir þat af at gánga til handa konungi; var þat þá eidom bundit af hendi bónda: Skipadi þá konungr ferd sína, oc gerdo bændor veizlor ímóti hönom: Fór konungr þá út til siávar, oc redi ser þar til scipa; hann hafdi lángscip XXsesso af Gelmini frá Gunnars. Annat scip XXsesso hafdi hann af Viggiom frá Lodins. III skip XXsesso hafdi hann af Aungrom í Nesi; þann bæ hafdi átt Hákon Jarl, enn þar red fyrir ármadr sá er Bárdr Hvíti er nefndr. Konungr hafdí skútor IV eda V; fór hann oc scyndiliga, oc hellt inn eptir firdi.

## CAP. XXXIX.
## FERD SVEINS JARLS.

Sveinn Jarl var þá inn í Þrándheimi at Steinkerom, oc let þar búa til Jólaveizlo; þar var kaupstadr. Einar Þambarscelfir spurdi at Orkdælar höfdo gengit til handa Olafi konungi; þá sendi hann niósnarmenn til Sveins Jarls; fóro þeir fyrst til Nidaróss, oc tóko þar ródrar skúto er Einar átti; þeir fóro sídan inn eptir firdi, oc komo einn dag sídarla inn til Steinkera, oc báro þessi erindi Jarli, oc segia allt um ferd Olafs konungs. Jarl átti lángscip er flaut tialldat fyrir bynom; let hann þegar um qvelldit flytia á scipit lausafe sitt, oc klædnad man-

na, oc dryck oc vist, sva sem skipit tók vid, oc rero út þegar um nóttina, oc komo í lysing i Skarnsund. Þar sá þeir Olaf konung róa utan eptir firdi med lid sitt: Snyr Jarl þá at landi inn fyrir Masarvík; þar var þyckr scógr. Þeir lögdo sva nær bergino, at lauf oc limar tóko út yfir skipit. Þá hiuggo þeir stór tre, oc setto allt á útborda í siá ofan, sva at ecki sá skipit fyrir laufino, oc var eigi all-lióst ordit þá er konungr reri inn um þá. Logn var vedrs; reri konungr inn um eyna. Enn er syn fal milli þeirra, reri Jarl út á fiörd, oc allt út á Frosto; lögdo þar at landi; þar var hans ríki.

## CAP. XL.

## RÁDAGERD SVEINS JARLS OC EINARS.

Sveinn Jarl sendi menn út i Gaulardal eptir Einari mági sínom; enn er Einar kom til Jarls, þá sagdi Jarl hönom allt um skipti þeirra Olafs konungs, oc sva þat, at hann vill lidi samna, oc fara á fund Olafs konungs, oc beriaz vid hann. Einar svarar sva: ver skulom fara rádom med, hallda til niósn, hvat Olafr konungr ætlaz fyrir; láta hann þat eitt til vor spyria, at ver sem kyrrir; kann þá vera ef hann ser eigi lidsamnat vorn, at hann setiz inn at Steinkerom um Jólin, þvíat þar er nú vel fyrirbúit. Enn ef hann spyr at ver hafim lidsamnat, þá man

hann stefna þegar út eptir firdi, oc hölom ver hans þá eigi. Sva var gert sem Einar mælti: Fór þá Jarl á veizlor upp í Stióradal til bónda. Olafr konungr, þá er hann kom til Steinkera, tók hann upp veizlona, oc let bera á skip sín, oc afladi til byrdinga, oc hafdi med ser bædi vist oc dryck, oc bióz í brott sem skyndiligaz, oc hellt út allt til Nidaróss; þar hafdi Olafr konungr Tryggvason látit efna til kaupstadar, oc húsa konungsgard; enn ádr var einbæli í Nidarnesi, sem fyrr var ritit. Enn er Eirikr Jarl kom til lands, þá efldi hann at Hlödom, þar sem fadir hans hafdi höfotbæ sinn látit vera; enn hann úrækdi hús þau er Olafr hafdi látit gera vid Nid; voro þau þá nidrfallinn sum, enn sum stódo, oc voro helldr úbyggvilig. Olafr konungr hellt scipom sínom upp í Nid; let hann þar þegar búaz um í þeim húsom er uppstódo, enn reisa upp þau er nidr voro fallin, oc hafdi þar at fiöllda manns; let oc þá flytia upp í húsin bædi dryckinn oc vistina, oc ætladi þar at sitia um Jólin. Enn er þat spurdi Sveinn Jarl oc Einar, þá gera þeir rád sín í ödrom stad.

## CAP. XLI.

## FRÁ SIGVATI SKÁLLDI.

Þórdr Sigvallda skálld het madr Islenzkr; hann hafdi verit lengi med Sigvallda Jarli, oc sídan med

þórkatli Háva, bródor Jarls; enn eptir fall Jarls, þá var þórdr kaupmadr. Hann hitti Olaf konung er hann var í Vestrvíking, oc gerdiz hans madr, oc fylgdi hönom sídan; var hann þá med konungi er þetta var tidinda. Sigvatr var son þórdar; hann var at fóstri med þórkatli á Apavatni. Enn er hann var náliga vaxinn madr, þá fór hann utan af landi med kaupmönnom, oc kom skip þat um haustit til þrándheims, oc vistadoz þeir menn í heradi. þann sama vetr kom Olafr konungr í þrándheim, sva sem nú var ritit. Enn er Sigvatr spurdi, at þórdr fadir hans var þar med konungi, þá fór Sigvatr til konungs, hitti þórd födor sinn, oc dvalldiz þar um hrid. Sigvatr var snemma skálld gott: hann hafdi ort kvædi um Olaf konung, oc baud konungi at lýda: konungr sagdi at hann vill eigi ýrkia láta um sic; segir at hann kann ecki at heyra skálldskap. þá qvad Sigvatr:

Hlyd mínom brag meidir
myrk blás þvi ec kank yrkia
alltígiu (mátto eiga
eitt skalld) drasils tiallda.
þótt öllungis allra
allvaldr lofi skallda
þer fæ ec hródurs at hvaro
hlyt annara nítid.

Olafr konungr gaf Sigvati at bragarlaunom gullhríng þann er stód hálfa mörk. Sighvatr gerdiz hirdmadr Olafs konungs. þá qvad hann:

Ec

Ec tók lystr ne ec lasta
leyfd id er þat sídan
sóknar niördr vid sverdi
sá er minn vilie þíno.
þollr gatzto húskarl hollan
höfom rádit vel bádir
látrs enn ec lánar drottinn
lins blóda mer gódan.

Sveinn Jarl hafdi látit taka um haustit hálfa landaura af Islandsfarino, sva sem fyrr var vant; þvíat Eiríkr Jarl oc Hákon Jarl höfdo þær tekior, sem odrar, at helmingi þar í Þrándheimi. Enn er Olafr konungr var þar kominn, þá gerdi hann til sína menn, at heimta hálfa landaura af Islandsförom; enn þeir fóro á fund konungs; þeir bádo Sigvat lidveitzlo; þá geck hann fyrir konung oc qvad:

Geyr bænn ec gunnar
gamm teitöndom heita,
ádr þágo ver ægis
elld ef nú bid ec fellda.
Landaura veitto luro
látr þverrandi af knerri,
enn afganga engi
ec hefi siálfr krafit hálfa.

## CAP. XLII.

## FRÁ SVEINI JARLI.

Sveinn Jarl oc þeir Einar Þambarskelfir drogo saman her mikinn, oc fara ut til Gaulardals it efra,

oc stefna út til Nidaróss, oc höfdo nær XX hundrod manna. Menn Olafs konungs voro út á Gaularási, oc helldo hestvörd; þeir urdo varir vid er herinn fór ofan or Gaulardal, oc báro þá konungi niósn um midnætti; stód Olafr konungr þá upp, oc let vekia lidit; gengo þeir þegar á skip, oc báro út öll klædi sín oc vapn, oc þat allt er þeir gáto med komiz, rero þá út or ánni; kom þá Jarls lidit jafn sciótt til bæarins; tóko þeir þá Jólavistina alla, oc brendo húsin öll: Fór þá Olafr konungr út eptir firdinom til Orkadals, oc geck þar af skipom: fóro þá upp um Orkadal allt til fialls, oc austr yfir Fiall til Dala. Frá þesso er sagt, at Sveinn Jarl brendi bæ í Nidarósi i flocki þeim er ortr er um Klæng Brúsason:

Brunno allvallds inni
elldr byck at sal felldi
eimr skaut á her hrími
hálfger vid Nid siálfa.

## CAP. XLIII.

## FRÁ OLAFI KONUNGI.

Olafr konungr fór þá sudr eptir Gudbrandsdölom, oc þadan út á Heidmörk, fór allt at veizlom um hávetr, enn dró saman her er voradi, oc fór út í Víkina; hann hafdi mikit lid af Heidmörk er konungar fengo hönom: Fóro þadan lendir-menn mar-

gir, oc ríkir bændor; í þeirri ferd var Ketill Kalfr á Ríngonesi. Olafr konungr hafdi oc lid af Raumaríki. Sigurdr konungr Syr, mágr hans, kom til lids vid hann med mikla sveit manna: Sækia þeir þá út til siávar, oc ráda ser til skipa, oc búaz innan or Víkinni. Þeir höfdo frídt lid oc mikit. Enn er þeir höfdo búit lid sitt, lögdo þeir út til Túnsbergs.

## CAP. XLIV.
## FRÁ LIDI SVEINS JARLS.

Sveinn Jarl samnar lidi allt um Þrándheimi þegar eptir Jólin, oc bydr út leidangri, oc byr skipin. I þenna tíma var í Noregi fiöldi lendramanna; voro þeir margir ríkir oc sva ættstórir, at þeir voro komnir af konunga ættom edr Jarla, oc átto skamt til at telia Harallds ens Hárfagra, oc voro stóraudgir: Var þar allt traust konunganna, edr Jarlanna, er fyrir landi redo, er lendirmenn voro; þvíat sva var í hverio fylki, sem lendírmenn redo fyrir bónda lidino. Vel var Sveinn Jarl vingadr vid lendamenn; vard hönom gott til lids. Einar Þambarskelfir, mágr hans, var med hönom, oc margir adrir lendirmenn, oc margir þeir er ádr um vetrinn höfdo trúnadar eida svarit Olafi konungi, bædi lendirmenn oc bændor. Þeir fóro þegar or fìrdinom er

þeir voro búnir, oc helldo sudr med landi, oc drogo at ser lid or hverio fylki. Enn er þeir komo sudr fyrir Rogaland, þá kom til mótz vid þá Erlingr Skiálgsson, oc hafdi mikit lid, oc med hönom margir lendirmenn; helldo þá öllo lidino austr til Víkor; þat var er áleid lángafösto, er Sveinn Jarl sókti inn í Víkina. Jarl hellt lidino inn um Grenmar, oc lagdiz vid Nesiar.

## CAP. XLV.
## FRÁ LIDI ÓLAFS KONUNGS.

Þá hellt Olafr konungr sino lidi út eptir Víkinni; var þá skamt milli þeirra; visso þá hvarir til annara laugardaginn fyrir Pálm-sunnodag Olafr konungr hafdi þat skip er kallat var Karlhöfdi; þar var á framstafni skorit kongshöfot; hann siálfr hafdi þat skorit. Þat höfot var lengi sídan haft í Noregi á skipom þeim er höfdingiar styrdo.

## CAP. XLVI.
## TALA OLAFS KONUNGS.

Sunnodags morgunin þegar er lysti, stód Olafr konungr upp oc klæddiz, geck á land, let blása öllo lidino til landgaungo. Þá átti hann tal vid lidit, oc segir alþydo, at hann hefir þá spurt, at skamt mundi milli þeirra oc Sveins Jarls: skulom ver nú, segir hann, vidbúaz, þvíat skamt mun vera til fun-

dar vors; vopniz menn nú, oc búi hver sik oc sitt rúm, þar er ádr er skipat, sva at allir se þá búnir, er ec læt blása til brautlögunnar; róom sidan samfast; fari engir fyrr enn allr fer flotinn; dveliz oc engir þá eptir, er ec ræ or höfninni, þviat eigi megom ver vita, hvart ver munom Jarlinn hitta, þar er nú liggr hann, eda muno þeir sækia ímóti oss. Enn ef fund vorn ber saman, oc takiz orostan, þá heimti vorir menn saman skipin, oc se búnir at tengia; hlífom oss fyrst, oc gætom vapna vorra, at ver berim eigi á sæ, edr kastim á glæ. Enn er festiz orostan, oc skipinn hafa saman bundiz, giörit þá sem hardasta hrídina, oc dugi hver sem mannligazt.

## CAP. XLVII.
## OROSTA FYRIR NESIOM.

Olafr konungr hafdi á síno skipi C manna, oc höfdo þeir hríngabrynior, oc Valska hiálma; flestir hans menn höfdo hvíta skiölldo, oc álagdr hinn helgi kross med gulli, enn sumir dregnir raudom steini edr blám; kross let hann oc draga í enni á öllom hiálmom med bleiko; hann hafdi hvítt merki, þat var ormr. Þá let hann veita ser tídir; geck sídan á skip sitt, oc bad menn snæda oc drecka nockot. Sídan let hann blása herblástr, oc leggia út or höfninni, oc rero sídan at leita Jarls. Enn er þeir komo fyrir höfnina þar er Jarl hafdi legit, þá var lid

Jarls vapnat; oc ætladi þá at róa út or höfninni; enn er þeir sá konungs lid, þá tóko þeir at tengia skipin, oc setto upp merki, oc bioggoz vid. Enn er Olafr konungr sá þat, þá greiddo þeir atródrinn: Lagdi konungr at Jarls scipi; tókz þar þá orosta. Sva segir Sigvatr skálld:

Veitti sókn þar er sótti
siklingr fyrrom mikla
(blód fell raudt á róda
rein) í höfn at Sveini.
Sniallr hellt at þar er elli
eirlaust konungr þeirra
enn Sveins lidar sínom
samanbundoz skip fundi.

Her segir þat, at Olafr konungr hellt til orosto, enn Sveinn lá fyrir í höfninni. Sigvatr skálld var þar i orosto; hann orti þegar um sumarit eptir orostona flock þann, er Nesia-vísor ero kalladar; oc segir þar vandt frá þessom tídindom:

þat er um kunt hve kennir
Karlhöfda let Jarli
odda frosts fyrir austan
Agdir nær um lagdan.

Orosta var hin snarpasta; oc var þat lánga hríd, er ei mátti yfir siá hvernog hníga mundi; fell þá mart af hvaromtveggiom, oc fiölldi vard sárt. Sva segir Sigvatr:

Vara sigmána Sveini
sverda gnys at frya
gióds ne giörrar hrídar
Gunreifom Oleifi.

þvíat qvistingar kosto
(koma her í stad verra)
átto sín þar er sóttoz
seggir hvarirtveggio.

Jarl hafdi lid meira; enn konungr hafdi einvala lid á síno skipi, þat er hönom hafdi fylgt í hernadi, oc búit sva forkunnliga, sem fyrr var sagt, at hverr madr hafdi hríngabrynio, oc urdo þeir ei sárir. Sva segir Sigvater:

Teitr sák ockor í ytro
allvallds lidi falla
gerdiz hardr um herdar
hiördynr svalar brynior.
Enn mín at flug fleina
falsk und hiálm hinn Valska
ockor vissak sva sessi
svört skaur vid her giörva.

## CAP. XLVIII

## FLÓTTI SVEINS JARLS.

Enn er lid tók at falla á skipom Jarls, enn sumt var sárt, oc þyntiz þá skipanin á bordonom; þá redo til uppgaungo menn Olafs konungs; var þá merkit uppborit á þat skip er næst var Jarls skipi, enn konungr siálfr fylgdi fram merkino. Sva segir Sigvatr:

Stöng ód gyllt þar er gengo
gaundlar serks und merkiom
gnys fyrir gölfgom ræsi
greidendor á skip reidir.

þagi var sem þessom
þengils á ió strengiar
miod fyrir málma kvedio
mær heid-þægom bæri.

Þar var snörp orosta, oc fello Sveins menn miök, enn sumir hlupo þá fyrir bord; sva segir Sigvatr:

Ver drifo hvatt þar er heyra
hátt vapna brak knátti,
röud klufo rodnir brandar
reidir upp á skeidar.
Enn fyrir bord þar er bördoz
búin feugoz skip gengo
nár flaut út vid eyri
úfár bóendor sárir.

Oc enn þá þetta:

Ölld vaun ossa skiölldo
audsætt var þat rauda
hlioms þá er hvítir komo
hríng midlondom þíngat.
Þar hyck úngan gram gánga
guun sylg er ver fylgdom
blóds feck svörr þar er slædoz
sverd upp í skip gerdo.

Þá tók at snúa mannfallino uppá lid Jarls; sótto þá konungs menn at Jarlsskipi, oc var vid siálft at þeir mundo uppgánga á skipit. Enn er Jarl sá íhvert efni komit var, þá het hann á frambyggia, at þeir scylldo höggva tengslin, oc leysa skipin út; þeir gerdo sva. Þá færdo konungs menn stafnliá á skeidar kylfona, oc helldo þeim sva. Þá mælti Jarl, at stafnbúar scylldo afhöggva kylfona; oc sva gerdo þeir. Sva qvad Sigvatr:

Sá ír bad svartar kylbor

Sveinn hardliga skeina:
nær var ádr í æra
andvan róit hanom.
Þá er til góds enn giódom
gört fengom ræ svörtom
yggs let her um höggit
hrafni skeidar stafna.

Einar Þambarskelfir hafdi sitt skip lagt á annat bord Jarls skipino; köstudo þeir þá ackeri í framstafn á Jarlsskipi, oc fluttoz þá sva allir samt út á fiördinn. Eptir þat flydi allt lid Jarls, oc reri út á fiördinn. Bersi Scald-Torfoson var í fyrirrúmi á skipi Sveins Jarls. Enn er skipit leid fram frá flotanom, þá mællti Olafr konungr hátt, er hann kenndi Bersa, þviat hann var audkendr, hveriom manni vænni, oc búinn forkunnar vel at vapnom oc klædom: farit heilir Bersi; hann sagdi vid: heilir konungr. Sva sagdi Bersi í flocki þeim, er hann orti, þá er han kom á valld Olafs konungs, oc sat í fiötrom:

Hrodrs badto heilan lída
hagkennanda þenna
enn snarreki slíko
svarat únnom ver gunnar.
Ord selldom þau ellda
úthaudrs boda traudir
knarrar haptz sem ec keypta
kynstórs at vid brynio.

Sveins raunir hefi ec senar
snart rekninga biartar
þar er svaltúngor sungo
sama fóro ver stórar.
Elgs man ec eigi fylgia

út hríd boda sídan
hest at hveriom kosti
branna dyrra manni.
Kryp ec eigi sva sveigïr
sára linz í ári
búom úlítin áta
andor þer til handa,
at ec herstefnir hafna,
heidmilldr edr ec þá leidumz,
úngr kunna ec þar þreyngvi
þinn hollvini mína.

## CAP. XLIX.
## FERD SVEINS JARLS OR LANDI.

Nú flydo sumir menn Jarls á land upp; sumir gengo til grida. Þá rero þeir Sveinn Jarl út á fiördinn, oc lögdo þeir saman skip sín, oc töludoz höfdingíar milli sín; leitar Jarl ráda vid lendamenn. Erlingr Skiálgsson red þat, at þeir scylldo nordr sigla í land, oc fá ser lid, oc beriaz enn vid Olaf konung. Enn fyrir því at þeir höfdo látit lid mikit, þá fysto flestir allir, at Jarl færi or landi á fund Svía konungs, mágs síns, oc efldiz þadan at lidi; oc fylgdi Einar Þambarskelfir því rádi; þvíat hönom þótti sem þeir hefdi þá engi fáng til at beriaz vid Olaf konung: Skilldiz þá lid þeirra: sigldi Jarl sudr um folldina, oc med hönom Einar Þambarskelfir. Erlingr Skiálgsson, oc enn margir adrir lendirmenn, þeir er eigi villdo flya ódol sínn, fóro nordr til heimila sinna; hafdi Erlingr um sumarit fiölmenni mikit.

## CAP. L.
## SAMTAL OLAFS KONUNGS OC SIGURDAR KONUNGS.

Olafr konungr, oc hans menn sá; at Jarl hafdi samanlagt sínom skipom; þá eggiadi Sigurdr konungr Syr, at þeir skylldo leggia at Jarli, oc láta þá til stáls sverfa med þeim. Olafr konungr segir, at hann vill siá fyrst hvert rád Jarl tekr, hvert þeir hallda saman flockinom, edr skilz vid hann lidit. Sigurdr qvad hann ráda mundo: enn þat er mitt hugbod, segir hann, um skaplyndi þitt, oc rádgirni, at seint tryggvir þú þá stórbockana, sva sem þeir ero vanir ádr at hallda fullo til móts vid höfdingia: Vard oc eigi af atlögunni; sá þeir þá brátt, at lid Jarls skildiz. Þá let Olafr konungr ransaka valin; lágo þeir þar nockorar nætor, oc skipto herfángi síno. Þá qvad Sigvatr skálld vísor þessar:

þess get ec meir at missi
mord árr sá er fór nordan
harda margr í hördom
heim-qvamo styr þeima.
Sauck af sunda blacki
sunno margr til grunna
satt er att Sveini mættom
samknúta ver úti.
Fryr eigi oss í ári
Innþrænsk þó at lid minna
gert hugdak sva snerto
snotr mær konungs væri.
Brúdr man helldr at hádi

hafa drótt þá er fram sótti
folld rudo skers ef skylldi
skeggi adra tveggio.

Oc enn þá:

Afli vex því at efla
Upplendingar sendi
Sveinn fundot þat þenna
þil blacks konungs vilia.
Raun er hins at heinir
hrælinnz mego vinna
þeir æxla fors fleira
fólk-reks enn öl drecka.

Olafr konungr gaf gódar giafir Sigurdi konungi Syr, mági sinom, at skilnadi, oc sva ödrom höfdingiom, þeim er hönom höfdo lid veitt. Hann gaf Katli af Ringonesi Karfa XVsesso, oc flutti Ketill karfann upp eptir Raumelfi, oc allt upp í Miors.

## CAP. LI.

## FRÁ OLAFI KONUNGI.

Olafr konungr hellt niósnom til um farir Jarls: enn er hann spurdi þat at Jarl var or landi farinn, þá fór hann vestr eptir Víkinni; dreif þá lid til hans: Var hann þá til konungs tekinn á þíngom: fór hann sva allt til Lídandisness. Þá spurdi hann at Erlingr Skiálgsson hafdi aamnat mikinn; dvalldiz konungr þá eigi á Nordr-Augdom, þvíat hann feck radbyri; fór hann sem skyndiligaz nordr til Þrándheims, þvíat hönom þótti þar vera allt megin landzins, ef hann fengi þar undir sik komit, medan Jarl væri or

landi. Enn er Olafr konungr kom í Þrándheim, þá vard þar eingi uppreist ímoti hönom, oc var hann þar til konungs tekinn, oc settiz þar um haustit í Nidarósi, oc bió þar til vetryistar, oc let þar húsa konungs gard, oc reisa þar Clemens kyrkio, í þeim stad, sem nú stendr hon. Hann markadi tópt til garda, oc gaf böndom oc kaupmönnom, edr þeim ödrom er hönom syndiz, oc húsa villdo. Hann sat þar fiölmennr, þvíat hann treystiz illa Þröndom um trúleik, ef Jarl kæmi aptr í landit: Voro berastir i því Innþrændir, þvíat hann feck þadan engar landskylldir.

## CAP. LII.

## RÁDAGERD SVEINS JARLS OC OLAFS SVÍA KONUNGS.

Sveinn Jarl fór fyrst til Svíþiódar á fund Olafs Svía konungs, mágs síns, oc segir hönom allt frá vidskiptom þeirra Olafs Digra, oc lèitar þá ráda af Svía konungi, hvat hann skuli uppá taka. Konungr segir, at Jarl skal vera med hanom ef hann vill þat, oc hafa þar ríki til forráda, þat er hönom þiki sæmiligt; oc at ödrom kosti, segir hann, skal ec fá þer nógan lids afla, at sækia landit af Olafi. Jarl kaus þat, þvíat þess fysto allir hans menn, þeir er átto eignir stórar í Noregi, margir er þar voro med hönom. Enn er þeir sáto yfir þessari rádagerd, þá kom þat ásamt, at þeir skyldo eptir um vetrinn

ráda til at fara landveg um Helsingialand oc Jamtaland, oc sva ofan í Þrandheim; þvíat Jarl treystiz Inn-Þrændom best vid sik um traustit oc lidveizlo, ef hann kæmi þar. Enn þó gera þeir þat ráð, at fara um sumarit fyrst í austrveg í hernad, oc fá ser fiár.

## CAP. LIII.
## DAUDI SVEINS JARLS.

Sveinn Jarl fór med lid sitt austr í Gardaríki, oc heriadi þar; oc dvalldiz hann þar um sumarit. Enn er haustadi, sneri hann skipom sínom til Svíþiódar. Þá feck hann sótt þá er hann leiddi til bana. Eptir andlát Jarls fór lid þat er hönom hafdi fylgt aptr til Svíþiódar, enn sumir snero til Helsingialands, þadan til Jamtalands, oc þá austan um Kiöl til Þrándheims; oc segia þeir þau tídindi er görz höfdo í ferd þeirra; var þá sannspurt andlát Sveins Jarls.

## CAP. LIV.
## FRÁ ÞRÆNDOM.

Einar Þambarskelfir oc sú sveit er hönom hafdi fylgt, fór um vetrin til Svía konungs, oc var þar í gódo yfirlæti; þar var oc marg þeirra annara manna er Jarli hafdi fylgt. Svía konungi hugnadiz

stórilla, er Olafr Digri hafdi setz í skattland hans, enn rekit í brott Svein Jarl; konungr het þar fyrir Olafi hinom mesto afarkostom, þá er hann mætti vidkomaz; segir hann, at eigi mun Olafr sva diarfr vera, at han muni taka undir sic þat velldi er Jarl hafdi átt; því fylgdo allir Svía konungs menn, at sva mundi vera. Enn er Þrændir spurdo till sanns, at Sveinn Jarl var andadr, oc hans var eigi von til Noregs, þá sneriz öll alþyda til hlydnis vid Olaf konung: Fóro þá margir menn innan or Þrándheimi á fund Olafs konungs, oc gerdoz menn hans, enn sumir sendo ord oc iártegnir, at þeir villdo þióna hönom: Fór hann þá um haustit inn í Þrándheim, oc átti þíng vid bændor; var hann þá í hverio fylki til konungs tekinn. Hann fór þá út til Nidaróss, oc let þángat flytia allar konungs skylldir, oc efnadi þar til vetrseto.

## CAP. LV.

## GARDS SKICKAN OLAFS KONUNGS.

Olafr konungr let húsa konungsgard í Nidarósi; þar var gerr mikil hirdstofa, oc dyr á bádom endom; hásæti konungs var í midri stofunni, oc innar frá sat Grímkell, hirdbiskop hans, enn þar næst adrir kennimenn hans; enn utar fra rádgiafar hans; í ödro öndvégi gegnt hönom sat Stallari hans Biörn

Digri oc þar næst gestir. Ef göfgir menn komo til hans, var þeim vel skipat. Vid ellda skylldi þá öl drecka. Hann skipadi mönnom í þiónostor, sva sem sidr konunga var til. Hann hafdi med ser LX hirdmanna oc XXX gesta; oc setti hann þeim mála oc lög; hann hafdi oc XXX húskarla er starfa skylldo í gardinom slíkt er þurfti, oc til at flytia; hann hafdi oc marga þræla; í gardinom var oc mikill skáli, er hirdmenn svafo í; þar var oc mikil stofa, er konungr átti hirdstefnor í.

## CAP. LVI.

## FRÁ SIDOM OLAFS KONUNGS.

Þat var sidr konungs at rísa upp snimma um morgna oc klædaz,oc taka handlaugar, gánga sídan til kyrkio, oc lyda óttosaung, oc morgontidom, gánga sídan á stefnor, oc sætta menn, edr tala þat annat er hönom þótti skyllt. Hann stefndi til sín ríkom oc uríkom, oc öllom þeim mönnom er vitrastir voro. Hann let opt telia fyrir ser lög þau, er Hákon Adálsteins fóstri hafdi sett í Þrándheimi. Hann skipadi lögunom med rádi hinna vitrasto manna, tók af edr lagdi til, þar er hönom syndiz þat. Enn kristinn rett setti hann vid rádi Grímkels Biskups, oc annara kennimanna, oc lagdi á þat allan hug at taka af heidni, oc fornar venior, þær er hönom þót-

þótti kristnispell í. Sva kom at bændor iátto þessom lögom, er konungr setti. Sva segir Sigvatr:

Loptbyggvir mátto læggia
landrett þann er kann standaz
unnar allra manna
eykia lids á midli.

Olafr konungr var madr sidlátr, stilltr vel, fámálugr, örr oc fegiarn. Þá var þar med Olafi konungi Sigvatr skálld, sem fyrr var sagt, oc fleiri Islendskir menn. Olafr konungr spurdi eptir vendiliga, hvernog kristindómr væri halldinn á Islandi; þá þótti hönom mikilla muna ávant at vel væri: þvíat þeir sögdo konungi frá kristnihalldino, at þar var lofat í lögom at eta hross, oc bera út börn, sem heidnir menn gerdo, oc enn fleiri lutir þeir, er kristnispell var í. Þeir sögdo oc konungi frá mörgo stórmenni því, er þá var á Islandi. Skapti Þóroddzson hafdi þá lögsögo á landino. Vida af löndom spurdi hann at sidom manna, þá menn er glögst visso, oc leiddi mest at spurningom um kristindóm, hvernog halldinn væri, bædi í Orkneyom, oc á Hialltlandi, oc or Færeyom, oc spurdiz hönom sva til, sem vidast mundi mikit á skorta, at vel væri. Slikar rædor hafdi hann optaz í munni, edr um lög at tala, edr um landsrett.

## CAP. LVII.

## FRÁ SENDIMÖNNOM OLAFS SVÍA KONUNGS, OC DAUDA ASGAÚTAR ÁRMANNS.

Þann sama vetr komo austan or Svíþióð sendimenn Olafs Svía konungs ens Sönska, oc redo tveir brædor fyrir, Þórgautr Skardi oc Asgautr Armadr, oc höfdo XXIV menn. Enn er þeir[1] komo austan um Kiöl í Veradal, þá stefndo þeir þing vid bændor oc tölodo vid þá; heimto þar skatt oc skylldor af hendi Svía konungs. Enn bændor báro rád sín saman; oc kom þat ásamt med þeim, at þeir mundo giallda slikt sem Svía konungr beiddi, oc heimti Olafr konungr eingar landskylldir af þeim fyrir sína hönd; qvedaz eigi vilia giallda hvarontveggia skylldir: Fóro sendimenn í brot, oc út eptir dalinom; oc á hverio þingi er þeir átto, fengo þeir af bændom en sömo svör, enn ecki fe: Fóro þá út í Skaun, oc átto þar þing, oc kröfdo þar enn skatta, oc fór allt á sömo leid sem fyrr. Þá fóro þeir í Stióradal, oc kröfdo þar þinga, enn bændor villdo ecki til koma. Þá sá sendimenn at þeirra erendi vard ecki; Villdi Þórgautr þá fara austr aptr: Ecki þiki mer vid konungs erindi rekit hafa, segir Asgaustr; vil ec fara á fund Olafs konungs Digra, þó skióta bændor þángat sino máli. Nú red hann; oc fóro þeir út til bæiarins, oc tóko þeir herbergi í bænom; þeir gengo til konungs um daginn eptir, er hann sat yfir

bordom, kvöddo hann oc sögdo at þeir fóro med erendom Svía konungs. Konungr bad þá koma til sin eptir um daginn. Annan dag eptir, þá er konungr hafdi lydt tidom, geck hann til þínghúss síns, oc let þángat kalla menn Svía konungs, oc bad þá bera upp erendi sín. Þá taladi Þórgautr, oc segir fyrst hverra erenda þeir fóro oc voro sendir, oc þat sídan, hvernog Inn-þrændir höfdo svarat. Eptir þat beiddi hann, at konungr veitti orskurd, hvert erendi þeirra skylldi þángat verda? konungr segir: medan Jarlar redo her fyrir landi, þá var þat eigi undarligt, at landsmenn væri þeim lydskylldir, þvíat þeir voro her ættbornir til ríkis, helldr enn þat at lúta til útlendra konunga: oc var þat þó rettara, at Jarlar veitti hlydni oc þiónusto konungom, þeim er rett komnir voro her til ríkis, helldr enn útlendom konungom, oc at hefiaz upp med úfridi ímóti rettom konungom, oc fella þá frá landi. Enn Olafr Sönski konungr, er kallar til ríkis i Noregi, þá veit ec eigi hveria tiltölo hann hefir þá er sannlig se: enn hitt megom ver muna, hvern mannskada ver höfom fengit af hönom, oc hans frændom. Þá segir Asgautr: eigi er undarlikt, at þú sert kalladr Olafr Digri, oc allstórliga svarar þú ordsending slíks höfdingia, oc ógløggt veitzo hverso þúngbær þer mun vera reidi konungs, oc hefir sva ordit þeim er enn voro med meira krapti, enn mer syniz þú munir vera; enn ef þú villt þráliga hallda ríkino, þá

mun þer hinn til, at fara á konungs fund, oc geraz hans madr, oc múnom ver þá bidia med þer, at hann fái þer at láni þetta ríki. Þá segir konungr, oc tók hógliga til orda: ec mun ráda þer annat ráð, Asgautr; farit nú aptr austr, oc segit konungi ydrom sva, at snimma í vár mun ec búaz at fara austr til landamæris þess, þar er at forno hefir skilt ríki Noregs konungs, oc Sviþiódar; má hann þá þar koma ef hann vill, at ver semiom sætt ockar, oc hafi þat ríki hvarr ockar, sem ódalborinn er til. Þá snúa sendimenn í brot, oc aptr til herbergis, oc bioggoz í brott. Enn konungr geck þá til borda. Sendimenn gengo þá i konungs gardinn; enn er durverdir sá þat, segia þeir konungi; hann bad þá sendimenn eigi innláta; ec vil eigi vid þá mæla, segir hann: Fóro þá sendimenn í brot; þá segir Þórgautr, at hann muni þá aptr snúa oc hans menn: enn Asgautr segir at hann vill reka konungs erendi. Þá skiliaz þeir; fer þá Þórgautr inn á Strind, enn Asgautr oc þeir XII saman snúa upp til Gaulardals, oc sva út til Orkadals; hann ætlar at fara sudr á Mæri, oc reka þar syslo Svía konungs. Enn er Olafr konungr vard þess varr, þá sendi hann gestina út eptir þeim; þeir hitto þá á Nesi vid Stein, tóko þá höndom, bundo, oc leiddo inn á Gaularás, reisto þar gálga oc hengdo þá þar, er siá mátti utan af firdi af þiódleid. Þórgautr

spurdi þessi tídindi ádr hann fór aptr or þrandheimi; fór hann sídan alla leid, þar til er hann hitti Svía konung, oc segir hönom þat er gerz hafdi í þeirri för. Konungr vard allreidr er hann heyrdi þetta sagt, oc skorti þar þá eigi stór ord. þess getr Sigvatr:

Tólf frá ec tekna elfar
tállanst vido bála
olli Olafr falli
eirlaust konungr þeirra.
Svía Tiggia leit ec seggi
sókn strids fyrrom rída
(böl var brátt til heliar
búit mest) sigars hesti.

## CAP. LVIII.
## SÆTT OLAFS KONUNGS OC ERLINGS SKIALGS SONAR.

Eptir þat um várit, baud Olafr Haralldson konungr lidi út or þrándheimi, oc bióz at fara austr í land. þá bioggoz or Noregi Islands-för. þá sendi Olafr konungr ord oc iartegnir Hiallta skeggiasyni, oc stefndi hönom á sinn fund, enn sendi ord Skapta lögsögo-manni, oc ödrom þeim mönnom, er mest redo lögom á Islandi, at þeir skylldo taka or lögom er hönom þótti næst ímóti kristinndómi. þar med sendi hann vinsamlig ord öllom landsmönnom iafnsaman. Konungr fór sudr med landi, oc dvaldiz í hverio fylki oc þingadi, vid bændor; enn á hverio

þíngi let hann upplesa kristindóms lög, oc þau bodord, er þar fylgdo; tók hann þá þegar af vid lydinn margar úvenior oc heidindóm; þvíat Jarlar höfdo vel halldit forn lög oc landsrett; enn um kristnihalld leto þeir gera hvern sem villdi: Var þá sva komit, at vidast um siábyggdir voro menn skírdir, enn kristin lög voro ókunn flestom mönnom. Enn um Uppdali oc Fiallbygdir var vída alheidit; þvíat þegar er lydrinn vard siálfráda, þá festiz þeim þat hellz i minni um átrúnadinn, er þeir höfdo numit i barnæsko; enn þeir menn er eigi villdo skipaz vid ord konungs um kristnihalldit, þá het hann þeim afarkostom, bædi ríkom oc úríkom. Olafr var til konungs tekinn á hverio lögþingi um allt land, oc mællti þá eingi madr á móti hönom. Þá er hann lá i Karmtsundi, þá fóro ord milli þeirra Erlings Skiálgssonar þau at þeir skylldo sætaz, oc var lagdr sættarfundr i Hvitingsey. Enn er þeir fundoz, töludoz þeir siálfir vid um sættina; þótti Erlingi þá finnaz nockot annat i ordom hans, enn hönom hafdi frásagt verit: þvíat hann mælti til þess, at hann villdi hafa veitzlor þær allar, er Olafr Tryggvason hafdi fengit hönom, enn sídan Jarlar Sveinn oc Hákon; man ec þá geraz þinn madr oc vera hollr vinr, segir hann: Konungr segir: sva lítz mer, Erlingr, sem eigi se þer verra at taka af mer jamníklar veitzlor, sem þú tókt af Eiríki Jarli, þeim manni er þer hafdi gert enn mesta mannskada: enn ec man þik láta vera

mestan lendanmann í Noregi, þó at ec vili midla veizlor at siálfrædi mino, enn ei láta sva sem þer lendirmenn se ódalbornir til ættleifdar minnar, enn ec skylldr margföllldom verdom ydra þiónosto at kaupa. Erlingr hafdi eigi skaplyndi til at bidia her neinna muna um; þviat hann sá at konungr var eigi leiditamr; sá hann oc at tveir kostir voro fyrir höndom: sá annar, at gera einga sætt vid konung, oc hætta þá til hvernog færi; edr ella láta konung einn fyrir ráda; oc tók hann þann upp, þótt hönom þætti þat miök ímóti skapi síno, oc mællti til konungs, sú mun þer mín þiónosta hallqvæmuzt, er ec veiti þer med siálfrædi. Sidan skildo þeir ræduna. Eptir þat gengo til frændor Erlings oc vinir, oc bado hann til vægia, oc fara vid vit, enn eigi ofrkapp, munto, sögdo þeir, vera iafnan göfgastr oc mest virdr lendramanna í Noregi bædi at framqvæmd þinni oc frænda þinna oc fiár-afla. Erlingr fann at þetta voro heilrædı, oc þeim geck gódvili til er slikt mællto; gerir hann sva; gengr Erlingr þá til handa konungi med þeim skildaga, er konungr reid fyrir at skilia: Skilldoz eptir þat, oc voro sáttir at kalla: Fór Olafr þá leid sína austr med landi.

## CAP. LIX.

## DRÂP EILÍFS GAUTSKA.

Þegar er Olafr kom í Vıkina oc þat spurdiz, þá fóro Danir í brot, þeir er þar höfdo syslor af Da-

na konungi, oc sótto þeir til Danmerkor, oc villdo eigi bída Olafs konungs. Enn Olafr konungr fór inn eptir Víkinni, oc hafdi þíng vid bændor; geck þar allt landsfólk undir hann, oc tók haun þar allar konungs skylldir, oc dvalldiz í Víkinni um sumarit: hellt sídan austr yfir Folldina or Tunsbergi, oc allt austr um Svínasund. Þá tók vid valld Svía konungs; hann hafdi þar sett yfir syslomenn, Eilíf Gautska yfir hinn nordra lut, enn Hróa Skiálga yfir hinn eystrà lut, allt til elfar: hann átti ætt tveim megin elfar, enn bú stór í Hising; hann var ríkr madr oc stóraudigr. Eilífr var oc stóraudigr oc vel ættadr. Þá er Olafr konungr kom lidi sino í Ranaríki, þá stefndi hann þar þíng vid landsfólk, oc komo til hans þeir menn er úteyar bygdo, edr nær sæ. Enn er þíng var sett, þá taladi Biörn Stallari af hendi konungs, oc bad bændor taka vid Olafi konungi slíkt þar sem annarstadar hafdi gert verit í Noregi. Bryniúlfr Ulfaldi het madr einn, búandi göfugr; hann stód upp oc mællti: vitom ver bændor hvert rettast er landaskipti at forno milli Noregs konungs oc Dana konungs oc Svía konungs, at Gautelfr hefir rádit frá Væni til sæfar, enn nordr markir til Eidaskógs, enn þadan Kilir allt nordr til Finnmarkar; sva oc þat, at ymsir hafa gengit á annara laund; hafa Svíar haft laungom valld allt til Svínasunds; enn þó ydor satt at segia, veit ec margra manna vilia til þess at betra

þætti at þióna Noregs konungi; enn menn bera eigi árædi til þess, þvíat Svia konungs ríki er frá oss bædi austr oc sudr, oc allt fyrir ofan; enn þess ván at Noregs konungr mun fara nordr í landit brátt, þángat er megin er lands meira: oc höfom ver þá eigi afla til at hallda deilo vid Gauta. Nú verdr konungr at siá heillt rád fyrir oss, verom ver fúsir at geraz hans menn. Enn eptir þíngit, þá var Bryniulfr um qvelldit í bodi konungs oc sva annan dag eptir, oc tölodo þeir margt sín í millom í einmælom: Fór þá konungr austr eptir Vikinni. Enn er Eilifr spurdi at konungr var þar kominn, þa let hann bera niósn til fara hans. Eilifr hafdi XXX manna, sinna sveitunga: hann var í bygdinni ofan verdri vid markirnar, oc hafdi þar bóanda safnat. Margir bændor fóro á fund Olafs konungs, enn sumir sendo vinátto-ord til hans. Þá fóro menn í milli Olafs konungs oc Eilifs; oc bádo bændor hvartveggia lengi at þeir skylldo eiga þíngstefno milli sín, oc gera frid med nockoro móti; sögdo þat Eilífi at þeim var þess ván af konungi, ef eigi væri vidskipaz hans ord, at þeir mundo ván eiga af hönom afarkosta, oc qvado Eilíf skylldi eigi lid skorta; var þat þá rádit at þeir skylldo ofan koma, oc eiga þíng vid bændor oc konung. Enn þá sendi Olafr konungr Þóri Lánga, gestahöfdingia sinn, oc þá VI saman til Bryniulfs; þeir höfdo brynior undir kyrtlom, enn hötto yfir hiálmom. Eptir um daginn

komo bændor fiölmennt ofan med Eilífi: þar var þá Bryniulfr í hans lidi, oc Þórir í hans sveit. Konungr lagdi skipunom þar at er var klettr nokurr, oc geck fram í sæinn; geck konungr þar upp, oc settiz med lidi síno á klettinn, enn völlr var fyrir ofan, oc var þar bóanda lidit, enn menn Eilífs stódo upp í skialldborg fyrir hönom. Biörn Stallari taladi lángt oc snjallt af hendi konungs. Enn er hann settiz nidr, þá stód Eilífr upp, oc tók til máls; oc i því bili stód upp Þórir Lángi, oc brá sverdi, oc hió til Eilífs á hálsinn, sva afgeck höfudit. Þá hlióp upp allt bóanda lidit; enn hinir Gautzko tóko á rás undan: drápo þeir Þórir nockora menn af þeim. Enn er herinn stödvadíz, oc letti þysnom, þá stód konungr upp oc mællti at bændor skylldo setiaz nidr; þeir gerdo sva, oc var þar margr talat; enn at lyktom vard þat, at bændor gengo til handa konungi, oc iátudo hönom lydni; enn hann het þeim því ímót at skiliaz eigi vid þá, oc vera þar til þess at þeir Olafr Svía konungr lyki einn veg sínom vandrædom. Eptir þat lagdi Olafr konungr undir sik alla hina nordri syslona, oc fór um sumarit allt austr til Elfar; feck hann allar konungs skylldir med sænom oc um Eyar. Enn er áleid sumarit, sneriz hann aptr i Vikina nordr, oc lagdi upp eptir Raumelfi; þar er fors mikill, er Sarpr heitir; nes gengr í ána nordan at forsinom; þar let Olafr konungr gerda um þvert nesit med grióti oc torfi oc vidom, oc

grafa díki fyrir utan, oc gerdi þar iárdborg mikla: enn í borginni efnadi hann til kaupstefno; þar let hann húsa konungsgard, oc gera þar Mariokyrkio; hann let þar oc marka tóptir til annara garda, oc feck þar menn til at húsa: hann let um haustit þángat flytia þau faung, er til vetrvistar þurfti, oc sat þar um vetrinn med fiölmenni mikit, enn hafdi menn sína í öllom syslom. Konungr bannadi allar flutningar or Víkinni upp í Gautland, bædi silld oc sallt: þess máttu Gautar illa án vera. Konungr hafdi mikit iólabod, baud til sin mörgom stórbændom or herodom.

## CAP. LX.
## UPPHAF EYVINDAR ÚRARHORN.

Madr er nefndr Eyvindr Úrarhorn, ættadr af Austr-Augdom; hann var mikill madr oc kynstór, fór hvert sumar í hernad, stundom vestr um haf, stundom i Austrveg, edr sudr til Frislands; hann hafdi XXsesso sneckio, oc vel skipada. Hann hafdi verit fyrir Nesiom, oc veitt Olafi konungi lid, oc er þeir skildoz þar, þá het konungr hönom vináttu sinni, enn Eyvindr konungi lidsemd sinni, hvar sem hann vildi kraft hafa. Eyvindr var um vetrinn í Jólabodi med Olafi konungi, oc þá þar gódar giafir at hönom. Þar var oc þá med konungi Bryniulfr Ulfalldi,

oc þá at Jólagiöf sverd gullbúit af konungi, oc med bæ þann er Vettaland heitir, oc er þat hinn mesti höfotbær. Bryniulfr orti víso um giafirnar, oc er þat nidrlag í:

Bragningr gaf mer
brand oc Vettaland.

Þá gaf konungr hönom lendsmanns nafn, oc var Bryniulfr hinn mesti vinr konungs alla stund.

## CAP. LXI.
## DRÁP ÞRÁNDAR HVÍTA.

Þann vetr fór Þrándr Hvíti or Þrándheimi austr á Jamtaland, at heimta skatt af hendi Olafs Digra. Enn er hann hafdi samandregit skattinn, þá komo þar menn Svía konungs, oc drápo Þránd oc þá XII saman, oc tóko skattinn, oc færdo Svía konungi. Þetta spurdi Olafr konungr, oc líkadi hönom stórilla.

## CAP. LXII.
## KRISTNIBOD Í VÍKINNI.

Olafr konungr let bióda um Víkina kristin lög med sama hætti sem nordr í landi: oc geck vel fram; þvíat Víkveriom voro mikla kunnari kristnir sidir, enn mönnom nordr í landi, því þar var bædi vetr oc sumar fiölmennt af kaupmönnom, bædi

Dannskom oc Saxneskom; Vikveriar höfdoz oc miök í kaupferdom til Englands oc Saxlands, edr Flæmingialands edr Danmerkr: enn sumir voro í víking, oc haufdo vetrseto á kristnom laundom.

## CAP. LXIII.

## FALL HRÓA.

Um vorit sendi Olafr konungr ord at Eyvindr skylldi koma til hans: þeir töludo lengi einmæli. Eptir þat brátt bióz Eyvindr í Víking. Hann sigldi sudr eptir Víkinni, oc lágdi at í Eykreyom út frá Hísing. Þar spurdi hann at Hrói Skialgi hafdi farit nordr í Ordost, oc hafdi þar samandregit leidángr oc landskylldir af hendi Svía konnngs, oc var hans þá nordan ván; þá rerir Eyvindr inn til Haugasunda, enn Hrói reri þá nordan oc hittoz þar í sundino, oc bördoz. Þar fell Hrói Hvíti oc nær XXX manna; enn Eyvindr tók allt fe þat er Hrói hafdi haft: Fór Eyvindr þá í Austrveg, oc lá þar í víking um sumarit.

## CAP. LXIV.

## FALL GUDLEIKS OC ÞÓRGAUTS SKARDA.

Madr het Gudleikr Gerski, hann var ættzkadr af Augdom; hann var farmadr oc kaupmadr mikill, audigr, oc rak kaupferdir til ymissa landa; hann fór austr í Gardariki optliga, oc var hann fyrir þá sök kalladr Gudleikr Gerski. Þát vár bió

Gudleikr skíp sitt, oc ætladi at fara um sumarit austr í Gardaríki. Olafr konungr sendi hönom ord, at hann vill hitta hann. Enn er Gudleikr kom til konungs, segir hann hönom, at hann vill gera felag vid hann: bad bann kaupa ser dyrgripi þá, er torgætir ero þar í landi; Gudleikr segir þat á konungs forrædi vera skulo. Þá lætr konungr greida í hendor hönom fe slíkt sem hönom syndiz: Fór Gudleikr um sumarit í Austrveg. Þeir lágo nockora hríd vid Gotland: var þá sem opt kann verda, at eigi voro allir halldin-ordir, oc urdo landsmenn varir vid, at á því skipi var felagi Olafs Digra. Gudleikr fór um sumarit í Austrveg til Hólmgards, oc keypti þar pell ágætlig, er hann ætladi konungi til tignarklæda ser, oc þar med skinn dyr, oc enn bordbúnad forkunnligan. Um haustit, er Gudleikr fór austan, þá feck hann ándvidri, oc lágo þeir miök lengi vid Eyland. Þórgautr Skardi hafdi um haustit borit niósn um farir Gudleiks; kom hann þar at þeim med lángskip, oc bardiz vid þá; þeir vördoz lengi; enn fyrir því at lidsmunr var mikil, þá fell Gudleikr, oc margt skipveria hans, enn fiöldi var sárt: Tók Þórgautr fe þeirra allt oc gersimar Olafs Noregs konungs: Skipto þeir Þórgautr fengi sínom öllom at iafnadi: enn hann segir at gersimar skal hafa Svía konungr: oc er þat, segir hann, nockorr lutr af skatti þeim, er hann á at taka af Noregi; Þórgautr fór þá austr til Svíþiódar. Þessi tídindi

spyriaz brátt; Eyvindr Urarhorn kom til Eylands litlo sidar. Enn er hann spyr þetta, þá siglir hann austr eptir þeim Þórgauti, oc hittaz þeir í Sviaskeriom, oc bördoz. Þar fell Þórgautr oc flest lid hans, edr hlióp á kaf: Tók þá Eyvindr fe þat allt, er þeir höfdo tekit af Gudleiki, oc sva gersimar Olafs konungs. Eyvindr fór sidan aptr til Noregs um haustit, oc færdi hann þá Olafi konungi gersimar sínar: Þáckadi konungr hönom vel sína ferd, oc het hönom þá enn vinátto sinni af nyo. Þá hafdi Olafr konungr verit III vetor konungr yfir Noregi.

## CAP. LXV.
## FUNDR OLAFS KONUNGS OC RÖGNVALLDS JARLS.

Þá sama sumar hafdi Olafr konungr leidángr úti, oc fór þá enn austr allt til Elfar, oc lá þar lengi um sumarit. Þá fóro ordsendingar milli þeirra Olafs konungs oc Rögnvallds Jarls, oc Ingibiargar Tryggvadóttr, kono Jarls; hon geck at med öllo kappi at veita Olafi Noregs konungi lid; hon var aftaka madr mikil um þetta mál: Hellt þar til hvartveggia, at frændsemi var mikil med þeim Olafi konungi oc henni; oc þat annat, at henni mátti eigi fyrnaz vid Svia konung, þat er hann hafdi verit at falli Olafs konungs Tryggvasonar, bródr hennar: oc þóttiz hon fyrir þá sök eiga tiltölo at ráda fyrir

Noregi: Vard Jarl af fortölom hennar miök snúinn til vinátto vid Olaf konung: Kom sva at þeir konungr oc Jarl lögdo stefno med ser, oc hittoz vid elfi; ræddo þeir þar marga luti, oc miök um vidskipti þeirra Noregs konungs ec Svía konungs: oc sögdo þeir bádir sem satt var, at hvaromtveggiom Vıkveriom oc Gautom, var hin mesta landsaudn í því, at eigi skylldi vera kaupfridr milli landa; oc at lyktom setto þeir grid oc frid milli sín, til annars sumars; gáfoz þeir giafir at skilnadi, oc mælto til vinátto.

## CAP. LXVI.

## ÓVILLD SVÍA KONUNGS VID OLAF HARALLDSSON KONUNG.

Konungr fór þá nordr i Vikina; oc hafdi hann þá konungs tekior allar til Elfar, oc allt landsfólk hafdi þá undir hann gengiz. Olafr konungr Sænski lagdi óþocka sva mikinn á Olaf Haralldsson, at eingi madr skylldi þora at nefna hann retto nafni sva at konungr heyrdi; þeir kölludo hann hinn digra mann, oc veitto hönom hardar átölor iafnan, er hans var getit.

## CAP. LXVII.

## UPPHAF FRIDGERDAR SÖGO.

Bændor i Víkinni ræddo sín í milli, at sá einn væri

væri til, at konungar gerdi sætt oc frid milli sín: oc töldoz illa vidkomnir, ef konungar heriadiz á, enn eingi þordi þenna kur diarfliga upp at bera fyrir konungi. Þá bádo þeir til Biörn Stallara, at hann skylldi þetta mál flytia fyrir konungi, at hann sendi menn á fund Svía konungs; at bióda sættir af sinni hendi. Biörn var traudr til, oc mæltiz undan: enn vid bæn margra vina sinna, þá het hann at lyktom at ræda þetta fyrir konungi; enn qvad sva hugr um segia, at konungr mundi ómiúkliga taka því, at vægia í ne einom lut vid Svía konung. Þat sumar kom utan af Islandi Hiallti Skeggiason, at ordsendingo Olafs konungs: fór hann þegar á fund konungs; oc tók konungr vel vid hönom, baud Hialta med ser at vera, oc vísadi hönom til sætis hiá Birni Stallara, oc voro þeir mótunautar: Gerdiz þar brátt gódr felagskapr milli þeirra. Eitthvert sinn, þá er Olafr konungr hafdi stefno vid lid sitt, oc vid búendor, oc redi landrádom, þá mælti Biörn Stallari: hveria ætlan hafit þer á, konungr, um úfrid þann er her er á milli Olafs Svía konungs oc ydar? nú hafa hvarirtveggio marga menn látit fyrir ödrom; enn eingi orskurdr er nú helldr enn ádr, hvat hvarir skolo hafa af ríkino? þer hafit her setit i Vikinni einn vetr oc II sumor, oc látit at baki ydr allt landit nordr hedan: nú leidiz mönnom her at sitia, þeim er eignir edr ódol eiga nordr i landi. Nú er þat vili lendramanna, oc

annarra lidsmanna, oc sva bænda, at ein hvern veg skeri or. Enn fyrir því, at nú ero grid oc fridr settr vid Jarl oc Vestr-Gauta, er her ero nú næstir, þá þickir mönnom sá hellztr kostr til, at þer sendit menn til Svía konungs at bióda sætt af ydarri hendi, oc mano margir menn vel undir þat standa, þeir er med Svía konungi ero, þvíat þat er hvarotveggio gagn þeirra er landin byggia bædi her oc þar; at rædo Biarnar gerdo menn gódan róm. Þá mælti konungr: rád þetta, Biörn, er þú hefir her uppborit, þá er þat makligast at þú hafir fyrir þer gert: oc skallto fara þessa sendiför; nýtr þú ef vel er rádit; enn ef mannháski geriz af, þá velldr þú ofmiklo siálfr um: er þat oc þín þiónusta, at tala i fiölmenni slíkt er ec vil mæla láta. Þá stód konungr upp, oc geck til kyrkio, oc let syngia ser hámesse. Sídan geck hann til borda. Oc um dagimn eptir mælti Hiallti til Biarnar: hví erto sva úkátr madr? erto siúkr edr reidr manni nockrom? Biörn segir Hiallta rædo þeirra konungs, oc segir þetta forsending. Hiallti segir: sva er konungom at fylgia, at þeir menn hafa metnad mikinn, oc ero framar virdir enn adrir menn; enn opt verda þeir i lífs háska, oc verdr hvarotveggia vel at kunna. Mikill er konungs gæfa, oc mun frami mikill fáz i ferdinni ef vel tekz. Biörn mællti: allaudvellt rædir þú um ferdina, oc munto fara vilia med mer; þvíat konungr mælti, at ec skyllda mína sveitunga hafa í ferdina med mer. Hiallti segir: fara skal ec

at viso ef þú villt, þvíat vanfengr mun mer þyckia sessonautrinn annarr, ef vid skiliumz.

## CAP. LXVIII.
## FERD BIARNAR STALLARA.

Fám dögom sidar, þá er Olafr konungr var á stef-no, kom þar Biörn oc þeir XII saman: hann seg-ir þá konungi, at þeir voro búnir at fara sendiför-ina, oc hestar þeirra stódo úti södladir: vil ec nú vita, segir Biörn, med hveriom erendom ec skal fara, ed hver rád þú leggr fyrir oss. Konungr se-gir: þer skulot bera Svía konungi þau mín ord, at ec vil frid setia milli landa vorra, til þeirra takmarka, er Olafr Tryggvason hafdi fyrir mik; oc se þat bun-dit fastmælom, at hvarugir gangi þar umfram. Enn um mannlát, þá þarf þess eingi at geta, ef sættir skulo vera; þvíat Svía konungr fær oss eigi med fe bætt þann mannskada, er ver höfom fengit af Svíom. Þá stod konungr upp, oc geck út med þeim Birni: þá tók hann upp sverd buit oc fingerguld, oc sell-di Birni sverd, oc mællti: þetta gef ec þer; þat gaf mer í sumar Rögnvalldr Jarl: til hans sku-lot þer fara, oc bera hönom þau min ord, at hann leggi til rád oc sinn styrk, at þú komir fram erin-dino; þycki mer þá vel syslat, ef þú heyrir ord Svía konungs, oc segi hann annat tveggia iá edr nei; enn fingrgull þetta fær þú Rögnvalldi Jarli; þær iar-tegnir mun hann oc kenna. Hiallti geck at kon-ungi oc qvaddi hann, oc sagdi: þurfom ver nú þess

miök, konungr, at þú leggir hamingio þína á þessa ferd, oc bad þá heila hittaz. Konungr spurdi, hvert Hiallti skylldi fara? med Birni, sagdi hann; konungr segir: bæta mun þat til um þessa ferd, at þú farir med þeim; þvíat þú hefir opt reyndr verit at hamingio, oc vitto þat vist, at ec skal allan hug á leggia, ef þat vegr nockot, at leggia til med þer mina hamingio, oc sva öllom ydor. Þeir Biörn rido í brot leid sína, oc komo til hirdar Rögnvallds Jarls; var þeim þar vel fagnat. Biörn var frægr madr af mörgom lutom, kudr bædi at syn oc at máli þeim öllom er set höfdo Olaf konung, þvíat Biörn stód upp á hverio þingi oc taladi konungs erindi. Ingibiorg kona Jarls geck at Hiallta, oc hvarf til hans; hon kendi hann, þvíat hon var þá med Olafi Tryggvasyni, bródr sínom, er Hiallti var þar; oc taldi hon frændsemi milli Olafs konungs oc Vilborgar, kono Hiallta; þeir voro brædra synir Víkinga Kára, lendsmans á Vors, Eiríkr Biódaskalli, fadir Astrídar, módor Olafs konungs Tryggvasonar, oc Bödvarr, fadir Olafar módor Gitzorar Hvíta födr Vilborgar: Voro þeir þar í gódom fagnadi. Einn dag gengo þeir Biörn á tal vid Jarl oc þau Ingibiörgo; þá ber Biörn upp erindi sín, oc synir iartegnir Jarli. Jarl svarar: hvat hefir þik, Biörn, þess hent, er konungr vill dauda þinn, er þer at sidr fært med þessi ordsending, at ec hygg at engi muni sá vera, er þessom ordom mælir fyrir Svía konungi, at refsingalaust muni komaz í brott: miklo er Olafr Svía konungr

skapstærri, helldr enn fyrir hönom siálfom megi þær rædor hafa er hönom se ímóti skapi. þá segir Biörn: eingir hlutir hafa þeir atboriz mer til handa, er Olafr konungr hefir mer reidz um; enn mörg er sú rádagerd hans, bædi fyrir siálfom ser oc mönnom sínom, er hætting mun áþyckia hvernog tekz, þeim mönnom er árædir litlir ero. Enn öll rád hanns hafa enn til hamingio snúiz her til, oc vætto ver at sva skyli enn fara. Nú er ydr þat, Jarl, satt at segia, at ec vil fara á fund Svía konungs, oc eigi fyrri aptr hverfa, enn ec hefi hann heyra látit öll þau ord er Olafr konungr baud mer at flytia til eyrna hönom, nema mer banni hel edr se ec heptr, sva at ec mega eigi framkoma; sva man ec gera, hvart sem þer vilit nockorn hug áleggia ordsending konungs, edr engan. þá mælti Ingibiörg: skiótt man ec birta minn hug, at ec vil, Jarl, at þer leggit á allan hug at stóda ordsending Olafs Noregs konungs, sva at þetta erindi takiz fram vid Svía konung, hvernegan veg sem hann vill svara; þótt þar liggi vid reidi Svía konungs, edr öll eign vor edr ríki, þá vil ec miklo helldr til þess kosta oc hætta, enn hitt spyriz, at þú leggiz undir höfot ordsending Olafs konungs fyrir rædzlo sakir fyrir Svía konungi; hefir þú til þess burdi oc frænda styrk oc alla atferd at vera sva frials her í Svíavelldi, at mæla mál þitt þat er vel sæmir, oc öllom mun þiekia áheyriligt, hvert áheyra margir edr fáir, ríkir edr úríkir, oc þótt siálfr konungr heyri á. Jarl svarar: eigi er þat

blindt hverso þú eggiar; má oc vera at þú rádir þesso, at ec heiti konungs mönnom því, at fylgia þeim, sva at þeir nái at flytia erindi sín fyrir Svía konungi, hvart sem konungi líkar þat vel edr illa. Enn mínom rádom vil ec láta framfara, hvert tilstilli hafa skal; enn ei vil ec laupa eptir ákafa Biarnar edr annara manna um sva mikil vandamál: Vil ec at þeir dveliz med mer til þeirrar stundar, er mer þikir nockoro likligast, at framqvæmd megi verda at þesso erendi. Enn er Jarl hafdi því upplokit, at hann mundi fylgia þeim at þesso máli, oc leggia til þess sinn styrk; þá þackadi Biörn hönom vel, oc qvadz hans rádom vilia framfara; dvölldoz þeir Biörn þar med Jarli miök lánga hrid.

## CAP. LXIX.

## FRÁ TALI BIARNAR OC INGIBIARGAR TRYGGVA DÓTTOR.

Ingibiörg var forkunnar vel til þeirra; ræddi Biörn fyrir henni um sitt mál, oc þótti þat illa er dveliaz skylldi sva lengi ferdinn; þau Hiallti ræddo opt öll saman um þetta mál; þá mællti Hiallti: ec mun fara til konungs ef þer vilit, em ec eigi Norrænn madr; muno Svíar mer eingar sakir gefa; ec hefi spurt, at med Svía konungi ero Islendskir menn í gódo yfirlæti, kunningiar minir, skálld konungs, Gitzor Svarti oc Ottar Svarti; mun ec þá forvitnaz hvers ec verd varr af Svía

konungi, hvert þetta mál mun sva óvænt sem nú er látit, edr ero þar nockor önnor efni í; mun ec finna mer til erindis slikt er mer þickir fallit. þetta þótti Ingibiörgo oc Birni hit mesta sniallrædi; oc redo þau þetta med ser til stadfesto: Byr þá Ingibiörg ferd Hiallta, oc feck hönom II menn Gautska, oc baud þeim sva, at þeir skylldo hönom fylgia, oc vera hönom hendilángir bædi um þiónusto, oc sva ef hann villdi senda þá. Ingibiörg feck hönom skotsilfrs XX merkr vegnar; hon sendi ord oc iartegnir med hönom til Ingigerdar, dóttor Olafs Svía konungs, at hon skylldi leggia allan hug á um hans mál, hvers sem hann kynni hana at krefia at naudsyniom. Hiallti fór þegar er hann var búinn. Enn er hann kom til Olafs konungs, þá fann hann þar brátt skálldin Gitzor oc Ottar, oc urdo þeir hönom allfegnir, oc gengo þegar med hönom fyrir konung, oc segia hönom, at sá madr var þar kominn, er samlendr var vid þá, oc mestr madr at virdingo á því landi, oc bádo konung at hann skylldi hönom vel fagna. Hann bad þá hafa Hiallta í sveit med ser oc hans föronauta. Enn er Hiallti hafdi þar dvaliz nockora hríd oc gert ser menn kunna, þá virdiz hann vel hveriom manni. Skálldin voro opt fyrir konungi, þvíat þeir voro máldiarfir menn, oc sáto opt um daga frami fyrir hásæti konungs, oc Hiallti med þeim; virdo þeir hann mest í öllo: Gerdiz hann þá oc konungi málkunnigr: var konungr vid hann þá málrætinn, oc spurdi tídinda af Islandi.

## CAP. LXX.

## FRÁ SIGVATI SKÁLLDI.

Þat hafdi verit ádr Biörn fór heiman, at hann hafdi bedit Sigvat skálld til farar med ser; hann var þá med Olafi konungi; enn til þeirrar farar voro menn eigi fúsir. Þat var vingott med þeim Birni oc Sigvati. Þá qvad Sigvatr:

Adr hefi ec gott vid góda
grams Stallara alla
átt þá er ossom drottni
ógndiarfs fyrir kne hvarfa.
Biörn fanto opt at árna
ís fyrir mer at vísa
góds megot gott of ráda
gunnriódr allz vel kunnot.

Enn er þeir rido upp um Gautland, qvad Sigvatr visor þessar;

Kátr var ec opt þá er úti
ördigt vedr á fiördom
vísa segl í vási
vind blásit skóf strinda.
Hestr ód kafs at kostom
kilir hristo menn lista
út þar er eisa letom
undan skeidor at sundi.

Sniallz letom skip skolla
skiölldungs vid ey tiölldot
fyrir ágæto úti
öndurdt sumar landi.
Enn í haust þar er hestar
hagþorns á mó sporna
teck ymissar eckils
ídir hlyte at rída.

Enn er þeir rido upp um Gautland síd um aptan, þá qvad Sigvatr:

Jor rennr aptan Skæro
allsvangr getor lángar
völl kná hófr til hallar
höfom lítinn dag slíta.
Nú er þat er blackr um becki
berr mik Dönom ferri
fákr laust drengs í díki,
dægor mætaz nú, fæti.

Þá rída þeir í kaupstadinn at Skörom, oc um strætit fram at gardi Jarls; hann qvad:

Ut muno eckior líta
allsnúdula prúdar
fliód siá reyk hvar rídom
Rögnvallds í bæ gögnom;
Keyrom hross sva heyri
harda lángt at gardi
hesta rás or húsom
hugsvinn kona innan.

## CAP. LXXI.

## FRÁ HIALLTA SKEGGIA SYNI, ER HANN VAR Í SVÍÞIÓD

Einnhvern dag gock Hiallti fyrír konung, oc skálldin med hönom: þá tók Hiallti til máls; sva er, konungr, sem ydr er kunnigt, at ec em her kominn á ydvarn fund, oc hefi ec farit lánga leid oc torsótta: enn sídan er ec kom yfir hafit, oc ec spurda til ydarrar tignar, þá þótti mer ófródligt at fara sva aptr, at eigi hefda ec set ydr oc ydra vegsemd·

Enn þat ero lög milli Islands oc Noregs, at Islendskir menn giallda landaura, er þeir koma til Noregs; enn er ec kom yfir haf, tók ec vid landaurom allra skipara minna. Enn fyrir því at þat veit ec, at þat er rettast, at þer eigot þat velldi er í Noregi er; þá fór ec á ydarn fund, at færa ydr landaurana: Syndi þá konunginom silfrit, oc hellti í skaut Gitzori Svarta X mörkom silfurs. Konungr mællti: fáir hafa oss slikt fært um hríd or Noregi; vil ec nú, Hiallti, kunna ydor þöck oc aufúso fyrir þat, er þer hafit sva mikla stund álagt at færa oss landaurana, helldr enn giallda úvinom vorom. Enn þó vil ec at fe þetta þiggir þú af mer, oc þar med vinátto mína. Hiallti þackadi konungi med mörgom ordom, oc þadan af kom Hiallti ser í hinn mesta kærleika vid konung, oc var opt á tali vid hann; þótti konungi, sem var, at hann var vitr madr oc ordsniallr. Hiallti segir Gitzori oc Ottari, at hann er sendr med iartegnom til traustz oc vinátto til Ingigerdar konungs dóttor, oc bidr at þeir skylldo koma hönom til tals vid hana. Þeir segia ser litit fyrir því, oc gánga einhvern dag til húsa hennar; sat hon þar oc drack med marga menn; hon fagnadi vel skálldonom, þvíat henni voro þeir kunnir. Hiallti bar henni qvedio Ingibiargar kono Jarls oc sagdi, at hon hefdi sendt hann þángat til traustz oc vinátto, oc bar fram iartegnir. Konungs dóttir tók því vel, oc qvad hönom heimila skylldo sína vinátto: Sáto þeir þar lengi dags oc drucko: spurdi konungs dót-

tir Hiallta margra tídinda, oc bad hann þar iafnan koma til tals vid sik. Hann gerdi sva, kom þar optliga, oc taladi vid konungs dóttor, oc sagdi henni þá af trúnadi frá ferd þeirra Biarnar, oc spyrr hana hvat hon hyggr, hvernog Svía konungr muni taka þeim málom, at sætt væri ger milli þeirra konunga. Konungs dóttir svarar, oc qvadz þat hyggia, at þess mundi eigi leita þurfa, at konungr mundi neina sætt gera vid Olaf Digra: sagdi, at konungr var sva reidr ordinn Olafi, at eigi má hann heyra, at hann væri nefndr. Þat var einn dag, at Hiallti sat fyrir konunginom, oc taladi vid hann; var þá konungr allkátr oc druckinn miök. Þá mællti Hiallti til konungs: allmikla tign má her siá margskonar, oc er mer þat at sión ordit, er ec hefir opt heyrt frásagt. at eingi konungr er iafngöfigr á nordlöndom, sem þú, oc allmikill harmr er þat, er ver eigom sva lángt híngat at sækia á ydarn fund, oc sva meinfært, fyrst hafsmegin mikit, enn þá ei fridsamt at fara um Noreg, þeim mönnom er híngat vilia sækia med vináttu: eda hvert leita menn ei um at bera sáttmál medal yckar Olafs Digra? miök heyrda ec þat rætt i Noregi, oc sva i Vestra Gautlandi, at allir mundo þess fúsir vera, at fridr yrdi: oc þat var mer sagt med samindom frá ordom Noregs konungs, at hann væri fúss at sættaz vid ydor; oc veit ec, at þat mun til koma, at hann mun siá þat, at hann hefir miklo minna afla, enn þer hafit. Sva var þat mællt, at hann ætladi at bidia Ingigerdar

dóttor þinnar, oc er slikt vænt til heila sátta; oc er hann hinn mesti merkismadr, at því er ec heyrda rettorda menn frásegia. Þá svarar konungr: eigi skalilto slikt mæla, Hiallti: enn eigi vil ec fyrirkunna þik þessa orda; þvíat þú veitz eigi hvat varaz skal: ecki skal þann hinn digra manninn konung kalla her í minni hird: oc er til hans miklo minna skot, enn margir láta yfir; oc mun þer sva þyckia, ef ec segi þer, at sú mægd má eigi maklig vera; þviat ec em hinn X konungr at Uppsölom, sva hverr eptir annan hefir tekit vorra frænda, oc verit einvalldskonungr yfir Svíavelldi, oc yfir mörgom ödrom stórom löndom, oc verit allir yfirkonungar annara konunga á nordrlöndom. Enn í Noregi er lítil bygd, oc þó sundrlaus: hafa þar verit smákonungar einir; enn Haralldr hinn Hárfagri var mestr konungr í því landi, oc átti hann skipti vid fylkis konunga, oc braut þá undir sik; kunni hann ser þann hagnat, at ágirnaz eigi velldi Svía konungs; leto Svía konungar hann því sitia í fridi; oc enn var þat til, at frændsemi var medal þeirra. Enn þá er Hákon Adalsteins fóstri var í Noregi, þá sat hann í fridi, þar till er hann heriadi á Gautland oc Danmörk. Enn sidan var efldr flockr á hendor hönom, oc var hann felldr frá laundom. Gunnhilldar synir voro oc af lífi teknir, þegar er þeir gerdoz óhlydnir Dana konungi; lagdi þá Haralldr Gormsson Noreg vid sitt ríki oc skattgilldi; oc þótti oss þó Haralldr Gormsson vera minni fyrir ser, enn Uppsala konungar

þvíat Styrbiörn, frændi vorr, kúgadi hann, oc gerdiz Haralldr hans madr. Enn Eiríkr hinn sigrsæli, fadir minn, steig þó yfir höfot Styrbirni, þá er þeir reyndo sín á milli. Enn er Olafr Tryggvason kom í Noreg oc kalladiz konungr, þá letom ver hönom þat eigi lyda; fórom vid Sveinn Dana konungr, oc tókom hann af lífi. Nú hefir ec eignaz Noreg, oc eigi med minna ríki enn þú máttir nú heyra, oc eigi verr atkomiz, enn ec hefi sótt med orosto, oc sigrat þann konung er ádr red fyrir; mátto ætla þat, vitr madr, at þat mun fiarri fara, at ec muni láta laust þat ríki fyrir þeim enom digra manni; oc er þat undarlikt, at hann man eigi þat, er hann kom naudoligazt út or Leginom, þá er ver höfdom hann her inni byrgt; hygg ec at hönom væri þá annat í hug, ef hann qvæmiz med fiörvi í brot, enn þat at hallda optar deilo vid oss Svíana. Nú skallto, Hiallti, hafa eigi optarr í munni þessa rædo fyrir mer. Hiallta þótti óvænt áhorfaz at konungr mundi vilia til lyda sætta umleitanar; hann hætti þá, oc tók adra rædo. Nockoro sídar, þá er Hiallti var á tali vid Ingigerdi konungs dóttor, sagdi hann henni alla rædo þeirra konungs. Hon qvad ser slíkra svara ván af konungi. Hiallti bad hana nockor ord tilleggia vid konung, oc qvadz þat hellz tiá mundo. Hon qvad konungr eigi mundo ályda hvat sem hon mællti: enn um má ec ræda, segir. hon, ef þú villt. Hiallti qvadz þess þöck kunna Ingigerdr konungs dóttir var á tali vid Olaf konung

faudr sinn einnhvern dag; er hon fann at konungi var skaplett; þá mællti hon: hveria ætlan hefir þú á um deilo yckar Olafs Digra? margir menn kæra nú þát vandrædi; kallaz sumir hafa látit fe, sumir frændor fyrir Nordmönnom, enn allir fridland, oc er eingom ydrom mönnom qvæmt í Noreg at sva búno; var þat miök ósynio, er þer kölludot til ríkis í Noregi: er þat land fátækt oc illt yfirfarar, oc fólk ótryggt; vilia menn þar í landi hvern annan helldr at konungi, enn þik. Nú ef ec skyllda ráda, þá mundir þú láta vera kyrt at kalla til Noregs oc kalla eigi til frændleifdar hans, enn brióta helldr í austrveg til ríkis þess er átt hafa forellrar þínir, hinir fyrri Svía konungar, oc nú fyrir skaummo lagdi undir sik Styrbiörn, frændi vorr, enn láta Olaf Digra hafa frændleifd sína, oc gera sætt vid hann. Konungr sagdi reidoliga: þat er þitt rád Ingigerdr, at ec láti af riki í Noregi, enn gipti þik Olafi Digra; nei, segir hann, annat skal fyrr; helldr mun hitt, at í vetr á Uppsala þingi skal ec gera bert fyrir öllom Svíom, at almenningr skal úti at lidi oc skipom, ádr enn ísa taki af vötnom; skal ec þá fara í Noreg, oc eyda þar land allt oddi oc eggio, oc brenna all, oc giallda þeim sva útrúleika sinn: Vard konungr þá sva ódr oc reidr, at hönom mátti eingo ordi svara: Geck hon þá í brott. Hiallti hellt vörd á, oc geck þegar at finna hana: spyr hann þá, hvert erendi hennar vard til konungsins? hon segir, at sva fór, sem hon vænti, at engom

ordom mátti vid konunginn koma, oc hann heitadiz ímót; oc bad hon Hiallta alldri geta þessa máls fyrir konungi. Ingigerdr oc Hiallti, er þau tölodo, ræddo optliga um Olaf Digra: sagdi hann henni opt frá hönom, oc hans háttom, oc lofadi Hiallti Noregs konung sem hann kunni, oc var þat sannast frá at segia; hon let ser þat oc vel skiliaz. Oc enn eitt sinn, er þau töludo, þá mællti Hiallti: hvart skal ec, konungs dóttir, mæla þat fyrir þer í ordlofi, er mer byr í skapi? mæl þú, segir hon, sva at ec heyra ein. Þá mællti Hiallti: hvernog mundir þú svara, ef Olafr Noregs konungr sendi menn til þín, med þeim erendom at bidia þín? hon rodnadi oc svarar óbrátt oc þó stilliliga: eigi hefi ec hugfest svör fyrir mer um þat; þvíat ec ætla, at ec mani eigi þurfa til at taka þessara svára: enn ef Olafr er sva at ser gerr um alla luti, sem þú segir frá hönom, þá mundi ec eigi kunna at æskia minn mann á annan veg, ef eigi er þat þer manit helldr hóli gyllt hafa í marga stadi. Hiallti segir, at engan lut hefir hann betra látit um konunginn, helldr enn var. Þau ræddo þetta sín í milli miök optliga. Ingigerdr bad Hiallta varaz, at mæla þetta fyrir audrom mönnom, fyrir þá sök, at konungrinn mun verda þer reidr, ef hann verdr þessa víss. Hiallti segir þetta skálldonom Gitzori oc Ottari; þeir qvado þat vera et mesta happarád, ef framgengt mætti verda. Ottar var máldiarfr madr oc höfdingia kærr; var hann brátt at þesso máli vid konungs dóttor, oc

taldi upp fyrir henni, slíkt sem Hiallti, um mannkosti Olafs konungs; ræddo þau Hiallti opt öll saman um þetta mál. Oc er þau töludo iafnan, oc Hiallti var sann fródr at ordinn um erendis lok sín, þá sendi hann brot Gautsko menn, er hönom höfdo þannig fylgt; let þá fara aptr til Jarls med brefom þeim er þau Ingigerdr konungs dóttir oc Hiallti sendo Jarli oc Ingibiörgo. Hiallti let oc koma vedr á þau um rædor þær er hann hafdi upphafit vid Ingigerdi, oc sva um svör hennar: Komo sendimenn til Jarls nockoro fyrir Jól.

## CAP. LXXII.

## FERD OLAFS KONUNGS Á UPPLÖND.

Þá er Olafr konungr hafdi sendt þá Biörn austr á Gautland, þá sendi hann adra menn til Upplanda, med þeim erendom at boda veitzlor fyrir ser. Oc ætladi hann at fara þann vetr at veizlom yfir Upplönd; því þat hafdi verit sidr hinna fyrri konunga at fara at veitzlom hinn þridi hvern vetr yfir Upplaund: Hóf hann ferdina um haustit or Borg; fór hann fyrst um Vingulmörk; hann háttadi sva ferdinni, at hann tók veitzlor uppi í nánd markbygdinni, oc stefndi til sín öllom bygdarmönnom, oc þeim öllom vendiligaz, er firrst bygdo megin herödom. Hann rannsakadi at um kristnihalld manna: oc þar er hönom þótti ábóta vant, kendi han þeim retta sido: oc lagdi sva mikit vid, ef nockorir væri þeir, er eigi

eigi villdo afláta heidninni, at suma rak hann brot or landi, suma let hann hamla at höndom edr fótom, edr stínga augo út; suma let hann hengia edr höggva: enn eingan let hann ú-hegndan þann er eigi villdi Gudi þióna: Fór hann sva um allt þat fylki; jafnt hegndi hann ríka oc úríka: hann feck þeim kennimenn, oc setti þá sva þyckt íheradom, sem hann sá at best bar; med þessom hætti fór hann um þetta fylki. Hann hafdi CCC vígra manna þá er hann fór upp á Raumariki. Hönom fanz þat brátt í, at kristnihalldit var því minna, er hann sótti meir á landit upp; hann hellt þó eno sama fram, oc sneri öllom lyd á retta trú, oc veitti stórar refsingar þeim er eigi villdo hlyda hans ordom.

## CAP. LXXIII.

## SVIKRÆDI UPPLENDINGA KONUNGA.

Oc er þat spurdi konungr, er þar red fyrir Raumaríki, þá þótti hönom geraz mikit vandmæli; þvíat hvern dag komo til hans margir menn, er slikt kærdo fyrir hönom, sumir ríkir, sumir úríkir. Konungrinn tók þat rád, at hann fór upp á Heidmörk á fund Ræreks konungs, þvíat hann var þeirra konunga vitraztr, er þar voro þá. Enn er konungar tóko tal sín í milli, þá kom þat ásamt med þeim, at senda ord Gudraudi Dala konungi nordr í Dala, oc

sva á Hadaland, til þess konungs er þar var, oc bidia þá þar koma á Heidmörk til fundar vid þá Rærek konung; þeir lögdoz eigi ferdina undir höfot, oc hittoz þeir fimm konungar á Heidmörk, þar sem heitir á Ringisakri. Hríngr var þar hinn fimti konungr, bródir Ræreks konungs. Þeir konungarnir gánga fyrst einir saman á tal: tók sá fyrst til orda, er kominn var af Raumaríki, oc sagdi frá ferd Olafs konungs Digra, oc þeim ófridi er hann gerdi, bædi í manna aftökom, oc sva í meidzlom; suma rak hann or landi, enn suma gerdi hann virdingarlausa, oc tók upp fe fyrir þeim, er nockot mælto móti hönom, enn fór med her miklom um landit, enn ei med því fiölmenni, er lög voro til; hann segir, at fyrir þeim úfridi qvedz hann hafa þángat flyit, qvad oc marga adra ríkismenn hafa flyit ódol sín af Raumaríki; enn þó at oss se nú þetta vandrædi næst, þá mun skamt til, at þer munot fyrir slíko vandrædi eiga at sitia; oc er nú fyrir því best, at ver rádom um allir saman hvert rád upp skal taka; oc er hann lauk sinni rædo, þá viko konungar þar til svara sem Rærekr var; hann mællti: nú er framkomit, er mik grunadi at vera mundi, þá er ver áttom stefno á Hadalandi, oc þer vorot allir ákafir, at ver skylldom hefia Olaf upp yfir höfot oss, at hann mundi verda oss hardr í horn at taka, þegar er hann hefdi einvalld yfir landi. Nú ero tveir kostir fyrir hendi; sá annar, at ver farim á fund hans allir, oc látim hann skera oc skapa allt

vor í millom, sem hann vill; oc ætla ee oss þann beztan af at taka; enn sá annarr, at rísa nú ímót, medan hann hefir eigi vídara yfir landit farit. Enn þótt hann hafi CCC manna edr CD, þá er oss þat eigi ofrefli lids, ef ver verdom á eino rádi allir. Enn optazt sigraz þeim verr, er fleiri ero saman jafnríkir, helldr enn hinom er einn er oddviti fyrir lidino; oe er því mitt rád helldr at hætta eigi til þess, at etia hamingio vid Olaf konung Haralldsson. Enn eptir þat taladi hverr þeirra konunga slíkt er syndiz: lautto sumir at fara á fund Olafs konungs, enn sumir fysto; oe vard eingi orskurdr rádinn; töldo á hvarotveggia sína anmarka. Þá tók til orda Gudrödr Dala konungr, oe mællti sva: undarligt þieki mer, er þer vefit sva lengi orskurdi um þetta mál, oe erot þer gagnræddir vid Olaf; ver erom her fimm konungar, oe er eingi vorr verr ættborinn helldr enn Olafr. Nú veittom ver hönom styrk til at beriaz vid Sveinn Jarl, oe hefir hann med vorom afla eignaz land þetta. Enn ef hann vill nú fyrirmuna hveriom várom þess ens litla ríkis, er ver höfom ádr haft, oe veita oss nú pindingar oe kúgan; þá kann ec þat fyrir mik at segia, at ec vil færaz undan þrælkan konungs: oe kalla ee þann ydarn eigi at manni vera, er ædraz í því, at ver takim hann af lífdögom, ef hann fer í hendor oss upp hingat á Heidmörk, fyrir því, at þat er ydor at segia, at alldregi striúkom ver friálst höfot medan Olafr er á lífi. Enn eptir eggian þessa snúa

þeir allir at því rádi. Þá mælti Rærekr: sva lítz mer um rádagerd þessa, sem ver manim þurfa ramlikt at gera samband vort, at eingi skiopliz í einardinni vid annan. Nú ætlit þer, at þá er Oláfr kemr híngat á Heidmörk, at veita hönom átgaungo at áqvedinni stefno, þá vil ec eigi þann trúnat undir ydor eiga, at þer seot þá sumir nordr í Dölom, enn sumir út á Heidmörk: Vil ec, ef þetta ráð skal stadfesta med oss, at ver seom ásamt dag oc nótt, þar til er þetta ráð verdr framgengt. Þesso játto konungar, oc fara. Þá allir samt. Þeir láta búa veitzlo fyrir ser út á Ríngisakri, oc drecka þeir hverfing, enn gera niósn frá ser út á Raumaríki: láta þegar adra niósnarmenn útfara, er adrir snúa aptr, sva þeir vito dag oc nótt hvat tidt er um ferdir Olafs, edr um fiölmenni hans. Olafr konungr fór at veitzlom utan um Raumariki, oc allt med þvílikom hættir, sem fyrr var sagt. Enn er veitzlor endoz eigi fyrir fiölmennis sakir, þá let hann þar bændor tilleggia at auka veitzlornar, er hönom þótti naudsyn til bera at dveliaz, enn sumstadar dvalldiz hann skemr enn ætlat var; oc vard hans ferd skiótari, enn áqvedit var upp til vatnsins. Enn er konungar höfdo stadfest þetta ráð sín í milli. Þá senda þeir ord, oc stefna til sín lendomönnom oc ríkom bændom, or öllom þeim fylkiom. Enn er þeir koma þar, þá eigo konungar stefno vid þá eina saman, oc gera fyrir þeim bert þetta ráð, oc qveda á stefnodag, nær sú ætlan skal framqvæmd verda:

á þat kveda þeir, at hverr þeirra konunga skyldi hafa CCC manna: Senda þeir þá aptr lendamenn, til þess at þeir skylldo lidi samna, oc koma til mótz vid konunga, þar sem áqvedit var. Sú rádagerd likadi flestom mönnom vel; enn þó var, sem mællt er, at hverr á vin med úvinom.

## CAP. LXXIV.

## HAMLADIR UPPLENDINGA KONUNGAR

A þeirri stefno var Ketill af Ríngonesi. Enn er hann kom heim um qvelldit, þá matadiz hann at náttverdi; enn sídan klæddiz hann oc húskarlar hans oc fór ofan til vatz, oc tók karfa er Ketill átti, er Olafr konungr hafdi gefit hönom, setto fram skipit; var þar í naustino allr redin; taka þá oc skipaz til ára, oc róa út eptir vatnino. Ketill hafdi XL manna vel vapnada: komo þeir um morguninn snemma út til vatzenda: fór þá Ketill med XX menn, enn let adra XX eptir at gæta skips. Olafr konungr var þá á Eidi á ofanverdo Raumariki. Ketill kom þar þá er konungr geck frá óttosaung; fagnadi hann Katli vel; Ketill sagdi, at hann vill tala vid konung skiótt. þeir gánga á tal tveir saman. þá segir Ketill konungi, hver rád konungarnir hafa med höndom, oc alla tilætlan þá er hann var vís ordinn. Enn er konungr vard þess varr, þá kallar hann menn til sín; sendir suma í bygdina

bad þá stefna til sín reidskiótom; suma sendi hann til vatzins, at taka ródrar skip þau er þeir fengi oc hafa ímóti ser: enn hann geck þá til kyrkio, oc let syngia ser messo, geck sídan þegar til borda. Enn þá er hann hafdi mataz, bióz hann sem skyndiligaz, oc fór upp til vatnsins: komo þar skip ímóti hönom; steig hann þá siálfr á karfann, oc med hönom menn sva margir, sem karfinn tók vid: enn hverr annarra tók ser þar skip sem hellz feck; oc um qvelldit er áleid, leto þeir frá landi; logn var vedrs; þeir rero eptir vatnino; hafdi þá konungrinn nær CD manna: fyrr enn dagadi, kom hann upp til Ríngis-akrs; urdo vardmenn eigi varir fyrr vid, enn lidit kom upp til bæiarins. Þeir Ketill visso gerva í hveriom herbergiom konungarnir svafo; let konungr taka öll þau herbergi, oc gæta at engi madr kæmiz í brot: bido sva lysingar. Konungarnir höfdo eigi lids kost til varnar, oc voro þeir allir höndom teknir, oc leiddir fyrir konung. Rærekr konungr var madr forvitri oc hardrádr; þótti Olafi konungi hann útrúligr, þótt hann gerdi nockora sætt vid hann; hann let blinda Rærek bádom augom, oc hafdi hann med ser. Enn hann let skera túngo or Gudrödi Dala konungi; enn Hríng oc adra tva, let hann sveria ser eida, at þeir skylldi fara í brot or Noregi, oc koma alldrei aptr. Enn lendamenn edr bændor, þá er sannir voro at þessom svikrádom, rak hann suma or landi, sumir voro meiddir, af sumom tók hann sættir. Frá þesso segir Ottar Svarti:

Lytandi hefir lióto
landsrádondom branda
unstillingar allar
ílla folldz of golldit.
Hafa lezto Heidska iöfra
herskordandi fordom
mundangs laun þá er meinom
mætr gramr vid þik sæto.
Braut hafit bödvar þreytir
branda riódr or landi
meirr fanz þinn enn þeirra
þrekr döglinga rekna.
Stöck sem þiód of þeckir
þer hverr konungr ferri:
heptot þer enn eptir
ordreyr þess er sat nordast.
Nú rædr þú fyrir þeirri,
þik remir Gud miklo
folld, er fordom helldo
fimm bragningar, gagni:
Breid ero austr til Eida
ættlannd und þer gondlar
eingr sat ellda þröngvir
ádr at slíko ládi.

Olafr konungr lagdi þá undir sik þat ríki, er þessir fimm konungar höfdo átt: tók þá gislar af lendommönnom oc bændom. Hann tók veitzlo-giölld nordan or Dölom, oc vída um Heidmörk, oc sneri þá út aptr á Raumaríki, oc þá vestr á Hadaland. Þann vetr andadiz Sigurdr Syr, mágr hans. Þá sneri Olafr konungr á Ringaríki; oc gerdi Asta módir hans mikla veitzlo ímóti hönom: Bar þá Olafr einn konungs-nafn í Noregi.

## CAP. LXXV.

## FRÁ BRÆDROM OLAFS KONUNGS.

Sva er sagt, at Olafr konungr var á veitzlonni med Asto módr. sinni, at hon leiddi fram börn sín, oc syndi hönom. Konungrinn setti á kne ser Guttorm bródr sinn, enn á annat kne Halfdan bródr sinn. Konungrinn sá á sveinana; þá ygldiz hann, oc leit reidoliga til þeirra; þá glupnado sveinarnir. Þá bar Asta til hans hinn yngsta son sinn, er Haralldr het; þá var hann þrevetr. Konungrinn ygldiz á hann: enn hann sá upp imót hönom. Þá tók konungr í hár sveininom oc kipti, enn sveininn tok upp í kampinn konunginom, oc hnykti. Þá mællti konungrinn: hefnisamr munto sidarr frændi. Annan dag reikadi konungr úti um bæinn, oc Asta módir hans med hönom: þá gengo þau at tiörn nockori: þar voro þá sveinarnir, synir Asto, at leika ser, Guttormr oc Hálfdan. Þar voro gervir bæir stórir oc kornlödor stórar, naut mörg oc saudir; þat var leikr þeirra. Skamt þadan frá vidr tiörnina hiá leirvik nockorri var Haralldr, oc hafdi þar trespáno, oc fluto þar vid landit margir. Konungrinn spurdi hann, hvat þat skylldi? hann qvad þat vera herskip sín. Þá hló konungr at, oc mællti: vera kann, frændi, at þar komi at þú rádir fyrir skipom. Þá kalladi konungr þángat Hálfdan oc Guttorm. Þá spurdi hann Guttorm: hvat villdir þú flest eiga, frændi? akra, segir hann. Konungr mællti: hverso vída akra

mundir þú eiga vilia? hann svarar: þat villda ec, at nesit væri þetta allt sáit hvert sumar, er útgengr í vatnit. Enn þar stódo X bæir. Konungrinn svarar: mikit korn mætti þar ástanda. Þá spurdi konungr Hálfdan, hvat hann villdi flest eiga? kyr, segir hann; konungr svarar: hverso margar villdir þú kyr eiga? Hálfdan sagdi: þá er þær gengi til vatns, skylldo þær standa sem þyckst umhverfis vatnit. Konungrinn svarar: bú stór vilit þit eiga; þat er likt fedor yckrom. Þá spyr konungr Haralld: hvat villdir þú flest eiga? hann svarar: húskarla, segir hann. Konungr mællti: hve marga villto þá eiga? þat villda ec, at þeir æti at eino máli kyr Hálfdanar bródor míns. Konungr hló at, oc mællti til Asto: her munto konung uppfæda, módir. Eigi er þá getit fleiri orda þeirra.

## CAP. LXXVI.

## FRÁ LANDSDEILLD Í SVÍÞIÓD OC LÖGOM.

I Sviþiód var þat forn sidr, medan heidni var þar, at höfot-blót skylldi vera at Uppsölom at Góe: skylldi þá blóta til fridar oc sigurs konungi sínom, oc skylldo menn þángat sækia um allt Svíavelldi. Skylldi þar þá oc vera þing allra Svía. Þar var oc þá markadr oc kaupstefna oc stód viko. Enn er kristni var í Sviþiód, þá hellz þar þó lögþing oc markadr. Enn nú sídan er kristni var alsida í Sviþiód,

enn konungar afræktoz at sitia at Uppsölom, þá var færdr markadrinn oc hafdr Kyndilmesso; hefir þat halldiz alla tíd sídan, oc er nú hafdr eigi meiri enn þriá daga: Er þar þíng Svía, oc sækia þeir þar til um allt land. Svìavelldi liggr í mörgom lutom: einn lutr er Vestra-Gautland oc Vermaland oc Markir, oc þat er þar liggr til: oc er þat sva mikit ríki, at undir þeim biskopi er þar er yfir, ero XI hundrot kyrkna. Annar lutr lands er Eystra-Gautland; þar er annar biskupsdómr; þar fylgir nú Gotland oc Eyland, oc er þat allt saman miklo meira biskups velldi. I Svíþiód siálfri er einn lutr lands, er heitir Sudrmannaland; þat er einn biskupsdómr. Þá heitir Vestmannaland edr Fiaþryndaland; þat er einn biskupsdómr. Þá heitir Tíundaland hinn þridi lutr Svíþiódar: þá heitir hinn fiórdi Attandaland; þá er hinn fimti Siáland, oc þat er þar liggr til hit eystra med hafino. Tíundaland er best oc göfgast byggt í Svíþiód; þángat lytr til allt ríkit; þar ero Uppsalir; þar er konungsstóll, oc þar er Erkibiskops stóll, oc þar er vidkenndr Uppsala audr: sva kalla Svíar eign Svía konungs, kalla Uppsala aud: I hverri þeirri deild landsins, er sitt lögþing oc sín lög um marga luti: yfir hveriom lögom er lögmadr; oc rædr hann mesto vid bændor; þvíat þat skulo lög vera, er hann rædr upp at qveda. Enn ef konungr, edr Jarl, edr biskupar fara yfir landit, oc eigo þíng vid bændor, þá svarar lögmadr af hendi bónda: enn þeir fylgia hönom allir, sva at valla þora ofreflis-

menn at koma á alþíngi þeirra, ef eigi lofa bændor oc lögmadr. Enn þar allt er lögin skilr á, þá skulo öll hallaz til mótz vid Uppsalalög: oc adrir lögmenn allir skulo vera undirmenn þess lögmans, er á Tíundalandi er.

## CAP. LXXVII.

## FRÁ ÞÓRGNÝ LÖGMANNI.

Þá var á Tíundalandi sá lögmadr er Þórgnyr het; fadir hans er nefndr Þórgnyr Þórgnyssson. Þeir lángfedgar höfdo verit lögmenn á Tíundalandi um margra konunga æfi. Þórgnyr var þá gamall; hann hafdi um sik mikla hird; hann var kalladr vitrastr madr í Svíavelldi; hann var frændi Rögnvallds Jarls, oc fóstrfadir hans.

## CAP. LXXVIII.

## FUNDR RÖGNVALLDS JARLS, OC INGIGERDAR KONUNGS DÓTTOR Á ULLARAKRI.

Nú er þar til máls at taka, er þeir menn komo til Rögnvallds Jarls, er Ingigerdr konungs dóttir oc þau Hiallti höfdo sendt austan: báro þeir fram sín erendi fyrir Rögnvalld Jarl, oc Ingibiörgo, kono hans, oc sögdo þat, at konungs dóttir hefdi opt rætt [1]yrir Svía konungi um sættir milli þeirra Olafs kon-

ungs Digra, oc hon var hinn mesti vinr Olafs konungs, enn Svía konungr vard reidr hvert sinni er hon gat Olafs, oc henni þótti engi ván um sættirnar at sva búno. Jarl sagdi Birni hvat hann hafdi austan spurt; enn Biörn sagdi enn hit sama, at hann mundi eigi fyrr aptrhverfa, enn hann hitti Svía konung, oc segir at Jarl hefir hönom því heitit, at hann skal fylgia hönom á fund Svía konungs. Nú lidr fram vetrinom, oc þegar á bak Jólom byr Jarl ferd sína, oc hefir LX manna; þar var í för Biörn Stallari oc hans föronautar: Fór Jarl austr allt í Svíþiód. Enn er hann sótti upp í landit, þá sendi hann menn sina fram fyrir til Uppsala, oc sendi ord Ingigerdi konungs dóttor, at hon skylldi fara út á Ullarakr á móti hönom: þar átti hon bú stór. Enn er konungs dóttor komo ord Jarls, þá lagdiz hon eigi ferdina undir höfot, oc bióz hon med marga menn. Hiallti redz til farar med henni. Enn ádr hann fór í brot, geck hann fyrir Olaf konung oc mællti: sitto allra konunga heilastr, oc er þat satt at segia, at ec hefi hvergi þar komit, er ec hefi slika tign set, sem med þer; skal ec þat ord bera hvar sem ec kem sidan: Vil ec þess bidia ydor, konungr, at þú ser vinr minn. Konungr svarar: hví lætr þú sva brautfúsliga? hvert skallto fara? Hiallti svarar: ec skal rida út á Ullarakr med Ingigerdi dóttor þinni. Konungr mællti: far þú þá vel; vitr madr erto oc sidugr, oc kant vel at vera med tignom mönnom: Geck þá Hiallti í brot. Ingigerdr kon-

ungs dóttir reid til búss síns út á Ullarakr: let þar búa veitzlo mikla ímót Jarli. Þá kom Jarl þar, oc var hönom vel fagnat: dvaldiz hann þar nockorar nætor: Töludo þau konungs dóttir margt, oc flest um þá Svía konung oc Noregs konung: segir hon Jarli, at henni þyckir óvænt horfa um sættirnar. Þá mællti Jarl: hvernig er þer gefit, frændkona, um þat, ef Olafr Noregs konungr bidr þín; syniz oss þat sem hellz muni til sætta einhlitt, ef mægdir þær mætto takaz milli þeirra konunga. Enn ec vil ecki gánga med því máli, ef ec veit þat er þvert frá þínom vilia. Hon segir: fadir minn mun siá kost fyrir mer; enn annarra minna frænda erto sá, er ec vil hellz mín rád undir eiga, þau er mer þickir miklo máli skipta; eda hve rádligt syniz þer þetta? Jarl fysti hana miök, oc taldi marga luti til frama um Olaf konung, þá er stórvegligir voro: sagdi henni inniliga frá þeim atburdom, er þá höfdo fyrir skemzto gerz, er Olafr konungr hafdi handtekna gert fimm konunga á einom morgni, oc tekit þá alla af ríki, enn lagt þeirra eignir oc ríki vid sitt velldi. Margt ræddo þau um þetta mál, oc urdo á allar rædor vel sátt sín á milli: Fór Jarl í brott, er hann var at því buinn. Hiallti fór med hönom.

## CAP. LXXIX.

## FRÁ RÖGNVALLDI OC ÞÓRGNÝ LÖGMANNI.

Rögnvalldr Jarl kom einn dag at qvelldi til búa

Þórgnys Lögmans; þar var bær mikill oc storkostligr: voro þar margir menn úti; þeir fögnodo vel Jarli, oc tóko vid hestom þeirra oc reida. Jarl geck inn í stofona: var þar inni fiölmenni mikit; þar sat í öndugi madr gamall; engann mann höfdo þeir Biörn set iafnmikinn; skeggit var sva sítt, at lá í kniám hönom, oc breiddiz um alla bringuna: hann var vænn madr oc göfugligr. Jarl geck fyrir hann oc heilsadi hönom. Þórgnyr fagnar hönom vel, oc bad hann gánga til sætis þess, er hann var vanr at sitia í. Jarl settiz ödrom megin gegnt Þórgny; þeir dvöldoz þar nockorar nætor, ádr Jarl bar upp erendi sín: bad hann, at þeir Þórgnyr skylldo gánga í málstofo. Þeir Biörn föronautar gengo þànnog med Jarli: þá tók Jarl til máls, oc sagdi frá [a]því at Olafr Noregs konungr hafdi senda menn sína austr þannog til fridgerdar: taladi oc um þat lángt, hvert vandrædi Vestr-Gautom var at því, er ófridr var þadan til Noregs; hann sagdi frá því, at Olafr Noregs konungr hafdi þángat senda menn, oc þar voro þá sendimenn konungs, oc hann hafdi þeim því heitit, at fylgia þeim á fund Svía konungs; oc hann sagdi, at Svía konungr tók þesso máli sva þúngt, at hann let eingom manni lyda skylldo, at gánga med þesso máli. Nú er sva, fóstri, segir Jarl, at ec verd eigi einhlítr at þesso máli; hefir ec nú fyrir því sótt á þinn fund, oc vætti ec þar heilla ráda oc traustz þíns. Enn er Jarl hætti síno máli, þá þagdi Þórgnyr um hríd; enn er hann tók til

máls, mælti hann: undarliga skiptiz þer til, girniz at taka tignarnafn, enn kunnit ydor eingi forrád edr fyrirhyggio, þegar er þer komit í nockorn vanda; hví skylldir þú ei hyggia fyrir því, ádr þú hetir þeirri ferd, at þú hefir eigi ríki til þess, at mæla ímót Olafi konungi; þicki mer þat eigi óvirdiligra, at vera í bóanda tölo, oc vera friáls orda sinna, at mæla slíkt er hann vill, þótt konungr se hiá. Nú man ec komma til Uppsala þíngs, oc veitta þer þat lid, at þú mælir þar óhræddr fyrir konungi slíkt er þer líkar.' Jarl þackadi hönom vel þessi heit: oc dvaldiz hann med Þórgny, oc reid med hönom til Uppsalaþíngs: Var þar allmikit fiölmenni; þar var Olafr konungr med hird sinni.

## CAP. LXXX.

## FRÁ UPPSALA ÞINGI.

Hinn fyrsta dag, er þíng var sett, sat Olafr konungr á stóli, oc þar hird hans umhverfis. Enn annan veg á þíngino sáto þeir á stóli einom Rögnvalldr Jarl oc Þórgnyr, oc sat þar fyrir þeim hird Jarls, oc húskarla sveit Þórgnyrs; enn á bak stólinom stód bónda múgrinn, oc allt umhverfis í hríng. Sumir fóro á hædir oc hauga at heyra þadan til. Enn er tölot voro erendi konungs, þau sem sidr var til at mæla á þíngom, oc er því var lokit, þá stód upp Biörn Stallari hiá stóli Jarls, oc mællti

hátt: Olafr konungr sendi mik híngat þess erindis, at hann vill bióda Svía konungi sætt, oc þat landskipti, sem at forno fari hefir verit milli Noregs oc Svíþiódar. Hann mælti hátt, sva at Svía konungr heyrdi gerva. Enn fyrst er konungr heyrdi nefndan Olaf konung, þá hugdi hann, at sá mundi reka nockot erindi; enn er hann heyrdi rætt um sætt oc landaskipti milli Svíþiódar oc Noregs, þá skildi hann af hveriom rifiom rísa mundi; þá hlióp hann upp oc kalladi hátt, at sá madr skylldi þegia, oc qvad slíkt ecki tiá mundo. Biörn settiz þá nidr. Enn er hliód feckz, þá stód Rögnvalldr Jarl upp oc mællti; hann sagdi frá ordsending Olafs Digra, oc sættarbodom vid Olaf Svía konung, oc frá því at Vestr-Gautar sendo Olafi konungi öll ord til, at sætt skylldi gera vid Noregs konung: taldi hann upp hvert vandrædi Vestr-Gautom var at því, at missa þeirra luta allra af Noreg, er þeim var árbót í, enn í annan stad at at sitia fyrir álaupom þeirra oc hernadi, ef Noregs konungr samnadi her saman, oc heriadi á þá. Jarl sagdi oc, at Olafr Noregs konungr hafdi menn þángat sendt þeirra erenda, at hann vill bidia Ingigerdar dóttor hans. Enn er Jarl hætti at tala, þá stód upp Olafr Svía konungr: hann svarar þúngliga um sættina, enn veitti Jarlinom átölor þúngar oc stórar um dirfd þá, er hann hafdi gert grid oc frid vid hinn digra mann, oc

lagt

lagt vid hann vinátto: taldi hann samman at landrádom vid sik: qvad þat maklikt, at Rögnvalldr Jarl væri rekinn or ríkino, oc sagdi at allt slíkt hlaut hann af áeggian Ingibiargar kono sinnar, oc qvad þat verit hafa ósniallasta rád, er hann skylldi fengit hafa at girndom slíkrar kono. Hann taladi lángt oc hart, oc sneri þí enn tölunni á hendor Olafi Digra. Enn er hann sittiz nidr, þá var fyrst hliótt.

## CAP. LXXXI.

## TALA ÞÓRGNÝRS LÖGMANS.

Þá stód upp Þórgnyr: enn er hann stód upp, þá stódo upp allir bændor, þeir er ádr höfdo setit, oc þusto at allir, þeir er í ödrom stödom höfdo verit, oc villdo lyda til hvat Þórgnyr mælti: Var þá fyrst gnyr mikill af fiölmenni oc vapnom: enn er hliód feckz, þá mællti Þórgnyr: annan veg er nú skaplyndi Svía konunga, enn fyrr hefir verit. Þórgnyr faudorfadir minn mundi Eirik Uppsala konung Eymundarson, oc sagdi þat frá hönom, at medan hann var á lettasta alldri, at hann hafdi hvert sumar leidánger úti, oc fór til ymissa landa, oc lagdi undir sik Finnland oc Kyriale, Eystland oc Curland, oc vida um Austrlönd; oc mun enn siá þær iardborgir, oc önnor stórvirki þau er hann gerdi: oc var hann ei sva mikillátr, at eigi lyddi hann mönnom, ef skyllt átto vid hann at ræda. Þórgnyr fadir minn

var med Birni konungi lánga æfi; var hönom hans sidr kunnigr; stód um æfi Biarnar hans ríki med styrk miklom, enn engom þurd; var hann dæll sínom vinom. Ec má muna Eirík konung hinn sigrsæla, oc var ec med hönom í mörgom herförom: jók hann ríki Svía, enn vardi hardfengliga; var oss gott vid hann rádom at koma. Enn konungr þessi, er nú er, lætr eingi mann þora at mæla vid sik, nema þat eina, er hann vill vera láta; oc hefir hann þar vid allt kapp; enn lætr skattlaund sín undan ser gánga af elianleysi oc þrekleysi; hann girniz þess at hallda Noregs velldi undir sik, er eingi Svía konungr hefir þat fyrr ágirnzt, oc gerir þat mörgom manni óró. Nú er þat vili vor bóandanna, at þú, Olafr konungr, gerir sætt vid Olaf Digra Noregs konung, oc giptir hönom dóttor þína Ingigerdi. Enn ef þú villt vinna aptr undir þik ríki þau í Austrvegi, er frændor þínir oc forellri hafa þar átt, þá viliom ver allir fylgia þer þar til. Med því at þú villt eigi hafa þat, er ver mælom, munom ver veita þer atgaungo, oc drepa þik, oc þola þer eigi ófrid oc ólaug; hafa sva gert hinir fyrri forellrar vorir; þeir steypto fimm konungom í eina kelldo á Múlaþíngi, er ádor höfdo uppfyllz ofmetnadar, sem þú vid oss: seg nú skiótt hvern kost þú villt upptaka. Þá gerdi lydrinn þegar vapnabrak, oc gny mikinn. Konungrinn stendr þá upp, oc mællti, segir, at allt vill hann vera láta, sem bændor vilia; segir, at sva hafi gert allir Svía konungar, at láta bændor ráda med

ser, öllo því er þeir villdo: Stadnadi þá kurr bóndanna. Enn þá töludo höfdingiar, konungr, oc Jarl oc Þórgnyr, oc gera þá frid oc sátt af hendi Svía konungs, eptir því sem Noregs konungr hefir ádr ord til send; var á því þingi þat rádit, at Ingigerdr, dóttir Olafs konungs, skylldi vera gipt Olafi konungi Haralldsyni: Selldi konungr Jarli í hendor festar hennar, oc feck hönom i hendor allt sitt umbod um þann rádahag: oc skildoz þeir á þingino at sva loknom málom. Enn er Jarl fór heim; þá hittoz þau Ingigerdr konungs dóttir, oc tölodo sín í milli um þetta mál. Hon sendi Olafi konungi slædor af pelli gullsaumadar miök, oc silkiræmor: Fór Jarl aptr í Gautland, oc Biörn med hönom. Biörn dvaldiz þar litla stund, oc fór hann þá aptr í Noreg med föroneyti síno. Oc er hann hitti Olaf konung, oc sagdi hönom erendislok þau sem voro, þackadi konungr hönom vel ferdina, oc sagdi, sem var, at Biörn hafdi gæfo tilborit, at koma fram erendino í úfridi þesom.

## CAP. LXXXII.

## FRÁ SVIKOM HRÆREKS KONUNGS.

Olafr konungr fór er váradi út til sævar, oc let búa skip sín, oc stefndi til sín lidi, oc fór um várit allt út eptir Víkinni til Lidandisnes, oc allt fór hann nordr á Hördaland: Sendi þá ord öllom lendom mönnom, oc nefndi alla hina rikosto menn or

herodom, oc bió þá ferd sem vegligast, er hann fór ímót festarkono sinni. Veitzla sú skylldi vera um haustit austr vid elfi, vid landamæri. Olafr konungr hafdi med ser Rærek konung blinda. Enn er hann var gróinn sára sinna, þá feck Olafr hönom tvo menn til þiónosto vid hann, oc let hann sitia í hásæti hiá ser, oc hellt hann at dryck oc at klædom eingom mun verr, enn hann hafdi ádr halldit sik siálfr. Rærekr var fámáligr, oc svaradi stirdt oc stutt, þá er men ordto orda á hann; þat var sidvenia hans, at hann let skósveinn sinn leida sik úti um daga, oc frá ödrom mönnom: þá bardi hann knapann. Enn er hann hlióp frá hönom, þá segir hann Olafi konungi, at sá sveinn villdi hönom eigi þióna. Þá skipti Olafr konungr vid hann þiónosto mönnom; oc fór allt sem ádr, at eingi þiónostomadr hellz vid med Rærek konungi. Þá feck Olafr konungr til fylgdar oc til gæzlo vid Rærek þann mann, er Sveinn het; oc var hann frændi Ræreks konungs oc hafdi verit hans madr ádr. Rærekr hellt teknom hætti um stirdlæti, oc sva um einfarir sínar. Enn er þeir Sveinn voro tveir saman staddir, þá var Rærekr kátr oc málrætinn: hann minntiz þá á marga luti, þá er fyrr höfdo verit, oc þat er um hans daga hafdi atboriz, þá er hann var konungr; oc minntiz á æfi sína ena fyrri, oc sva á þat, hverr því hafdi brugdit, hans ríki oc sælo, enn gert hann at ölmusomanni. Enn hitt þicki mer þó allra þyngst, segir hann, er þú, edr adrir frændor mínir, þeir er

mannvænir höfdo verit, skulo nú verda sva miklir ættlerar, at eingrar svívirdingar skulo hefna, þeirrar er á ætt vorri er ger; þvílíkar harmtölor hafdi hann opt uppi. Sveinn svarar, oc segir, at þeir ætto vid ofreflismenn mikla at skipta, enn þeir ætto þá litla kosti. Rærekr mællti: til hvers skulom ver leng[1] lifa vid skömm oc meidzlor? nema sva beri til, at ec mætti blindr sigraz á þeim, er mik sigradi sofanda; sva heilir drepom Olaf Digra. Hann óttaz nú eigi at ser; ec skal rádit tilsetia, oc eigi villda ec hendornar tillspara, ef ec mætta þær nyta, enn þat má ec eigi fyrir sakir blindleiks; oc skalltú fyrir því bera vapn á hann. Enn þegar er Olafr er drepinn, þá veit ec þat af forspá, at ríkit hverfr undir úvini hans. Nú kann vera, at ec yrda þá konungr: þá skallto vera Jarl minn. Sva komo fortölor hans, at Sveinn iátadi at fylgia þesso órádi. Sva var ætlat rádit, at þá er konungr bióz at gánga til aptansaungs, stód Sveinn út í svölunom oc hafdi brugdit sax undir yfirhöfninni; enn er konungr geck út or stofunni, þá bar hann skiótara at, enn Sveinn vardi, oc sá hann í andlit konunginom; þá bliknadi hann, oc vard fölr sem nár, oc felloz hönom hendor. Konungr fann á hönom rædzlo mikla, oc mællti: hvat er nú Sveinn? villto svikia mik? Sveinn kastadi yfirhöfninni frá ser oc saxino, oc fell till fóta konungi oc mællti: allt á Guds valldi oc ydro, konungr. Konungr bad menn sína taka Sveinn, oc var hann í iárn settr. Þá let konungr færa sæti

Rærekr á annan pall. Enn hann gaf grid Sveini; oc fór hann af landi í brot. Konungr feck þá Ræreki annat herbergi at sofa í, enn þat er hann svaf siálfr í; svaf í því herbergi margt hirdmanna; hann feck til tvo hirdmenn, at fylgia Ræreki dag oc nótt; þeir menn höfdo lengi verit med Olafi konungi, oc hafdi hann þá reynt at trúleik vid sik; eigi er þess getit, at þeir væri ætt-stórir menn. Rærekr konungr gerdi ymist, at hann þagdi marga daga, sva at eingi madr feck ord af hönom; enn stundom var hann sva kátr oc gladr, at þeim þótti at hverio ordi gaman því er hann mællti: enn stundom mællti hann fátt oc íllt eino. Sva var oc, at stundom drack hann hvern af stocki, oc gerdi alla ófæra er nær hanom varo; enn optazt drack hann lítit. Olafr konungr feck honom vel skotsilfr. Opt gerdi hann þat, þá er hann kom til herbergis, ádr hann lagdiz til svefns, at hann let taka inn miöd, nockorar byttor, oc gaf at drecka öllom herbergis mönnom; af því vard hann þockasell.

## CAP. LXXXIII.

## FRÁ FINNI LITLA.

Madr er nefndr Finnr Litli, Upplendskr madr, enn sumir segia, at hann væri Finnskr at ætt: hann var allra manna minnztr, oc allra manna fóthvataztr, sva at eingi hestr tók hann á rás. Hann kunni man-

na best vid skid oc boga; hann hafdi lengi verit þiónostomadr Rærεks konungs, oc farit opt erenda hans, þeirra er trúnadar þurfti vid; hann kunni vega um öll Upplönd; hann var oc málkunnigr þar öllo stórmenni. Enn er Rærekr konungr var tekinn í fara-gæzlo, þá slóz Finnr i ferd þeirra, oc fór hann optast í sveit med knöpom oc þiónustomönnom: Enn hvert sinn er hann mátti, þá kom hann til þiónosto vid Rærek konung, oc opt í tal, oc villdi konungr skömmom samfast mæla vid hann, oc villdi eigi gruna láta tal þeirra. Enn er áleid várit, oc þeir sótto út í Vikina, þá hvarf Finnr í brot frá lidino nockora daga; þá kom hann enn aptr, oc dvaldiz um hríd. Sva fór opt fram, oc var at því eingi gaumr gefinn, þvíat margir voro umrenningar med lidino.

## CAP. LXXXIV.

## DRÁP HIRDMANNA OLAFS KONUNGS.

Olafr konungr kom til Tunsbergs fyrir Páska, oc dvaldiz þar miök lengi um vorit: þar kom þá til bæarins margt kaupskipa bædi Saxar oc Danir, oc austan or Vík oc nordan or landi: Var þar allmikit fiölmenni. Þá var ár mikit, oc dryckior miklar. Þat barsk at á eino qvölldi, at Rærekr konungr var kominn til herbergis; oc helldr sídla, oc hafdi miök druckit, oc var þá allkátr, þá kom þar Finnr Litli med miadar bytto; oc var þat grasadr miödr oc hinn

sterkasti. Þá let konungrinn gefa at drecka öllom þeim er inni voro, allt til þess er hver sofnadi í sini rúmi. Finnr var þá i brot genginn; liós brann í herbergino. Þá vakti hann upp menn þá, er vanir voro at fylgia hönom, oc segir, at hann vill gánga til gards. Þeir höfdo skridliós med ser, enn nida-myrkr var úti; mikit salerni var í gardinom, oc stód á stöfom, enn rid upp at gánga til dyranna. Enn er þeir Rærekr sáto i gardinom, þá heyrdo þeir at madr mællto: högg þú fiandann. Þá heyrdo þeir brest, oc dett, sem nockot felli. Rærekr konungr mællti: fulldrnckit muno þeir hafa er þar eigoz vid; farit til skiótt, oc skilit þá. Þeir bioggoz skyndiliga, oc hlópo út: enn er þeir komo á ridit, þá var sá höggvinn fyrr er sidar geck, oc drepnir þó bádir. Þar voro komnir menn Rærekr konungs, Sigurdr Hit, er verit hafdi merkismadr hans, oc þeir XII saman; þar var þá Finnr Litli. Þeir drógo likin upp milli húsanna, enn tóko konunginn, oc höfdo med ser; hlópo þá á skúto, er þeir átto, oc rero í brott. Sigvatr skálld svaf í herbergi Olafs konungs; hann stód upp um nóttina, oc skósveinn hans med hönom, oc gengo út til hins mikla salernis. Enn er þeir skylldo aptr gánga, oc ofan fyrir ridit, þá skridnadi Sigvati fótr oc fell á knc; oc stack nidr höndonom, oc var þar vott undir; hann mællti: þat hygg ec, at nú í qvelld muni konungrinn hafa mörgom oss fengit karfa fótinn, oc hló at. Enn er þeir komo í herbergit, þar sem

brann, þá spurdi skósveinninn: hefir þú skeint þik? edr hvi ertú í blódi eino allr? hann svarar: eigi em ec skeindr, enn þó mun þetta tídindom gegna. Hann vakti þá þórd Folason, merkismann oc reckiofelaga sinn, oc gengo þeir út, oc höfdo med ser skridliós, oc fundo brátt blódit; þá leitudo þeir, oc fundo brátt líkin, oc báro á kennzl; þeir sá oc at þar lá trestobbi mikill, oc skylihögg mikill, oc syndiz þat sídan, at þat hafdi gert verit til ólikinda, at teygia þá út, er drepnir voro. Þeir Sigvatr mælllo sín í milli, at naudsyn væri til at konungr vissi þessi tídindi sem brádazt; þeir sendo sveininn þegar til herbergis þess, er Rærekr konungr hafdi verit; þar svafo menn allir, enn konungr var í brotto. Hann vakti þá menn er þar voro inni, oc sagdi tídindi; Stódo menn upp, oc föro þegar þannog í gardinn sem líkin voro. Enn þó at naudsyn þætti til at konungr vissi sem fyrst þessi tídindi, þá þordi eingi at vekia hann. Þá mælti Sigvatr til Þórdar: hvert villtú helldr lagsmadr, vekia konunginn, edr segia hönom tídindin? Þórdr svarar: fyrir eingan mun þori ec at vekia hann: enn segia mun ec hönom tídindin. Þá mællti Sigvatr: mikit er enn eptir næturinnar, oc kann vera ádr dagr se, at Rærekr hafi fengit ser þat fylskni, at hann verdi sídan eigi audfundinn: enn þeir muno enn skamt brotkomnir, þviat líkin voro vörm: Skal oss alldregi henda sú skömm, at ver látom eigi konunginn vita þessi svik; gack þú, Þórdr, upp í herbergit, oc bíd min þar:

Þá geck Sigvatr til kyrkio, oc vakti kluckarann, oc bad hann hringia fyrir sál hirdmanna konungs, oc nefndi mennina, þá er vegnir voro. Kluckarinn gerir sem hann bad. Enn vid hringingina vaknadi konungr, oc settiz upp; hann spurdi hvert þá væri óttosaungs mál. Þórdr svarar; verri efni í, tidindi mikill ero ordin; Rærekr er á brott horfinn, enn drepnir hirdmenn ydar tveir. Þá spurdi konungr eptir atburdom þeim, er þar höfdo ordit. Þórdr segir hönom slikt er hann vissi. Þá stód konungr upp, oc let blása til hirdstefno. Enn er lidit kom saman, þá nefndi konungr menn til, at fara alla vega frá bænom, at leita Ræreks á sæ oc landi. Þórir Lángi tók skúto, oc fór med XXX manna; oc er lysti, siá þeir skútor tvær litlar fara fyrir þeim. Enn er þeir sáz, rero hvarir sem mest mátto. Þar var Rærekr konungr, oc hafdi XXX manna. Enn er saman dró med þeim, þá snero þeir Rærekr at landi, oc liópo þar upp á land allir, nema konungr settiz upp í lyptingina. Hann mællti, bad þá vel fara oc heila hittaz. Því næst rero þeir Þórir at landi. Þá skaut Finnr Litli öro, oc kom sú á Þóri midian, oc feck hann bana; enn þeir Sigurdr liópo allir í skóginn. Enn menn Þóris tóko lik hans, oc sva Rærek konung, oc flutto út til Túnsbergs. Olafr konungr tók þá vid halldi Ræreks konungs: hann let þá vandliga gæta hans, oc gallt mikinn varhuga vid svikom hans: feck til menn nótt

oc dag at gæta hans. Rærekr konungr var þá hinn kátasti, oc fann eingi madr á hönom, at eigi likadi hönom allt sem best.

## CAP. LXXXV.

## FRÁ TILRÆDI RÆREKS KONUNGS.

Þat barsk at Uppstigningardag, at Olafr konungr geck til hámesso; þá geck biskop med processio um kyrkio oc leiddi konunginn, enn er þeir komo aptr í kyrkio, þá leiddi biskop konung til sætis síns fyrir nordan í kórnom; enn þar sat it næsta Rærekr konungr, sem hann var vanr; hann hafdi yfirhöfnina fyrir andliti ser. Enn er Olafr konungr hafdi nidrsetz, þá tók Rærekr konungr á öxl hönom hendinni oc þrysti; hann mællti: pellzklædi hefir þú nú, frændi, segir hann. Olafr konungr svarar: nú er hátid mikil halldin í minning þess, er Jesus Cristus ste til himna af iördo. Rærekr konungr svarar: eck[1] skil ec af, sva at mer hugfestiz, þat er þer segit frá Cristi; þicki mer þat margt helldr útrúligt, er þer segit; enn þó hafa mörg dæmi ordit í forneskio. Enn er messan var upphafin, þá stód Olafr konungr upp, oc hellt upp höndonom yfir höfot ser, oc laut til altaris, oc bar yfirhöfnina aptr af herdom hönom. Rærekr konungr spratt þá upp skiótt oc hart; hann lagdi þá til Olafs konungs saxknifi þeim

er rytingr er kalladr; lagit kom í yfirhöfnina vid herdarnar, er hann hafdi lotit undan; skároz miök klædin, enn konungr vard eigi sárr. Enn er Olafr konungr fann þetta tilrædi, þá hlióp hann fram vid á gólfit. Rærekr konungr lagdi til hans annat sinn saxino, oc misti hans, oc mælti: flyr þú nú, Olafr Digri, fyrir mer blindom. Konungr bad sina menn taka hann, oc leida hann út or kyrkionni, oc sva var gert. Eptir þessa atburdi eggiodo menn Olaf konung, at láta drepa Rærek konung; oc er þat, sögdo þeir, hin mesta gæfo raun ydor, konungr, at hafa hann med ydor, oc þyrma hönom, hverigar óhæfor, er hann teker til; enn hann liggr um þat nótt oc dag, at veita ydor liflát. Enn þegar er þer sendit hann á brot frá ydor, þá siáom ver eigi mann til þess, at sva fái gætt hans, at örvænt se, at hann komiz í brot. Enn ef hann verdr laus, þá man hann þegar flock uppi hafa, oc gera margt illt. Konungr svarar: rett er þat mællt, at margr hefir dauda tekit, fyrir minni tilgerdir, enn Rærekr; enn traudr em ec at tyna þeim sigri, er ec feck á Upplendinga konungom, er ec tók þá fimm á einom morgni, oc náda ec sva öllo ríki þeirra, at ec þurfta einskis þeirra banamadr at verda, þvíat þeir voro allir frændor mínir. Enn þó fæ ec nú varla set, hvart Rærekr mun fá mik naudgadan til, edr eigi, at ec láti drepa hann. Rærekr hafdi fyrir því tekit hendinni á öxl Olafi konungi, at hann villdi vita hvart hann var í brynio.

## CAP. LXXXVI.

## FERD RÆREKS KONUNGS TIL ÍSLANDS.

Madr er nefndr Þórarinn Nefiolfsson; hann var Islendskr madr; hann var kyniadr nordan or landi; eigi var hann ættstór, enn allra manna vitraztr, oc ordspakaztr: hann var diarfmælltr vid tigna menn; hann var farmadr mikill, oc var laungom útanlendis. Þórarinn var manna liótastr, oc bar þat mest frá hverso illa hann var limadr; hann hafdi hendor miklar oc liótar; enn fætornar voro þó miklo liótari. Þórarinn var staddr í Túnsbergi, er þessi tídindi urdo er ádr var frásagt; hann var málkunnigr Olafi konungi. Þórarinn bió þá kaupskip er hann átti, oc ætladi til Islands um sumarit. Olafr konungr hafdi Þórarinn í bodi síno nockora daga, oc taladi margt vid hann; svaf Þórarinn í konungs herbergi. Þat var einn morgin snemma er konungrinn vakti, enn adrir menn svafo í herbergino, þá var sól farinn lítt, þat var oc lióst miök inni. Konungr sá, at Þórarinn hafdi rett fót annan undan klædom: hann sá á fótinn um hríd: þá vöknodo menn í herbergino; konungr mællti til Þórarins: vakat hefir ec um hríd, oc hefir ec set þá syn, er mer þyckir mikils um verdt, enn þat er mannsfótr sá, er ec hygg at eingi skal her í kaupstadinom liótari vera, oc bad adra menn hyggia at, hvart sva syndiz? enn allir er sá, sönnodo at sva væri. Þórarinn fann hvar til var mællt, oc svarar: fátt er sva einna luta, at ör-

vænt se at hittit annat slíkt; oc er þat líkligazt, at her se enn sva. Konungr mællti: helldr vil ec því at fulltíngia, at eigi mani fíz iamliótr fótr, oc sva þótt ec skyllda vedia um. Þá mællti Þórarinn: búinn em ec at vedia um þat vid ydor, at ec man finna í kaupstadinom liótari fót. Konungr segir: þá skal sá ockar kiósa bæn af ödrom er sannara hefir. Sva skal vera, segir Þórarinn. Hann brá þá undan klædonom ödrom fætinom, oc var sá eingom mun fegri, oc þar var af hin minzta táin. Þá mællti Þórarinn: se her nú, konungr, annan fót, oc er siá því liótari, at her er af ein táin; oc á ec vedfeit. Konungr segir: er hinn fótrinn því ófegri, at þar ero fimm tær ferligar á þeim, enn her ero fiórar; oc á ec at kiósa bæn at þer. Þórarinn segir: dyrt er drottins ord; eda hveria bæn villto af mer þiggia? Hann segir þá: at þú flytir Rærek til Grænlands, oc færir hann Leifi Eirikssyni. Þórarinn svarar: eigi hefir ec komit til Grænlands. Konungr segir: farmadr slíkr sem þú ert, þá er þer nú mál at fara til Grænlands, ef þú hefir eigi fyrr komit. Þórarinn svarar fáo um þetta mál fyrzt. Enn er konungr hellt fram þessari málaleitan, þá veikz Þórarinn eigi med öllo af hendi, oc mællti sva: heyra skal ec ydor láta konungr bæn þá, er ec hafda hugat at bidia, ef mer bæriz vedfeit; enn þat er, at ec villda bidia ydr hirdvistar; enn ef þer veitit mer þat, þá verd ec skylldari til, at leggiaz eigi undir höfot, þat er þer vilit qvatt hafa. Konungr iátadi

þesso; oc gerdiz þórarinn hirdmadr hans. þá bió þórarinn skip sitt; oc er hann var búinn, þá tók hann vid Rœreki konungi. Enn er þeir skildoz Olafr konungr oc þórarinn, þá mællti þórarinn: nú ber sva til, konungr, sem eigi er örvænt, oc opt kann verda, at ver komom eigi fram Grænlands ferdinni, oc ber oss at Islandi edr ödrom löndom, hvernog skal ec skilia vid konung þenna, þess at ydor megi lıka? konungr segir: ef þú kemz til Islandz, þá skallto selia hann í hendor Gudmundi Eyiolfsyni, edr Skapta Lögsögomanni, edr ödrom nockorom höfdingiom, þeim er taka vilia vid vinátto minni, oc iarteiknom. Enn ef þik ber at ödröm löndom, þeim er her ero nær, þá hagado sva til, at þú vitir víst, at Rærekr komi alldri sidan til Noregs; enn ger þat því at eino, ef þú ser eingi önnor faung á. Enn er þórarinn var búinn oc byr gaf, þá sigldi hann allt útleidi fyrir utan eyar, oc nordr frá Lídandisnesi, oc stefndi hann í haf út. Hönom byriadi eigi skiótt, enn hann varadiz þat mest at koma vid landit. Hann sigldi fyrir sunnan Island, oc hafdi vita af, oc sva vestr um landit í Grænlandz haf; þá feck hann retto stóra oc valk mikit: enn er áleid sumarit, tók hann Island í Breidafirdi. þórgils Arason kom til þeirra fyrstr virdinga manna; þórarinn segir hönom ordsending oc vináttomál oc iartegnir Olafs konungs, er fylgdo vidrtöko Rœreks konungs. þórgils vard vid vel, oc baud til sín Rœreki konungi, oc var hann med

Þórgilsi Arasyni um vetrinn. Hann undi þar eigi, oc beiddi at Þórgils leti fylgia hönom til Gudmundar, oc segir, at hann þóttiz þat spurt hafa, at med Gudmundi var rausn mest á Islandi, oc væri hann hönom til handa sendr. Þórgils gerdi sem hann beiddi, feck menn til, oc let fylgia hönom til handa Gudmundar á Mödrovöllom: Tók Gudmundr vel vid Ræreki fyrir sakir ordsendingar konungs, oc var hann med Gudmundi vetr annan; þá undi hann þar eigi lengr; þá feck Gudmundr hönom vist á litlom bæ, er heitir á Kálfskinni, oc var þar fátt hióna; þar var Rærekr hinn þridia vetr, oc sagdi hann sva, at sídan er hann let af konungdómi, at hann hefdi þar verit sva, at hönom hefdi best þótt, því þar var hann af öllom mest metinn. Eptir um sumarit feck Rærekr sótt, þá er han leiddi til bana. Sva er sagt, at sá einn konungr hvílir á Islandi. Þórarinn Nefiolfson hafdiz sidan lengi í förom, enn var stundom med Olafi konungi.

## CAP. LXXXVII.

## OROSTA Í ÚLFREKSFIRDI.

Þat sumar er Þórarinn fór med Rærek til Islands, þá fór Hiallti Skeggiason oc til Islands, oc leiddi Olafr konungr hann í brot med vingiöfom, er þeir skildoz. Þat sama sumar fór Eyvindr Urarhorn í Vestrvíking, oc kom um haustit til Irlands til Ko-

nofogor Ira konungs: þeir hittoz um haustit í Ulfreksfirdi, Ira konungr oc Einar Jarl or Orkneyom; oc vard þar orosta mikill; hafdi Konofogor konungr lid miklo meira, oc feck sigr, enn Einar Jarl flydi einskipa, oc kom sva um haustit aptr til Orkneya at hann hafdi látit flest allt lid, oc herfáng allt þat er þeir höfdo fengit; oc undi Jarl stórilla ferd sinni, oc kenndi ósigr sinn Nordmönnom þeim er verit höfdo í orosto med Ira konungi.

## CAP. LXXXVIII.
## OLAFR KONUNGR BÝR SIK TIL BRÚDFARAR.

Nú er þar til máls at taka er ádr var frá horfit, at Olafr konungr hinn Digri fór brúdferd sina, oc at sækia festarkono sina Ingigerdi, dóttor Olafs Svía konungs. Konungr hafdi lid mikit, oc valit sva miök, at hönom fylgdi allt stórmenni, þat er hann mátti ná, oc hverr ríkismanna hafdi med ser valit lid, bædi at ættom, oc þat er görviligaz var. Lid þat var búit med hinom besto faungom, bædi at skipom oc vapnom oc klædom. Þeir helldo lidi sino austr til Konungahello. Enn er þeir komo þar, þá spurdo þeir eigi til Svía konungs; voro þar oc eingir menn komnir af hans hendi. Olafr konungr dvaldiz vid Konungahello lengi um sumarit, oc leid-

di miök at spurningom, hvat menn kynni at segia til um ferdir Svía konungs, edr ráda ætlan? enn eingi kunni hönom þar víst af at segia. Þá gerdi hann menn sína upp í Gautland til Rögnvallds Jarls, oc let spyria eptir, ef hann vissi hvat tilbar, er Svía konungr kom eigi til stefno, sem mælt var. Jarl segir, at hann vissi þat eigi; enn ef ec verd þess varr, segir hann, þá mun ec þegar senda menn mína til Olafs konungs, oc láta hann vita hvert efni í er, ef þessi dvöl er fyrir nockors sakir annars, enn af fiölskylldom þeim, er opt kann tilbera, at ferdir Svía konungs dveliaz, meir enn hann ætlar.

## CAP. LXXXIX.

## FRÁ BÖRNOM OLAFS SVÍA KONUNGS.

Olafr Svía konungr Eiríksson átti fyrst fridlo er Edla het, dóttir Jarls af Vindlandi: hon hafdi verit hertekin oc köllot fyrir því konungs ambót; börn þeirra voro Eimundr, Astrídr, Hólmfrídr. Enn gáto þau drottning son, oc var fæddr Jakobs vöko dag. Enn er skíra skylldi sveininn, þá let biskop hann heita Jakob; þat nafn líkadi Svíom illa, oc kölludo at alldrigi hefdi Svía konungr Jakob heitit. Öll voro börn Olafs konungs fríd synom, oc vel viti borin. Drottningin var ríklundot, oc eigi vel til stiupbarna sinna. Konungr sendi Eimund son sinn til Vindlands; oc fæddiz han þar upp med módrfræn-

dom, oc hellt hann ei kristni lánga hríd. Astrídr konungs dóttir fæddiz upp i Vestra Gautlandi, at göfugs mans er Egill het: hon var qvenna fríduzt oc best ordom farin, gladmælt oc litillát, milld af fe. Enn er hon var fulltída at alldri, var hon optliga med fedr sínom, oc þockadiz hveriom manni vel. Olafr konungr var ríklundadr oc óþydr í máli: hönom líkadi stórilla þat er landzher hafdi gert þys at hönom á Uppsalaþíngi, oc heitit hönum afarkostom; oc kendi þat mest Rögnvalldi Jarli. Eingi tilbúnad let hann hafa um' brúdferdina, sva sem mælt hafdi verit um vetrinn, at hann skylldi gipta Ingigerdi dóttr sína Olafi Digra Noregs konungi, oc fara þá um sumarit til landamæris. Enn er áleid sumarit, gerdiz mörgom mönnom mikil forvitni á, hveria ætlan konungr mundi hafa, eda hvert hann mundi hallda sáttmála vid Noregs konung, edr mundi hann riúfa sættina, oc sva fridinn. Margir voro um þetta hugsiúkir; enn eingi var sva diarfr, at hann þyrdi at spyria konung máls um þetta; enn margir kærdo þetta fyrir Ingigerdi konungs dóttor, oc bádo hana til, at verda vísa, hvernog konungr mundi vilia? hon svarar: ófús em ec til rædo vid konung, at tala um skipti þeirra Olafs Digra, þvíat þar er hvargi annars vin: hefir hann mer þá eina sinni illa svarat, er ec flutta mál Olafs konungs Digra. Ingigerdi konungs dóttor feck þetta mál áhyggio mikillar: var hon hugsiúk oc úkát, oc gerdiz henni forvitni mikil, hvat konungs mundi tiltaka?

grunadi hana þat meir, at hann mundi eigi at sinni ord sin efna vid Noregs konung, þviat þat fannz á, at í hvert sinni vard hann reidr, er Olafr Digri var konungr kalladr.

## CAP. XC.

## FRÁ VEIDI SVÍA KONUNGS.

Þat var einn dag snimma, at konungr reid út med hauka sína oc hunda, oc med hönom menn hans; enn er þeir fleygdo haukonom, þá dráp konungs haukr í eido rennzli tvo orra; oc þegar eptir þat rendi hann enn fram, oc dráp þá þriá orra. Hundarnir liópo undir, oc tóko hvern fuglinn er á iörd kom. Konungr leypti eptir, oc tók siálfr veidi sína oc hældiz miök um, oc sagdi sva: lángt mun ydor flestom til, ádr þer veidit sva; þeir sönnodo þat oc sögdo, at þeir ætludo, at eingi konungr mundi sva mikla gæfo tilbera um veidi sína: Reid þá konungr heim oc allir þeir: var hann þá allgladr. Ingigerdr konungs dóttir var þá glöd, oc geck þá út or herbergi síno. Enn er hon sá, at hann reid í gardinn, sneriz hon þannog, oc heilsadi hönom. Hann fagnadi henni hlæiandi, oc bar þegar fram foglana, oc segir frá veidi sinni, oc mællti: hvar veitzo þann konung, er sva mikla veidi hafi fengit, á sva litilli stundo? hon svarar: gód morgin-veidr er þetta, herra, er þer hafit veidt fimm orra; enn meira er þat, er Olafr Noregs konungr tók á einom morgni fimm

konunga, oc eignadiz allt ríki þeirra. Oc er hann heyrdi þetta, þá lióp hann af hestinom, oc sneriz vidr henni, oc mællti: vitto þat, Ingigerdr, at sva mikla ást, sem þú hefir lagt vid þann hinn digra mann, þá skallto hans alldregi nióta, oc hvarki yckar annars: Skal ec þik gipta nockorom þeim höfdingia, er mer se eigandi vinátta vid. Enn ec má alldregi vera vinr þess manns, er ríki mitt hefir tekit at herfángi, oc gert mer skada margan í ránom oc manndrápom: Skildo þau sva sína rædo, oc geck sína leid hvart þeirra.

## CAP. XCI.

## RÁDSLÖGOM OLAFS NOREGS KONUNGS.

Ingigerdr konungs dóttir var nú vis ordin ens sanna um ætlan Olafs konungs, oc gerdi þegar menn ofan í Vestra-Gautland, til Rögnvallds Jarls, oc let segia hönom hvat þá var títt med Svía konungi, oc brugdit var öllo sáttmáli vid Noregs konung, oc bad Jarl vidvaraz, oc adra Vestr-Gauta, at þeim mundi þá ósyun fridr af Noregs mönnom. Enn er Jarl spurdi þessi tídindi, sendi hann bod um allt sitt ríki, oc bad þá vidvaraz, ef Neregs menn villdo heria á þá. Jarl gerdi oc sendimenn til Olafs konungs Digra, oc let segia hönom þau ord, er hann hafdi spurt, oc sva þat, at hann villdi hallda sætt oc vinátto vid Olaf konung; oc beiddi þess med, at

hann skylldi eigi heria á ríki sitt. Enn er þessi ordsending kom til Olafs konungs, vard hann reidr miök oc hugsiúkr, oc var þat nockora daga, at eingi madr feck ord af hönom. Eptir þat átti hann húsþíng vid lid sitt: þá stód fyrst upp Biörn Stallari, hóf þar fyrst mál sitt, er hann hafdi farit ádr um vetrinn austr til fridgerdar, oc segir hverso Rögnvalldr Jarl hafdi hönom vel fagnat: hann segir oc hverso þverliga oc þúngliga Svía konungr hafdi tekit í fyrsto þeim málom; enn sú sátt er gör var, segir hann, var meir af styrk fiölmennis, oc ríki Þórgnys, oc lidveitzlo Rögnvallds Jarls, enn af gódvilia Svía konungs; oc þickiomz ver fyrir þá sök vita, at konungr mun því vallda, at sættinni er uppbrugdit; enn þat mun ei Jarli at kenna, þviat hann reyndom ver sannan vin Olafs konungs. Nú vill konungr vita af höfdingiom, oc af ödrom lidsmönnom, hverr rád hann skal upptaka: hvart hann skal gánga upp á Gautland oc heria med þat lid, sem nú höfom ver, edr syniz ydor annat rád upp at taka. Hann taladi bædi lángt oc sniallt. Eptir þat töludo ríkismenn margir, oc kom þat miök í einn stad nidr at lyktom, at allir lautto hernadar, oc mælto sva: þótt ver höfom lid mikit, þá er her samansamnat ríkmenni oc göfugmenni; enn til herfara ero eigi verr fallnir úngir menn, þeim er gott þickir at afla ser fiár oc metnadar. Er þat oc háttr ríkismanna, ef þeir skulo fara í bardaga edr oro-

sto, at þeir hafa marga menn med ser til forgaungo, oc hlífdar ser. Enn eigi beriaz opt verr þeir menn er lítit eiga fe, helldr enn þeir er audgir ero uppfæddir; oc af fortölom þeirra var þat rád konungs, at riúfa leidángrinn, oc gaf þá hveriom leyfi heim at fara, enn lysti því, at annat sumar skyldi hann leidángr úti hafa af öllo landi, oc hallda þegar til móts vid Svía konung, oc hefna þeirra lausmæla; þetta likadi öllom vel: Fór þá Olafr konungr nordr í Víkina, oc settiz um haustit í Borg, oc let þángat draga öll faung þau, er hann þurfti til vetrvistar, oc sat þar fiölmennt um vetrinn.

## CAP. XCII.

## AUSTRFERD SIGVATAR SKÁLDS.

Menn mælto allmisiafnt til Rögnvallds Jarls; töldo sumir, at hann væri sannr vinr Olafs konnngs, enn sumom þótti ecki trúlikt, oc qvádo hann ráda mundi því vid Svía konung, at hann helldi ord sin, oc sáttmál þeirra Olafs konungs Digra. Sigvatr skálld var vinr mikill Rögnvallds Jarls í ordom, oc taladi opt um þat fyrir Olafi konungi. Hann baud konungi at fara á fund Rögnvallds Jarls, oc niósna hvers hann yrdi varr frá Svía konungi, oc freista ef hann mætti nockorri sætt vidkoma. Konungi líkadi þat vel; þvíat hönom þótti gott fyrir trúnadar mönnom sínom at tala optliga um Ingigerdi konungs

dóttor. Öndverdan vetr fór Sigvatr skálld, oc þeir þrir saman or Borg, oc austr um Markir, oc sva til Gautlands: enn ádr þeir skildoz Olafr konungr oc Sigvatr, þá qvad hann víso:

Nú sitto heill enn hallar
her finnoz meir þinnar
at uns ec kem vitia
Olafs konungs mála.
Skálld bidr hins at halldi
hiálm drífo vidr lífi
endiz leyfd oc landi
lyck ec víso nú þvísa.
Nú ero mælt enn mála
meir kunnom skil fleiri
ord þau er oss um varda
alls mest konungr flestra.
Gud láti þik gæta
gedhardr konungr iardar
víst hefik þann þvíat þinnar
þú ert tilborinn vilía.

Sídan fóro þeir austr til Eida, oc fengo illt far yfir ána, eikio karfa einn, oc komaz naudoliga yfir ána. Sigvatr qvad víso:

Let ec til Eids þvíat óþuuzk
aptrhvarfs dreginn karfa
ver stilltom sva valltan
vátr til glæps á báti:
taki hlægi skip hanga
her sákag far verra,
let ec til húms á hrúti
hætt fórsk betr enn ec vætta.

Sidan fóro þeir um Eidaskóg. Sigvatr qvad víso:

Vara fyrst er ec rann rastir
reidr um skóg frá Eidom

madr nin veit at ec mæta
meinom tólf oc eina:
hyck á fót, enn fleckom
fell sár á il hvára
hvast gengom þó þíngat
þann dag konungs mannom.

Sídan fóro þeir um Gautland, oc komo at qvelldi á þann bæ, er Hof heitir; þar var byrgd hurd, oc komoz þeir eigi inn; hiónin segia, at þar var heilagt; braut hurfo þeir þadan. Sigvatr qvad:

Red ec til hofs at hæfa
hurd var aptr enn spurdumz
inn setta ec nef nenninn
nidr lútr fyrir útan.
Ord gat ec fæst af firdom
flögd bad ec enn þau sögdo
hnektunst heidnir reckar
heilagt vid þau deila.

Þá kom hann at ödrom gardi; stód þar húsfreya í dyrom, oc bad hann þar ei inn koma; segir, at þau ætti álfa blót. Sigvatr qvad:

Gakkatto inn qvad eckia
armi drengr enn lengra
hrædunz ec vid Odins
erom heidnir ver reidi.
Rygr qvaz inni eiga
óþeck sú er mer hnekti
álfa blót sem úlfi
ótvin or bæ sínom.

Annat qvelld kom hann til þriggia bóanda, oc nefndiz hverr þeirra Ölver; oc ráko hann allir út. Sigvatr qvad:

Nú hafa hnekt þeir er hnacka
heinflets vid mer setto
þeigi bella þollar
þrír samnafnar tíri.
Þó siámz hitt at hlædir
hafskíds muni sídar
út hverr er Ölver heitir
alls mest reka gesti.

Þá fóro þeir enn um qvelldit, oc hitto hinn fiórda bóanda, oc var sá kalladr bestr þegn þeirra; út rak sá þá. Sigvatr qvad:

Fór ec at finna báro
frids vætta ec mer sídan
briót þann er bragnar leto
bliks villdastan miklo.
Grefs leit vid mer gætir,
gerstr þá er illr hinn versti
lítt reidi ec lof lída
latist, ef siá er hinn bazti.
Mista ec fyrir austan
Eidaskóg á leidom
Asto buss er ec æsta
ú-kristinn hal vistar.
Ríks fannka ec son Saxa
sadr var engr fyrir þadra
út var ec eitt qvelld heitinn
inni fiórom sinnom.

Enn er þeir komo til Rögnvallds Jarls, þá segir Jarl, at þeir hefdi haft erfida ferd. Sigvatr qvad:

Átt hafa ser þeir er sótto
sendimenn fyrir hendi
Sygna grams med sagnir
siklinga för mikla.
Spördumz fæst enn firda
fáung ero stór vid göngor

vördr red nytr því er nordan
Noregs þinnig fórom.
Driúggenginn var drengiom
(drengr magnar lof þengils)
austr til iöfra þrystis
Eida skógr á leidom.
Skylldit mer ádr milldan
minn drottinn kom ec finna
hlunns af hilmis runnom
hnekt dyr loga beckiar.

Rögnvalldr Jarl gaf Sigvati gullhríng. Ein kona mælti, at hann hafdi gengit til nockors med þau hin svörto augo. Sigvatr qvad:

Oss hafa augon þessi
Islendsk konan vísat
brattan stig at baugi
biörtom lángt hin svörto.
Siá hefir miodnannan manni
minn ókunnar þínom
fótr á fornar brautir
fulldrengila gengit.

Enn er Sigvatr kom heim til Olafs konungs, oc hann geck inn í höllina, qvad hann oc sá á veggina:

Búa hilmis sal biálmom
hirdmenn þeir er svan grenna
her se ec hens oc bryniom
beggia kost á veggiom.
Því á úngr konungr eingi,
ugglaust er þat dyggra
húsbúnadi at hrósa;
haull er dyr med öllo.

Sidan segir Sigvatr frá ferdom sínom, oc qvad vísor þessar:

Hugstóra bid ec heyra
hress fors iöfrs þessar

þolda ec vás, hve vísor
verdung, um för gerdar.
Sendr var ec upp af aundrom
austr svaf ec fátt á hausti
til Svíþiódar sídan
svanvángs í för lánga.

Enn er hann taladi vid konung, qvad hann:

Let ec vid ydr er ítran
Olafr hugat málom
rett at ríkan hittak
Rögnvalld konungr halldit.
Deilda ec mál hins millda
málma vörds í Gördom
harda mörg er ec heyrda
heid mans tölor greidar.

Þik bad sólar sökqvir
sín hallda vel rínar
hvern er híngat árnar
húskarl nefi Jarla.
Enn hver austr vill sinna
jafn víst er þat lista
þengill, þinna drengia
þar á halld und Rögnvalldi.

Fólk red vid sik fylkir
flest en ec kom vestan
ætt sem ádr um hvatti
Eiríks svika þeirra.
Enn þvíat Jarla frænda
eins þat er tókt af Sveini
ydr qvad ec iörd er nádot
Ulfs bródor lid stadoz.

Spakr let Ulfr medal yckar
Olafr tekit málom
þett fengom svör sátta;
sakar leggit þit beggia.
Þar let þiófa ryrir
þær sem eingar væri;

riptar reknar heiptir
Rögnvallds gefit alldar.

Öndverdan vetr fór Sigvatr skálld, oc þeir þrír saman or Borg, oc austr um Markir, oc sva til Gautlands, oc feck í þeirri ferd optliga illar vidrtekior; á eino qvelldi kom hann til þriggia búanda, oc ráko hann allir út; þá qvad Sigvatr skálld Austrfarar-visor um ferd sína. Sigvatr skálld kom til Rögnvallds Jarls, oc var þar í gódom fagnadi med Jarli lánga hríd; þá spurdi Jarl þat, af ritsendingom Ingigerdar konungs dóttor, at til Olafs Svía konungs höfdo komit sendimenn Jarisleifs konungs austan or Hólmgardi, at bidia Ingigerdar dóttor Olafs Svía konungs til handa Iarisleifi konungi, oc þat med, at Olafr konungr tók þesso allvænt; þá kom oc til hirdar Rögnvallds Jarls Astrid, dóttir Olafs konungs; var þar þá gör veitzla mikil: Geriz Sigvatr brátt málkunnigr konungs dóttor; kannadiz hon vid hann, oc kynferdi hans: þvíat Ottar skálld, systorson Sigvats, hafdi þar lengi verit í kærleikom med Olafi Svía konnngi: Var þá margt talat; spurdi Rögnvalldr Jarl Sigvat, hvert Olafr Noregs konungr mundi fá vilia Astrídar konungs dóttor; oc ef hann vill þat, sagdi hann, þá vætti ec þess, at um þetta rád spyrim ver ei Svía konung; slíkt hit sama mælti Astríd konungs dóttir. Eptir þat fóro þeir Sigvatr heim, oc komo litlo fyrir Jól til Borgar á fund Olafs konungs. Brátt segir Sigvatr Olafi konungi þau tídindi sem hann hafdi spurt; vard konungr fyrst allókátr, er Sígvatr segir hönom bónord Jarisleifs

konungs; oc svarar Olafr konungr, at hönom var ills eins von af Svía konungi, nær sem ver fáom hönom golldit med nockorom minningom. Enn er fráleid, spurdi konungr Sigvat margra tídinga austan af Gautlandi. Sigvatr segír hönom mikit frá frídleik oc málsnilld Astrídar konungs dóttor; oc sva, at þat mælto allir menn þar, at hon væri at eingom lut verri um sik, enn Ingigerdr systir hennar; konungi fellz þat vel í eyro: sagdi Sigvatr hönom allar rædor þær, er þau Astrídr höfdo mælt sín í millom; oc fannz konungi margt um þetta, oc mælti: eigi mun Svía konungr þat hyggia, at ec muna þora at fá dóttor hans fyrir útan hans vilia; enn eigi var þetta mál borit fyrir fleiri menn. Olafr konungr oc Sigvatr skálld töludo opt um þetta mál: konungr spurdi Sigvat vandliga at, hvat hann kannadi af um Rögnvalld Jarl, hver vinr hann er vor, segir hann. Sigvatr segir sva, at Jarl væri hinn mesti vinr Olafs konungs. Sigvatr qvad þá:

Fast skallto ríkr vid ríkan
Rögnvalld konungr hallda;
hann stendr þydr at þinni
þörf nótt oc dag, sáttom.
þann n veit ec þínga kennir
þik bestan vin miklo
á austrvega eiga
allt med græno sallti.

## CAP. XCIII.
## UM FERD RÖGNVALLDS JARLS OC ÁSTRÍDAR TIL NOREGS

Eptir Jólin fóro þeir þórdr Skotakollr, systorson

Sigvats skállds, oc annar skósveinn Sigvats leyniliga frá hirdinni: þeir fóro austr á Gautland; þeir höfdo farit ádr um haustit austr þángat med Sigvati. Enn er þeir komo til hirdar Rögnvallds Jarls, þá báro þeir fram iartegnir, þær er Olafr konungr siálfr hafdi sendt Jarli af trúnadi. Þegar iamskiótt byz Jarl til ferdar, oc med hönom Astrid konungs dóttir, oc höfdo nær C manna, oc valit lid, bædi af hirdinni, oc af ríkom bænda sonom, oc vandadan sem mest allan búnat bædi vapn, oc klædi, oc hesta: rido sídan nordr til Noregs til Sarpsborgar, oc komo þar at Kyndilmesso.

## CAP. XCIV.

## KVANFÁNG OLAFS KONUNGS.

Olafr konungr hafdi þar látit vidbúaz; var þar allskonar dryckr, er bestan mátti fá, oc öll önnor faung voro þar hin bezto. Hann hafdi þá oc til sín stefnt or herodom mörgo stórmenni. Enn er Jarl kom þar med síno lidi, þá fagnar konungr hönom forkunnar vel; oc voro Jarli fengin herbergi stór oc gód, oc búin ítarliga, oc þar med þiónosto menn, oc þeir er fyrir sá, at eingan lut skylldi skorta, þann er veitzlo mætti pryda. Enn er sú veitzla hafdi stadit nockora daga, þá var konungr oc Jarl oc Astrídr konungs dóttir á málstefno; enn þat kom upp af tali þeirra, at sú var rádagerd, at Rögnvalldr

Jarl fastnadi Astridi, dóttor Olafs Svía konungs Olafi Noregs konungi, med þeirri heiman fylgio, sem ádr hafdi skilit verit, at Ingigerdr systir hennar skylldi hafa heiman haft: konungr skylldi oc veita Astridi þvílíka tilgiöf, sem hann skylldi hafa veitt Ingigerdi systor hennar: Var þá sú veitzla aukinn, oc var þá druckit brullaup Olafs konungs, oc Astridar drottningar, med mikilli vegsemd. Eptir þat for Rögnvalldr Jarl aptr til Gautlands, oc at skilnadi veitti konungr Jarli gódar gáfor oc stórar, oc skildoz hinir kærsto vinir, oc helldo því medan þeir lifo bádir.

## CAP. XCV.
## BRUGDIT SÆTT VID NOREGS KONUNG.

Eptir um várit komo til Svíþiódar sendimenn Jarisleifs konungs austan or Hólmgardi, oc fóro at vitia mála þeirra, er Olafr konungr hafdi ádr um sumarit heitit at gipta Ingigerdi dóttor sína Jarisleifi konungi. Olafr konungr ræddi þetta mál vid Ingigerdi, oc sagdi, at þetta var hans vili, at hon giptiz Jarisleifi konungi. Hon svarar: ef ec skal giptaz Jarisleifi konungi. þá vil ec, segir hon, hafa í tilgiöf mína Aldeigioborg, oc Jarlsríki þat, er þar liggr til. Enn sendimenn hinir Gerdsko iátudo þesso af hendi konungs síns. þá mælti Ingigerdr: ef ec skal fara austr í Gardaríki, þá vil ec kiósa mann or Svíavelldi, er mer þickir best til fallinn, at fara med mer:

mer: vil ec oc þat tilskilia, at hann hafi austr þar eigi minni nafnbót, enn her, oc í eingan stad verra rett edr minna edr metórd, enn hann hefir her. Þesso iátadi konungr, oc slikt hit sama sendimenn: Seldi konungr trú sína oc sva sendimenn, til þessa máls. Þá spurdi konungr Ingigerdi, hverr sá madr er í hans ríki, er hon vill kiósa til fylgdar vid sik. Hon svarar: sú madr er Rögnvalldr Jarl Ulfsson, frændi minn. Konungr svarar: annan veg hefir ec hugat at launa Rögnvalldi Jarli drottins-svikin þau er hann fór til Noregs med dóttor mína, oc seldi hana þar til frillo þeim enom digra manni, oc þeim er hann vissi vorn úvin mestan: oc skal hann fyrir þá sök þetta sumar uppi hánga. Ingigerdr bad þá födr sinn, at hallda trú sína, er hann hafdi sellt henni. Oc kom þá sva, af bón hennar, at konungr segir, at Rögnvalldr skylldi fara í gridom á brot or Svíavelldi, oc koma eigi í augsyn konungi, oc eigi til Svíþiódar, medan Olafr væri konungr. Ingigerdr sendi þá menn á fund Jarls, oc let segia hönom þessi tídinda, oc gerdi hönom stefnolag, hvar þau skylldo hittaz. Enn Jarl bióz þegar til ferdar, oc reid upp í eystra Gautland, oc feck ser þar skip, oc hellt þá lidi sino til fundar vid Ingigerdi konungs dóttor; fóro þau öll saman um sumarit austr í Gardariki. Þá giptiz Ingigerdr Jarisleifi konungi: oc voro þeirra synir Valdamarr, Vissivalldr, oc Hollti hinn Frækni. Ingigerdr drottning gaf Rögnvalldi

Jarli Aldeigioborg, oc þess Jarls ríki er þar fylgdi: Var Rögnvalldr Jarl þar lengi, oc var ágætr madr. Sønir Rögnvallds Jarl oc Ingibiargar voro þeir Ulfr Jarl oc Eilífr Jarl.

## CAP. XCVI.
## SAGA EMUNDAR LÖGMANS.

Madr er nefndr Emundr af Skauroin: hann var þar lögmadr í Gautlandi vestra, oc var manna vitraztr oc ordsniallaztr. Hann var ættstór, frendmargr oc stóraudigr. Hann var kalladr undirhyggiomadr oc medallagi trúr: hann var madr ríkastr í Vestra Gautlandi, þá er Jarl var á brot farinn. Þat var, er Rögnvalldr Jarl fór af Gautlandi, þá átto Gautar þing sín í milli, oc kærdo þeir medal sín optliga, hvat Svía konungr mundi tiltaka? þeir spurdo þat, at hann var þeim reidr, fyrir þat, er þeir höfdo vingaz vid Olaf Noregs konung, helldr enn halldit deilo vid hann. Svia konungr bar oc sakir á þá menn, er fylgt höfdo Astridi dóttor hans til Noregs; mælto þat sumir, at þeir skylldo leita ser traustz til Noregs konungs, oc bióda honom sína þiónosto; sumir lötto þess, oc sögdo, at Vestr-Gautar höfdo eigi styrk til þess, at hallda deilo ímóti Sviom; enn Noregs konungr verdr oss fiarri, sögdo þeir, þvíat landsmegin hans er oss fiarri, oc er sá til fyrst, at gera menn til Svía konungs, oc freista, at ver kommimz í sætt vid hann. Enn ef þat fæz eigi, þá er

sá kostr, at leita ser traustz til Noregs konungs: Bádo þí bændor Emund, at fara þessa sendiför: enn hann qvad iá vid, oc för med XXX manna, oc kom fram í Eystra-Gautlandi; voro þar margir frændor hans oc vinir; feck hann þar gódar vidrtekior. Hann átti þar tal vid enа vitrozto menn um þetta vandmæli; oc kom þat allt ásamt med þeim at öllom mönnom þótti þat sidlausa oc löglausa, er konungr gerdi vid þá: Fór þá Emundr upp í Svíþiód, oc átti þar tal vid margra ríkismenn, oc kom þar allt í ein stad. nidr. Emundr hellt þá fram ferdinni, til þess er hann kom aptan dags til Uppsala: tóko þeir ser þar gott herbergi, oc voro þar um nóttina. Eptir um daginn geck Emundr á konungs fund, þá er konungr sat yfir stefno, oc fiölmennt um hann. Emundr geck fyrir hann, oc hneig hönom, oc qvaddi hann. Konungr sá ímóti hönom, oc heilsadi hönom, oc spurdi hann at tídindom. Emundr svarar: smá ein tídindi ero med oss Gautom; enn þat þyckir oss nynæmi, er Atti hinn dælski á Vermalandi fór í vetr upp á Markir, med skíd sín oc boga; hann köllom ver mestan veidimann. Hann hafdi fengit á fialli sva mikla grávöro, at hann hafdi fyllt skídsleda sinn, sva sem mest gat hann flutt eptir ser. Þá sneri hann heim af mörkinni; hann sá einn íkorna í vidinom, oc skaut at hönom, oc misti; þá vard hann reidr, oc let lausan sledann, oc rendi eptir íkornanum: enn íkorninn fór iafnan þar sem þreyngstr var skógrinn, enn stundom í vidar ræturnar, stund-

om i limar upp, þá sigldi hann milli limanna í annat tre. Enn er Atli skaut at hönom, þá fló æ fyrir ofan edr nedan. Enn alldri fór ıkorni sva, at eigi sæi Atli hann. Hönom gördiz sva mikit kapp á þessari veidi, at hann skreid þar eptir allan dag, enn eigi at helldr gat hann veitt þann íkorna. Enn er myrkia tók, kastadi hann ser nidr á snæinn, sem hann var vanr, oc lá þar um nóttina; enn vedr var drifanda. Eptir um daginn fór Atli at leita skidsleda síns, oc fann alldregi sídan; oc fór heim vid sva búit. Slík ero mín tıdindi, herra. Konungr segir: lítil tídindi, ef eigi ero meiri frá at segia. Emundr svarar: vard enn fyrir skaummo þat er tídindi má kalla, at Gauti Tófason fór med V herskipom út eptir Gautelfi; enn er hann lá i Eykreyom, þá komo þar Danir V kaupskipom stórom: þeir Gauti unno skiótt fiögor kaupskipin, oc leto einga menn, oc fengo of fiár; enn et fimta skip komz á haf undan, oc komo þeir segli vid. Gauti hellt eptir þeim einskipa, oc dró hann fyrst eptir, enn þá tók vedrit at vaxa, oc dró Danir undan; villdi þá Gauti aptr snúa: enn þá gerdi storm vedrs, oc braut hann skipit vid Hlesey; tyndiz fe allt, oc meiri lutr manna. Enn hans föronautar skylldo bída í Ekreyom. þá komo at þeim Danir XV kaupskipom, oc drápo þá alla, enn tóko allt fe, þat er þeir höfdo ádr fengit. Sva gafz þeim ágirnin. Konungr svarar: þetta ero mikil tídindi oc frásögolig. Enn hvert er þitt erındi hingat? Emundr svarar: ec ferr, her-

ra, at leita orlausnar um vandmæli þau, er lög vor greinir oc Uppsalalög. Konungr spyr: hvat er þat, er þú villt kæra? Emundr svarar: þar voro tveir menn edlibornir iafnir at ætt, enn óiafnir at eignom oc skaplyndi; þeir deildo um iardir, oc gördi hverr ödrom skada, oc sá meiri, er ríkari var ádr. Enn þeirra deila var nidrsett, oc dæmt um á allsheriar þingi, oc hlaut sá at giallda er ríkari var ádr. Enn at fyrsta sali gallt hann gagl fyrir gás, gris fyrir gamallt svin; enn fyrir mörk brends gullz reiddi hann hálfa mörk, enn adra hálfa mörk af leiri oc módo, oc enn framar het hann hinom afarkostom, er þetta fe tók í sína skulld. Hvat dæmit þer her um, herra? konungr svarar: gialldi fullom giölldom þat er dæmt var, enn konungi sínom þriú slik. Enn ef þat er eigi golldit fyrir iamlengd, þá fari hannn útlagr af alldri eigo sinni, oc falli fe hans halft í konungs gard, enn halft til þess er hann átti sök at bæta. Emundr skírskotadi þessom orskurdi undir þá menn alla, er þar voro ríkastir, oc skaut til þeirra laga, er gengo á Uppsalaþingi. Eptir þat heilsadi hann á konung, oc geck út sídan. Enn þá hófo adrir menn sínar kærslor fyrir konungi, oc sat hann lengi dags yfir málom manna. Enn er konungrinn kom til bords, þá spurdi hann, hvar Emundr lögmadr væri. Hönom var sagt, at hann var heima í herbergi. Þá mællti konungr: gángit eptir hönom, hann skal vera í bodi míno í dag. Því næst komo inn sendingar, oc þar eptir fóro inn

leikarar, med hörpor oc gígior oc saungtól, oc þar næst skeinkingar; Var konungr allkátr, oc hafdi marga ríka menn í bodi sino, oc gádi þá eigi Emundar: drack konungr þann dag allan, oc svaf eptir um nóttina. Enn at morgni, er konungr vaknadi, þá hugsadi hann hvat Emundr hafdi talat um daginn. Enn er hann var klæddr, let hann kalla til sín spekinga sína. Olafr konungr hafdi iafnan med ser XII ena spökosto menn, þeir er sáto yfir dómom med hanom, oc redo um vandamál; enn þat var eigi vandalaust: þviat konungi likadi illa, ef dómom var hallat frá retto; enn eigi lyddi at mæla á móti hönom. A þeirri málstefno tók konungrinn til orda, oc bad þángat kalla Emund lögmann. Enn er sendimadr kom aptr, herra, segir hann, Emundr lögmadr reid í brot gærdags, þegar er hann hafdi snædt. þá mællti konungr; segit mer þat, gódir höfdingiar, hvat vissi sú lagafrett, er Emundr spurdi í gær? þeir svörudo; herra, þer munot þat hugsat hafa, ef þat kom til annars, enn hann mællti. Konungrinn mællti: þeir tveir edlibornir menn, er hann sagdi þá frá, at ósáttir höfdo verit, oc þó annarr ríkari enn annarr, oc gördi hvarr ödrom skada, þar sagdi hann frá ockor Olafi Digra. Sva er, herra, sögdo þeir, sem þer segit; konungr svarar: dómr var á voro máli á Uppsalaþíngi. Enn hvar kom þat til, er hann sagdi frá, at vangolldit var, er gagl var fyrir gás, enn grís fyrir gamallt svín, enn leir hálft fyrir gull? Arnvidr blindi svarar: her-

ra, segir hann, þat er ólíkazt, ŕaudt gull oc leir enn meira skilr konung oc þræl. Þer hetot Olafi Digra dóttor ydarri Ingigerdi; er hon konungborin í allar qvíslir af Upp-Svia ætt, er tignost er á Nordrlöndom: þvíat sú ætt er komin frá godonom siálfom. Enn nú hefir Olafr konungr fengit Astrídar; enn þó at hon se konungs barn, þá er ambot modir hennar, oc þó Vindversk. Mikill munr er þeirra konunga, er annarr þiggr slikt med þöck; oc er þat med ván, at eigi megi iafnaz einn Nordmadr vid Uppsala konung: giölldom þir allir þöck fyrir, at þat halldiz; þvíat godinn hafa lengi haft rækt mikla á ættmönnom sínom, þó nú óræki margir þann átrúnat. Þeir voro brædor þrír: Arnvidr blinni; hann var syndr sva lítt, at varla var hann herfær, oc manna sniallaztr; enn annar var Þórvidr stami: hann feck eigi mælt tveim ordom lengra samfast; hann var þar madr diarfastr oc einardastr; þridi het Freyvidr daufi; hann heyrdi illa. Þeir brædor allir voro menn ríkir oc audgir, kynstórir oc forvitrir, oc allir kærir konungi. Þá mælti Olafr konungr: hvat veit þat, er Emundr sagdi frá Atta dælska? þá svarar eingi, oc sá hverr til annars. Konungr mællti: segit nú. Þá mællti Þórvidr stami: Atti atsamr, ágiarn, illgiarn, dælskr fólskr. Þá mælti konungr: hver á þessa sneid? þá svarar Freyvidr daufi: herra, mæla muno menn berara, ef þat skal vera í ydro orlofi; konungr mællti: tala nú, Freyvidr, í orlofi, þat er þú villt mæla. Frey-

vidr tók þá til máls: Þórvidr bródir minn, er vor er vitraztr kalladr, kallar þann einn Atta oc atsam, dælskan oc fólskan: þann kallar hann sva, er leidr er fridrinn, sva at hann keppiz til smára luta, oc fær þó eigi, enn lætr fyrir þá sök farsælliga luti stóra. Nú em ec daufr, enn sva hafa nú margir mælt, at ec hefi mátt skilia, at mönnom likar illa, bædi ríkom oc alþydo, þat er þer, herra, halldit eigi ord ydar vid Noregs konung. Enn hitt enn verr, at þer riúfit dóm allzheriar, þann er görr var á Uppsalaþíngi: eigi þurfit þer at hrædaz Noregs konung edr Dana konung, oc eingan annan, medan Sviaher vill fylgia ydor; enn ef landsfólkit snyz á hendor ydor med eino samþycki, þá siáom ver vinir ydar eigi ráð til, þau er víst er at duga muni. Konungr spyrr: hverir geraz höfudsmenn at þvi, at ráda lönd undan mer? Freyvidr svarar: allir Sviar vilia hafa forn lög oc fullan rett sinn; lítit nú á hitt, herra, hverso margir höfdingiar ydrir sitia her nú yfir rádagerdinni med ydor; ec ætla hitt, satt at segia, at ver sem her nú sex, er þer kallit rádgiafa ydar; enn allir adrir hygg ec, at á brot se ridnir, oc farnir í herat, oc eigo þar þíng vid landsfólk, oc ydor satt at segia, þá er herör uppskorin, oc send um land allt, oc stefnt refsiþíng; allir ver brædor höfom verit tilbednir, at eiga lut i þessari rádagerd; enn eingi vorr vill eiga þat nafn, at heita drottins sviki, þviat eigi var sva vor fadir. Konungr tók þá til máls: hvert orrád skulo ver nú

hafa? vandi mikill er nú til handa borinn; gefit nú rád til, gódir höfdingiar, at ec fái halldit konungdóminom, oe födorarfi mínom: enn ecki vil ec deila kappi vid allan Svíaher. Arnvidr blindi svarar: herra, þat syniz mer rád, at þer ridit ofan i árós med þat lid er ydor vill fylgia, oc takit þar skip ydar, oc farit sva út í lauginn, stefnit þá til ydar fólkino, farit nú eigi med stirdlæti, oc bjódit mönnom lög oc landsrett, drepit nidr herörinni; mun hon enn eigi vida hafa farit yfir landit, þvíat stund hefir skamm verit; enn sendit menn ydar, þá er þer trúit best, til fundar vid þá menn, er þetta rád hafa med höndom, oc freista, ef þessi kurr mætti nidrsetiaz; konungr segir, at hann vill þetta rád þeckiaz: Vil ec, segir hann, at þer brædor farit þessa ferd, þvíat ec trúi ydor best af mínom mönnom. Þá mællti Þórvidr stami: ec mun eptir vera, enn Jakob fari: þess þarf. Þá mællti Freyvidr: görom sva, herra, sem Þórvidr mællti; hann vill eigi vid ydor skiliaz í þessom háska; enn vid Arnvidr manom fara. Þessi rádagerd vard framgeng, at Olafr konungr fór til skipa sinna, hellt út í lauginn; oc jókz hönom þá brátt fiölmenni. Enn þeir brædor Freyvidr oc Arnvidr rido út á Ullarakr, oc höfdo med ser Jakob konungs son, oc drápo þó dul um hans ferd. Þeir urdo brátt varir vid, at þar var fyrir samnadi, oc herlaup mikit, er bændor átto þíng bædi dag oc nótt. Enn er þeir Freyvidr hitto þar fyrir frændor sína oc vini, þá sögdo þeir þát, at þeir vili rádaz í

flockinn; enn því taka allir feginsamliga, oc var þá þegar rádom skotit til þeirra brædra, oc dregz þar til fiölmennit; oc mæla þó allir eitt, oc segia sva, at þeir skulo alldri lengr hafa Olaf konung yfir ser oc eigi vilia þeir hönom þola ólög oc ofdramb þat er hann vill einskis máli lyda, þótt stórhöfdingiar segi hönom sannindi. Enn er Freyvidr fann ákafa lydsins, þá sá hann í hvert úefni komit var; hann átti þá stefnor vid landshöfdingia, oc taladi fyrir þeim, oc mælti sva: sva lítz mer, ef þetta stórrædi skal framfara, at taka Olaf Eiríksson af rikino, sem ver Upp-Sviarnir munom skulo vera fyrir; hefir her sva iafnan verit, at þat er Upp-Svía höfdingiar hafa stadfest sín í millom, þá hafa þeim rádom lytt adrir landsmenn: eigi þúrfto vorir fedor at þiggia rád af Vestr-Gautom um Svía landstiórn. Nú verdom ver eigi þeir ættlerar, at Emundr þurfi oss rád at kenna: vil ec at ver bindom saman rád vor, frændor oc vinir. Þesso iátudo allir oc þótti vel mælt. Eptir þat snyr allr fiöldi lydsins til þess sambands, er Upp-Svia höfdingiar tóko med ser; voro þeir þá höfdingiar fyrir lidi Freyvidr oc Arnvidr. Enn er þat fann Emundr, þá grunadi hann, hvart þeirra rád mundi framgengt verda: Fór hann þá til fundar vid þá brædor, oc átto þeir tal saman; spyr þá Freyvidr Emund: hveria ætlan hafit þer á um þat, ef Olafr Eiríksson er af lifi tekinn, hvern konung vilit þer þá hafa? Emundr svarar: þann oss þyckir best til fallinn, hvart sem hann er af höfdingia ætt,

edr eigi. Freyvidr svarar: eigi viliom ver Upp-Svíarnir, at konungdómr gángi or langfedga ætt enna forno konunga, á várom dögom, medan sva góđ faung ero til, sem nú er. Olafr konungr á tvo sono; oc viliom ver annan hvern þeirra kiósa til konungs; oc er þó þeirra mikill munr: annar er edlir borinn, oc Sænskr at alldri ætt; enn annar er ambáttarson, oc Vindverskr at hálfri ætt. At þessom orskurd vard rómr mikill; oc vilia allir Jakob til konungs. Þá mælti Emundr; þer Upp-Svíar hafit valld til at ráda þesso at sinni; enn hitt segi ec ydor, sem eptir mun gánga, at þeir sumir, er nú vilia eigi annat heyra, enn konungdómr í Svíþiód gángi í Lángfedgaætt, nú muno þeir siálfir lifa, oc iáta þá er konungdómr muni í adrar ættir gánga, oc mun þat betr lyda. Eptir þat leto þeir brædor Freyvidr oc Arnvidr leida fram á þíngit Jakob konungs son, oc leto hönom þar gefa konungs nafn, oc þar med med gáfo Svíar hönom Önundar nafn; oc var hann sva sídan kalladr medan hann lifdi. Þá var hann Xvetra eda XII. Eptir þat tók Önundr konungr ser hird, oc valdi med ser höfdingia: oc höfdo þeir allir saman lid sva mikit sem hönom þótti þurfa. Enn hann gaf þá heimfararleyfi öllom bóndamúgnom. Eptir þat fóro sendimenn milli konunganna, oc því næst kom sva, at þeir hittoz siálfir, oc gerdo sætt sína; skylldi Olafr vera konungr yfir landi, medan hann lifdi; hann skylldi oc hallda frid oc sætt vid Noregs konung, oc sva vid þá menn alla, er í þeirri

rádagerd höfdo verit. Önundr skylldi oc konungr vera, oc hafa þat af landi er semdiz med þeim fedgom, enn vera skylldr til þess, at fylgia þá bændom, ef Olafr konungr gerir nockora þá luti, er bændor villdo eigi þola hönom.

## CAP. XCVII.

## SÆTTARFUNDR KONUNGA OC TENINGAKAST.

Eptir þat fóro sendimenn til Noregs, á fund Olafs konungs med þeim erendom, at hann skylldi fara í stefno leidángr til Kongahello ímóti Svía konungi i oc þat med, at Svía konungr vil at þeir tryggi þar sættir sínar. Enn er Olafr konungr heyrdi þessa ordsending, þá var hann enn, sem fyrr, giarn til fridarins: oc fer hann med lidi sino sem áqvedit var; kom þar þá Svía konungr. Oc er þeir mágar hittoz, þá binda þeir sætt milli sín oc frid: Var þá Olafr Svía konungr gódr vidmælis oc miúklyndr. Sva segir Þórsteinn Fródi, at bygd sú lá í Hísing, er ymist hafdi fylgt til Noregs edr Gautlands. Þá mælto þeir konungarnir sín í milli, at þeir skylldo luta um eign þá, oc kasta til teningom: skylldi sá hafa er stærra kastadi. Þá kastadi Svía konungr VI tvö, oc mælti at Olafr konungr þyrfti þá eigi at kasta. Hann svarar, oc risti teningana í hendi ser: enn ero VI tvö á teningonom, oc er Gudi drottni

mínom enn litit fyrir at láta þat upp horfa. Hann kastadi, oc horfdo upp VI tvö. Þá kastadi Olafr Svía konungr, oc enn VI tvö. Þá kastadi Olafr Noregs konungr; var VI á ödrom, enn annarr raut í sundr, oc voro þar á VII. Eignadiz Noregs konungr þá bygdina. Eigi höfom ver heyrt getit fleiri tídinda á þeim fundi: Skildoz konungar sáttir þá med kærleikom.

## CAP. XCVIII.

## FRÁ OLAFI NOREGS KONUNGI.

Eptir þessi tídindi, er nú var frásagt, sneri Olafr konungr lidi síno aptr í Víkina: fór þá fyrst til Túnsbergs, oc dvaldiz þar litla hríd, oc fór nordr í land. Enn um haustit, hellt hann allt nordr í Þrándheim, oc let þar búa til vetrvistar, oc sat þar um vetrinn. Þá var Olafr konungr Haraldsson einvallds-konungr yfir Noregi oc öllo því ríki er haft hafdi Haralldr enn Hárfagri, oc því framar, at hann var einn konungr yfir landi. Hann hafdi þá fengit med fridi oc sætt þann luta lands, er ádr hafdi haft Olafr Svía konungr. Enn þann luta lands, er Dana konungr hafdi haft, tók hann med valldi, oc red fyrir þeim luta slíkt sem annarstadar í landi. Knútr Dana konungr red í þann tíma bædi fyrir Danmörk oc Englandi; oc sat hann siálfr lengstom á Englandi, enn sætti höfdingia til landstiórnar i Danmörk, oc veitti hann eigi tilkall í Noreg í þann tíma.

## CAP. XCIX.

## JARLA SAGA.

Sva er sagt, á dögom Haralldz ens Hárfagra Noregs konungs, bygdoz Orkneyar; enn ádr var þar Víkingabæli. Sigurdr het hinn fyrsti Jarl í Orkneyom; hann var son Eysteins Glumro, oc bródir Rögnvallds Mæra Jarls; enn eptir Sigurd, Guddormr son hans, einn vetr. Eptir hann tók Jarldóm Torf-Einar, son Rögnvallds Jarls, oc var lengi Jarl oc ríkr madr. Hálfdan Háleggr, son Haralldz Hárfagra, fór á hendor Torfeinari, oc rak hann á brot or Orkneyom. Einar kom þá aptr oc dráp Hálfdan í Rínansey. Eptir þat fór Haralldr konungr med her í Orkneyar. Einar flydi þá upp á Skotland. Haralldr konungr let Orkneyínga sveria ser öll ódöl sín. Eptir þat sættoz þeir konungr oc Jarl; oc gerdiz Jarl hans madr, oc tók lönd í len af konungi, oc skylldi einga giallda skatta af; þvíat þar var herskatt miök. Jarl gallt konungi LX marka gullz; þá heríadi Haralldr konungr á Skotland, sva sem getit er í Glímdrápo. Eptir Torf-Einar redo fyrir löndom synír hans Arnkell, Erlendr, Þórfinnr Hausakliúfr. A þeirra dögom kom af Noregi Eiríkr Blodöx; oc voro þá Jarlar hönom lydskylldir. Arnkell oc Erlendr fello í hernadi, enn Þórfinnr red löndom, oc vard gamall. Synir hans voro Arnfidr, Hávardr, Lödver, Liótr, Skúlí; módir þeirra var Grelaud, dóttir Dungadar Jarls af Katanesi; módir hennar var Gróa, dóttir

þörsteins Rauds. Á dögom þórfinns Jarls ofarliga komo af Noregi synir Blódöxar, þá er þeir höfdo flyit fyrir Hákoni Jarli; var þá í Orkneyom mikill yfirgangr þeirra. þórfinnr Jarl vard sóttdaudr; eptir hann redo laundom synir hans; oc ero miklar frásagnir frá þeim. Lödver lifdi þeirra lengst, oc red þá einn löndom. Sonr hans var Sigurdr digri, er Jarldóm tók eptir hann: hann var ríkr, oc hermadr mikill. Á hans dögom fór Olafr Tryggvason or Vestrviking med lidi síno, oc lagdi til Orkneya, oc tók höndom Sigurd Jarl í Rögnvallds vági: hann lá þar fyrir einskipa. Olafr konungr baud þá fiörlausn Jarli, at hann skylldi taka skírn oc trú retta, oc geraz hans madr, oc bióda kristni um allar Orkneyar. Olafr konungr tók í gisling son hans, er het Hundi edr Hvelpr. þadan fór Olafr til Noregs, oc vard þar konungr. Hundi var med Olafi konungi nockora vetor, oc andadiz hann þar. Enn sídan veitti Sigurdr Jarl einga lydskylldo Olafi konungi: hann geck þá at eiga dóttor Melkólms Skota konungs, oc var þeirra son þórfinnr. Enn voro synir Sigurdar Jarls enir ellri, Sumarlidi, Brúsi, Einar Rángmudr. Fimm vetrom edr fiórom eptir fall Olafs Tryggvasonar, fór Sigurdr Jarl til Irlands; enn hann setti sono sína ena ellri at ráda löndom. þórfinn sendi hann til Skota konungs, módrfödrs síns. I þeirri ferd fell Sigurdr Iarl í Briáns orosto. Enn er þat spurdiz til Orkneya, þá voro þeir brædor til Jarla teknir, Sumarlidi, Brúsi, Einar, oc skipto löndom í

þridiúnga med ser. Þórfinnr Sigurdarson var þá fimm vetra, er Sigurdr Jarl fell. Enn er fall Jarls spurdiz til Skota konungs, þá gaf konungr Þórfinni frænda sínom Katanes, oc Sudrland, oc Jarls nafn med, oc feck menn til at styra ríkino med hönom. Þórfinnr Jarl var þegar i uppvexti brádgörr at öllom þroska; hann var mikill oc sterkr, liótr madr: oc þegar er hönom vóx alldr, var þat audsynt, at hann var ágiarn madr, hardr oc grimmr, oc forvitri. Þess getr Arnor Jarla skálld:

Görr letz grund at veria
gedfrækn oc tilsækia:
öri Einars hlyra
engr madr und sky-ranni.

## CAP. C.

## FRÁ EINARI JARLI OC BRÚSA JARLI.

Þeir brædor Einar oc Brúsi voro úlíkir i skaplyndi: Brúsi var hógvær oc samsmadr mikill, vitr oc málsniallr oc vinsæll. Einar var stirdlyndr, fálátr oc oþydr, ágiarn oc fegiarn oc hermadr mikill. Sumalidi var líkr Brúsa i skaplyndi, oc var hann ellztr, oc lifdi skemst þeirra brædra; hann vard sóttdaudr. Eptir andlát hans taldi Þórfinnr til sins luta í Orkneyom. Einar svarar þvi, at Þórfinnr hefdi Katanes oc Sudrland, þat ríki er ádr hafdi átt Sigurdr Jarl fadir þeirra: oc taldi hann þát miklo meira enn þridiúng Orkneya; oc villdi hann eigi unna

Þór-

þórfinni skiptis. Enn Brúsi let uppi skipti fyrir sina hönd; oc vil ec, segir hann, ecki ágirnaz at hafa meira af löndom, enn þann þridiúng, er ec á at friálso. þá tók Einar undir sik tvo luti eya: gördiz hann þá ríkr madr oc fiölmennr; var opt á sumrom í hernadi, oc hafdi útbod mikil í landino; enn allmisiafnt vard til fengiar í víkingonni. þá tók bændom at leidaz þat starf; enn Jarl hellt fram med freko öllom álögom, oc let eingom manni lyda ímóti at mæla. Einar Jarl var hinn mesti ofstopamadr. þá gerdiz í hans riki hallæri af starfi oc fe-kostnadi þeim, er bændor höfdo. Enn í þeim luta lands er Brúsi hafdi, var ár mikit oc hóglífi: bændom var hann vinsæll.

## CAP. CI.

## FRÁ þÓRKELI ÁMUNDASYNI.

Madr het Amundi ríkr oc audigr: hann bió í Krossey í Sândvík á Hlaupandanesi: þórkell het son hans, oc var hann allra manna gerviligastr í Orkneyom. Amundi var hinn vitrazti madr, oc einna manna mest virdr í eyonom. þat var eitt vár, at Einar Jarl hafdi þá útbod enn, sem hann var vanr: enn bændor kurrodo illa, oc báro fyrir Amunda, oc bádo hann mæla þeim nockora ferstödo vid Jarl. Hann

svarar: Jarl er óálydinn, oc telr eigi stoda mano at bidia Jarl neinar bænir um þetta; enn vinátta vár Jarls er gód, at sva búno; enn mer þickir vid voda búit, ef ver verdom rángsáttir, vid skaplyndi hvarratveggia: mun ec mer, segir Amundi, eingo afskipta. Þá ræddo þeir þetta vid Þórkell: hann var traudr til, oc het þó umsídir, vid áeggian manna. Amunda þótti hann ofbrátt heitit hafa. Enn er Jarl átti þíng, þá mællti Þórkell af hendi bænda, oc bad Jarl vægia mönnom um álögor: oc taldi upp naudsyn manna. Enn Jarl svarar vel, oc segir, at hann skylldi mikils virda ord Þórkels. Ec hafda nú ætlat sex skip or landi at hafa; enn nú skal eigi meir hafa enn þriú. Enn þú, Þórkell, bid eigi optar slíkrar bænar. Bændor þöckudo vel Þórkeli lidveitzlo sína: Fór Jarl í víking, oc kom aptr at hausti. Enn eptir um várit hafdi Jarl sömo bod, sem hann var vanr, oc átti þíng vid bændor: þá taladi Þórkell enn; oc bad Jarl vægia bændom. Jarl sagdi þá reidoliga, at lutr bænda skylldi þá versna vid hans umrædo: gerdi hann sik þá sva reidan oc ódan, at hann mælti, at þeir skylldi eigi annat vár bádir heilir á þíngino; oc sleit sídan því þíngi. Enn er Amundi vard vís hvat þeir Þórkell oc Jarl höfdo vidmælz, þá bad hann Þórkell á brot fara, oc fór hann yfir á Katanes til Þórfinnz Jarls. Þórkell var þar lengi sídan oc elskadi Jarl, er hann var úngr; oc var hann sídan kalladr Þórkell Fóstri, oc var hann ágætr madr.

## CAP. CII.

## SÆTT JARLANNA.

Fleiri voro þeir rikismenn er flydo or Orkneyom ódol sín fyrir ríki Einars Jarls; flydo flestir yfir á Katanes til Þórfinnz Jarls. Enn sumir flydo or Orkneyom til Noregs, enn sumir til ymissa landa. Enn er Þórfinnr Jarl rosknadiz, þá gerdi hann bod til Einars, bródor síns, oc beiddi af hönom ríkis þess, er hann þóttiz eiga í Orkneyom; enn þat var þridiúngr eya. Einar tók því óbrátt at minka ríki sitt. Enn er Þórfinnr spurdi þat, þá byr hann lid út af Katanesi, oc ferr út í eyar. Enn er Einar Jarl vard þess vís, samnar hann lidi, oc ætlar at veria löndin. Brúsi Jarl samnar oc lidi, oc ferr til mótz vid þá, oc ber sættarord í milli þeirra: Vard þat at sætt med þeim, at Þórfinnr skylldi hafa þridiung landa í Orkneyom, sva sem hann átti at retto: enn Brúsi oc Einar lögdo saman sinn luta; skylldi Einar hafa einn forrædi fyrir þeim. Enn ef misdaudi þeirra yrdi, þá skylldi sá þeirra lönd taka eptir annan, er lengr lifdi. Enn sá máldagi þótti þá eigi iafnligr; þviat Brúsi átti son er Rögnvalldr het, enn Einar var sonlauss: Setti þá Þórfinnr Jarl sína menn til at vardveita ríki þat, er hann átti í Orkneyom: enn hann var optazt á Katanesi Einar Jarl var optaz á sumrom í hernadi um Irland oc Skotland oc Bretland.

## CAP. CIII.

## DRÁP EYVINDAR ÚRARHORNS.

Þat var eitt sumar, er Einar Jarl heriadi á Irland, at hann bardiz í Ulfreksfirdi vid Konofogor Ira konung, sva sem fyrr var ritat, at Einar Jarl feck þar ósigr mikinn oc mannlát. Annat sumar eptir fór Eyvindr Urarhorn vestan af Irlandi, oc ætladi til Noregs: enn er vedr var hvast, oc straumar ófærir, snyr Eyvindr þá til Asmundarvogs, oc lá þar nockora hrid vedrfastr. Enn er þat spurdi Einar Jarl; þá hellt hann þángat lidi miklo, tók þar Eyvind, oc let drepa, enn gaf grid flestom mönnom hans, oc fóro þeir austr til Noregs um haustit, oc komo á fund Olafs konungs, oc sögdo hönom frá aftöko Eyvindar: konungr svarar fáo um; oc fannz þat á, at hönom þótti þat mannskadi mikill, oc miök í þrá ser; oc um flest var hann fámæltr, þat er hönom þótti ser ímóti skapi. Þórfinnr Jarl sendi Þórkel Fóstra út í Eyar, at heimta saman skatta sína. Einar Jarl kendi Þórkeli miök uppreist þá, er Þórfinnr hafdi haft tilkall út í Eyar: Fór Þórkell skyndliga or Eyonom, oc yfir á Katanes: hann segir Þórfinni Jarli, at hann var þess vís ordinn, at Einar Jarl ætladi hönom dauda, ef eigi hefdi frændor hans oc vinir hönom njósn borit. Nú mun ec, segir hann, þat eiga á baugi, at láta þann verda fund ockarn Jarls, er umskipti med oss: enn þann kost annan, at fara lengra á brot, oc þannog, at

eigi se hans valld yfir. Jarl fysti þess, at Þórkell skylldi fara austr til Noregs, á fund Olafs konungs: munto, segir hann, mikils metinn, hvar sem þú kemr med tignom mönnom: enn ec veit beggia yckar skaplyndi, þitt oc Jarls, at þit munot skamma stund mundaz til. Þá bióz Þórkell, oc fór um haustit til Noregs, oc sídan á fund Olafs konungs, oc var þar um vetrinn med konungi í kærleika miklom: hafdi hann Þórkell miök vid mál sín: þótti hönom, sem var, at Þórkell var vitr madr, oc skörungr mikill: fannz konungi þat i rædom hans, at hann misiafnadi miök frásögo um Jarlana, oc var vinr mikill Þórfinnz, enn lagdi þúngt til Einars Jarls. Oc snemmindis um várit, sendir konungr skip vestr um haf, á fund Þórfinns Jarls, oc ordsending, at Jarl skylldi koma austr á hans fund. Enn Jarl lagdiz eigi þá för undir höfot, þvíat vináttu mál fylgdi ordsending.

## CAP. CIV.

## DRÁP EINARS JARLS.

Þórfinnr Jarl fór austr til Noregs, oc kom á fund Olafs konungs, oc feck þar gódar vidtökor, oc dvaldiz þar lengi um sumarit. Enn er hann bióz vestr, gaf Olafr konungr hönom lángskip mikit oc gott med öllom reida. Þórkell Fóstri redz þá til ferdar med Jarli: gaf Jarl hönom þat skip, er hann hafdi vestan haft um sumarit: Skildoz þeir konungr oc Jarl med

kærleikom miklom. Þórfinnr Jarl kom um haustit til Orkneya. Enn er Einar Jarl spurdi þát, þá hafdi hann fiölment, oc lá á skipom. Brúsi Jarl fór þá til fundar vid þá báda brædor, oc bar sætt milli þeirra: kom enn sva at þeir sættoz, oc bundo þat eidom. Þórkell Fóstri skylldi vera í sætt oc vinátto med Einari Jarli; oc var þat mælt, at hverr þeirra skylldi veita ödrom veitzlo, oc skylldi Jarl fyrri sækia til Þórkels í Sandvík. Enn er Jarl var þar á veitzlo, þá var veitt et kappsamligasta; var Jarl eigi kátr; þar var mikill skáli, oc dyr á bádom endom. Þann dag er Jarl skylldi á brot fara, þá skylldi Þórkell fara med hönom til veitzlo. Þórkell sendi menn á niósn framm á leidina, er þeir skylldo fara um daginn. Enn er niósnar-menn komo aptr, þá sögdo þeir Þórkeli, at þeir fundo þrennar sátir: oc hyggiom ver, segia þeir, at svik muni vera. Enn er Þórkell spurdi þetta, þá frestadi hann búnadinom, oc heimti menn sína at ser. Jarl bad hann búaz, oc segir, at mál var at rída. Þórkell sagdi, at hann átti margt at annaz: hann geck stundom út, enn stundom inn. Elldr var á gólfino: þá geck hann inn um adrar dyr, oc eptir hönom madr, er nefndr er Hallvardr: hann var Islendskr madr, oc Austfirdskr: hann lauk aptr hurdina. Þórkell geck innar milli elldsins, oc þess er Jarl sat. Jarl spurdi: erto eigi enn búinn? Þórkell svarar: nú em ec búinn; þá hió hann til Jarls, oc í höfudit: Jarl steyptiz á gólfit. Þá mælti Islendingrinn: her sá ec alla vesta fánga-

ráds, er þer dragit eigi Jarl af elldinom: hann kördi til spördo, oc setti undir hnacka-bein Jarls, oc kipti hönom upp at pallinom. Þórkell, oc þeir bádır föronautar, gengo út skyndiliga, adrar dyr enn þeir höfdo inngengit: stódo þar úti menn Þórkels med alvæpni. Enn Jarls menn tóko til hans, oc var hann þá daudr. Enn öllom felloz hendor til hefndarinnar: Var þat oc, at brádom bar at, oc vardi eíngan mann þessa verks af Þórkeli: þvíat þeir hugdo allir, at sva mundi vera, sem ádr var mælt, at vinátta væri med Jarli oc Þórkeli: Voro menn oc flestir vapnlausir inni, enn margir ádr vinir Þórkels gódir; bar þat til med audno þeirri, er Þórkeli var audit lengra lífs. Þórkell hafdi þá lid er hann kom út engo minna enn Jarls menn: Fór Þórkell þá til skips síns; enn Jarls menn í brott. Þórkell sigldi þann dag þegar í brot, oc austr í haf: oc var þat eptir vetr nætr; oc kom hann med heilo til Noregs, oc fór þegar sem skyndiligast á fund Olafs konungs, oc feck þar gódar vidtökor; let konungr yfir verki þesso vel; var Þórkell med hönom um vetriun.

## CAP. CV.

## SÆTT OLAFS KONUNGS OC BRÚSA JARLS.

Eptir fall Einars, tók Brúsi Jarl þann luta landa er ádr hafdi haft Einar Jarl: þvíat þat var á mar-

gra manna vitordi, med hveriom skildaga, þeir Einar oc Brúsi brædor höfdo felag sitt gert. Enn Þórfinni þótti þat rettaz, at hálfar eyar hefdi hverr þeirra: enn þó hafdi Brúsi þann vetr tvo luti landa. Eptir um várit kallar Þórfinnr til þeirra landa vid Brúsa, at hann villdi hafa helming vid Brúsa: enn Brúsi giallt eigi iákvædi til þess. Atto þeir þíng oc stefnor at þeim málom; gengo þá vinir þeirra at semia þeirra mál; oc kom sva, at Þórfinnr let ser ecki lika annat, enn hafa helming eya; oc þat med, sagdi hann, at Brúsi þyrfti eigi at hafa meir enn þridiúng, med því skaplyndi sem hann hafdi. Brúsi svarar: ec unda því, segir hann, at hafa þridiúng landa, þann er ec tok eptir födr minn í arf; kalladi oc engi til þess í hönd mer; enn nú hefir ec tekit annan þridiúng i arf eptir brodr minn, at rettom máldögom: enn þó at ec se vanfærr til at deila kappi vid þik, bródir, þá mun ec þó annars í leita, enn iáta undan mer ríki at sva búno. Þeir skildo sva málstefno þessa. Enn er Brúsi sá, at hann mundi eigi hafa afla til at standa iafnfætis vid Þórfinn, þvíat Þórfinnr hafdi ríki miklo meira oc traust af Skóta konungi módrfödor sínom; þá red Brúsi þat af, at fara or landi, austr á fund Olafs konungs, oc hafdi med ser Rögnvalld son sinn; var hann þá X vetra gamall. Enn er Jarl hitti konung, þá tók hann hönom vel. Enn Jarl bar upp erindi sín, oc sagdi konungi allan mála vöxt, þann er var med

þeim bræðrom, oc bad konung, at veita ser styrk, til at hallda ríki síno; baud þar framm ímót fullkomna vináttо sína. Konungr svarar, oc tók þar fyrst til máls, er Haralldr hinn Hárfagri hafdi eignaz ódöl öll í Orkneyom; enn Jarlar höfdo haft iafnan sídan lönd þau at leni, enn alldregi at eign. Er þat til iartegna, segir hann, at þá Eiríkr Blódöx oc synir hans voro í Orkneyom, voro Jarlar þeim lydskylldir. Enn er Olafr Tryggvason frændi minn kom þar, þá gerdiz Sigurdr Jarl, fadir þinn, hans madr. Nú hefir ec tekit arf allan eptir Olaf konung. Vil ec gera þer þann kost, at þú geriz minn madr: mun ec þá fá þer eyarnar í len; skulo ver þá freista, ef ec veiti þer minn styrk, hvart betr skal at halldi koma, enn þórfinni bródr þínom traust Skota konungs. Enn ef þú villt eigi þenna kost, þá mun ec eptir leita þeim eignom oc ódölom, er vorir frændor oc forellrar hafa átt, vestr þannog. Þessar rædor hugfesti Jarl fyrir ser, oc bar fyrir vini sína; leitadi ráds vid þá, hverio hann skylldi iáta: hvart hann skylldi at þesso sættaz vid Olaf konung oc geraz hans madr. enn hitt er mer ósynna, hver minn luti verdr at skilnadi vorom, ef ec qved nei vid, þvíat konungr hefir bert gert þat tilkall, er hann hefir til Orkneya. Enn vid stórrædi hans, oc þat er ver erom her komnir, þá mun hönom litit fyrir, at gera þat af vorom kosti, sem hönom syníz. Enn þó at Jarli þætti á hvarotveggia anmarkar, þá tók hann þann kost, at leggia allt á kon-

ungs valld, bædi sik oc ríki sitt: Tók þá Olafr konungr af Jarli valld oc forrád yfir öllom erfdalöndom Jarls; oc gerdiz Jarl þá hans madr, oc batt þat svardögom.

## CAP. CVI.

## SÆTT JARLANNA OC OLAFS KONUNGS.

Þórfinnr Jarl spurdi þat, at Brúsi bródir hans var farinn austr, á fund Olafs konungs, at sækia traust at hönom; enn fyrir því at Þórfinnr hafdi verit fyrr á fundi Olafs konungs, oc komit ser þar í vinátto, þá þóttiz hann þar eiga vel fyrir búit, oc vissi, at þar mundo margir flutninga-menn um hans mál. Enn þó vænti hann at fleiri mundo vera, ef hann kæmi siálfr til: Gerir Þórfinnr Jarl þat rád, at hann bióz sem skyndiligaz, oc fór austr til Noregs, oc ætladi at sem minstr skylldi verda misfari þeirra Brúsa, oc ecki skylldi hans erindi til loka komaz, ádr enn Þórfinnr hitti konung. Enn þat var annan veg enn Jarl hafdi ætlat; þvíat þá er Þórfinnr Jarl kom á fund Olafs konungs, var lokit oc gört allt um sáttmal hans oc Brúsa Jarls: Vissi oc eigi Þórfinnr Jarl, at Brúsi hefdi uppgefit sitt ríki, fyrr enn hann var kominn til Olafs konungs. Oc þegar er þeir hittoz, Þórfinnr Jarl oc Olafr konungr, þá hóf Olafr konungr upp sama ákall til ríkis í Orkneyom, sem hann hafdi haft vid Brúsa Jarl, oc beiddi Þórfinn þess ens sama, at hann skylldi iáta

konungi þeim luta landa, er hann átti ádr. Jarl svarar vel ordom konungs oc stillit, oc segir sva, at hönom þótti miklo máli skipta um vingan konungs. Oc ef þer, herra, þyckiz þurfa lidveitzlo mína, ímót ödrom höfdingiom, þá hafit þer ádr fullt til þess unnit. Enn mer er eigi hent at veita ydor handgaungo; því ec em ádr Jarl Skota konungs, oc hönom lydskylldr. Enn er konungr fann undandrátt í svörom Jarls, um þá málaleitan, er hann hafdi ádr upphafit, þá mælti konungr: ef þú, Jarl, villt eigi geraz minn madr, þá er hinn kostr, at ec setia þann mann yfir Orkneyar, er ec vil; enn ec vil at þú veitir þá svardaga, at kalla þá eigi til landa þeirra, oc láta þá í fridi vera af þer, er ec set yfir löndin. Enn ef þú villt hvarnigan þann kost, þá mun sva þickia þeim er löndom rædr, sem úfridar muni af þer ván vera: má þer þá eigi undarlikt þyckia, þótt dalr mæti hóli. Jarl svarar, oc bad konung gefa ser frest, at hugsa um þetta mál; konungr gerdi sva, gaf Jarli stund at ráda um þetta kiör vid menn sina. Þá beiddi Jarl þess, at hann skylldi liá hönom fresta til annars sumars, oc færi hann fyrst vestr um haf: þvíat heima var ráda neyti hans; enn hann var bernskomadr fyrir alldrssakir; konungr bad hann þá kiósa. Þórkell Fóstri var þá med Olafi konungi; hann sendi mann til Þórfinnz Jarls leyniliga, oc bad hann eigi þat fyrir ætlaz, hvatki er hönom var í hug, at skiliaz sva at sinni vid Olaf konung, at þeir væri eigi sáttir, sva

sem hann var þá kominn í hendor Olafi konungi. Af þvílíkom minningom þóttiz Jarl siá, at einbeygdr mundi kostr, at láta konung þá fyrir ráda; þótti hinn eigi kostligr, at eiga einga ván siálfr til ættleifdar sinnar, enn veita til þess svardaga, at þeir hefdi í ró ríki þat, er þeir voro ecki tilbornir. Enn fyrir því, at hönom þótti úsynt um brotferd sína, þá kaus hann þat af, at gánga til handa konungi, oc geraz hans madr, sva sem Brúsi hafdi gört. Konungr fann þat, at Þórfinnr var miklo skapstærri enn Brúsi, oc kunni verr pínding þessi: trúdi hann Þórfinni verr enn Brúsa: sá konungr þat, at Þórfinnr mundi þyckiaz eiga styrksvon af Skota konungi, þótt hann brygdiz í þesso sáttmáli: Skilldi konungr þat af vitzko sinni, at Brúsi geck tregliga at öllo sáttmáli, enn mælti þat eina um, er hann ætladi ser at hallda. Enn þar er Þórfinnr var, þá er hann hafdi rádit, hvern hann villdi upptaka, þá geck hann glatt at öllom skildaga, oc dró um þat engan lut, sem konungr veitti hin fyrsto áqvædi. Enn þat grunadi konung, at Jarl mundi gera eptir sumar sættir.

## CAP. CVII.

## BROTFERD ÞÓRFINNZ JARLS OC SÆTT ÞEIRRA ÞÓRKELS.

Þá er Olafr konungr hafdi hugsat fyrir ser allt þetta mál, let hann blása til fiölmennrar stefno; let þán-

gat kalla Jarlana. Þá mælti konungr: sáttmál vor Orkneyinga Jarla vil ec nú birta fyrir al-þydo. Þeir hafa nú iátat mino eigin ordi yfir Orkneyom oc Hialtlandi, oc gerz bádir mínir menn, oc bundit þat allt svardögom; oc vil ec nú gefa þeim þat í len, Brúsa þridiúng landa, Þórfinni annan þridiúng, sva sem þeir höfdo fyrr átt. Enn þann þridiúng, er átti Einar Rángmudr, þann læt ec hafa fallit í minn gard, fyrir þat er hann drap Eyvind Urarhorn, hirdmann minn oc fclagsmann oc kæran vin: vil ec siá fyrir þeim luta landa, þat er mer syniz. Þvi vil ec oc tilskilia vid yckor brædor, Jarla mina, at ec vil at þit takit sættir af Þórkcli Amundasyni, fyrir aftöko Einars bródr yckars: vil ec, at sá dómr se undir mer, ef þit vilit því iátat hafa. Enn þat var sem annat, at Jarlar iátto því öllo, er konungr mælti: Geck þá Þórkcll fram, oc festi konungs dóm á þesso máli; oc sleit sva þesso þingi. Olafr konungr dæmdi bætor fyrir Einar Jarl, slíkar sem fyrir þriá lendamenn: enn fyrir sakir skylldi nidrfalla þridiúngr giallda. Þórfinnr Jarl bad þá konung ser brautfarar leyfis; enn þegar er þat feckz, bióz Jarl sem skyndiligast. Enn er hann var albúinn, var þat einn dag er Jarl drack á skipi, at þar kom fyrir hann Þórkell Amundason vaveifliga, oc lagdi höfot sitt í kne Jarli, oc bad hann þá gera slíkt af er hann villdi. Jarl spurdi fyrir hví hann færi sva: vid erom ádr menn sáttir, at konungs dómi, oc statt þú upp, Þórkell; hann gerdi sva. Þórkell mælti: sætt þeirri er

konungr gerdi mun ec hlita um mál vor Brúsa. Enn þat er til þín kemr af, skallto einn ráda: þótt konungr hafi skilit mer eignir edr landsvist í Orkneyom, þá kann ec skaplyndi þitt, at mer er ófært í eyar, nema ec fari í trúnadi ydrom, Jarl: vil ec því, segir hann, festa ydor, at koma alldrei í Orkneyar, hvat sem konungr mælir um þat. Jarl þagnadi, oc tók seint til máls; hann mælti: villto helldr, Þórkell, at ec dæmi um ockar mál, helldr enn hlita konungs dómi, þá mun ec hafa þat upphaf at sætt ockarri, at þú skallt med mer fara í Orkneyar, oc vera med mer, oc skiliaz eigi vid mik, nema mitt lof edr leyfi se til; vera skylldr at veria land mitt, oc allra verka þeirra, er ec vil gera láta, medan vid erom bádir á lífi. Þórkell svarar: þat skal á ydro valldi, Jarl, sem allt annat, þat er ec má ráda: Geck þá Þórkell til oc festi Jarli þetta allt sem hann qvad á. Jarl sagdi, at um fegiölld mundi hann sídar áqveda; enn hann tók þá svardaga af Þórkeli: Sneriz Þórkell þá þegar til ferdar med Jarli; fór Jarl þegar á brot, er hann var búinn; oc sáoz þeir Olafr konungr alldregi sidan.

## CAP. CVIII.

## BROTFERD BRÚSA JARLS.

Brúsi Jarl dvaldiz þar eptir, oc bióz meir í tómi. Enn ádr hann færi í brot, þá átti Olafr konungr stefnor vid hann, oc mælti sva: þat litz mer, Jarl,

at ec muna hafa þik at trúnadar manni þar fyrir vestan hafit: ætla ec sva, at þú skylir hafa tvo luti landa til forráda, þá sem þú hefir ádr haft; vil ec at þú sert eigi minni madr edr óríkari, er þú ert mer handgenginn, enn ádr varto. Enn ec vil festa trúnad þinn med því, at ec vil at her se eptir med mer Rögnvalldr sonr þinn: Se ec þá, er þú hefir mitt traust, oc tvo luti landa, at þú mátt vel hallda þíno at retto fyrir Þórfinni bródr þínom. Brúsi tók þat med þöckom, at hafa tvo luti landa helldr enn þridiúng: Dvalldiz Brúsi sídan litla hríd, ádr hann fór í brot, oc kom um haustit vestr til Orkneya. Rögnvalldr, son Brúsa, var austr eptir med Olafi konungi; hann var allra manna frídastr, hárit mikit oc gult sem silki; hann var snemma mikill oc sterkr, manna var hann görviligaztr, bædi fyrir vitz sakir oc kurteisi; hann var lengi sídan med Olafi konungi. Þessa getr Ottar Svarti í drápo þeirri, er hann orti um Olaf konung:

Gegn ero þer at þegnom
þiódskiölldunga gódra
halldit hæst á velldi
Hialltlendingar kendir.
Eingi vard á iördo
ógnbrádr ádr þer nádom
austr sá er Eyom vestan
ynglingr und sik þryngvi.

## CAP. CIX.

## FRÁ BRÚSA JARLI OC ÞÓRFINNI JARLI.

Þá er þeir brædor komo vestr til Orkneya, Þórfinnr

oc Brúsi, þá tók Brúsi tvo luti landa til forráda, enn Þórfinnr þridiúng: hann var iafnan á Katanesi oc á Skotlandi, enn setti menn sína yfir eyar: Hafdi Brúsi þá einn landvörn fyrir eyonom; enn í þann tíma var þar herskátt: þvíat Nordmenn oc Danir heriodo miök í Vestrvíking, oc komo opt vid Orkneyar, þá er þeir fóro vestr edr vestan, oc námo nesnám. Brúsi taladi at því vid Þórfinn bródr sinn, er hann hafdi eingar útgerdir fyrir Orkneyom edr Hialltlandi; enn hafdi skatta oc skylldir allt at sínom luta. Þá baud Þórfinni hönom þann kost, at Brúsi skylldi hafa þridiúng landa, enn Þórfinnr tvo luti, oc hafa ein landvarnir fyrir beggia þeirra hönd. Enn þó at þetta skipti yrdi eigi þá brádfengís, þá er þó þat sagt í Jarla sögonom, at þetta skipti færi fram, at Þorfinnr hefdi tvo luti, enn Brúsi þridiúng, þá er Knútr hinn Ríki hafdi lagt undir sik Noreg, enn Olafr konungr var or landi farinn. Þórfinnr Jarl Sigurdarson hefir verit göfgastr Jarl í eyom, oc haft mest ríki Orkneyinga Jarla: hann eignadiz Hialltland oc Orkneyar, Sudreyar; hann hafdi oc mikit ríki á Skotlandi oc Irlandi, oc þat qvad Arnór Jarla skálld:

Hríngstrídi vard hlyda
her frá þurfa skeriom
rett segi ec þiód hver þótti
Þórfinnz til Dyflinnar.

Þórfinnr var hinn mesti hermadr: hann tók Jarldóm fimm vetra gamall, oc red meir enn LX vetra, oc

vard

vard sóttdaudr á ofanverdom dögom Haralldz Sigurdar sonar. Enn Brúsi andadiz á dögom Knúts ens ríka, litlo eptir fall Olafs konungs ens Helga.

## CAP. CX.

## FRÁ HÁREKI OR ÞIÓTTO

Nú ferr tvennom sögom framm, oc skal þar nú tiltaka, sem frá var horfit, er frá því var sagt, er Olafr konungr Haralldsson hafdi frid gert vid Olaf Svía konung; oc þat at Olafr konungr fór þat sumar nordr til Þrándheims. Hann hafdi þá verit konungr fimm vetor. Þat haust bió hann til vetrseto í Nidarósi, oc sat þar um vetrinn Þann vetr var med Olafi konungi Þórkell Fóstri Amundason, er fyrr var ritat. Olafr konungr leiddi þá miök at spurningom um kristnihalld, hvert þá væri í landino; oc spurdiz hönom sva til, sém ecki væri kristnihalldit, þegar er nordr sótti á Hálogaland: enn þó skorti mikit á, at vel væri um Naumodal, oc inn um Þrándheim. Madr er nefndr Hárekr, son Eyvindar Skálldaspillis; hann bió á ey þeirri er Þiótta heitir: þat er á Hálogalandi. Eyvindr hafdi madr verit eigi stóraudigr; hann var ættstórr oc skörungr mikill. I Þiótto höfdo fyrst búit smábændor margir; enn Hárekr keypti þar einn bæ fyrst, oc eigi allmikinn, oc fór þar búdom til. Enn á fám mis-

serom hafdi hann rutt í brott öllom bændom þeim er þar voro áðr, sva at hann átti þá einn alla eyna, oc gerdi þar þá höfotbæ mikinn. Hárekr vard brátt vellaudigr: hann var spekingr mikill at viti, oc framqvæmdarmadr: hann hafdi lengi haft af höfdingiom metnad mikinn: hann var í frændsemistölo vid Noregs konunga; af þeim sökom hafdi Hárekr haft mikil metord af landshöfdingiom. Gunhilldr födrmódir Háreks var dóttir Hálfdanar Jarls oc Ingibiargar dottor Harallds ens Hárfagra. Hárekr var þá helldr á efra alldri, þá er þetta var tídinda. Hárekr var mestr virdinga madr á Hálogalandi: hann hafdi þí lánga hríd finn-kaup oc konungs syslo á Mörkinni; hafdi hann stundom einn haft, enn stundom höfdo adrir suma med hönom. Eigi hafdi hann komit á fund Olafs konungs; enn þó höfdo farit ord oc sendimenn millom þeirra, oc var þat allt vingiarnlikt. Oc þann vetr er Olafr konungr sat i Nidarósi, fóro enn menn milli þeirra Háreks or Þiótto. Þá lysti konungr því, at um sumarit eptir, ætladi hann at fara nordr á Hálogaland, oc allt nordr til landsenda. Enn þeir Háleygirnir hugdo allmisiafnt til þeirrar ferdar.

## CAP. CXI.

## FRÁ HÁLEYGIOM.

Olafr konungr bióz nú um vorit med fimm skipom, oc hafdi nær CCC manna. Enn er hann var búinn

þá byriar hann ferd sína nordr med landi; oc er hann kom í Naumdælafylki, stefndi hann þíng vid bændor: Var hann þar til konungs tekinn á hverio þíngi. Hann let þá oc þar, sem annarstadar, lög þau upplesa, sem hann band mönnom þar í landi kristni at hallda, oc lagdi vid líf oc limar edr aleigo sök hveriom manni, er eigi villdi undirgánga kristin lög: Veitti konungr þar mörgom mönnom stórar refsingar, oc let þat gánga iafnt yfir ríka sem úríka: Skildiz hann sva vid í hverio heradi, at fólk iátti at hallda helga trú. Enn flestir ríkismenn, oc margir stórbændor gerdo veitzlor ímóti konungi: Fór hann sva nordr allt á Hálogaland. Hárekr í þióttó veitti konungi veitzlo, oc var þar allmikit fiölmenni, oc veitzla en prydiligasta: Gerdiz Hárekr þá lendrmadr. Olafr konungr feck hönom þá veitzlor, sva sem hann hafdi þá fyrr haft af hinom fyrrom landshöfdingiom.

## CAP. CXII.

## FRÁ ASMUNDA GRANKETILS SYNI.

Madr er nefndr Grankell, edr Granketill, audigr bóandi, oc var þí helldr vid alldr: Enn þá er hann var á únga alldri, hafdi hann i víkingo verit, oc þá hermadr mikill: hann var þá atgervimadr mikill um flesta hluti, þá er íþróttom

gegndi. Asmundr het son hans, oc var hann um alla luti likr fedr sinom, eda nockro framar. þat var margra manna mál, at sökom fridleiks, afls oc iþrótta, hafi hann verit hinn þridi madr best at ser búinn í Noregi. Enn fyrst hafa til verit nefndir Hákon konungr Adalsteins fóstri, oc Olafr Tryggvason. Granketill baud Olafi konungi til veitzlo; oc var þar veitzla allkappsamlig, oc leiddi Granketill hann stórom vingiöfom í brot. Konungr baud Asmundi at fara med ser, oc lagdi til þess mörg ord; enn Asmundr þóttiz eigi kunna at drepa hendi vid veg sínom, oc redz hann til ferdar med konungi, oc gerdiz sidan hans madr, oc kom í ena mesta kærleika vid konung. Olafr konungr dvaldiz mestan luta sumars á Hálogalandi, oc fór í allar þinghár, oc kristnadi þar allan lyd. Þá bió í Biarkey Þórir Hundr: hann var rikastr madr nordr þar: hann gerdiz þá oc lendrmadr Olafs konungs. Margir rikir bænda synir redoz þá til fylgdar vid Olaf konung af Hálogalandi. Þá er áleid sumarit kom konungr nordan, oc sneri þá inn eptir Þrándheimi til Nidaróss, oc sat þar eptir um vetrinn. Þann vetr kom Þórkell Fóstri vestan or Orkneyom, þá er hann hafdi drepit Einar Jarl Rángmunn. Þat haust var í Þrándheimi hallæri á korni, enn ádr hafdi lengi verit gód árferd: enn hallæri var allt nordr í land, oc þvi meira er nordar var; enn korn var gott austr i land, oc sva um Upplönd. Enn þess naut vid í Þrándheimi, at menn átto þar mikil forn korn.

## CAP. CXIII.

## FRÁ BLÓTOM ÞRÆNDA.

Þat haust voro sögd Olafi konungi þau tídindi, innan or Þrándheimi, at bændor hefdi þar haft veitzlor fiölmennar at vetrnóttom: voro þar dryckior miklar; Var konungi sagt, at þar væri minni öll signod Asom, at fornom sid. Þat fylgdi oc þeirri sögn, at þar væri drepit naut oc hross, oc rodnir stallar af blódi, oc framit blót, oc veittr sá formáli, at þat skylldi vera til árbótar. Þat fylgdi því, at öllom mönnom þótti þat audsynt, at godin höfdo reidz því, er Háleygir höfdo horfit til kristni. Enner konungr spurdi þessi tídindi, þá sendi hann menn inn i Þrándheim, oc stefndi til sín bændom þeim er hann red tilnefna. Madr er nefndr Ölver á Eggio; hann var kendr vid bæ þann er hann bió á: hann var ríkr madr oc ættstórr: hann var höfudmadr ferdar þessarar af hendi bænda til konungs. Oc er þeir koma á konungs fund, þá bar konungr á hendor bændom þessi kennzl. Enn Ölver svarar af hendi bænda, oc qvad þá eingar veitzlor hafa haft þat haust, nema gilldi sín eda hvirfings dryckior, enn sumir vinabod. Enn þat, sagdi hann, er ydor er sagt frá ordtökom vorra Þrændanna, þá er ver dreckom, þá kunno allir vitrir menn at varaz slíkar rædor; enn eigi kann ec at synia fyrir heimska menn oc ölóda, hvat þeir mæla. Ölver var madr málsniallr oc máldiarfr; vardi hann allar þes-

sar sakar fyrir bændor. Enn at lyktom segir konungr, at Inn-þrændir mundo siálfir ser vitni bera, hvernog þeir ero trúadir: Fengo bændor þá leyfi til heimfarar; fóro þeir oc þegar er þeir voro búnir.

## CAP. CXIV.
## FRÁ BLÓTOM INN-ÞRÆNDA.

Sídar um vetrinn var konungi sagt, at Inn-þrændor höfdo fiölmennt á Mærinni, oc voro þar blót stór at midiom vetri: blotodo þeir þá til fridar oc vetrarfars gods. Enn er konungr þóttiz sannfródr um þetta, þá sendir hann menn oc ordsending inn í Þrándheim, oc stefndi bændom til bæiar: nefndi enn til menn þá er hönom þótto vitrastir. Bændor átto þá tal sitt, oc rædor sín í millom um ordsending þessa: voro þeir allir ófúsaztir til ferdarinnar, er ádr höfdo farit um vetrinn. Enn vid bæn allra bænda, þá redz Ölver til ferdarinnar. Enn er hann kom út til bæiar, fór hann brátt á konungs fund, oc tóko þeir tal. Þá bar konungr þessar sömo sakir á hendor bændom, at þeir hefdi haft mids-vetrar blót. Ölver svarar, oc segir, at bændor voro ósannir at þeirri sök: höfdom ver, sagdi hann, iólabod, oc vida í herödom samdryckior; ætla bændor eigi sva hnept til iólaveitzlo ser, at eigi verdi stór afhlaup, oc drucko menn þat, herra, lengi sídan; er á Mærinni mikill höfot-stadr, oc hús stór, oc bygd

mikil um-hverfis: þykir mönnom þar til gledi gott at drecka mörgom saman. Konungr svarar fáo, oc var helldr styggr: þóttiz vita annat sannara, enn þat er þá var framborit: bad konungr bændor aptr fara: enn ec mun þó, sagdi hann, verda vis hins sanna, at þeir dylit, oc gángit (þá) eigi ímót: Enn hverso sem her til hefir verit, þá gerit slikt eigi optar: Fóro þá bændor heim aptr, oc sögdo sína ferd, oc þat at konungr var helldr reidr.

## CAP. CXV.

## DRÁP ÖLVIS Á EGGIO.

Olafr konungr hafdi veitzlo mikla at Páskom, oc hafdi marga bæarmenn í bodi síno, oc sva bændor: enn eptir Páska let hann setia fram skip sín, oc bera fram reida oc árar, let þilia skipin, oc tiallda oc búa, oc let flióta skipin sva búin vid bryggior. Olafr konungr sendi menn þegar eptir Páska í Veradal. Madr er nefndr Þóralldi ármadr hans: hann vardveitti konungs bú at Haugi; enn konungr sendi hönom ord, at hann skylldi koma til hans sem skyndiligast. Þóralldi lagdiz þá ferd eigi undir höfot oc fór þegar út til bæiar med sendimönnom; konungr kallar hann á einmæli, oc spurdi, hvat sannindi væri á því, er mer er sagt frá sidom Innþrænda; hvart sva er, at þeir snúaz til blóta; vil ec, segir konungr, at þú segir mer sem er, oc þú

veitz sannazt; er þú til þess skylldr at segia mer satt, þvíat þú ert minn madr. Þóralldi svarar: herra, þat vil ec ydor fyrst segia, at ec flutta híngat til bæiar sono mína tvo oc kono, oc lausa-fe mitt allt, þat er ec mátti medkomaz. Enn ef þú villt hafa sanna sögo af mer, þá skal þat vera á ydro valldi. Enn ef ec segi sva sem er, þá manto siá fyrir míno rádi. Konungr sagdi: seg þú satt frá því, er ec spyr þik: enn ec skal siá fyrir rádi þíno, sva at þik mun eigi saka. Þá mælti Þóralldi: þat er ydor satt at segia konungr, ef ec skal segia sem er, at in um Þrándheim er n liga allt fólk alheidit í átrúnadi, þótt sumir menn seo þar skirdir. Enn þat er sidr þeirra, at hafa blót á haust, oc fagna þá vetri, annat at midiom vetri, enn it þridia at sumri. Enn at þesso rádi ero Eynir oc Sparbyggiar, Verdælir oc Skeynir. Tólf menn ero þeir, er fyrir beitaz um blótveitzlornar; oc á nú Ölver í vor at hallda upp veitzlonni: er hann nú í starfi miklo á Mœrinni, oc þángat ero tilflutt öll faung, þau er til þarf at hafa veitzlonnar. Enn er konungr vard ens sanna vís, þá let hann blása saman lidi síno, oc let segia mönnom, at til skipa skylldi gánga. Konungr nefndi menn til skipstiórnar, oc sva sveitar höfdingia, edr hvert hvergi sveit skylldi til skips; var þá búiz skiótt; hafdi konungr fimm skip oc CCC manna, oc hellt inn eptir firdi: var gódr byr oc tældo sneckiornar ecki lengi fyrir vindi; enn þessa vardi eingan mann, at konungr mun-

di sva skiótt koma inn þannog. Konungr kom um nóttina inn á Mærina: var þar þegar sleginn mannhringr um hús; þar var Ölver höndom tekinn, oc let konungr drepa hann, oc miök marga menn adra. Enn konungr tók upp veitzlo þá alla, oc let flytia til skipa sinna, oc sva fe þat allt, bædi húsbúnad oc klæduad, oc gripi, er menn höfdo þángat flutt oc let skipta at herfángi med mönnom sínom. Konungr let oc veita heimferd at bændom, þeim er hönom þótti mestan hlut hafa átt at rádom þeim: Voro sumir höndom teknir oc í iárn settir; enn sumir komoz á laupi undan; enn fyrir mörgom var feit upptekit; konungr stefndi þá þing vid bændor; enn fyrir því, at hann hafdi þá marga ríkismenn höndom tekit, oc hafdi þá í síno valldi, þá redo þeir þat af, frendor þeirra oc vinir, at iáta konungi lydni; oc vard eingi uppreist ímóti konungi gör í þat sinn: Sneri hann þar öllo fólki á retta trú, oc setti þar kennimenn, oc let gera kyrkior oc vígia. Konungr lagdi Ölvi ógilldan, enn kastadi sinni eigo á fe þat allt, er hann hafdi átt. Enn um þá menn adra, er hönom þótti mest sakbitnir, let hann suma drepa, suma hamla, enn suma rak hann or landi, enn tok fe af sumom. Konungr fór þá aptr ut til Nidaróss.

## CAP. CXVI.

## FRÁ ÁRNA SONOM.

Madr er nefndr Arni Þórmódsson; hann átti Þóro

dóttor Þórsteins Gálga; þau voro börn þeirra: Kálfr, Finnr, Þórbergr, Amundi, Kolbiörn, Arnbiörn, Arni. Ragnhilldr het dóttir þeirra; hana átti Hárekr or Þióttо. Arni var lendrmadr, rikr oc ágætr, vinr mikill Olafs konungs. Þá voro med Olafi konungi synir hans Kálfr oc Finnr, í miklom metnadi. Kona sú er átt hafdi Ölver á Eggio, var úng oc frid, ættstór oc audig; þótti sá kostr ágæta gódr: enn forrád hennar hafdi þá konungr; þau Ölver atto þá tvo sono únga. Kálfr Arnason beiddi þess af konungi, at hann gipti hönom þessa kono, er Ölver hafdi átt; oc fyrir vinátto sakir veitti konungr hönom þat, oc þar med feck hönom eignir þær allar, er Ölver hafdi átt: Gerdi konungr hann lendanmann: feck hönom þá umbod sitt inn um Þrándheim: Gerdiz Kálfr þá höfdingi mikill, oc var madr forvitri.

## CAP. CXVII.

## FERD OLAFS KONUNGS Á UPPLŐND.

Þá hafdi Olafr konungr verit VII vetor í Noregi; þat sumar komo til hans Jarlar af Orkneyom, Þórfinnr oc Brúsi; eignadiz Olafr konungr lönd þau, sva sem fyrr var ritat. Þat sumar fór Olafr konungr um Mæri hvarotveggio, oc í Raumsdal um haustit: þar geck hann af skipom sínom, oc fór þá til Upplanda, oc kom framm á Lessiar. Hann let þar taka alla hina bezto menn, bædi á Lesiom, oc

á Dofrom; oc urdo þeir at taka vid kristni, edr dauda þola, edr undan at flya, þeir sem því komo vid. Enn þeir er vid kristni tóko, fengo konungi sono sína í hendor í gislingar til trúnadar. Konungr var þar nockurar nætor sem Borar heita á Lesiom, oc setti þar fyrir presta. Sídan fór hann yfir Orkodal, oc sva um Liardal, oc kom nidr þar sem Stafabrecka heitir: enn á sú rennr eptr dalnom, er Otta heitir, oc er bygd fögor tveim megin árinnar, oc er köllot Lóar, oc mátti konungr siá eptir endilángri bygdinni. Skadi er þat, sagdi konungr, at brenna skal bygd sva fagra, oc stefndi ofan í dalinn med lidi sino, oc voro á bæ þeim um nótt er Nes heitir; oc tók konungr ser þar herbergi í lopti eino, þar sem hann svaf siálfr í; oc þat stendr enn í dag, oc er eigi at því gört sídan. Oc var konungr þar nætor fimm, oc skar upp þingbod, oc stefndi at ser bændom, bædi af Vaga oc af Lóm oc af Hedal, oc let þat bodi fylgia, at þeir skylldo annat tveggia, hallda bardaga vid hann, oc þola bruna af hönom, edr taka vid kristni, oc fera hönom sono sina í gisling. Sídan komo þeir á konungs fund, oc gengo til handa hönom, enn sumir flydo sudr í Dali.

## CAP. CXVIII.

## SAGA DALA GUDBRANDS.

Dala Gudbrandr hefir madr heitit, er sva var sem

konungr væri yfir Dölonom, oc var hersir at nafni. Hönom iafnadi Sigvatr skálld at riki oc vidlendi vid Erling Skiálgssòn; Sigvatr qvad sva um Erling:

> Einn vissa ec þer annan
> jálks brík-taupod líkan
> vítt red gumna gætir
> Gudbrandr het sá landom.
> Yckor qved ec iafna þickia
> ormláds hati báda:
> lygr hinn at ser lægir
> linnsetrs er telsk betri.

Gudbrandr átti son einn, þann er her se getit. Þá er Gudbrandr feck þessi tidindi, at Olafr konungr var kominn á Lóar, oc naudgadi mönnom at taka vid kristni, þá skar hann upp bod, oc stefndi öllom mönnom í Dölonom til bæ[illegible] þess, er Hundþorp heitir, til fundar vid sik; oc komo þeir allir, oc var ógrynni lids; fyrir því at þar liggr vatn þat nær er Lögr heitir, oc mátti þar iamvel fara til á skipom sem á landi; oc átti Gudbrandr þar þíng vid þá, oc sagdi, at sá madr var kominn á Lóar, er Olafr heitir, oc vill bióda oss trú adra, enn ver höfom ádr, oc brióta god vor öll í sundr, oc segir sva, at han eigi miklo meira god, oc mátkara. Oc er þat furda, er iörd brestr eigi í sundr undir hönom, er hann þorir slíkt at mæla, edr god vor láta hann lengr gánga. Oc vætti ec, ef ver berom út Þór or hofi voro, er her stendr á þeima bæ, oc oss hefir iafnan dugat, oc ser hann Olaf oc hans menn, þá mun gud hans brádna, oc siálfir hann, oc menn hans, oc at engo verda. Þá æpto bændor upp allir

senn, oc mællto, at Olafr skylldi þadan alldrei brot komaz, ef hann qvæmi á fund þeirra: oc eigi mun hann þora lengra at fara sudr eptir Dölonom, segia þeir. Sídan ætlodo þeir til DCC manna at fara á niósn nordr til Breido. Enn fyrir því lidi var höfdingi sonr Gudbrands, XVIII. vetra gamall, oc margir adrir ágætir menn med hönom, oc komo til bæiar þess er Hof heitir; þeir höfdo heyrt þar um konung, oc voro þar þriár nætor: oc kom þar margt lid til þeirra, er flyit hafdi af Lesiom, oc Lóm oc Vagom, þeir er eigi villdo undir kristni gánga. Enn Olafr konungr oc Sigurdr biskop setti eptir kennimenn á Lóm oc á Vaga. Sídan fóro þeir yfir um Urgoröst, oc komo nidr á Uso, oc voro þar um nóttina, oc frago þau tídindi, at lid var mikit fyrir þeim. Þat frago oc búar, er á Breidinni voro, oc biuggoz til bardaga móti konungi. Enn þá er konungr stód upp, þá herklæddiz hann, oc fór sudr eptir Súvollom, oc letti eigi fyrr enn á Breiddinni, oc sá þar mikinn her fyrir ser búinn til bardaga. Sídan fylkti konungr lidi síno, oc reid siálfr fyrir, oc orti orda á bændor, oc baud þeim at taka vid kristni. Þeir svörodo: Þú munt ödro verda vid at koma í dag, enn gabba oss; oc æpto heróp, oc bördo vapnom á skiölldo sína. Konungs menn liópo fram, oc skuto spiótom: enn bændor snero þá þegar á flótta, sva at fátt eitt manna stód eptir. Var þá sonr Gudbrands höndom tekinn, oc gaf Olafr konungr hönom grid, oc hafdi med ser; þar

var konungr fiórar nætor. Þá mælti konungr vid son Gudbrands; far þú nú aptr til födor þins, oc seg hönom, at brátt mun ec þora at koma. Sidan fór hann heim aptr, oc segir födr sínom hörd tídindi, at þeir höfdo hitt konung, oc höfdo bardaga vid hann: enn lid várt flydi allt í fyrstunni þegar: enn ec vard handtekinn, segir hann; gaf konungr mer grid, oc bad mik fyrir at segia þer, at hann kemr her brátt. Nú höfom ver eigi meir her, enn CC manna, af þvi lidi öllo, er ver höfdom þá til móts vid hann. Nú ræd ec þer þat, fadir, at beriaz eigi vid þenna mann. Heyra má þat, segir Gudbrandr, at or þer er bardr kiarkr allr; oc fórto illo heilli heiman; oc mun þer sú för lengi uppi vera, oc trúir þú nú þegar á órar þær, er sá madr fer med, oc þer hefir illa neyso görva, oc þíno lidi. Enn um nóttina eptir dreymdi Gudbrand, at madr kom til hans lióss, oc stód af hönom mikill ógn, oc mælti vid hann: sonr þinn fór enga sæmdarför á mót Olafi konungi: enn miklo munto hafa minni, ef þú ætlar at hallda bardaga vid konung: munto falla siálfr oc allt lid þitt: oc muno vargar draga þik oc alla ydor, oc hrafnar slíta. Hann vard ræddr miök vid ógn þessa, oc segir Þórdi Istromaga, er höfdingi var fyrir Dölom. Hann svarar: slíkt hit sama bar fyrir mik, segir hann. Oc um morguninn leto þeir blása til þings, oc sögdo, at þeim þótti þat rád, at eiga þing vid þann mann; er nordan fór med ny bodord, oc vita med hveriom sanmindom hann fer.

Sídan mælti Gudbrandr vid son sinn: Þú skallt nú fara á fund konungs þess, er þer gaf grid, oc XII menn med þer; oc sva var gert: Fór hann þegar á stad, oc kom móts vid konung á bæ þeim er Lidsstadir het. Oc er þeir komo á fund konungs, segia þeir hönom erindi, at bændor villdo hafa þíng vid hann, oc setia grid milli konungs oc bænda. Konungr let ser þat vel þockaz: oc bundo þat vid hann einkamálom sín i milli, medan sú stefna væri. Oc fóro þeir aptr vid sva búit, oc sögdo Gudbrandi oc Þórdi, at grid voro sætt, oc þat var bundit einkamálom; konungr hafdi, eptir fundinn vid son Gudbrands, farit til Lidsstada, oc var þar fimm nætor. Þá fór konungr á fund bændanna, oc átti þíng vid þá. Enn væta var á mikil um daginn. Sidan er þingit var sætt, þá stód konungr upp oc segir, at þeir á Lesiom oc á Lóm oc á Vagom hafi tekit vid kristni, oc brotit nidr blóthús sin, oc trúa nú á sannan Gud, er skóp himin oc iörd, oc alla luti veit. Sídan setz konungr nidr, enn Gudbrandr svarar: eigi vitom ver um hvern þú rædir, edr kallar þú þann gud, er þú ser eigi, oc engi annarra? enn ver eigom þann gud, er hvern dag má siá, oc er því eigi úti í dag, at vedr er vátt, oc mun ydor hann ógrligr synaz, oc mikill fyrir ser: vænti ec, at ydor skióti skelk í bríngo, ef hann kemr á þíngit. Enn med því at þú segir, at gud ydarr má sva mikit, þá látto hann nú sva gera, at vedr se skyat í morginn, enn regn eigi; oc finnunz her þá. Sidan

fór konungr heim til herbergis, oc fór med hönom sonr Gudbrands í gisling; enn hann feck þeim annan mann ímóti. Um qvelldit, þá spyr konungr son Gudbrands, hvernog god þeirra væri gört; hann segir, at hann var merktr eptir Þór, oc hefir hann hamar í hendi, oc mikill vexti, oc holr innan, oc görr undir hönom sem hiallr se, oc stendr hann þar á ofan, er hann er úti. Eigi skortir hann gull oc silfr á ser; fiórar leifar brauds ero hönom ferdar hvern dag, oc þar vid slátor. Sidan fóro þeir í reckior. Enn konungr vakti þá nótt alla, oc var á bænom sínom. Enn er dagr var, þá fór konungr til messo, oc sidan til matar, oc þá til þings. Enn vedrino var sva farit, sem Gudbrandr hafdi fyrir mælt; þá stód biskop upp í kantara-kápo, oc hafdi mytr á höfdi, oc bagal í hendi, oc taldi trú fyrir bændom, oc segir þeim margar iartegnir, er Gud hafdi gört, oc lauk vel rædo sinni. Þá svarar Þórdr Istromagi: margt mælir hyrningr sá, er staf hefir í hendi, oc uppi á sem vedrarhorn se biúgt. Enn med því at þit, felagar, kallit gud ydar sva margar iartegnir göra, þá mæl þú vid hann, at á morgin fyrir migddagssól, láti hann vera heid oc sólskin, oc finnunz her þá, oc görom þá annathvert, at verom sáttir um þetta mál, edr hölldom bardaga: oc skiliunz sva at sinni.

## CAP. CXIX.

## SKÍRDR DALA GUDBRANDR.

Kolbein Sterki het madr, er var med Olafi konungi: hann var kyniadr or Fiördom: hann hafdi þann búnat iafnan, at hann var gyrdr sverdi, oc hafdi ruddo mikla í hendi, er menn kalla klubbo. Konungr mælti vid Kolbein, at hann skylldi vera næst hönom um morgunin: sídan mælti hann vid menn sína: gángit þer þannog í nótt, sem skip bænda ero, oc borit raufar á öllom, enn rídit í brot eykiom þeirra af bæiom, sem þeir ero á; oc sva var gört. Enn konungr var þá nótt alla á bænom, oc bad Gud þess, at hann skylldi leysa þat vandrædi med sinni milldi oc miskun. Enn er lokit var tídom, oc var þat móti degi, þá fór konungr til þings. Enn er hann kom á þíng, þá voro sumir bændor komnir; þá sáo þeir mikinn fiölda búanda fara til þings, oc báro í milli sín mannlíkan mikit, glæst allt med gulli oc silfir. Enn er þat sá bændor, þeir er á þíngino voro, þá liópo þeir allir upp oc luto því skrímsli. Sídan var þat sett á midian þíngvöll; sáto ödromegin bændor, enn ödromegin konungr oc hans lid. Sídan stód upp Dala Gudbrandr oc mælti: hvar er nú Gud þinn, konungr; þat ætla ec, at hann beri nú helldr lágt hökö-skeggit, oc sva syniz mer sem minna se kapp þit nú, oc þess hyrnings, er þer kallit biskop, oc þar sitr í hiá þer, helldr enn hinn fyrra dag; fyrir

því at nú er gud vor kominn, er öllo rædr, oc ser á ydor med hvassom augom: oc se ec at þer erot nú felmsfullir, oc þorit varla augom upp at siá: nú fellit nidr hindrvitni ydar, oc trúit á god várt, er allt hefir rád ydart í hendi; oc lauk hann sva sinni rædo. Konungr mælti vid Kolbein Sterka, sva at bændor visso eigi til: ef sva ber til í erendi míno, at bændar siá frá godi síno, þá slá þú þat högg sem þú mátt mest med ruddonni. Sidan stód konungr upp oc mælti: margt hefir þú mælt í morgin til vor, oc lætr þú kynliga yfir því, er þú mátt eigi siá Gud várn: enn ver vættom, at hann muni koma brátt til vár; þú ógnar oss gudi þíno, er blindt er oc dauft, oc má hvarki biarga ser ne ödrom, oc kemz engan veg or stad, nema borinn se, oc vænti ec nú, at hönom se skamt til íllz, oc litit þer nú til oc siáit í austr: þar fer nú Gud vár med liósi miklo. þá rann upp sól, oc lito bændor allir til sólarinnar. Enn í því bili laust Kolbeinn sva god þeirra, at þat brast allt í sundr, oc liópo þar út mys, sva stórar sem kettir væri, oc edlor oc ormar. Enn bændor urdo sva hræddir, at þeir flydo, sumir til skipa; enn þá er þeir rundo út skipom sínom, þá lióp þar vatn í oc fyllti upp, oc mátto eigi á koma. Enn þeir er til eykia liópo, fundo þá eigi. Sídan let konungr kalla bændornar, oc segir, at hann vill eiga tal vid þá; oc hverfa bændor þá aptr, oc setto þíng. Sídan stód konungr upp oc taladi: eigi veit ec, segir hann, hví sætir hark

þetta oc laup, er þer görit. Enn nú megit þer siá hvat gud ydar mátti, er þer bárot á gull oc silfr, mat oc vistir, oc siá nú hveriar vettir þess höfdo neytt, mys oc ormar, edlor oc pöddor; oc hafa þeir verr er á slikt trúa oc eigi vilia láta af heimskò sinni: takit þer gull ydart oc gersemar, er her fer nú um völlo, oc hafit heim til qvenna ydarra, oc berit alldrei sídan á stocka edr á steina. Enn her ero nú kostir tveir á med oss: annat tveggia at þer takit nú vid kristni, edr halldit bardaga vid mik nú í dag; oc beri þeir sigr af ödrom er sá Gud vil, er ver trúom á. Þá stód Dala Gudbrandr upp oc mælti: skada mikinn höfom ver nú fángt, um gud várt; enn þó med því, at hann mátti oss ecki vid hiálpa, þá viliom ver nú trúa á þann Gud, sem þú trúir á; oc tóko þá allir vid kristni. Þá skirdi biskup Gudbrand oc son hans. Þeir Olafr konungr oc Sigurdr biskup setto þar eptir kennimenn; oc skildoz þeir vinir, sem fyrr voro úvinir; oc let Gudbrandr gera þar kyrkio í Dölonom.

## CAP. CXX.
## KRISTNOT HEIDMÖRK.

Olafr konungr fór sídan út á Heidmörk, oc kristnadi þar; þvíat þá er hann hafdi konunga tekit, treystiz hann eigi med litit lid, at fara vida um

land, eptir slikt stórvirki: Var þá óvida kristnat um Heidmörk. Enn í þeirri ferd letti konungr eigi fyrr, enn Heidmörk var alkristnot, oc þar vigdar kyrkior, oc til þeirra fengnir kennimenn. Þá fór hann út á Þotn oc Hadaland, oc retti þar sido manna: oc letti sva, at þar var alkristit. Þadan fór hann á Hringaríki; oc gengo menn allir undir kristni. Sídan frágo Raumar, at Olafr bióz upp þannog, oc sömnodo lidi miklo samann, oc mælto sin í milli, at þat er þeim eimuni sú yfir-för, er Olafr hafdi þar farit fyrra sinni; oc sögdo at hann skylldi alldregi sva at sídan fara. Enn konungr bióz eigi at sídr. Enn er Olafr konungr fór upp á Raumaríki med lidi sino, þá kom móti hönom bænda sanmadr vid á þá, er Nizia heitir: höfdo bændor her mikinn. Enn er þeir fundoz, orto bændor þegar á til bardaga. Enn brátt brann vid lutr þeirra, oc rucko þeir þegar undan, oc voro bardir til bátnadar: þvíat þeir tóko þegar vid kristni: Fór konungr yfir þat fylki, oc skildiz eigi fyrr vid, enn þar höfdo allir menn vid kristni tekit. Þadan fór hann austr í Sóleyar, oc kristnadi þá bygd. Þar kom til hans Ottar Svarti skálld, oc beidiz at gánga til handa Olafi konungi. Þann vetr ádr hafdi andaz Olafr Svía konungi: Var þá Önundr Olafsson einn konungr í Sviþiód. Olafr konungr sneri þá apr á Raumaríki: Var þá miök lidinn vetrinn. Þá stefndi Olafr konungr þíng fiölment, í þeim stad, sem sídan hefir verit Heidsævis þíng: setti hann þá þat í lögom, at til þess þíngs

skylldi sækia Upplendingar, oc Heidsævislög skyllda gánga um öll fylki á Upplöndom, oc sva vída annarstadar, sem sídan hafa þau gengit. Enn er várar, sótti hann út til sævar: let þá búa skip sín, oc fór um várit út til Tunsbergs, oc sat þar um várit, þá er þar var fiölmennazt, oc þúngi var fluttr til bæiar af ödrom löndom: Var þar þá árferd gód allt um Víkina, oc til gódrar hlitar, allt nordr til staðs; enn hallæri mikit allt nordr þadan.

## CAP. CXXI.
## SÆTT OLAFS KONUNGS OC EINARS ÞAMBARSKELFIS.

Olafr konungr sendi bod um vorit vestr um Agdir, oc allt nordr um Rogaland, oc um Hördaland, at hann vill hvarki korn ne mallt ne miöl þadan í brot láta flytia ne selia; let þat fylgia, at hann mun þángat koma med lid sitt, oc fara at veitzlom, sva sem sidvenia var til: Fór þá bod um þau fylki öll; enn konungr dvaldiz í Víkinni um sumarit, oc fór allt austr til lands enda. Einar Þambarskelfir hafdi verit med Olafi Svía konungi, sídan er Sveinn Jarl andadiz, mágr hans, oc gerz Svia konungs madr, oc tekit þar af hönom len mikit. Enn er konungr var andadr, þá fystiz Einar at leita ser grida af Olafi Digra; oc höfdo þar um vorit farit ordsendingar milli þeirra. Enn er Olafr konungr lá í Elfi, þá kom

þar Einar þambarskelfir med nockora menn; ræddo þeir konungr þá um sætt sína, oc samdiz þat med þeim, at Einar skylldi fara nordr til þrándheims, oc hafa eignir sínar allar, oc sva þær iardir, er Berglióto höfdo heiman fylgt: Fór Einar þá nordr leid sína, enn konungr dvaldiz í Víkinni, oc var lengi í Borg um haustit, oc öndurdan vetr.

## CAP. CXXII.

## SÆTT OLAFS KONUNGS OC ERLINGS SKIÁLGSSONAR.

Erlingr Skiálgsson hellt ríki síno sva, at allt nordr frá Sognsæ, oc austr til Lidandisness, red hann öllo vid bændor, enn veitzlor konungs hafdi hann miklo minni enn fyrr. þá stód þó sú ógn af hönom, at eingi lagdi í adra skál, enn hann villdi. Konungi þótti ofgángr at Erlings ríki. Madr er nefndr Aslákr Fitiaskalli kynstór oc ríkr. Skiálgr, fadir Erlings, oc Askell, fadir Ásláks, voro brædra synir. Aslákr var mikill vinir Olafs konungs, oc setti konungr hann nidr á Sunnhördalandi, oc feck hönom þar len mikit oc veitzlor stórar, oc bad konungr hann hallda til fullz vid Erling. Enn þat vard eigi þannog, þegar er konungr var eigi nær: Vard þá Erlingr einn at ráda, sva sem hann villdi þeirra í milli: var hann eigi at miúkari, at Aslákr villdi sik fram draga hiá

hönom; fóro þeirra skipti sva, at Áslákr hellz eigi vid syslonni, oc stöck á fund Olafs konungs, oc segir hönom frá vidskipti þeirra Erlings. Konungr bad Áslák vera med ser, þar til er ver Erlingr finnunz. Konungr gördi ord Erlingi, at hann skylldi koma til Túnsbergs um várit á fund konungs. Enn er þeir finnaz, þá eiga þeir stefnor, oc mælti konungr: sva er mer sagt frá ríki þíno, Erlingr, at engi se sá madr nordan frá Sognsæ til Lidandisness, er frelsi sino halldi fyrir þer; ero þar margir menn, er ódalbornir þættiz tilvera, at hafa rettindi af iafnbornom mönnom ser; nú er her Áslákr, frændi ydarr, oc þyckiz hann hellzt kulda af kenna um ydra vidrskipti. Nú veit ec þat eigi hvart helldr er, at hann hefir sakir til þess, edr skal hann hins at giallda, er ec hefir hann þar sett yfir varnat minn; enn þótt ec nefna hann til þess, þá kæra margir slíkt fyrir oss, bædi þeir er í syslom sitiá, oc sva ármenn, er bú vár vardveita, oc veitzlor skulo göra ímóti mer oc lidi míno. Erlingr segir: því skal skiótt svara; at því skal neita, at ec gefa þær sakir Asláki, ne ödrom mönnom, at í þiónosto ydarri se; enn hino skal iáta, at þat er nú, sem lengi hefir verit, at hvarr vár frænda vill ödrom meiri vera; sva hino ödro skal iáta, at ec göri þat lostugr, at beygia hálsinn fyrir þer, Olafr konungr: enn hitt mun mer ördigt þickia, at lúta til Selþóris, er þrælborinn er í allar ættir, þótt hann se nú ármadr ydar, edr annarra þeirra, er hans makar ero at kynferd, þótt þer

leggit metord á. Þá tóko til rædo beggia vinir, oc bádo, at þeir skylldo sættaz: segia sva, at konungi var at eingom manni styrkr sva mikill, sem at Erlingi, ef hann má vera ydar fullkominn vinr. I annan stad mæla þeir til Erlings, at hann skylldi vægia til vid konung; qvádo, ef hann hellz í vinátto vid konung, at hönom mun þá allt audvellikt, at koma slíko fram sem hann villdi vid hvern annarra: Lauk sva stefno þeirri, at Erlingr skylldi hafa söma veitzlor, sem hann hafdi ádr haft, oc settoz nidr allar sakir, þer er konungr hafdi á hendi Erlingi: Skylldi oc fara til konungs Skiálgr, son Erlings, oc vera med hönom: Fór þá Aslákr aptr til búa sinna, oc voro þá sáttir at kalla: Erlingr fór oc heim til búa sinna oc hellt teknom hætti um ríki sitt.

## CAP. CXXIII.

## UPPHAF ÁSBIARNAR SELSBANA.

Sigurdr het madr Þórisson, bródir Þóris Hunds í Biarkey. Sigurdr átti Sigrídi dóttor Skiálgs, systor Erlings. Asbiörn het son þeirra: hann þótti allmannvænn í uppvexti. Sigurdr bió í Aumd á Þrándarnesi: hann var madr stóraudigr, virdingamadr mikill; eigi var hann konungi handgenginn; oc var Þórir fyrir þeim brædrom at virdingo, er hann var lendrmadr konungs. Enn heima í búnadi, þá var Sigurdr í eingan stad minni rausnarmadr. Sigurdr var því vanr, medan heidni var, at hafa þriá blót

hvern vetr: eitt at vetrnóttom, annat at midiom vetri, þridia at sumri. Enn er hann tók vid kristni, þá hellt hann þó teknom hætti um veitzlornar: hafdi hann þá um haustit vinabod mikit, oc iólabod um vetrinn, oc baud þá enn til sín mörgom mönnom, þridio veitzlo hafdi hann at Páskom, oc hafdi þá oc flölmennt. Slíko hellt hann fram medan hann lifdi. Sigurdr vard sóttdaudr; þá var Asbiörn XVIII. vetra; tók hann þá allan arf eptir födr sinn; hellt hann teknom hætti, oc hafdi hann þriár veitzlor á hveriom vetri, sem fadir hans hafdi haft: Var þess skamt í milli, er Asbiörn hafdi tekit vid födrarfi, oc þess, er árferd tók at versna, at sædi manna brugdoz. Asbiörn hellt eno sama um veitzlor sínar, oc naut hann þá þess vid, at þar voro forn korn, oc forn faung, þau er hafa þurfti. Enn er þau misseri lido af, oc önnor komo, var þá korn eingom mun betra, enn hinn fyrri. Þá villdi Sigríd, at veitzlor væri afteknar sumar edr allar. Asbiörn villdi þat eigi; fór hann þá um haustit, at hitta vini sína, oc keypti korn þar sem hann gat, enn þá af sumom: Fór sva enn fram þann vetr, at hann hellt veitzlom öllom. Enn eptir um várit fengoz litil sædi: þvíat eingi gat frækorn at kaupa. Ræddi Sigríd um, at fæcka skyldi húskarla. Asbiörn vildi þat eigi, oc hellt hann í öllo eno sama. Þat sumar var korn helldr óárvænt: þat fylgdi oc sva, at þá var sagt sunnan or landi, at Olafr konungr bannadi korn oc mallt oc miöl at flytia sunnan oc nordr í landit. Þá þótti

Asbirni vandaz um tilfaungin búsins; var þat þá rád hans, at hann let framsetia byrding, er hann átti; þat var hafflæranda skip at vexti. Skipit var gott, oc reidi vandadr miök til; þar fylgdi segl stafat med vendi. Asbiörn redz til ferdar, oc med hönom XX menn; fóro nordan um sumar, oc er eigi sagt frá ferd þeirra, fyrr enn þeir koma í Karmtsund aptan dags, oc lögdo at vid Ögvalldsnes; þar stendr bær mikill skamt uppá eynni Körmt, er heitir á Ögvalldsnesi; þar var konungsbú, ágætr bær; þar red fyrir Þórir Selr: var hann þar ármadr Olafs konungs. Þórir var madr ættsmár, oc hafdi mannaz vel, starfsmadr gódr, sniallr í máli, áburdarmadr mikill, framgiarn oc óvæginn: lyddi hönom þat sídan er hann feck hans styrk; hann var madr skiótórdr oc örordr. Þeir Asbiörn lágo þar um nótt; enn um morgininn er lióst var ordit, geck Þórir ofan til skips, oc nockurir menn med hönom; hann spurdi, hverr fyrir skipi þvi redo eno vegliga; Asbiörn svarar, segir til sín, oc nefndi födr sinn. Þórir spyr, hvert hann skylldi fara et lengsta, eda hvat hönom væri at erendom. Asbiörn segir, at hann vill kaupa ser korn oc mallt; segir hann, sem satt var, at hallæri var mikit nordr í landi; enn oss er sagt, at her se vel ært: edr villto, bóndi, selia oss korn? ec se at her ero hiálmar stórir; væri oss þat orlausn, at þurfa eigi lengra at fara. Þórir svarar: ec skal göra þer orlausn, at þú þurfir eigi lengra at fara at kornkaupom, eda vídara um Rogaland.

Ec kann þat segia þer, at þú munt her vel mega aptrhverfa, oc fara eigi lengra; þviat þú mant eigi korn her fá, ne í ödrom stödom; þvíat konungr bannar at selia hedan korn, nordr í land; oc far aptr, Háleygingr, sá mun þer hinn besti. Asbiörn svarar: ef sva er, bondi, sem þú segir, at ver munom ecki fá kornkaup, þá mun eigi minna verda mitt erindi, enn hafa kynni-sókn á Sóla, oc siá híbyli Erlings, frænda míns. Þórir svarar: hverso mikla frændsemi átt þú vid Erling? Asbiörn svarar: módir mín er systir hans. Þórir segir: vera má þá, at ec hafi ecki varliga mælt, ef þú ert systorson konungsins Rygia. Þá köstodo þeir Asbiörn tiölldonom af ser, oc snero út skipino. Þórir kalladi á þá: farit nú vel, oc komit her, þá er þer farit aptr. Asbiörn segir at sva skylldi vera: Fara þeir nú leid sína, oc koma at qvelldi á Jadar: Fór Asbiörn upp med X menn, enn adrir X gætto skips. Enn er Asbiörn kom til bæiar, feck hann þar allgódar vidtökor, oc var Erlingr vid hann hinn kátasti; setti Erlingr hann et næsta ser, oc spurdi hann margra tídinda nordan or landi. Asbiörn segir et liósasta af erendom sínom; Erlingr svarar, at þat var þá eigi vel tilhorit, er konungr bannadi kornsölo: veit ec, segir han, eigi þeirra manna von her, at traust muni tilbera at brióta ord konungs; verdr mer vangætt til skaps konungs, þvíat margir ero spillendr at um vinátto vára. Asbiörn segir: seint er satt at spyria: mer hefir kent verit á únga alldri, at módir min væri friáls-

borin í allar álfor, oc þat med, at Erlingr á Sóla væri göfgastr hennar frænda. Enn nú heyri ec þik segia, at þú sert eigi sva friáls fyrir konungs þrælom her á Jadri, at þú megir ráda fyrir korni þíno, slíkt er þer líkar. Erlingr sá til hans, oc glotti vid tönn, oc mælti: minna vitit þer af konungs ríki, Háleygir, enn ver Rygir. Enn örordr munto heima vera, frændi: átto oc eigi lángt til þess at telia. Dreckom nú fyrst, frændi, oc siám í morgin, hvat þá tidt er um erindi þitt: Gördo þeir sva, oc voro kátir um qvelldit. Eptir um daginn talaz þeir vidr Erlingr oc Asbiörn; oc mælti Erlingr: hugsat hefir ec nockot fyrir um kornkaupin þín, Asbiörn; edr hverso vandr munto vera at kaupo-nautom? hann sagdi, at hann hirdi þat alldregi, at hveriom hann keypti korn, ef hönom væri heimillt sellt. Erlingr mællti: þat þycki mer likara, at þrælar minir muno eiga korn, sva at þú munt vera fullkaupa; þeir ero eigi í lögom eda landsretti med ödrom mönnom. Asbiörn segir at hann vill þann kost. Þá var sagt þrælonom til um þetta kaup; leto þeir korn fram oc mallt, oc selldo Asbirni; hlód hann skip sitt sem hann villdi. Enn er hann var í brot búinn, leiddi Erlingr hann út med vingiöfom, oc skildoz þeir med kærleikom: Feck Asbiörn byrleidi gott, oc lagdi at um qvelldit í Karmtsundi vid Ögvalldsnes, oc voro þar um nóttina. Þórir Selr hafdi þegar spurn af um farir Asbiarnar, oc sva þat, at skip hans var kaf-ladit Þórir stefndi til sín lidi um nóttinna, sva at

hann hafdi fyrir dag LX manna: hann fór á fund Asbiarnar, þegar er litit var lyst; gengo þeir þegar út á skipit; þá voro þeir Asbiörn klæddir, oc heilsadi Asbiörn Þóri. Þórir spurdi hvat þúnga Asbiörn hefdi á skipi. Hann segir at korn oc mallt var. Þórir svarar: þá mun Erlingr at vanda göra, at taka fyrir hiegóma-mál öll ord konungs: oc leidiz hönom enn eigi þat, at vera hans mótstödomadr í öllo; oc er furda, at konungr lætr hönom allt lyda. Var Þórir málódi um hríd; enn er hann þagnadi, þá segir Asbiörn, at korn þat höfdo átt þrælar Erlings. Þórir svarar snellt, at hann hirdir eigi um pretto þeirra Erlings: er nú hitt til, Asbiörn, at þer gángit á land, ellegar færom ver ydor útbyrdis; þvíat ver viliom enga þröng hafa af ydor, medan ver rydiom skipit. Asbiörn sá at hann hafdi eigi lidskost vid Þóri, oc gengo þeir Asbiörn á land upp; enn Þórir let flytia farminn allan af skipino. Enn er rutt var skipit, þá geck Þórir eptir skipino, oc mælti: furdo gott segl hafa þeir Háleygirnir; taki byrdings segl várt hit forna, oc fáit þeim: þat er þeim fullgott, er þeir sigla lausom kili. Sva var gört, at skipt var seglonom: Fóro þeir Asbiörn brott leid sína vid sva búit; oc stefndi hann nordr med landi; oc letti eigi fyrr, enn hann kom heim öndverdan vetr; oc vard sú för allfræd: Vard þá allt starf tekit af Asbirni, at búa veitzlor á þeim vetri. Þórir Hundr baud Asbirni til iólaveitzlo, oc módor hans, oc þeim mönnom, er þau villdo hafa med ser. As-

biörn villdi eigi fara, oc sat heima; þat fann á, at Þóri þótti Asbiörn gera óvirdit til bodsins, er hann vildi eigi fara: Hafdi Þórir í fleymingi um farir Asbiarnar; bædi er, sagdi hann, at mikill er virdinga munr vár frænda Asbiarnar, enda gerir hann sva, slíkt starf sem hann lagdi á í sumar, at sækia kynnit til Erlings á Jadar, er hann vill eigi her fara í næsta hús til mín; veit ec eigi hvart hann hyggr, at Sel-Þórir mani í hveriom hólma vera fyrir. Slík ord spurdi Asbiörn til Þóris, oc önnor þeim lík. Asbiörn undi stórilla ferd sinni, oc enn verr, er hann heyrdi slíkt haft at látri oc spotti: Var hann heima um vetrinn, oc fór hvergi til heimboda.

## CAP. CXXIV.

## DRÁP SEL-ÞÓRIS.

Asbiörn átti lángskip; þat var sneckia tvítogsessa, stód í nausti miklo. Eptir kyndilmesso let Asbiörn setia fram skipit oc bera til reida, oc let búa skipit. Þá stefndi hann til sín mönnom oc vinom sínom; oc hafdi nær XC manna, oc alla vel vapnada. Enn er hann var búinn, oc byr gaf, þá sigldi hann sudr med landi; oc fara þeir ferdar sinnar, oc byriar helldr seint. Enn er þeir sækia sudr í land, þá fóro þeir útleid, meir enn þiódleid, þegar er sva mátti. Eigi vard til tídinda um ferd þeirra, fyrr enn þeir komo at qvölldi fimta dag Páska utan

at Körmt. Henni er þannog farit, at hon er mikil ey, laung, oc vídazt eigi breid: liggr vid þiódleid fyrir utan; þar er mikil bygd, oc er þó eyin vída óbygd, þat er útliggr til hafsins. Þeir Asbiörn lendo útan at eyonni, þar er óbyggt var. Enn er þeir höfdo tialldat, þá mælti Asbiörn: nú skulot þer vera eptir her, oc bída mín: enn ec mun gánga upp á eyna, oc fara á niósn, hvat tídt er í eyonni: þvíat ver höfom eigi umspurt ádr. Asbiörn hafdi vandan búnat, oc hött sídan, fork í hendi, gyrdr sverdi undir klædom. Hann geck á land upp, oc yfir á eyna: enn er hann kom á hæd nockora, þá er hann mátti siá til bæiar á Ögvalldsnesi, oc sva fram í Karmtsund, þá sá hann alla vega mannfarar miklar bædi á sæ oc landi: oc sótti þat fólk allt til bæar á Ögvalldsnesi. Hönom þótti þat undarlikt. Sídan geck hann heim til bæarins, oc þar til er þiónostomenn biuggo mat: heyrdi hann þá þegar, oc skildi rædor þeirra, at Olafr konungr var þar kominn til veitzlo; sva þat med, at konungr var þá til borda genginn. Asbiörn sneri þá til stofunnar. Er hann kom í forstofuna, þá geck annar madr út, enn annar inn; oc gaf eingi madr at hönom gaum; opin var stofan. Hann sá, at Þórir Selr stód fyrir hásætis bordino; þá var miök á qvölld lidit. Asbiörn heyrdi til, at menn spurdo Þóri frá skiptom þeirra Asbiarnar, oc sva þat, at Þórir sagdi af lánga sögo, oc þótti Asbirni hann halla synt sögunni. Þá heyrdi hann at madr mælti: hvernog vard vid

Asbirni, þegar er þer ruddot skipit? Þórir segir: bar hann sik til nockorrar litar, oc þó eigi vel, þá er ver ruddom skipit; enn er ver tókom seglit af hönom, þá gret hann. Enn er Asbiörn heyrdi þetta, þá brá hann sverdino hart oc tidt, oc lióp í stofona, hió þegar til Þóris; kom höggit utan á hálsinn: fell höfudit á bordit fyrir konungin, enn búkrinn fell á fætor hönom: urdo borddúkarnir í blodi eino bædi uppi oc nidri. Konungr mælti, bad taka hann oc leida út; oc var sva gert, at Asbiörn var þegar tekinn höndom, oc leiddr út or stofunni: enn þá var tekinn bordbúnadrinn oc dúkarnir, oc brott borinn, oc sva líkit Þóris, oc sópat allt þat er blódugt var; konungr var allreidr, oc stillti vel ordom sínom, sva sem hann var vanr iafnan.

## CAP. CXXV.

## FRÁ SKIÁLGI ERLINGSSYNI.

Skiálgr Erlingsson stód upp, oc geck fyrir konung, oc mælti sva: nú man, sem optar, konungr, at þar mun til umbótar at siá, er þer erot; ec vil bióda fe fyrir mann þenna, til þess at hann halldi lífi síno oc limom: enn þer, konungr, skipit oc skerit um allt annat. Konungr svarar: er eigi þat daudasök, Skiálgr, ef madr brytr Páskafrid? oc sú önnor, er hann drap mann í konungs herbergi? sú hin þridia, er yckor födr þinom man þyckia litils verd,

er hann hafdi fætor mína fyrir höggstockinn. Skiálgr svarar: illa er þat, konungr, er ydor mislíkar: enn elligar væri verkit et besta unnit. Enn ef verk þetta, konungr, þyckir ydor ímóti skapi, oc mikils verdt, þá vætta ec, at ec þiggia mikit fyrir þiónosto mína af ydor; muno margir þat mæla, at ydor se þat vel göranda. Konungr svarar: þótt þú ser mikils verdr, Skiálgr, þá mun ec eigi fyrir þínar sakir brióta lögin, oc leggia konungs tignina. Skiálgr snyz þá í brot, oc út or stofunni. Tólf menn höfdo þar verit med Skiálgi; oc fylgdo þeir hönom allir, oc margir adrir gengo med hönom brott. Skiálgr mælti til Þórarins Nefiolfssonar: ef þú villt hafa vináttu mína, þá legdo allan hug á, at madrinn se eigi drepinn fyrir sunnodag. Sidan fer Skiálgr oc menn hans, oc tóko ródrar-skúto er hann átti, oc róa sudr, sva sem af mátti taka, oc komo í ellding nætor á Jadar: gengo þegar upp til bæiarins, oc til lopts þess er Erlingr svaf í. Skiálgr hlióp á hurdina sva at hon brotnadi at nöglom. Vid þat vaknar Erlingr oc adrir sem inni voro: hann var skiótastr á fætor, oc greip upp skiölld sinn oc sverd, oc hlióp til dyranna, oc spurdi hverr þar færi sva ákaft? Skiálgr segir til sín, oc bad uppláta hurdina; Erlingr svarar: þat var líkligast at þú mundir vera, ef allheimskliga för: edr fara menn nockorir eptir ydor? var þá látin upp hurdin. Þá mælti Skiálgr: þat vænti ec, þótt þer þycki ec fari ákafliga, at As-

birni frænda þínom þycki eigi ofr skiótt, þar er hann sitr nordr á Ögvalldsnesi í fiötrom; oc er þat mannligra at fara til, oc duga hönom. Sídan hafaz þeir fedgar ord vid: segir þá Skiálgr Erlingi alla atburdi um víg Sel-Þóris.

## CAP. CXXVI.

## FRÁ ÞÓRARNI NEFIOLFSSYNI.

Olafr konungr settiz í sæti sitt þá er um var búit í stofunni; oc var han allreidr. Hann spurdi hvat tídt var um vegandann? hönom var sagt, at hann var úti í svölom í gætzlo hafdr; konungr segir: hví er hann eigi drepinn? Þórarinn Nefiolfsson svarar: Herra, kallit þer eigi þat mord, at drepa menn um nætor? þá mælti konungr: setit hann í fiötr, oc drepit hann í morgin. Þá var Asbiörn fiötradr, oc byrgdr einn í húsi um nóttina. Eptir um daginn lyddi konungr morguntídom; sídan geck hann á stefnor, oc sat þar fram til hámesso; oc er hann geck frá tídom, mælti hann til Þórarins: mun nú ei sólin vera sva há, at Asbiörn, vinr ydar, mun mega hánga? Þórarinn svarar, oc laut konunginom: herra, þat sagdi Sigurdr biskop hinn fyrra friádag, at sá konungr er alls á valld, oc þoldi hann skapraunir; oc er sá sæll, er helldr má eptir hönom likia, enn eptir hinom, er þá dæmdo manninn til dauda, eda þeim er þá ollo manndrápino. Nú er eigi lángt til morgins,

oc er þá sykn dagr. Konungr leit vid hönom oc mælti: ráda munto þesso, at hann mun eigi í dag drepinn; skallto nú taka vid hönom oc vardveita; oc vit þat til sanns, at þar liggr lif þitt vid, ef hann kemz í brot med nockoro móti: Geck þá konungr leid sína. Þórarinn geck þar til er Asbiörn sat í iárnom: let Þórarinn þá af hönom fiötr, oc fylgdi hönom í stofo eina litla, oc let þá fá hönom dryck oc mat, oc sagdi hönom hvat konungr hefdi álagt, ef Asbiörn hlypi í brot. Asbiörn svarar, at Þórarinn þyrfti eigi þat at óttaz: Sat Þórarinn þar hiá hönom lengi um daginn, oc sva svaf hann þar um nóttina. Laugardag stód konungr upp, oc fór til morgintída: sídan geck hann á stefnor; oc var þar fiölmennt komit af bændom, oc átto þeir margt at kæra: Sat konungr þar lengi dags, oc vard helldr síd gengit til hámæsso. Eptir þat geck konungr til matar. Enn er hann hafdi mataz, drack hann um hrid, sva at bord voro uppi. Þórarinn geck til prests þesss er kyrkio vardveitti, oc gaf hönom tvo aura silfrs til þess, at hann skylldi hríngia til helgar, iamnskiótt sem konungs bord fóro upp. Enn er konungr hafdi druckit þá hrid, sem hönom þótti fellt, þá var bordit upptekit. Þá mælti konungr, segir þá at þat var rád, at þrælar færi med vegandann oc drepi hann. Í því bili var hríngt til helgar. Þá geck Þórarinn fyrir konung oc mælti: grid mun sa madr skal hafa um helgina, þott hann hafi illa tilgert; konungr segir: gætto hans, Þórarinn,

sva at hann komiz eigi á brot: Geck þá konungr til kyrkio, oc fór til nóno; enn Þórarinn sat enn um daginn hiá Asbirni. Sunnodag geck biskop til Asbiarnar, oc skriptadi hönom, oc gaf hönom lof til at lyda hámesso. Þórarinn geck þá til konungs, oc bad hann fá menn til at vardveita vegandann; vil ec nú, sagdi hann, vidrskiliaz hans mál; konungr bad hann hafa þöck fyrir þat: Feck hann þá menn til at vardveita Asbiörn: Var þá settr fiötr á hann. Enn er til hámesso var gengit, þá var Asbiörn leiddr til þyrkio, oc stód hann úti fyrir kyrkiunni, oc þeir er hann vardveitto. Konungr oc öll alþyda stód at messo.

## CAP. CXXVII.

## SÆTT ERLINGS OC OLAFS KONUNGS.

Nú er þar til máls at taka, er fyrr var fráhorfit, at þeir Erlingr oc Skiálgr son hans gerdo rád sin um þetta vandqvædi: oc stadfestiz þat med áeggian Skiálgs, oc annarra sona hans, at þeir samna lidi, oc skera upp herör; kom þá brátt saman lid mikit, búaz sem skiótaz, oc redo þeir til skipa; oc var þar skorat manntal, oc var nær XV hundrot manna: Fóro þeir med þat lid, oc komo sunnodaginn í Körmt á Ögvalldsness, oc gengo upp til bæar med öllo lidino, oc komo í þann tima er lokit var gudspialli: gengo þegar upp at kyrkionni, oc tóko Asbiörn, oc

voro brotin fiölor af hönom. Enn vid gny þenna oc vapnabrak, þá liópo allir inn í kyrkiona þeir er ádr voro úti. Enn þeir er í kyrkio voro, þá lito allir út, nema konungrinn, hann stód, oc sáz eigi um. Þeir Erlingr skipodo lidi síno, tveim megin strætis þess er lá frá kyrkio, oc til stofunnar; stód Erlingr oc synir hans næst stofunni. Enn er allar tídir voro súngnar, þá geck konungr þegar út or kyrkionni; geck hann fyrst fram í qvína, enn sídan hver eptir ödrom hans manna. Þegar er hann kom heim at dyronom, þá geck Erlingr fyrir dyrnar oc laut konungi, oc heilsadi hönom: konungr svaradi, bad Gud hiálpa hönom. Þá tók Erlingr til máls: sva er mer sagt, at Asbiörn frænda minn hafi hendt glæp mikinn: oc er þat illa, konungr, ef sva er ordit, at ydr se misþocki at. Nú em ec því kominn, at ec vil bióda fyrir hann sætt oc yfirbætor, þvílíkar sem þer vilit siálfir gört hafa; enn þiggia þar ímóti líf hans oc limar, oc landsvist. Konungr svarar: sva lítz mer, Erlingr, sem þer munit nú þickiaz hafa valld á um mál Asbiarnar: veit ec eigi hví þú lætr sva sem þú skylir bióda nockora sætt fyrir hann: ætla ec þik fyrir því hafa dregit saman her manns, at nú ætlar þú at ráda vár í milli. Erlingr svarar: þer skulot ráda, konungr, oc ráda sva, at ver skiliunz sáttir; konungr mælti: ætlar þú at ræda mik, Erlingr? edr fer þú fyrir því lidmikill? nei, segir hann: enn ef annat byr í, þá mun ec nú eigi flya. Erlingr svarar: eigi þarfto at minna mik á þat, at þeir ha-

fa fundir ockrir ordit her til, er ec hefi iafnan litinn lidskost haft vid þer; enn nú skal eigi leyna þik því, er mer byr i skapi, at ec vil at vid skiliumz sáttir; ella er meiri ván, at ec hætta eigi til fleiri funda várra. Erlingr var þá raudr sem blód í andliti. Þá geck fram Sigurdr biskop oc mælti til konungs: Herra, ec byd ydor hlydni fyrir Guds sakir, at þeir sættiz vid Erling, eptir því sem hann bidr, at madr sá hafi lífs grid oc lima; enn þer rádit einn öllo ödro sättmáli. Konungr svarar: þer skulot ráda. Þá mælti biskop: Erlingr, fáit þer konungi festo þá er hönom líki: sídan gángi Asbiörn til grida, oc á konungs valld. Erlingr feck festor konungi; enn konungr tók vid. Sidan geck Asbiörn til grida, oc á konungs valld; oc kysti á hönd konungi: Sneri þá Erlingr i brot med lidi síno, oc vard þá ecki at qvediom: Geck þá konungr inn í stofuna, oc Asbiörn med hönom. Sídan lauk konungr upp sættargördina, oc mælti sva: þat skal upphaf sættar ockar, Asbiörn, at þú skallt gánga undir landslög þau, at sá madr er drepr þiónostomann konungs, þá skal hann taka undir þá sömo þiónosto, ef konungr vill. Nú vil ec at þú takir upp ármenning þessa, er Selþórir hefir haft, oc rád her fyrir búi míno á Ögvalldsnesi. Asbiörn svarar, at sva skylldi vera sem konungr villdi: verd ec þó fyrst at fara heim til bús mins, oc skipa þar til. Konungr let ser þat vel líka: fór hann þadan til annarar veitzlo, þar sem gör var ímóti hönom. Enn Asbiörn redz þá til ferdar mótz

vid föroneyti sitt: þat hafdi legit í leynivágom, þá stund alla er Asbiörn var í brot: höfdo þeir niósn af, hvat tídt var um hans rád, oc vildo eigi í brot fara, fyrr enn þeir vissi hvat þar rediz af.

## CAP. CXXVIII.

## FRÁ ÞÓRI HUND OC ÁSBIRNI SELSBANA.

Sídan snyz Asbiörn til ferdar, oc lettir eigi fyrr um várit, enn hann kom nordr til bús sins; hann var sídan kalladr Asbiörn Selsbani. Enn er Asbiörn hafdi heima verit eigi lengi, þá hittoz þeir Þórir frændornir, oc talaz vid: spyr Þórir Asbiörn vendiliga at um ferd hans, oc alla atburdi þá sem þar höfdo ordit til tídinda. Enn Asbiörn sagdi sögo þá sem gengit hafdi. Þá sagdi Þórir: þá munto nú þickiaz hafa tekit af hendi svívirding þá, er þú vart ræntr á hausti. Sva er, qvad Asbiörn; edr hverso þycki þer, frændi? Þat skal skiótt segia, qvad Þórir: at ferd sú hin fyrri er þú fórt sudr í land, vard hin svívirdiligasta, oc stód sú til nockurrar umbótar; enn þessi för er bædi þin skömm oc frænda þinna, ef þat skal framgengt verda, at þú geriz konungs þræll, oc iafningi hins versta manns, Þoris Sels. Nú ger þú sva mannliga, at þú sit helldr at eignom þinom her: skulom ver frændor þinir veita þer styrk til þess, at þú komir alldrei sídan í slíkt aungþveiti. Asbirni þótti þetta vænlikt; oc ádr þeir Þórir skiliz,

þá var þetta rád stadfest, at Asbiörn skylldi sitia í búi síno, oc fara eigi sídan á konungs fund, edr í hans þiónosto. Oc gerdi hann sva, at hann sat heima at búom sínom.

## CAP. CXXIX.

## FRÁ ÞVÍ ER OLAFR KONUNGR CHRISTNADI VORS OC VALLDRES.

Eptir þat er þeir Olafr konungr oc Erlingr Skiálgsson höfdo hittz á Ögvalldsnesi, þá hófz med þeim af nyo sundrþyckia, oc vóx til þess, er þar afgerdiz fullr fiandskapr milli þeirra: Fór Olafr konungr at veitzlom um Hördaland um várit; oc þá fór hann upp á Vors; þviat hann spurdi, at fólk var þar litt trúat. Hann átti þing vid bændor þar sem á Vángi heitir: komo þar bændor fiölmennt, oc med alvæpni: Baud konungr þeim at taka vid kristni; enn þeir budo bardaga imót: oc kom sva, at hvarirtveggio fylkto lidi sino; var þá sva um bændor, at þeim skaut skelk í bringo, oc villdi eingi fremstr standa: oc vard þat þá at lyktom, er þeim gegndi betr, at þeir gengo til handa konungi, oc tóko vid kristni: Skildiz konungr þadan eigi fyrr, enn þar var alkristnat ordit. Þat var einn dag, at konungr reid leid sína, oc saung psálma sína: enn er hann kom gegnt haugonom, nam hann stadar, oc mællti: þau skal segia ord mín madr manni, at ec kalla rád, at all-

dregi sídan fari Noregs konungr í milli þessara hauga. Er þat oc sögn manna, at flestir konungar hafi þat varaz sídan. Þá for Olafr konungr út í Austrarfiörd, kom þar til skipa sinna, fór þá nordr i Sogn, oc tók þar veitzlor um sumarit. Enn er hausta tók, sneri hann inn i fiördinn, fór þadan upp á Valldres: þar var ádr heidit. Konungr fór sem ákafligast upp til vatzins; kom þar á óvart bændom, oc tók þar skip þeirra; geck þar á siálfr med öllo lidi síno. Sídan skar hann þíngbod, oc setti þíngit sva nær vatnino, at konungr átti allan kost skipanna, ef hann þættiz þurfa. Bændor sótto þíngit med her mikinn alvapnadan; konungr baud þeim kristni; enn bændor æpto ímóti, oc bádo hann þegia; gerdo þegar gny mikinn oc vapnabrak. Enn er konungr sá, at þeir villdo ecki til lyda þess er hann kendi þeim; oc þat annat, at þeir höfdo þann múg manns, er ecki stódz vid; þá sneri hann rædo sinni, spurdi þá at, ef nockorir væri þeir menn á þíngino, er sakir þær ættiz vid, er þeir villdi at hann setti í milli þeira. Þat fannz brátt i ordom búanda, at margir voro þar ráng-sáttir sín i milli, er þá höfdo samhlaupa ordit, at mæla ímóti kristninni. Enn þegar er bændor tóko at kæra sín vandrædi, þá afladi hverr þeirra ser sveitar, at flytia sitt mál fram: geck þat þann dag allan; at qvelldi var slitit þíngino. Þegar er bændor höfdo spurt, at Olafr konungr hafdi farit um Valldres, oc hann var kominn i bygd, þá höfdo þeir látit fara herör, oc stefnt saman þegn

oc þræl; *fóro* med her þann ímóti konungi. Enn þá var vída aleyda í bygdinni. Bændor helldo safnadinom þá er þíngino sleit. Þess vard konungr vís. Enn er hann kom á skip sín, þá let hann róa um nóttina, yfir þvert vatnit: þar let hann uppgánga í bygdina; let þar brenna oc ræna. Eptir um dagiun rero þeir nes frá nesi: let konungr allt brenna bygdina. Enn þeir bændor er í safnadinom voro, þá er þeir siá atgördir konungs, er hann let brenna oc ræna; oc er þeir sáo reyk oc loga til bæa sinna; þá urdo þeir lausir í flockinom: stefndi þá hver í brot oc leitadi heim, ef hann mætti finna hyski sitt. Enn þegar er rof kom í lidit, þá fór hver at ödrom til þess er allt ridladiz í smá flocka. Enn konungr reri yfir vatnit, oc brendi þá á hvarotveggia landi; komo þá bændor til hans, oc bádo miskunar, enn budo handgaungo sína: Gaf hann hveriom manni grid, er til hans kom, oc þess krafdi, oc sva fe þeirra; mælti þá eingi madr víd kristni: Let konungr þá skíra fólk, oc tók gislar af búom: dvaldiz konungr þar lengi um haustit, oc let draga skipin um eid á milli vatna: Fór konungr lítt um land upp í fra vötnonom; þvíat hann trúdi illa bændom. Hann let þar gera kyrkior oc vígia, oc setti kennimenn. Enn er konungi þótti ván frera, þá sótti hann á land upp, oc kom þá fram á Þotni. Þess getr Arnor Jarlaskálld, er Olafr konungr hafdi brent á Upplöndom, í qvædi því er hann orti um Harалld bródor hans:

Gengr í ætt þat er yngvi
Upplendinga brendi
(þiód gallt ræsis reidi)
rann sá er fremstr var manna.
Villdot öflgar alldir
ádr var styrt til váda
(grams dólgom fecks gálgi)
gagnprydanda lyda.

Sídan fór Olafr konungr nordr um Dala allt til Fiallz, oc nam eigi stadar, fyrr enn hann kom í Þrándheim, oc allt til Nidaróss: bió þar til vetrvistar, oc sat þar um vetrinn. Sá var hinn tiúndi vetr konungdóms hans.

## CAP. CXXX.
## UM EINAR ÞAMBARSKELFI.

Adr um sumarit fór Einar Þambarskelfir or landi, oc fyrst vestr til Englands, hitti þar Hákon Jarl, mág sinn, dvaldiz þar med hönom um hríd. Sídan fór Einar á Knúts konungs fund, oc þá af hönom stórar giafir. Eptir þat fór Einar sudr um sæ, oc allt sudr til Ruma-borgar, oc kom aptr annat sumar: fór þá til búa sinna: Hittoz þeir Olafr konungr þá ecki.

## CAP. CXXXI.
## FÆDDR MAGNUS KONUNGR GÓDI.

Alfhilldr het kona, er köllot var konungs ambátt;

hon var þó af gódom ættom komin: hon var qvenna friduzt: hon var med hird Olafs konungs. Enn þat vár vard þar til tidinda, at Alfhilldr var med barni: enn þat visso trúnadarmenn konungs, at hann mundi vera fadir barns þess. Sva bar at eina nótt, at Alfhilldi stód sótt; var þar fátt manna vidstadt: konor nockorar oc prestr, oc Sigvatr skálld, oc fáir adrir. Alfhilldr var þúngliga halldinn, oc geck henni nær dauda: hon fæddi sveinbarn, oc var þat um hríd, er þau visso óglöggt, hvart lif var med barnino. Enn er barnit skaut öndo upp, oc allómáttugliga, þá bad prestr Sigvat fara at segia konungi. Hann svarar: ec þori fyrir eingan mun at vekia konunginn, þviat hann bannar þat hveriom manni, at bregda svefni fyrir hanom, fyrr enn hann vaknar siálfr: prestrinn svarar: naudsyn ber nú til, at barn þetta fái skírn; mer syniz þat all-ólíflikt. Sigvatr mælti: helldr þori ec til þess at hætta, at þú skírir barnit, enn ec vekia konung; oc mun ec ávitom upphallda, oc gefa nafn. Sva gerdo þeir, at sveinn sá var skírdr, oc het Magnús. Eptir um morguninn, þá er konungr var vapnadr oc klæddr, var hönom sagt allt frá þessom atburdom. Þá let konungr kalla til sín Sigvat oc mælti: hví varto sva diarfr, at þú letz skira barn mitt fyrr enn ec vissa? Sigvatr svarar: þviat ec vilda helldr gefa Gudi tvo menn, enn einn fiandanom. Konungr mælti: fyrir hví mundi þat vidliggia? Sigvatr svarar: barnit var at komit dauda; oc mundi þat fiandans madr ef þat dæi heidit; enn

nú var þat Guds madr: hitt er oc annat, þótt ec vissa þú værir mer reidr, at þar mundi eigi vidliggia meir enn líf mitt: enn ef þú vill at ec týna því fyrir þessa sök, þá vænti ec at ec se Guds madr. Konungr mælti: hví letzto sveininn Magnus heita? ecki er þat várt ætt-nafn. Sigvatr svarar: ec het hann eptir Karla Magnúsi konungi: þann vissa ec mann bestan í heimi. Þá mælti konungr: gæfomadr erto mikill, Sigvatr: er þat eigi undarlikt, at gæfa fylgi vitsko: hitt er kynligt, sem stundom kann verda, at sú gæfa fylgir óvizkom mönnom, at óvitrlig rád snúaz til hámingio: Var þá konungr allgladr. Sveinn sá fæddiz up, oc var brátt efniligr, er alldr fór yfir hann.

## CAP. CXXXII.

## DRÁP ÁSBIARNAR SELSBANA.

Þat vár et sama feck Olafr konungr í hönd Asmundi Grankelssyni syslo á Hálogalandi hálfa til motz vid Hárek i Þiótto; enn hann hafdi ádr haft alla; suma at veitzlo, enn suma at leni. Asmundr hafdi skúto, oc á nær XXX manna, oc vapnada vel. Enn er Asmundr kom nordr, þá hittoz þeir Hárekr; segir Asmundr hönom, hvernog konungr hafdi tilskipat, um syslona; let þar fylgia iartegnir konungs. Hárekr segir sva, at konungr mundi ráda hverr syslona hefdi: enn þó gördi eigi sva hinir fyrri höfdingiar, at minka vorn rett, er ættbornir erom

til ríkis, at hâfa af konungom, enn fá í hendor bóanda sonom, þeim er slíkt hafa fyrr ecki med höndom haft. Enn þótt þar findiz á Háreki, at hönom þótti þetta ímóti skapi síno, þá let hann Asmund vid syslo taka, sem konungr hafdi ord til send: Fór þá Asmundr heim til födr síns, dvaldiz þar litla hríd, fór þá sidan í syslo sína nordr á Hálogaland. Enn er hann kom nordr í Láng-ey, þá biuggo þar brædor tveir; het annar Gunnsteinn, enn annar Karli: þeir voro menn audgir, oc virdinga menn miklir. Gunnsteinn var búsyslomadr, oc ellri þeirra brædra. Karli var frídr synom, oc skartzmadr mikill; enn hvartveggi þeirra var íþróttamadr um marga luti. Asmundr feck þar gódar vidtökor, oc dvaldiz þar um hríd: heimti þar saman or syslonni slikt er feckz. Karl ræddi þat fyrir Asmundi, at hann vildi fara á fund Olafs konungs med hönom sudr, oc leita ser hirdvistar. Asmundr fysti þess ráds, oc het umsyslo sinni vid konung, at Karl fengi þat erindi sem hann beiddiz til; redz Karli þá til föroneytis med Asmundi. Asmundr spurdi þat, at Asbiörn Selsbani hafdi farit sudr í Vagastefno, oc hafdi byrding mikinn er hann átti, oc nær XX menn á, oc hans var þá sunnan ván. Þeir Asmundr fóro leid sína sudr med landi, oc höfdo andvidri, oc þó vindlítinn; sigldo skip ímóti þeim, þau er voro af Vagaflota; spurdo þeir þá af hliódi at um farar Asbiarnar: Var þeim sva sagt, at hann mundi þá sunnan á leid. Þeir Asmundr oc Karli voro reckio-

felagar; oc var þar et kærsta. Þat var einn dag, er þeir Asmundr rero fram eptir sundi nockoro, þá sigldi byrdingr móti þeim: var þat skip audkent; þat var hlyrbyrdt, steint bædi hvítom steini oc raudom: þeir höfdo segl stafat med vendi. Þá mælti Karli vid Asmund: opt rædir þú um, at þer se forvitni mikil á, at siá hann Asbiörn Selsbana; eigi kann ec skip at kenna, ef eigi siglir hann þar. Asmundr svarar: gör sva vel, lagsmadr, seg mer til, ef þú kennir hann; þá rendoz hiá skipin, oc mællti Karli: þar sitr hann Selsbani vid styrit, í blám kyrtli. Asmundr svarar: ec skal fá hönom raudan kyrtil. Sidan skaut Asmundr at Asbirni Selsbana spióti, oc kom á hann midian, oc flaug í gegnom hann, sva at fast stód fram í höfda fiölinni: Fell Asbiörn daudr frá styrino: Fóro sídan hvarirtveggio leidar sinnar: Flutto þeir lik Asbiarnar nordr á Þrándarnes: Let þá Sigrid senda eptir Þóri Hund til Biarkeyar: kom hann til, er búit var um lík Asbiarnar eptir sid þeirra. Enn er þeir fóro í brot, valdi Sigrid vinom sínom giafir: hon leiddi Þóri til skips; enn ádr þau skildiz, mælti hon: sva er nú, Þórir, at Asbiörn, son minn, lyddi ástrádom þínom. Nú vannz hönom eigi líf til at launa þat, sem vert var: nú þótt ec se verr tilfær, enn hann mundi vera, þá skal ec þó hafa vilia til: nú er her giöf, er ec vil gefa þer, oc villda ec, at þer qvæmi vel í halld; þat var spiót. Her er nú spiót þat, segir hon, er

stód i gegnom Asbiörn son minn, oc er þar enn blodit á: mátto þá helldr muna, at þat mun hæfaz, oc sár þat, er þú sátt á Asbirni, bródrsyni þínom. Nú yrdi þer þá sköroliga, ef þú leitir þetta spiót sva af höndom, at þat stædi i briósti Olafi Digra. Nú mæli ec þat um, segir hon, at þú verdir hvers manns nídingr, ef þú hefnir eigi Asbiarnar: Sneri hon þá ibrot. Þórir vard sva reidr ordom hennar, at hann mátti engo svara, oc eigi gádi hann spiótit laus láta, oc eigi gadi hann bryggionnar; oc mundi hann gánga á kaf, ef eigi tæki menn til hans, oc styddi hann, er hann geck út á skipit. Þat var málaspiót, oc eigi mikit, oc gullrekinn falrinn á: Rero þeir Þórir þá i brot, oc heim til Biarkeyar. Asmundr oc þeir felagar fóro leid sina, til þess er þeir komo sudr til Þrándheims, oc á fund Olafs konungs: sagdi Asmundr þá konungi, hvat til tídinda hafdi görz i förom hans: Gerdiz Karli hirdmadr konungs: helldo þeir Asmundr vel vinátto sina. Enn ordtök þau er þeir Asmundr oc Karli höfdo mælz vid, ádr víg Asbiarnar vard, þá fóro þau eigi leynt, þvíat þeir siálfir sögdo konungi frá því. Enn þar var sem mælt er, at hver á vin med óvinom: Voro þeir þar sumir er slíkt hugfesto, oc þadan af kom þat til Þóris Hunds.

## CAP. CXXXIII.

## FRÁ OLAFI KONUNGI.

Olafr konungr bióz um várit er áleid, oc bió skipi sin.

sín. Sídan fór hann um sumarit sudr med landi, átti þíng vid bændor, sætti menn oc sidadi land, tók oc konungs skyldir hvar sem hann fór: Fór konungr um haustit allt sudr til lands enda: Hafdi Olafr konungr þá kristnat land þar sem stór herot voro. Þá hafdi hann oc skipat lögom um land allt. Hann hafdi þá oc lagt undir sik Orkneyar, sva sem fyrr var sagt. Hann hafdi oc haft ordsendingar, oc gert ser marga vini, bædi á Islandi oc Grænlandi, oc sva í Færeyom. Olafr konungr hafdi sent til Islands kyrkio-vid, oc var sú kyrkia ger á Þingvelli, þar er Alþíngi er: hann sendi med klucko mikla, þá er enn er þar. Þat var þá eptir, er Islendingar höfdo fært lög sín, oc sett kristinn rett, eptir því sem ord hafdi tilsent Olafr konungr. Sídan fóro af Islandi margir metorda menn, þeir er handgengnir gerdoz Olafi konungi: þar var Þórkell Eyolfsson oc Þórleikr Bollason, Þórdr Kolbeinsson, Þórdr Barkarson, Þórgeirr Hávardsson, Þórmódr Kolbrúnarskálld. Olafr konungr hafdi sent vingiafir mörgom höfdingiom til Islands; enn þeir sendo hönom þá luti er þar fengoz, oc þeir vænto at hanom mundi þickia hellzt sending í. Enn í þesso vináttomarki, er konungr gerdi til Islands, bioggo enn fleiri lutir, þeir er sídar urdo berir.

## CAP. CXXXIV.

## FRÁ ORDSENDING OLAFS KONUNGS TIL ÍSLANDS, OC RÁDAGERD ÍSLENDINGA

Olafr konungr sendi þetta sumar þórarinn Nefiolfsson til Islands med erendom sínom; oc hellt þórarinn skipi síno þá út or þrándheimi, er konungr fór, oc fylgdi hönom sudr á Mæri: Sigldi þórarinn þá á haf út, oc feck sva mikit radbyri, at hann sigldi á átta dægrom til þess er hann tók eyar á Islandi: oc fór þegar til Alþíngis, oc kom þar er menn voro at Lögbergi; geck þegar til Lögbergis. Enn er menn höfdo þar mælt lögskil, þá tók þórarinn til máls Nefiolfsson: ec skildunz fyrir fiórom nóttom vid Olaf konung Haralldsson; sendi hann qvedio híngat til lands öllom höfdingiom oc landsstiórnarmönnom, oc þar med allri alþydo karla oc qvenna, úngom mönnom oc gömlom, sælom oc vesalom, Guds oc sína, oc þat med, at hann vill vera ydar drottin, ef þer vilit vera hans þegnar, enn hvarir annarra vinir oc fulltíngsmenn til allra gódra luta. Menn svörodo vel máli hans; qvadoz allir þat fegnir vilia, at vera vinir konungs, ef hann væri vinr herlands manna. þá tók þórarinn til máls: þat fylgir qvediosending konungs, at hann vill þess beidaz i vinátto af Nordlendingom, at þeir gefi hönom ey edr útsker, er liggr fyrir Eyafirdi, er menn kalla Grímsey: vill þar imót leggia þau gædi af sino landi, er menn kunna hönom til at

segia: enn sendi ord Gudmundi á Mödrovöllom, til at flytia þetta mál; þvíat hann hefir þat spurt, at Gudmundr rædr þar mesto. Gudmundr svarar: fúss em ec til vináttu Olafs konungs, oc ætla ec mer þat til gagns, miklo meir enn útsker þat, er hann beidiz til. Enn þó hefir konungr þat eigi rett spurt at ec eigi meira valld á því, enn adrir; því þat er nú at almenning gört. Nú muno ver eiga stefno at vár í milli, þeir menn er mest hafa gagn af eyonni: Gánga menn sídan til búda. Eptir þat eiga Nordlendingar stefno milli sín, oc ræda þetta mál: lagdi þá hver til slikt sem syndiz; Var Gudmundr flytiandi þessa máls, oc snero þar margir adrir eptir því. Þá spurdo menn, hví Einar, bródir hans, rædi ecki um; þyckir oss hann kunna, segia þeir, glöggzt flest at siá. Þá svarar Einar: því em ec fáræðinn um þetta mál, at eingi hefir mik at qvatt: enn ef ec skal segia mína ætlan, þá hygg ec, at sá mani til vera herlandsmönnom, at gánga undir skattgiafir vid Olaf konung, oc allar álögor hans, þvílikar sem hann hefir vid menn í Noregi; oc muno ver eigi þat ofrefli göra einom oss til handa, helldr bædi oss oc sonom vorom, oc þeirra sonom, oc allri ætt vorri, oc allri alþydo þeirri er þetta land byggir; oc mun ánand sú alldregi gánga edr hverfa af þesso landi. Enn þótt konungr siá se gódr madr, sem ec trúi vel at se, þá mun þat fara hedan frá sem híngat til, þá er konunga skipti verdr, at þeir ero óiafnir, sumir gódir, enn sumir illir.

Enn ef landsmenn vilia hallda frelsi sino, því er þeir hafa haft, sídan land þetta bygdiz, þá mun sá til vera, at liá konungi einskis fángstadar á, hvarki um landaeign her, ne um þat at giallda hedan áqvednar skulldir, þær er til lydskylldo megi metaz. Enn hitt kalla ec vel fallit, at menn sendi konungi vingiafir, þeir er þat vilia, hauka edr hest, tiölld edr segl, eda adra þá luti er sendiligir ero: er því þá vel varit, ef vinátta kemr ímóti. Enn um Grímsey er þat at ræda, ef þadan er eingi lutr fluttr sá er til matfanga er, þá má þar fæda her mikinn: oc ef þar er útlendr her, oc fari þadan med lángskipom, þá ætla ec mörgom kotbóndanom muni þyckia verda þraungt fyrir dyrom. Oc þegar er Einar hafdi þetta mælt, oc innt allan veg þenna, þá var öll alþyda snúin med eino samþycki, at þetta skyldi eigi fáz; sá Þórarinn þá erindislok sin um þetta mál.

## CAP. CXXXV.

## FRÁ SVÖROM ISLENDINGA.

Þórarinn geck annan dag til Lögbergis, oc mælti þá enn erendi, oc hóf sva: Olafr konungr sendi ord vinom sínom híngat til lands, nefndi til þess Gudmund Eyolfsson, Snorra Goda, Þórkel Eyolfsson, Skapta Lögsögomann, Þórstein Hallsson: hann sendi ydor til þess ord, at þer skylldot fara á fund hans, oc sækia þángat vinátto bod: mælti hann þat, at þer skylldot þessa ferd eigi undir höfot leggiaz,

ef ydor þætti nockoro máli varda um hans vinátto. Þeir svörodo því máli: þöckudo konungi bod sitt, qvadoz þetta segia mundi Þórarni sidar um ferdir sinar, þá er þeir hefdi rádit fyrir ser, oc vid vini sina. Enn er þeir höfdingiar tóko rædor sín i milli, þá sagdi hver sem syndiz um ferd þessa. Snorri Godi oc Skapti lötto þess, at leggia á þá hætto vid Noregs menn, at allir senn færi af Islandi oc þángat, þeir menn er mest redo fyrir landi: sögdo þeir at af þessi ordsending þótti þeim helldr grunir atdregnir um, þat er Einar hafdi getit, at konungr mundi ætla til píndinga nockorra vid Islendinga, ef hann mætti ráda. Gudmundr oc Þórkell Eyolfsson fysto miök at skipaz vid ordsending Olafs konungs, oc köllodo þat sæmdarferd mikla mundo. Enn er þeir kniado þetta mál milli sín, þá stadfestiz þat hellzt med þeim, at þeir siálfir skylldo eigi fara, enn hverr þeirra skylldi gera mann af hendi sinni, þann er þeim þætti best til fallinn; oc skildoz á því þingi vid sva búit; oc urdo engar utanferdir á því sumri. Enn Þórarinn fór tvívegis um sumarit, oc kom um haustit á fund Olafs konungs, oc sagdi hönom sitt erindi slikt er ordit var, oc sva þat med, at höfdingiar mundo koma af Islandi, sva sem hann hafdi ord tilsendt, edr synir þeirra elligar.

## CAP. CXXXVI.

## FRÁ FÆREYINGOM.

Þat sama sumar kom utan af Færeyom til Noregs,

at ordsending Olafs konungs, Gilli Lösögomadr, Leifr Össurarson, Þóralfr or Dimon, oc margir adrir bænda synir. Enn Þrándr í Göto bióz oc til ferdar, enn er hann var búinn miök, þá tók hann fæli-sótt, þá er hann var hvargi fær; oc dvaldiz hann þvi eptir. Enn er þeir Færeyingar komo á fund Olafs konungs, þá kallar hann þá á tal, oc átti stefno vid þá; oc lauk hann þá upp erendi þau, er undirbiuggo ferdinni, oc segir þeim, at hann vildi hafa skatt af Færeyom, oc þat med, at Færeyingar skylldo hafa þau lög, er Olafr konungr setti þeim. Enn á þeirri stefno fannz þat á ordom konungs, at hann mundi taka festo til þessa máls af þeim Færeyskom mönnom, er þá voro þar komnir, ef þeir vildi þat sáttmál svardögom binda: baud þeim mönnom, er hönom þotto þar ágætstir, at þeir skylldo geraz hönom handgengnir, oc þiggia af hönom metord oc vinátto. Enn þeim hinom Færeyskom virdtoz sva ord konungs, sem grunr mundi á vera, hvernog þeirra mál mundi snúaz, ef þeir vildo eigi undir þat gánga allt, sem konungr beiddi þá. Enn þó at til þessa máls yrdi fleiri stefnolög, ádr enn þat lykdiz; þá vard þat framgengt allt er konungr beiddiz: Gengo þeir tilhanda konungi, oc gerdoz hirdmenn hans, Leifr oc Gilli oc Þóralfr. Enn allir þeir föronautar veitto svardaga Olafi konungi til þess at hallda í Færeyom þau lög oc þann landsrett, er hann setti þeim, oc skattgildi þat er hann qvad á. Sidan bioggoz þeir hinir Færeysko til heimferdar.

Enn at skilnadi veitti konungr þeim vingiafir, er hönom höfdo handgengnir gerz: Fara þeir ferdar sinnar þá er þeir voro bunir. Enn konungr let búa skip, oc feck manna til, oc sendi þá menn til Færeya, at taka þar vid skatti þeim, er Færeyingar skylldo giallda hönom. Þeir urdo eigi snemmbúnir, oc fóro er þeir voro búnir; oc er þat frá ferdom þeirra at segia, at þeir koma eigi aptr, oc engi skattr á því sumri, er næst var eptir; þviat þeir höfdo eigi komit til Færeya, hafdi þar oc engi madr skatt heimtan.

## CAP. CXXXVII.

## KVANFÁNG KETILS OC ÞÓRDAR.

Olafr konungr fór um haustit inn í Víkina, oc gerdi ord fyrir ser til Upplanda, oc let boda veitzlor, því at hann ætlar ser um vetrinn at fara um Upplönd: Sidan byriar hann ferdina, oc fór til Upplanda: Dvaldiz Olafr konungr þann vetr á Upplöndom, fór þar at veitzlom, oc leidretti þá luti þar, er hönom þótti ábóta vant; Samdi þá þar enn kristnina, er hönom þótti þúrfa. Þat gerdiz til tídinda, þá er Olafr konungr var á Heidmörk, at Ketill Kálfr af Ríngonesi hóf upp bónord sitt, oc bad Gunnhilldar, dóttor Sigurdar Syrs oc Asto módor Olafs konungs; var Gunnhilldr systir Olafs konungs, oc átti konungr svör oc forrád máls þess. Hann tok því vænliga; var þat fyrir þá sök, at hann vissi um

Ketil, at hann var ættstór oc audigr, vitr madr oc höfdingi mikill; hann hafdi oc lengi ádr verit vinr Olafs konungs mikill, sva sem her er frásagt. Þat allt saman bar til þess, at konungr unni ráds þessa Katli: Vard þetta framgengt, at Ketill feck Gunnhilldar: Var Olafr konúngr at þessari veitzlo. Olafr konungr fór nordr í Gudbrandsdali, oc tók þar veitzlor; þar bió sá madr er het Þórdr Guttormsson, á bæ þeim er á Steig heitir: hann var madr rikastr í inn nordra lut Dala. Enn er þeir konungr hittoz, þá hof Þórdr upp bónord sitt, oc bad Isridar Gudbrandsdóttor, módorsystor Olafs konungs: átti konungr svör þessa máls. Enn er at þeim málom var setit, þá var þat af rádit at þau rád tækiz; oc feck Þórdr Isridar: gerdiz hann sidan alúdar vinr Olafs konungs, oc þar med margir adrir frændor Þórdar, oc vinir, þeir er eptir hönom hurfo: Fór Olafr konungr þá aptr sudr um Þotn oc Hadaland, oc þadan á Hringariki, oc sva í Víkina: Fór hann um várit til Túnsbergs, oc dvaldiz þar lengi medan þar var kaupstefna mest oc tilflutning: Let hann þá búa skip sín, oc hafdi med ser fiölmenni mikit.

## CAP. CXXXVIII.

## FRÁ ÍSLENDINGOM.

Sumar þetta kom af Islandi Steinn, son Skapta Lögsögomans, at ordsending Olafs konungs, Þóroddr son

Snorra Góda, Gellir son Þórkels Eyolfssonar, Egill son Sido-Hallz, bródir Þórsteins. Gudmundr Eyolfsson hafdi andaz ádr um vetrinn. Þeir enir Islendsko menn fóro þegar á fund Olafs konungs, er þeir mátto vidkomaz. Enn er þeir hitto konung, fengo þeir gódar vidtökor, oc voro allir med hönom. Þat sama sumar spurdi Olafr konungr, at skip þat hafdi horfit, er hann hafdi sendt til Færeya eptir skatti et fyrra sumar, oc þat hafdi hvargi til landi komit, sva at spurt væri; konungr feck þá til skip annat, oc þar menn med, oc sendi til Færeya eptir skatti: Fóro þeir menn oc leto í haf; enn sidan spurdiz eigi til þeirra helldr enn til hinna fyrri; oc voro þar margar getor á, hvat af skipom þeim mundi ordit hafa.

## CAP. CXXXIX.

## UPPHAF KNÚTS RÍKA.

Knútr enn Riki, er sumir kalla gamla Knút, hann var konungr í þann tid yfir Englandi, oc yfir Danavelldi. Knútr Riki var son Sveins Tiúguskeggs Haralldssonar: þeir lángfedgar höfdo rádit lánga æfi fyrir Danmörk. Haralldr Gormsson, födorfadir Knúts, hafdi eignaz Noreg, eptir fall Haralldś Gunnhilldarsonar, oc tekit af skatta, enn sett þar til landsgætzlo Hákon Jarl enn Rika. Sveinn Dana konungr, son Haralldś, red oc fyrir Noregi, oc setti yfir til lands-

gætzlo mág sinn Eirík Jarl Hákonarson: Redo þeir brædor þá landi Eiríkr oc Sveinn Hákonarson, til þess er Eiríkr Jarl fór vestr til Englands, at ordsendingo Knúts ens Ríka, mágs síns; enn setti þá eptir til ríkis í Noregi Hákon Jarl, son sinn, oc systorson Knúts ens Ríka, mágs síns. Enn sídan þá er Olafr Digri kom í Noreg, þá tók hann fyrst höndom Hákon Jarl Eiríksson, oc setti hann af ríki, sva sem fyrr er ritat: Fór þá Hákon til Knúts, módrbródr síns, oc hafdi verit sídan med hönom alla stund til þess er her er komit sögonni. Knútr enn Ríki hafdi unnit England med orostom, oc bariz til, oc hafdi lángt starf ádr enn landsfólk hefdi hönom hlydit ordit. Enn er hann þóttiz fullkominn þar til landsstiórnar, þá mintiz hann hvat hann þóttiz eiga þess ríkis, er hann hafdi eigi siálfr vardveitzlo yfir; enn þat var í Noregi. Hann þóttiz eiga at erfdom Noreg allan; enn Hákon, systorson hans, þóttiz eiga suman, oc þat med, at hann þóttiz med svívirding látit hafa. Sá var oc einn lutr til þess, er þeir Knútr oc Hákon höfdo kyrro halldit um tilkall í Noreg, at þá fyrst er Olafr konungr Haralldsson kom í land, hlióp upp allr múgr oc margmenni, oc villdi eigi heyra annat, enn Olafr skylldi vera konungr yfir landi öllo: enn þá sídan, er menn þóttoz verda ósiálfrádir fyrir ríki hans, þá leitudo sumir brot or landi: Höfdo farit miök margir ríkismenn á fund Knúts konungs, edr ríkir bænda synir, oc gefit ser ymizt til erenda: Enn hver þeirra er kom á

fund Knúts konungs, oc hann villdi þydaz, þá fengo allir af hönom fullar hendor fiár: Mátti þar oc siá tign miklo meiri enn í ödrom stödom, bædi at fiölmenni því er þar var sidægris, oc umbúnadi þeim ödrom, er þar var í þeim herbergiom er hann átti, oc hann var siálfr í. Knútr enn Ríki tók skatt oc skylld af þeim þiódlöndom, er audguzt voro á Nordrlöndom; enn þeim mun öllom er hann átti meiri at taka enn adrir konungar, þá gaf hann oc því öllo meira, enn hverr konunga annarra. I öllo ríki hans var fridr sva gódr, at eingi þordi þar á at gánga. Enn siálfir landsmenn höfdo frid, oc fornan landsrett. Af slíko ieckz hönom frægd mikil um öll lönd. Enn þeir er af Noregi komo, kærdo ofrefli sitt margir, oc tiádo þat fyrir Hákoni Jarli, enn sumir fyrir siálfom Knúti konungi, at Noregs menn mundo þá vera búnir til at hverfa aptr undir Knút konung edr Hákon Jarl, oc þigga af þeim frelsi sitt. Þessar rædor fello Jarli vel í skap, oc kærdi hann þat fyrir konungi, oc bad hann leita eptir, ef Olafr konungr vildi uppgefa ríkit fyrir þeim, edr midla med sáttmáli nockoro: Voro her margir flutningsmenn med Jarli í sinni.

## CAP. CXL.

## FRÁ SENDIMÖNNOM KNÚTS KONUNGS.

Knút enn Ríki sendi menn vestan af Englandi til Noregs, oc var þeirra ferd búin allveglig: höfdo þeir

bref oc innsigli Engla konungs Knútar. Þeir komo á fund Olafs Haralldssonar Noregs konungs í Túnsbergi um várit. Enn er konungi var sagt, at þar voro komnir sendimenn Knúts konungs ens Rika, þá vard hann styggr miök vid, oc segir sva, at Knútr mundi einga menn þángat senda med þeim erendom er hönom edr hans mönnom mundi gagn í vera; oc var þat nockoro daga, er sendimenn nádo eigi fundi konungs. Enn er þeir fengo lof til at mæla vid hann, þá gengo þeir fyrir konung, oc báro fram bref Knúts konungs, oc sögdo erindi þau sem fylgdo, at Knútr konungr kallar sína eign á Noregi öllom, oc telr at hans forellar hafa þat ríki haft fyrir hönom. Enn fyrir þeim sökom, at Knútr konungr vill frid bióda til allra landa, þá vill hann frid bióda öllom þeim er sva má vera, oc vill eigi herskilldi fara til Noregs, ef annars er af kostr. Enn ef Olafr konungr Haralldsson vill vera konungr yfir Noregi, þá fari hann á fund Knúts konungs, oc taki landit í len af hönom, oc geriz hans madr, oc gialldi hönom skatta af, slika sem Jarlar gulldo fyrr. Sidan báro þeir bref fram, oc sögdo þau allt slikt et sama. Þá svarar Olafr konungr: þat hefir ec sagt heyrt í fornom frásögnom, at Gormr Dana konungr þótti vera gilldr Þiód-konungr, oc red hann fyrir Danmörk einni; enn þeim Dana konungom er sidan hafa verit, þyckir þat ecki einhlitt. Er nú sva komit, at Knútr rædr einn fyrir Danmörk oc fyrir Englandi, oc hefir hann þó undir sik brotit mikinn luta af

Skotlandi. Nú kallar hann til ættleifdar minnar í hendor mer; kunna skylldi hann hóf at umsídir um ágirni sína. Edr hvert mun hann einn ætla at ráda fyrir öllom nordrlöndom? edr mun hann einn ætla at eta kál allt á Englandi? fyrr mun hann því orka, enn ec færa hönom höfot mitt, edr ec veita hönom ne eina lotning. Nú skolot þer segia hönom þau mín ord, at ec mun veria oddi oc eggio Nóreg, medan mer endaz lífdagar til, enn giallda eingom manni skatt af ríki míno. Eptir þenna orskurd biuggoz á brot sendimenn Knúts konungs, oc voro eigi erendi fegnir. Sigvatr skálld hafdi verit med Knúti konungi, oc gaf Knútr konungr hönom gullhríng þann er stód hálfa mörk: þá var oc med Knúti konungi Bersi skálld Torfoson, oc gaf Knútr konungr hönom tvo gullhrínga, oc stód hverr hálfa mörk, oc þar med sverd búit. Sva qvad Sigvatr:

Knútr hefir ockr hinn ítri
alldádgöfigr bádom
hendor er hilmi fundom
hún skrautliga búnar:
þer gaf hann mörk edr meira
margvitr oc hiör bitran
gulls, rædr gerva öllo
Gud siálfr, enn mer halfa.

Sigvatr gerdi at athvarfi um sendimenn konungs Knúts, oc spurdi þá margra tídinda. Þeir sögdo hönom slíkt er hann spurdi af vidrædom þeirra Olafs konungs oc sendimanna, oc sva frá erindislokom þeirra. Þeir segia, at konungr hefdi þúngliga tekit þeirra málom; oc vitom ver eigi, segia þeir, af

hveriom hann hefir traust til sliks, at neita því, at geraz madr Knúts konungs, oc fara á fund hans; oc mundi sá hans kostr bestr: þvíat Knútr konungr er sva milldr, at alldri gera höfdingiar sva stórt til vid hann, at eigi gefi hann þat allt upp, þegar er þeir fara á fund hans, oc veita hönom lotning: Var þat nú fyrir skömmo, at til hans komo tveir konungar nordan af Skotlandi, af Fífi, oc gaf hann þeim upp reidi sína, oc lönd þau öll, er þeir höfdo ádr átt, oc þar med stórar vingiafir. Þá qvad Sigvatr:

Hafa allframir iöfrar
út sín höfot Knúti
færd or Fífi nordan
fridkaup var þat midio:
seldi Olafr aldri,
opt vá sigr hinn Digri,
haus í heimi þvísa
hann eingom sva manni.

Sendimenn Knúts konungs fóro aptr leid sína, oc byriadi þeim vel um hafit: Fóro þeir sídan á fund Knúts konungs, oc sögdo hönom erindislok sín, oc sva þau ályktarord, er Olafr konungr mælti sídarst vid þá. Knútr konungr svarar: eigi getr Olafr konungr rett, ef hann ætlar, at ec muni einn vilia eta kál allt á Englandi; ec mundi hitt vilia helldr, at hann þat finni, at mer byr fleira innan rifia, enn kál eitt; þvíat hedan skulo hönom kölld rád koma undan hverio rifi. Þat sumar komo af Noregi til Knúts konungs Aslákr oc Skiálgr, synir Erlings af Jadri, oc fengo þar gódar vidtökor; þvíat Aslákr

átti Sigridi, dóttor Sveins Jarls Hákonarsonar: voro þau brædrabörn oc Hákon Jarl Eiríksson: Feck Knútr konungr þeim brædrom veitzlor stórar þar med ser, oc voro þeir mikils virdir.

## CAP. CXLI.

## SAMBAND OLAFS KONUNGS OC ÖNUNDAR SVÍA KONUNGS.

Olafr konungr stefndi til sín lendom-mönnom sínom oc fiölmentiz miök um sumarit: þvíat þau fóro ord um, at Knútr hinn Riki mundi fara vestan af Englandi um sumarit; þóttoz menn þat spurt hafa af kaupskipom, þeim er vestan komo, at Knútr mundi saman draga her mikinn á Englandi. Enn er áleid sumarit, þá sannadi annarr, enn annarr syniadi, at her mundi koma. Enn Ólafr konungr var um sumarit í Víkinni, oc hafdi menn á niósn, ef Knútr qvæmi til Danmerkor. Olafr konungr sendi menn um haustit austr til Svíþiódar á fund Önundar konungs, mágs síns, oc let segia hönom ordsendingar Knúts konungs, oc tillkall þat er hann hafdi vid Olaf um Noreg: oc let þat fylgia, at hann hygdi, ef Knútr legdi Noreg undir sik, at Önundr mundi litla hríd þadan í frá hafa í fridi Svía velldi; oc kallar þat rád, at þeir bindi saman rád sín, oc risi ímóti; oc sagdi at þá skorti eigi styrk til at hallda

deilo vid Knút konung. Önundr konungr tók vel ordsending Olafs konungs, oc sendi þau ord ímót, at hann vill leggia felagskap af sinni hendi vid Olaf konung, sva at hvarr þeirra veitti ödrom stýrk af síno ríki, hvar sem fyrr þarf; þat var oc í ordsending milli þeirra, at þeir skylldo finnaz, oc ætla ráð fyrir ser; ætladi Önundr konungr at fara um vetrinn eptir yfir Vestra-Gautland; enn Olafr konungr efnadi ser til vetrseto í Sarpsborg.

## CAP. CXLII.
## SENDING KNÚTS RÍKA TIL ÖNUNDAR KONUNGS

Knútr hinn Riki kom þat haust til Danmerkor, oc sat þar um vetrinn med fiölmenni mikit. Hönom var sagt, at menn oc ordsendingar hefdo farit milli Noregs konungs oc Svía konungs, oc þar mundi stórrædi undir búa. Knútr konungr sendi menn um vetrinn til Svíþiódar á fund Önundar konungs, oc sendi hönom stórar giafir oc vinmæli: segír, at hann mætti vel kyrr sitia um deilor þeirra Olafs Digra: þvíat þú, Önundr, segir hann, oc ríki þitt, skal í fridi vera fyrir mer. Enn er sendimenn komo á fund Önundar konungs, þá báro þeir fram giafir þær, er Knútr konungr sendi hönom, oc vinátto hans med. Önundr konungr tók þeim rædom ecki

fliótt;

fliótt; oc þóttoz sendimenn þat áfinna, at Önundr konungr mundi vera miök snúinn til vinátto vid Olaf konung: Fóro þeir aptr, oc segia Knúti konungi erindislók sín, oc þat med, at þeir bádo bann eingrar vinátto vænta af Önundi konungi.

## CAP. CXLIII.
## BIARMALANDS FERD.

Vetr þenna sat Olafr konungr í Sarpsborg, oc hafdi fiölmenni mikit; þá sendi hann Karla hinn Háleyska nordr í land med erendom sinom: Fór Karli fyrst til Upplanda, sídan nordr um Fiall, kom fram i Nidarósi, tók þar fe konungs sva mikit sem hann hafdi ord tilsend, oc skip gott, þar er hönom þótti vel tillfallit ferdar þeirrar, er konungr hafdi fyrir ætlat; enn þat var at fara til Biarmalands nordr. Oc var sva ætlat, at Karli skylldi hafa felag konungs, oc eiga hálft hvarr vid annan. Karli hèllt skipino nordr á Hálogaland snemma um várit: redz þá til ferdar med hönom Gunnsteinn, bródir hans, oc hafdi hann ser kaupeyri; þeir voro nær hálfom þridia tugi manna á skipi þvi; fóro þegar um várit snemmindis nordr á Mörkina. Þórir Hundr spurdi þetta: þá gerdi hann menn oc ordsending til þeirra brædra, oc þat med, at hann ætlar at fara um sumarit til Biarmalands: vill hann at þeir hafi

samflot, oc hafi at iafnadi þat er til fengiar verdr. Þeir Karli senda þau ord á móti, at Þórir skuli hafa XXV menn, sva sem þeir höfdo: Vilia þeir þá, at af fe því er fæz, se skipt at iafnadi milli skipanna, fyrir utan kaupeyri þann, er menn höfdo. Enn er sendimenn Þóris komo aptr, þá hafdi hann framm látit setia lángskips búzo mikla, er hann átti, oc látit búa: hann hafdi til skips þess húskarla sína, oc voro á skipino nær LXXX manna: hafdi Þórir einn forrád lids þess, oc sva allan þá alla er fengiz í ferdinni. Enn er Þórir var búinn, hellt hann skipi síno nordr med landi, oc hitti þá Karla nordr í Sandveri. Sidan fóro þeir allir saman, oc byriadi vel. Gunnsteinn rædi vid Karla, bródr sinn, þegar er þeir Þórir hittoz, at hönom þótti Þórir vera hellzt til fiölmennr: oc ætla ec, sagdi hann, at þat væri rádligra, at ver snerom aptr, oc færom eigi sva, at Þóri ætti alla kosti vid oss; þviat ec trúi hönom illa. Karli sagdi: eigi vil ec aptrhverfa, enn þó er þat satt, ef ec hefdi vitat, þá ver vorom heima í Lángey, at Þórir Hundr mundi koma í ferd vora med lid sva mikit sem hefir, at ver mundom hafa haft fleiri menn med oss. Þeir brædor ræddo þetta vid Þóri; spurdo hverio þat gegndi, er hann hafdi menn miklo fleiri med ser, enn sva sem ord höfdo umfarit; hann svarar: ver höfom skip mikit oc lidskyllt, oc þycki mer í háska-förom slíkom eigi gódom dreng ofaukit: Fóro þeir um sumarit optazt þannog sem skipin gengo til. Þá er byr-lett var,

geck meirra skipit þeirra brædra: Sigldo þeir þá undan. Enn þá hvassara var, sigldo þeir Þórir eptir: Voro þeir sialdan allir saman, enn vissoz þó til iafnan. Enn er þeir komo til Biarmalands, þá lögdo þeir til kaupstadar: tókz þar kaupstefna; fengo þeir menn allir fullrædi fiár, er fe höfdo til at veria. Þórir feck oc of fiár í grávöro, oc biór oc safala. Karli hafdi oc allmikit fe, þat er hann keypti med skinnavöro mikla. Enn er þar var lokit kaupstefno, þá helldo þeir út eptir ánni Víno: Var þá í sundr sagt fridi vid landsmenn. Enn er þeir koma út or ánni, þá eigo þeir skipara stefno, oc spyr Þórir, ef mönnom væri nockr hugr á at gánga upp á land, oc afla ser fiár; menn svara, at þess væro fúsir, ef fefaung lægi bryn fyrir. Þórir svaradi, at fe mundi fáz, ef ferd sú tækiz vel: enn eigi óvænt, at mannhætta geriz í förinni. Allir sögdo, at til vildo ráda, ef fiárvon væri. Þórir svarar, at þannog væri háttat, þá er audgir menn öndodoz, at lausafe skylldi skipta med hinom dauda, oc örfom hans; skylldi hann hafa hálft edr þridiúng, enn stundom minna; þat fe skylldi bera út í skóga, stundom í hauga, oc ausa vid molldo; stundom voro hús at gör. Hann segir, at skylldi búaz til ferdarinnar at aptni dags. Sva var mælt, at eingi skylldi renna undan ödrom; eingi skylldi oc eptir vera þá er styrirmenn segdi, at í brot skylldi. Þeir leto menn eptir at gæta skipa. Sidan gengo þeir á land upp; voro fyrst vellir slettir, enn þar næst mörk mikil: geck Þórir fyrir; enn

þeir brædr Karli oc Gunnsteinn sídazt. þórir bad menn fara hliódsamliga; oc hleypom af triánom berki, sva at hvert tre se frá ödro. þeir komo fram i riódr eitt mikit, enn í riódrino var skíd-gardr hár, hurd fyrir, oc læst. Sex menn af landsmönnom skylldo vaka yfir skid-gardinom hveria nótt, sinn þridiúng hverir tveir. þá er þeir þórir komo til skídgardsins, þá voro menn heimgengnir; enn þeir er þar næst skylldo vaka, voro eigi komnir á vördinn. þórir geck at skídgardinom, oc krækti upp á öxinni, las sik upp eptir, fór sva inn um gardinn ödromegin lidsins: Hafdi Karli þá oc komiz yfir gardinn audromegin lidsins: komo þeir þórir oc Karli iamsnemma til hurdarinnar, tóko þá frá slagbranda, oc luko upp hurdina: gengo menn þá inn í gardinn; mælti þórir: í gardi þessom er haugr, hrært allt saman gull oc silfr oc molld; skulo menn þar til ráda. Enn í gardinom stendr god Biarma, er Jomali heitir; verdi eingi sva diarfr, at hann ræni. Sidan gánga þeir á hauginn, oc tóko fe sem mest máttu þeir, oc baro í klædi sín: fylgdi þar mold mikil, sem von var. Sídan mælti þórir, at menn skylldo í brot fara; segir hann sva: nú skolot þer brædor, Karli oc Gunnsteinn, fyrst útfara, enn ec mun sídarzt: Snero þeir þá allir út til lidsins. þórir veik aptr til Jomala, oc tók silfr-bolla, er stód í kniám hönom; hann var fullr af silfr-penningom: Steypti hann silfrino í kyllting ser, enn dró á hönd ser höddo, er yfir var bollanom; geck sídan út til lidsins. þeir föronautar

allir voro þá komnir út or skíd-gardinom; urdo þá varir vid, at Þórir hafdi eptir dvaliz. Karli hvarf aptr at leita hans, oc hittoz þeir vid lidit; sá Karli at Þórir hafdi þar silfrbollann. Sídan rann Karli at Jómalanom; hann sá at digurt men var á hálsi hönom. Karli reiddi til öxina, oc hió í sundr tigilinn, er var aptan á hálsinom, er menit var fest med; vard högg þat sva mikit, at höfot hraut af Jomálanom: vard þá brestr sva mikill, at öllom þótti undr at: tók þá Karli menit: Fóro þeir sídan í brot. Enn iafnskiótt sem brestrinn hafdi ordit, komo fram í ríódrit vardmennirnir, oc bleso þegar í hornsín: þvi næst heyrdo þeir lúdra gáng alla vega frá ser til manna: sótto þeir þá fram at skóginom, oc í skóginn, enn heyrdo til ríódrsins aptr óp oc kall: voro þá Biarmar komnir. Þórir Hundr geck sidarst allra manna lids síns: tveir menn gengo fyrir hönom, oc baro milli sín seck mikinn; þar var í þvílikast sem aska: þar tók Þórir í hendi sinni, oc seri því í slódina: stundom kastadi hann því fram yfir fólkit: Fóro sva fram or skóginom á völlona: þeir heyrdo at her Biarma fór eptir þeim med kalli oc gaulon illiligri; þusti þá her Biarma fram á völlon eptir þeim, oc sva á tvær hlidar þeim; enn eigi komo Biarmar sva nær þeim, ne vapn þeirra, at mein yrdi at. Þat kaunnodo þeir af, at Biarmar sæi þá eigi. Enn er þeir komo til skipanna, þá gengo þeir Karli fyrstir á skip; þviat þeir voro fremztir ádr; enn Þórir var lengst á landino. Þegar

er þeir Karli komoz á skip sitt, köstodo þeir tiöll-dom af ser oc slógo festom; sídan drógo þeir segl sitt upp: Geck skipit brátt út á haf. Enn þeim Þóri tókz allt seinna: var skip þeirra óaudrádnara. Enn er þeir tóko til segls, þá voro þeir Karli komnir láugt undan landi: Sigldo þá hvarirtveggio yfir Gandvik. Nótt var þá enn liós, oc sigldo hvarirtveggio bædi nætor oc daga, allt til þess, er þeir Karli lögdo aptan dags, at eyom nockorom, lægdo þar segl, oc köstodo atkerom, oc bido þar straumsfalls, þvíat röst mikil var fyrir þeim. Þá komo þeir Þórir eptir, oc leggiaz um atkeri. Sídan skuto þeir báti; geck Þórir á, oc menn med hönom, oc rero þeir þá til skips þeirra Karla: geck Þórir upp á skipit. Þeir brædor heilsudo hönom: Þórir bad Karla selia ser menit: þyckiunz ec makligastr at hafa kostgripi þá er þar voro teknir: þviat mer þóttot þer min nióta, er undanqvama vard med engom mannháska. Enn mer þótti þú, Karli, styra oss til hins mesta geigs. Þá sagdi Karli: Olafr konungr á fe þat allt at helmingi vid mik, er ec afla í ferd þessi: nú ætla ec hönom menit; far þú á fund hans, ef þú vill: kann þá vera, at hann fái þer menit, ef hann vill fyrir því eigi hafa, er ec tók þat af Jomálanom. Þá svarar Þórir, oc sagdi, at hann vill, at þeir fari upp á eyna, oc skipti fengi síno. Gunnsteinn segir, at þá skipti straumonom, oc mál væri at sigla: Sídan draga þeir upp strengi sína. Enn er Þórir sá þat, fór hann ofan í bátinn; rero þeir til skips síns. Þeir Karli

höfdo þá dregit upp segl sitt, oc voro lángt komnir ádr þeir Þórir höldo uppkomit segli síno: Fóro þeir þá sva, at þeir Karli sigldo ávallt fremri, oc höfdo vid hvarirtveggio allt slíkt er mátto. Þeir fóro sva til þess, er þeir komo í Geirsver; þar er bryggiolægi fyrst er nordan fer: þar komo þeir fyrst hvarirtveggio aptan dags, oc lögdo þar til hafnar í bryggio-lagi: Lágo þeir Þórir inn í höfninni; enn þeir Karli voro í utanverdri höfninni. Enn er þeir Þórir höldo tialldat, þá geck hann á land upp, oc þeir menn miök margir saman: Fóro þeir til skips Karla; höfdo þeir þá umbúiz. Þórir kalladi út á skipit, oc bad styrimenn á land gánga. Þeir brædor gengo á land, oc nockorir menn med þeim. Þá hóf Þórir ena sömo rædo sem fyrr, at hann bad þá á land gánga, oc bera fe til skíptis, er þeir höfdo tekit at herfángi. Þeir brædor qvádo enga naudsyn á því, fyrr enn þeir qvæmi heim í bygd. Þórir segir at þat var eigi sidvenia, et skipta herfángi eigi fyrr enn heima, oc hætta sva til um einard manna. Þeir ræddo um þetta nockorom ordom, oc þótti sinn veg hvarom. Þá sneri Þórir í brot: oc er hann var skamt genginn, veik hann aptr, oc mælti, at förunautar hans skylldo bida þar. Hann kallar á Karla, oc qvadz vilia tala einmæli vid hann. Karli geck ímóti hönom: oc er þeir hittoz, lagdi Þórir spióti til hans, sva at í gegnom stód. Þá mælti Þórir: kenna mátto þar, Karli, einn Biarkeyinginn; hugda ec oc, at þú skylldir kenna spiótit Selshefni. Karli

dó þegar; enn þeir Þórir gengo aptr til skipsins. Þeir Gunnsteinn siá fall Karla; runno þeir þegar til, oc tóko lík hans, oc báro til skips sins; brugdo þegar tiölldom oc bryggiom, oc heimtoz út frá landi. Sídan drógo þeir segl, oc fóro leid sína: þeir Þórir sá þat, oc reka þeir tiölld af ser, oc búaz sem ákafligaz. Enn er þeir drógo seglit, þá geck í sundr stagit, oc fór seglit ofan þverskipa: vard þeim Þóri þat dvöl mikil, ádr þeir qvæmi upp ödro sinni seglino: Voro þeir Gunnsteinn þá lángt komnir, er skridr var á skipi Þóris: gerdo þeir þá bædi, sigldo oc rero undir. Slikt sama gerdo þeir Gunnsteinn: Fóro þá hvarirtveggio sem ákafligazt dag oc nótt: dró seint saman med þeim; þvíat þegar er eyasundin tóko til, þá vard miúkara at vikia Gunnsteins skipi. Enn þó drógo þeir Þórir eptir, sva at þá er þeir Gunnsteinn komo fyrir Leingiovík, þá snúa þeir þar at landi, oc liópo af skipino oc á land upp. Enn litlo sídar koma þeir Þórir þar, oc laupa upp eptir þeim, oc ellta þá; kona ein gat hólpit Gunnsteini oc fólgit hann; oc er sva sagt, at sú væri fiölkunnog miök: Fóro þeir Þórir þá aptr til skips; tóko fe þat allt er á var skipino Gunnsteins, enn báro griót í stadinn; flutto skipit út á fiördinn; hiuggo á raufar oc sökto skipino. Sidan fóro þeir Þórir heim til Biarkeyar. Þeir Gunnsteinn fóro fyrst miök huldo höfdi; fluttoz á smábátom; fóro um nætor, enn lágo um daga; fóro sva, til þess er þeir komo fram um Biarkey, oc allt til þess er þeir ko-

mo or syslo Þóris: Fór Gunnsteinn fyrst heim í Lángey, oc dvaldi þar skamma hrid: fór hann þá þegar sudr á leid; letti hann eigi fyrr enn hann kom á fund Olafs konungs, oc segir hönom tídindi slík sem ordin voro í Biarmalands ferdinni. Konungr let illa yfir þeirra ferd, enn baud Gunnsteini med ser at vera, oc segir þat, at hann skylldi leidretta mál Gunnsteins, er hann mætti vidkomaz. Gunnsteinn þecktiz þetta bod; oc dvaldiz hann med Olafi konungi.

## CAP. CXLIV.

## FUNDR KONUNGANNA OLAFS OC ÖNUNDAR.

Sva er sagt fyrr, at Olafr konungr var þann vetr austr í Sarpsborg, er Knútr enn Ríki sat í Danmörk. Önundr Svía konungr reid þann vetr yfir Vestra-Gautland, oc hafdi meir enn XXX hundrot manna: Fóro þá menn oc odrsendingar milli þeirra Olafs konungs: gerdo þeir sín í milli stefnolag, at þeir skylldo hittaz um várit vid Kongahello: Frestodo þeir fundonom fyrir þá sök, at þeir villdo vita, ádr þeir fynniz, hveriar tiltekior Knútr konungr hefdi. Enn er áleid várit, bióz Knútr konungr med lidi sino at fara vestr til Englands: hann setti eptir í Danmörk Hörda-Knút, son sinn, oc þar med hönom Ulf Iarl, son Þórgils Sprakaleggs. Ulfr átti Astrídi,

dóttor Sveins konungs, enn systor Knúts ens Ríka: þeirra son var Sveinn, er síðan var konungr í Danmörk. Ulfr Jarl var enn mesti merkismadr. Knutr Ríki fór vestr til Englands; enn er þat spurdo konungar Olafr oc Önundr, þá fóro þeir til stefnonnar, oc hittoz í Elfi vid Kongahello: Var þar fagnafundr, oc vináttomál mikil, sva at þat var bert fyrir alþydo. Enn þó ræddo þeir marga luti sín í milli, þá er þeir tveir visso, oc vard þat sumt sídarr framgengt, oc öllom auglióst. Enn at skilnadi konunga, skiptoz þeir giöfom vid, oc skildoz vinir: Fór þá Önundr konungr upp á Gautland; enn Olafr konungr fór þá nordr í Víkina, oc sídan út á Agdir, oc þadan nordr med landi, oc lá miök lengi í Eikundasundí, oc beid byriar: Spurdi hann at Erlingr Skiálgsson, oc Jadarbyggiar med hönom lágo í samnadi, oc höfdo her mikinn. Þat var einn dag, at menn konungs ræddo sín í milli um vedr, hvart væri sunnan edr útsynningr; edr hvert þat vedr væri segltækt, edr ei, fyrir Jadar; töldo þat flestir, at úsiglanda væri. Þá svarar Halldor Bryniolfsson: þat munda ec ætla, segir hann, at siglanda mundi þyckia þetta vedr fyrir Jadar, ef Erlingr Skiálgsson heldi veitzlo búit fyrir oss á Sóla. Þá mælti Olafr konungr, at af skylldi reka tiölldin, oc útleggia skiponom: Var sva gert: sigldo þeir þann dag fyrir Jadar, oc dugdi vedr et bezta; laugo at um qveldit vid Hvítingsey: Fór konungr þá nordr á Hördaland; oc fór þar at veitzlom.

## CAP. CXLV.

## DRÁP ÞÓRÁLFS.

Vár þat hafdi farit skip af Noregi út til Færeya: á því skipi fóro ordsendingar Olafs konungs til þess, at koma skylldi ufan af Færeyom einhver þeirra hirdmanna hans, Leifr Özurarson, edr Gilli Lögsögomadr, edr Þórálfr or Dimon. Enn er þessi ordsending kom til Færeya, oc þeim var sagt siálfom, þá ræda þeir sín í milli, hvat undir muni búa ordsendingom; oc kom þat ásamt med þeim, at þeir hugdo at konungr mundi vilia spyria eptir um þau tídindi, er sumir menn höfdo fyrir satt, at þar mundi gerz hafa í eyonom, um missfarir sendimanna konungs, þeirra tveggia skipsagna, er engi madr hafdi afkomiz: Redo þeir þat af, at Þórálfr skylldi fara: Redz hann til ferdar, oc bió byrding, er hann átti oc afladi þar til manna, oc voro þeir á skipi X edr XII. Enn er þeir voro búnir, oc bido byriar, þá var þat tídinda í Austrey í Göto, at Þrándar, at einn gódann vedrdag geck Þrándr í stofo: enn þeir lágo í stofo-pöllom brædrasynir hans tveir, Sigurdr oc Þórdr hinn Lági: þeir vero Þórláks synir; hinn þridi het Gautr enn Raudi; hann var enn frændi þeirra; allir voro þeir fóstrar Þrándar, gerviligir menn: var Sigurdr ellztr þeirra, oc fyrir þeim mest í öllo. Þórdr átti kenningarnafn; var hann kalladr Þórdr enn Lági; hann var þó manna hæstr; oc var hitt þó meir, at hann var þrekligr oc ramr

at afli. Þá mælti Þrándr: margt skipaz á mans æfi! ótídt var þá þat, er ver vorom úngir, at menn skylldo sitia edr liggia vedrdaga góda, þeir er úngir voro, oc til allz vel færir: mundi þat eigi þykia líkligt enom fyrri mönnom, at Þórálfr or Dimon mundi vera þroska-madr meir enn þer: enn byrdingr sá er ec hefir átt, oc her stendr í nausti, ætla ec at nú geriz sva forn, at ec hygg at fúni undir brádino: Er her hús hvert fullt af ullo, oc verdr eigi til idiar ne verds halldit: mundi eigi sva ef ec væri noekorom vetrom yngri. Sigurdr lióp upp, oc het á þá Gaut oc Þórd; qvadz eigi þola fryo Þrándar: Gánga þeir út, oc þar til er húskarlar voro; gánga þeir til, oc setia fram byrdinginn: Leto þeir þá flytia til farm, oc lódo skipit: skorti þar eigi heima farm til, sva (var) reidi allr med skipi; biuggo þeir þat á fám dögom: Voro þeir oc menn X edr XII á skipi: Tóko þeir Þórálfr ser eitt vedr allir; vissoz til iafnan í hafino. Þeir komo at landi í Herno aptan dags; lögdo þeir Sigurdr utan vid ströndina, oc var þá skamt í milli þeirra. Þá vard til tídinda um aptaninn, er myrkt var, oc þeir Þórálfr ætludo til rekna búaz, at Þórálfr geek á land upp, oc annarr madr med hönom; leitodo þeir ser stadar. Oc er þeir voro búnir ofan at gánga, þá sagdi sá sva er hönom fylgdi, at kastat var klædi yfir höfot hönom; var hann tekinn upp af iördo; oc í því bili heyrdi hann brest mikinn: sidan var farit med hann, oc var hann reiddr til falls, enn

þar var undir sær, oc var hann keyrdr á kaf: enn er hann komz á land, fór hann þar til er þeir Þórálfr höfdo skiliz; hitti hann þar Þórálfr, oc var hann klofinn í herdar nidr, oc var hann þá daudr. Oc er þeir skipveriar urdo þessa varir, þá báro þeir lík hans út á skip, oc nóttsætto. Þá var Olafr konungr á veitzlo i Lygro, oc voro þángat ord gör: Var þá stefnt örvarbod edr þíng, oc var konungr á þíngi; konungr hafdi þángat stefna látit þeim Færeyingom, af bádom skipom, oc voro þeir til þíngs komnir. Enn er þíng var sett, þá stód konungr upp, oc mælti: þau tídindi ero her ordin, er því er betr, at slík ero sialdgæt; her er af lífi tekinn gódr drengr, oc hyggio ver at saklaus se; eda er nockorr sá madr á þíngi, er þat kunni at segia, hverr valldr er verks þessa; enn eingi geck þar vid. Þá mælti konungr: eigi er því at leyna hverr minn áhugi er um verk þetta, at ec hygg á hendor þeim Færeyingom. Þickir mer þannog hellzt at unnit, sem Sigurdr Þórláksson mundi manninn vegit hafa, enn Þórdr enn Lági mundi hinn hafa fært á kaf. Enn þat fylgir, at ec munda þess tilgeta, at þat mundi til saka vera funnit, at þeir mundi eigi vilia, at Þórálfr segdi eptir þeim ódádir þær, er hann myndi vitat hafa, at satt er, enn oss hefir verit grunr á, um mord þau oc illvirki, at sendimenn minir hafi þar verit myrdir. Enn er hann hætti rædo sinni, þá stód upp Sigurdr Þórláksson oc mællti: ecki hefir ec talat fyrr á þíngom; ætla ec mik mano þickia

eigi ord-fiman. Enn þó ætla ec ærna naudsyn tilvera, at svara nockoro: Vil ec þess tilgeta, at ræda þessi, er konungr hefir uppi haft, muni vera komin undan túngorotom þeirra manna, er miklo ero úvitrari enn hann oc verri. Enn þat er eigi leynt, at þeir muno fullkomliga vilia vera vorir úvinir. Er þat úlíkliga mælt, at ec mundi vera vilia skadamadr Þórálfs; þviat hann var fóstbródir minn oc gódr vinr. Enn ef þar væri nockr önnor efni í, oc væri sakir milli ockar Þórálfs, þá em ec sva viti borinn, at ec munda helldr til þessa verks hætta heima í Færeyom, enn her undir handariadri ydrom, konungr. Nú vil ec þessa verks synia fyrir mik, oc fyrir oss alla skipveria: vil ec þar bióda fyrir eida, sva sem lög ydar standa til. Enn ef ydor þyckir hitt í nockoro fullara, þá vil ec flytia iárnburd: Vil ec þer, konungr, seot siálfir vid skirslona. Enn er Sigurdr hætti rædo sinni, þa urdo margir til flutningar, oc bádo konung, at Sigurdr skylldi ná undanfærslo um þetta mál; þótti Sigurdr vel hafa talat; oc qvádo hann ósannan mundo at vera því, er hönom var kent. Konungr segir: um þenna mann man stórom skipta; oc ef hann er loginn þesso máli, þá mun hann vera gódr madr: enn at ödrom kosti þá mun hann vera nockoro diarfari, enn dæmi muno tilvera; oc er þat eigi midr mitt hugbod. Enn get ec at hann beri ser siálfr vitni um. Enn vid bæn manna, þá tók konungr festo af Sigurdi til iárnburdar: Skylldi hann koma eptir um daginn til Lygro, oc skylldi biskop

þar gera hönom skírslo; oc sleit sva þingino: Fór konungr aptr til Lygro, enn Sigurdr oc þeir föronautar aptr til skips síns: Tók þá brátt at myrqva af nótt. Þá mælti Sigurdr vid þá föronauta sína: Þat er þó satt at segia, at ver höfom komit í mikil vandqvædi, oc ordit fyrir álygi mikilli, oc er konungr siá brögdóttr oc velrádr; oc mun audsær várr kostr, ef hann skal ráda, þvíat hann let fyrst drepa Þórálf, enn vill nú gera oss at óbótamönnom. Er hanom lítit fyrir at villa iárnburd þenna. Nú ætla ec þann verr hafa, er til þess hættir vid hann. Nú leggz oc innan eptir sundino fialla-gol nockot: ræd oc þat, at ver vindim segl várt, oc seglim út á haf; fari Þrándr annat sumar med ull sína, ef hann vill selia láta. Enn ef ec komunz í brot, þá þickir mer þess ván, at ec koma alldregi sídan til Noregs. Þeim föronautom þótti þetta sniallrædi: setia þá upp segl, oc láta gánga um nóttina í haf út, sem mest mego þeir. Þeir letta eigi fyrr, enn þeir koma í Færeyar, oc heim í Göto: Let Þrándr illa yfir ferd þeirra. Þeir svörodo eigi vel, oc voro þó heima med Þrándi. Eptir um morguninn spurdi Olafr konungr þat, er þeir Sigurdr voro í brot farnir, oc lagdiz þá þúngr ord-rómr á um þeirra mál: Voro þeir margir, at þá köllodo þess ván, at þeir Sigurdr mundo sönno sagdir, er ádr höfdo syniat fyrir konungi oc mælt imóti. Olafr konungr var fáræddinn um þetta mál, enn hann þóttiz vita þá sannindi á því er hann hafdi ádr grunat: Fór konungr þá ferdar sinnar, oc tók veitzlor þar er fyrir voro gervar.

## CAP, CXLVI.

## FRÁ ÍSLENDINGOM.

Olafr konungr heimti til máls vid sik þá menn, er komit höfdo af Islandi, Þórodd Snorrason, Gelli Þórkelsson, Steinn Skaptason, Egil Hallsson; þá tók konungr til máls: þer hafit í sumar vakit vid mik þat mál, at þer villdot búaz til Islands ferdar, enn ec hefir eigi veitt orslit hingat til um þat mál; nú vil ec segia ydor hvernog ec ætla fyrir: þer, Gellir, ætla ec at fara til Islands, ef þú villt bera þannog erendi min; enn adrir Islendskir menn, þeir er nú ero her, þá muno engir til Islands fara, fyrr enn ec spyr hvernog þeim málom er tekit, er þú, Gellir, skallt þannog bera: Enn er konungr hafdi þetta uppborit, þá þótti þeim er fúsir voro fararinnar, oc bannat var, súrskapr mikill hafdr vid sik, oc þótti seta sín ill oc úfrelsi. Enn Gellir bióz nú til ferdar, oc fór um sumarit til Islands, oc hafdi med ser ordsendingar þær, er hann bar fram annat sumar á þingi. Enn sú var ordsending konungs, at hann beiddi þess Islendinga, at þeir skylldo taka vid þeim lögom, er hann hafdi sett í Noregi, enn veita hönom af landino þegn-gilldi oc nef-gilldi, penning fyrir nef hvert, þann er X væri fyrir alin vadmáls. Þeir fylgdi því, at hann het mönnom vinátto sinni, ef þesso villdi iáta, enn elligar afarkostom, þá sem hann mætti vidkomaz. Yfir þesso tali

sáto

sáto menn lengi, oc redo um sín í milli; oc kom þat ásamt at lyktom, med allra samþycki, at neita skattgiöfom oc öllom álögom, þeim er kraft var. Oc fór Gellir þat sumar utan, oc á fund Olafs konungs, oc hitti hann þat haust í Vík austr, þá er hann var kominn af Gautlandi ofan, sva sem oc vænti, at enn skal sagt verda sídarr í sögo Olafs konungs. Þá er áleid haustit, sótti Olafr konungr nordr i Þrándheim, oc hellt lidi sino til Nidaróss; let þar búa til vetrseto ser: Sat Olafr konungr þann vetr eptir í kaupángi. Sá var hinn þrettandi vetr konungdóms hans.

## CAP. CXLVII.

## FRÁ JÖMTOM.

Ketill Jamti het madr, son Önundar Jarls, or Sparabúi í Þrándheimi: hann flydi fyrir Eysteinni konungi Illráda austr um Kiöl: hann ruddi markir, oc bygdi þar sem nú heitir Jamtaland. Austr þángat flydi oc fiöldi manna or Þrándheimí, fyrir þeim ófridi; þvíat Eysteinn konungr skattgilldi Þrændi, oc setti þar til konung hund sinn, er Saurr het. Sonarson Ketils var Þórir Helsingr; vid hann er kennt Helsingialand; þar bygdi hann. Enn er Haralldr hinn Hárfagri ruddi ríki fyrir ser, þá stucko enn fyrir hönom fiölldi manna or landi, Þrændir oc Na-

umdælir; oc gerdoz þá enn bygdir austr um Jamtaland; oc fóro sumir allt í Helsingialand austan frá hafino, oc voro þeir lydskylldir undir Svía konung. Enn er Hákon Adalsteins fóstri var yfir Noregi, þá settiz fridr oc kaupferdir or Þrándheimi til Jamtalands. Enn fyrir sakir vinsælda konungs, þá sótto Jamtar austan á fund hans, oc iátudo hönom hlydni sinni, oc gulldo hönom skatt: setti hann þeim lög oc landsrett: Vildo þeir helldr þydaz undir hans konungsdóm, enn undir Svía konung, þvíat þeir voro af Nordmanna ætt komnir. Oc sva gerdo Helsingiar, þeir allir er ættkadir voro nordan um Kiöl. Oc hellz þat lengi sidan, allt til þess er Olafr Digri oc Olafr Sönski Svía honungr deildo um landaskipti; þá hurfo Jamtar oc Helsingiar undir Svía konung; oc red þi landaskipti austan Eidaskógr, enn þá Kilir allt nordr til Finnmerkor: Tók Svía konungr þá skatta af Helsingialandi, oc sva af Jamtalandi: Enn Olafi Noregs konungi þótti þat hafa komit í sáttmál med þeim Svía konungi, at annan veg ætti at fara skattr af Jamtalandi, enn at forno hafdi verit: enn þó hafdi þat lánga stund sva stadit, at Jamtar höfdo Svía konungi skatt golldit, oc þadan höfdo verit syslomenn yfir landino: Vildo þá oc Svíar eigi heyra annat, enn undir Svía konung hyrfi allt land, þat er lá fyrir austan Kiölo: Var þat sva, sem opt ero dæmi, þó at mágsemdir oc vinátta væri med konungom, at þó vildi hvartveggi hafa ríki þat allt, er hann þóttiz nockora tiltölo eiga: Hafdi Olafr kon-

ungr látit ord umfara til Jamtalands, at þat var hans vili, at Jamtar veitti hönom lydskylldo, enn het þeim afarkostom elligar. Enn Jamtar höfdo gert rád sitt, at þeir vildi lydni veita Svia konungi.

## CAP. CXLVIII.

## SAGA STEINS.

Þóroddr Snorrason oc Steinn Skaptason undo illa, er þeir fóro eigi í siálfrædi. Steinn Skaptason var manna frídastr, oc best at ser gorr um íþrottir, skálld gott oc skartzmadr mikill, oc metnadarfullr. Skapti fadir hans hafdi ort drápo um Olaf konung, oc hafdi kent Steini; var sva ætlat, at hann skylldi færa qvædit konungi. Steinn bazk eigi orda oc ámælis vid konung, bædi sundrlausom ordom oc samföstom. Bádir voro þeir Þóroddr óvarmæltir, segia sva, at konungr vildi verr hafa enn þeir, er sono sína höfdo sent hönom til trúnadar; enn konungr lagdi þá í ófrelsi. Konungr reiddiz. Þat var einn dag, er Steinn Skaptason var fyrir konungi, oc spurdi konung máls, ef hann vildi lyda drápo þeirri, er Skapti, fadir hans, hafdi ort um hann. Konungr svarar: hitt mun fyrst til, Steinn, at þú qvedir þat, er þú hefir ort um mik. Steinn segir, at þat er ecki, er hann hefir ort: em ec ecki skálld, konungr, segir hann; enn þótt ec kynna yrkia, þá mundi ydor þickia þat, sem annat um mik helldr lítil-

vægligt: Geck Steinn þá í brot, oc þóttiz finna, hvar til konungr mælti. Þórgeir het ármadr hans, oc red fyrir búi hans í Orkadal; hann var þá med konungi, oc heyrdi á rædor þeirra Steins: Fór Þórgeirr heim litlo sidarr. Þat var á einhverri nótt, at Steinn hlióp í brott or bænom, oc skósveinn hans med hönom; fóro þeir upp um Gaular-ás, sva út til þess, er þeir komo í Orkadal. Enn at eino qveldi koma þeir til konungs bús þess er Þórgeir red fyrir: baud Þórgeir Steini þar at vera um nóttina; oc spurdi hverio gegndi um farir hans. Steinn bad hann fá ser hest oc sleda med: sá hann at þar var heim ekit korni. Þórgeir segir: eigi veit ec hvernog afstendz um för þína, hvart þú ferr nockot í konungs leyfi; þótti mer fyrra dags eigi miúkt ord milli yckar konungs. Steinn sagdi: þótt ec siá at eingo siálfrádr fyrir konungi, þá skal ec eigi sva fyrir þrælom hans; brá hann sverdi, oc drap hann sidan ármanninn. Enn hann tók hestinn, oc bad sveininn laupa á bak, enn Steinn settiz í sledann, fóro þá veginn, oko nóttina alla: fóro þeir ferdar sinnar til þess er þeir komo ofan á Mæri í Syrnadal; sidan fá þeir ser flutningar yfir fiördo: fór hann sem ákafligaz. Eigi sögdo þeir mönnom víg þetta þar sem þeir komo, enn köllodoz vera konungs menn: Fengo þeir forbeina gódan, hvar sem þeir komo. Þeir komo at qvelldi eins dags í Gizka til bus Þórbergs Arnasonar: var hann eigi heima, enn kona hans var heima, Ragnhilld, dóttir Erlings Skiálgssonar: Feck

Steinn þar allgódar vidtekior; þvíat þar voro ádr kunnleikar miklir med þeim. Sá atburdr hafdi ádr ordit, þá er Steinn hafdi farit af Islandi; átti hann þá siálfr skip þat, er hann kom af hafi utan at Gizka, oc lágo þar vid eyna; þá lá Ragnhilldr, oc skylldi lettari verda, oc var allþúngt halldin; enn prestr var engi í eyonni, oc engi nær: Var þá komit til kaupskipsins, oc spurt at, ef þar væri prestr nockurr; þar var einn prestr á skipi er Bárdr het, Vestfirzkr úngr madr, oc lærdr helldr litt. Sendimenn bádo prest fara med ser til húss. Hönom þótti sem þat mundi vera vandi mikill, enn vissi fákunnandi sına, oc villdi eigi fara. Þá lagdi Steinn ord til vid prest, oc bad hann fara; prestr svarar: fara mun ec ef þú ser med mer; þicki mer traust at því til umráda. Steinn segir, at hann vill víst þat tilleggia. Sídan fara þeir til bæiarins, oc þar til er Ragnhilldr var. Litlo sídar fæddi hon barn; þat var mær, oc þótti helldr ómáttulikt. Þá skírdi prestr barnit, enn Steinn hellt meyunni undir skírn; oc het sú mær Þóra. Steinn gaf meyunni fingrgull. Ragnhilldr het Steini vinátto sinni fullkominni, oc bad hann skylldi þángat koma á hennar fund, ef hann þættiz hennar lidsemdar þurfa. Steinn svarar sva, at hann mundi eigi fleirom meybörnom undir skírn hallda; oc skildoz þau at sva búno. Enn nú var þar komit, er Steinn heimti þessi vilmæli at Ragnhilldi, oc segir hvat hann hefir hent, oc sva þat, at hann muni hafa ordit fyrir reidi konungs.

Hon segir sva, at máttr skal at magni um lidveitzlo hennar, bad hann þar bída Þórbergs, skipadi hönom hiá Eysteini Orra, syni sínom: hann var þá XII vetra gamall. Steinn gaf giafir þeim Ragnhilldi oc Eysteini. Þórbergr hafdi spurt allt um farir Steins fyrr enn hann qvæmi heim, oc var hann helldr úfrynn. Ragnhilldr geck til máls vid hann, oc segir hönom um farir Steins, oc bad hann taka vid hönom, oc siá á mál hans. Þórbergr svarar: ec hefi spurt, segir hann, at konungr hefir eiga l'tit örfarþing eptir Þórgeir, oc Steinn er útlægr görr; sva þat, at konungr er hinn reidasti; oc kann ec mer meiri svinno, enn at takaz á hendor einn útlendan mann, oc hafa þar fyrir reidi konungs; látto Steinn fara í brot hedan sem skiótazt. Ragnhilldr qvad þau þá mundo bædi í brot fara, edr bædi þar vera. Þórbergr bad hana fara hvert er hon vildi: vænti ec þess, segir hann, þótt þú farir, at þú komir skiótt aptr; þvíat her muno vera metord þín mest. Þá geck fram Eysteinn Orri, sonr þeirra; hann mælti, oc segir sva; at hann mun eigi eptir vera, ef Ragnhilldr færi i brot. Þórbergr segir, at þau lysto mikla þrágirni oc ákaflyndi í þesso, oc er þat nú vænst, segir hann, at þit rádit þesso, þó þyckir yckor allmiklo skipta. Enn ofmiök er þer ættgengt, Ragnhilldr, at virda litils ord Olafs konungs. Ragnhilldr mællti; ef þer vex allmiök fyrir augom, at hallda Steinn, þá far þú siálfr med hönom á fund Erlings födor mins; edr fá hönom þat föroneyti er hann

komiz þángat í fridi. Þórbergr segir, at hann mun eigi Steinn þángat senda; oc mun Erlingi þó ærit margt til handa bera, þat er konungi se misþocki á. Oc var Steinn þar um vetrinn. Enn eptir Jól komo til Þórbergs sendimenn konungs, med þeim ordom, at Þórbergr skal koma á fund hans, fyrir midiaföstu; oc er lagt ríkt vid þessa ordsending. Þórbergr bar þat fyrir vini sína, oc leitadi ráds, hvart hann skyldi á þá hætto leggia, at fara á fund konungs, at sva förno máli; enn fleiri lötto, oc köllodo þat rád, at láta fyrr Steinn af höndom, enn fara á valld konungs. Þórbergr var hins fúsari, at leggiaz eigi þá ferd undir höfot. Nockoro sídar fór Þórbergr til fundar vid bródr sinn Finn, oc bar þetta mál fyrir hann, oc bad hann til farar med ser. Finnr svarar: at hönom þótti íllt ofqvæni slíkt, at þora eigi fyrir kono sinni, at hallda einard vid lánardrottinn sinn. Kost manto eiga, segir Þórbergr, at fara eigi. Enn þó ætla ec, at þú letiz meir fyrir rædzlosakir vid konung, enn hollosto vid hann: oc skildoz þeir reidir. Sidan fór Þórbergr á fund Arna Arnasonar, bródr síns, oc segir hönom þetta mál sva búit, oc bad hann fara med ser til konungs. Arni segir: undarlikt þicki mer um þik, sva vitran mann oc fyrirleitinn, er þú skalt rasat hafa í sva mikla óhamingio, oc hafa fengit konungsreidi, þar er engi bar naudsyn til: þat væri nockor varkon, at þú helldir frænda þinn edr fóstbrodor, enn þetta alls engi, at hafa tekiz á hendor mann Islendskan,

oc hallda útlaga konungs, oc hafa þik nú í vedi, oc alla frændor þína. Þórbergr svarar: sva er sem mælt er: einn er auqvisi ættar hverrar. Sú óhamingio födr míns er mer audsæst, hverso hönom glapnadi sona eign, er hann skylldi fá þann sidarst, er eingi líkindi hefir várrar ættar, oc dádlauss er; mundi þat sannast, ef mer þætti eigi vid módor mína skömm mællt, at ec mundi þik alldregi kalla várn bródr: Sneri þá Þórbergr í brot, oc var helldr úkátr, oc fór heim. Sidan sendi hann ord nordr til Þrándheims, á fund Kálfs bródr síns, oc bad hann koma til Agdaness móti ser. Oc er sendimenn hitto Kalf, þá het hann ferdinni, oc hafdi eingi ord fyrir Ragnhilldr sendi menn austr á Jadar til Erlings, födr síns, oc bad hann senda ser lid. Þadan fóro synir Erlings, Sigurdr oc Þórdr, oc hafdi hvarr þeirra tvítogsesso, oc á nío-tigi manna. Enn er þeir komo nordr til Þórbergs, þá tók hann vid þeim sem best oc feginsamligast; bióz hann þá til farar; oc hafdi Þórbergr tvítugsesso: Fóro þeir þá nordr leid sína. Oc er þeir komo vid Þrándheims mynni, þá lágo þeir fyrir Finnr oc Arni, brædor Þórbergs, med tvær tvítugsessor; fagnadi Þórbergr vel brædrom sínom, oc segir, at þá hefdi þeir tekit bryningonni. Finnr qvad þess sialldan hafa þurft vid sik. Sidan fóro þeir med lidi því öllo nordr til Þrándheims, oc var þar Steinn í för med þeim. Oc er þeir komo til Agdaness, þá var þar fyrir Kálfr Arnason, oc hafdi hann tvítugsesso vel skipada: Fóro þeir med því lidi inn til Nidar-hólms, oc lágo þar um nóttina.

Eptir um morgininn átto þeir tal sitt; vildi Kálfr oc synir Erlings, at þeir færi öllò lidino inn til bæarins, oc leti þá skeika at sköpudo. Enn þórbergr vildi at fyrst væri med vægd farit, oc láta bod bióda; samþycktiz Finnr því oc Arni: Var þat þá afrádit at Finnr oc Arni fóro fyrzt til fundar vid Olaf konung fáir menn saman. Konungr hafdi þá spurt ádr um flölmenni þat, er þeir höfdo, oc var hann helldr styggr i rædonni þeirra. Finnr baud bod fyrir þórberg, oc sva fyrir Steinn; baud hann at konungr skylldi fe-bætor gera sva miklar sem hann vildi: enn þórbergr hafa landzvist oc veitzlor sinar; Steinn lifs grid oc lima. Konungr svarar: sva lítz mer, sem þessi för muni sva vera heiman ger, at þer munit nú þyckiaz hafa hálf rád vid mik, eda meirr: enn þess mundo mik sízt vera af ydor brædrom, at þer mundot med her fara á móti mer: Kenni ec rád þessi, er þeir Jadarbyggiar muno hafa upphafit. Enn eigi þarf mer fe bióda. þá segir Finnr: eigi höfom ver brædor fyrir þá sök haft lidsamnat, at ver munom ófrid bióda ydor, konungr; helldr ber hitt til, at ver viliom ydor fyrst bióda vára þiónosto. Enn ef þer neitit, oc ætlit þórbergi nockoro afarkosti, þá muno ver fara allir, med lid þetta er ver höfom, á fund Knútz ens Rika. þá leit konungrinn vid hönom oc mælti: ef þer brædor vilit veita mer svardaga til þess, at fylgia mer innanlandz oc utan, oc skiliaz eigi vid mik, nema mitt lof oc leyfi se til; eigi skulot þer leyna mik, ef þer vitit mer rádin

svikrædi; þá vil ec taka sætt af ydor brædrom. Sídan fór Finnr aptr til lids síns, oc sagdi þetta kosti, er konungr hafdi gert þeim. Bera þeir nú saman rád sín; segir Þórbergr at hann vill þenna kost fyrir sína hönd: em ec ófuss, segir hann, at flyia af eignom mínom, oc sækia til útlendra höfdingia; ætla ec mer muni ávallt sæmd, at fylgia Olafi konungi oc vera þar sem hann er. Þá segir Kálfr: enga eida mun ec vinna Olafi konungi, enn vera þá eina rid med konung, er ec helld veitzlom mínom, oc ödrom metordom, oc konungr vill vera vinr minn; oc er þat minn vili, at sva gerom ver allir. Finnr svarar: til þess munom ver hætta, at láta Olaf konung einn ráda vor í milli. Arni Arnason segir sva: ef ec em rádinn til at fylgia þer, Þórbergr bródir, þótto vilir beriaz vid Olaf konung, þá skal ec eigi vid þik skiliaz, ef þú tekr betra rád; oc mun ec fylgia yckor Finni, oc taka þann kost sem þit set yckor tilhanda: Gengo þeir þá þrír brædor á eitt skip, Þórbergr, Finnr oc Arni, oc rero inn til bæiar, oc sidan gengo þeir á konungs fund: Fór þá fram þetta sáttmál, at þeir brædor unni konungi eida. Þá leitadi Þórbergr Steinni sættar vid konung. Enn konungr svarar, at Stein skylldi fara í fridi fyrir hönom hvert er hann vildi: enn eigi mun hann med mer vera sídan, segir hann. Þá fóro þeir Þórbergr út til lidsins: Fór þá Kálfr inn á Eggio; enn Finnr fór til konungs; enn Þórbergr oc annat lid þeirra fór heim sudr. Steinn fór sudr med sonom

Erlings. Enn um várit snemma fór hann vestr til Englands til handa Knúti enom Ríka, oc var med hönom lengi í gódo yfirlæti.

## CAP. CXLIX.
## FERD FINNZ ÁRNASONAR Á HÁLOGALAND.

Þá er Finnr Arnason hafdi litla ríd dvaliz med Olafi konungi, var einnhvern dag, at konungr kallar Finn til máls vid sik, oc enn fleiri menn, þá er hann var vanr at hafa vid rádagerdir sínar; þá tók konungr til máls, oc segir sva: sú rádagerd stadfestiz í skapi mer, at ec ætla í vár at bióda út leidángri af öllo landi, bædi at lidi, oc at skipom, oc fara sidan med her þann allan er ec má tilfá, ímóti Knúti enom Ríka, þviat ec veit um tilkall þat, er hann hefir upphafit til ríkis í hendor mer, at hann mun ecki ætla at hafa þat fyrir hegóma-mál. Nú er þer þat at segia, Finnr Arnason, at ec vil at þú farir sendiferd mína nord á Hálogaland, oc hafir þar útbod, oc biódir út almenningi, at lidi oc at skipom, oc stefnir þvi lidi mótz vid mik til Agdaness. Sídan nefndi konungr adra menn til, oc sendi suma inn í Þrándheim, enn suma sudr í land, sva at hann let þetta bod fara um allt land. Þat er at segia frá för Finns, at hann hafdi skúto, oc á nær XXX manna. Enn er hann var búinn, fór hann ferdar sinnar, til þess er hann kom á Hálogaland: þá

stefndi hann þing vid bændor, bar þá upp erendi sitt, oc krafdi leidángrs. Bændor átto í heradi skip stór leidángrs fær: skipadoz þeir vid ordsending konungs, oc biuggo skip sín. Enn er Finnr sótti nordr á Hálogaland, þá átti hann þing, enn sendi menn sina nockora frá ser at krefia útbodsins, þar er hönom syndiz. Finnr sendi menn í Biarkey til Þóris Hunds, let þar krefia leidángrs, sem annarstadar. Enn er Þóri komo þessi bod konungs, þá bióz hann til ferdar, oc skipadi af húskörlom sínom skip þat, er hann hafdi haft ádr um sumarit til Biarmalands: bió þat med sínom eiginn kostnadi. Finnr stefndi saman Háleygiom í Vagom, öllom þeim er nordr voro þadan: kom þar saman um várit lid mikit, oc bido allir til þess, er Finnr kom nordan. Var þá oc kominn Þórir Hundr. Enn er Finnr kom, let hann blása til húsþings leidángrs lidi öllo. Enn á þingi því syndo menn vapn sín; sva var þá oc ransakat útbodit í hverri skip-reido. Enn er þat var greitt, þá mælti Finnr: þik vil ec at þesso qvedia, Þórir Hundr, hver bod villtu bióda Olafi konungi fyrir aftöko Karla, hirdmans hans, edr fyrir rán þat, er þú tókt fe konungs nordr í Lengiovik? nú hefir ec umbod konungs til þessa máls. Enn ec vil nú vita svör þin. Þórir litadiz um, oc sá til hvarratveggio handar ser standa marga menn alvapnada: kendi þar Gunnstein, oc fiölda annarra frænda Karla. Þá mælti Þórir: skiótt ero bod mín, Finnr, at ec vil mál allt festa á konungs valld, þat er hönom þickir

at vid mik. Finnr svarar: hitt er nú vænst, at þer se minni virdingar af unnt; þvíat nú mun verda at festa minn dóm á, ef sættaz skal. Þórir mællti: þá ætla ec enn allvel komit míno máli, oc skal þat eigi undan draga. Geck þá Þórir fram til festo, oc skildi Finnr þat mál fyrir allt. Sidan segir Finnr upp sættina, at Þórir skylldi giallda konungi X merkor gullz; enn Gunnsteini oc þeim frændom adrar X merkor; enn fyrir rán oc feskada hinar þridio X merkor, oc giallda upp þegar, segir hann. Þórir segir: þetta er mikit fe-gialld. Hinn er annar kostr, at lokit se sætt allri, segir Finnr. Þórir segir, at Finnr mundi liá hönom þeirra fresta, at hann leitadi lána af sveitungom sínom. Finnr bad hann giallda þar í stad: oc þó umfram, at Þórir skylldi framselia menit þat it mikla, er hann tók af Karla daudom. Þórir qvadz ecki men hafa tekit. Þá geck fram Gunnsteinn oc segir, at Karli hafdi men á hálsi, þá er þeir skildoz, enn þá var í brott, er ver tókom lík hans. Þórir segir at hann hefdi eigi huga leitt um men þat. Enn þótt ver hefdom nockot men, þá mun þat heima liggia í Biarkey. Þá setti Finnr spiótz-oddinn fyrir bríóst Þóri, oc segir, at hann skylldi þa framselia menit. Þórir tók þá menit af hálsi ser, oc seldi Finni. Sidan sneri Þórir í brot, oc geck út á skip sitt. Finnr geck þegar eptir hönom út á skipit, oc margt manna med hönom: geck Finnr eptir skipino, oc tóko þeir upp rúmin á skipino. Enn vid siglo sá þeir undir þi-

liom nidri tunnor tvær miklar, sva at þeim þótti mikil furda at. Finnr spurdi hvat í þeim tunnom var. Þórir segir, at þar lá i dryckr hans. Finnr mælti: hví gefr þú oss eigi at drecka, felagsmadr? sva mikinn dryck sem þer hafit? Þórir mælti vid mann sinn, at renna skylldi or tunnunni í bolla. Sidan var þeim Finni gefit at drecka, oc var þat hinn besti dryckr. Þá bad Finnr Þóri reida feit. Þorir geck eptir skipino fram oc aptr, oc taladi vid menn ymsa. Finnr kalladi, bad hann bera fram feit. Þórir bad hann gánga upp á land, oc qvadz þar mundi greida. Þá geck Finnr á land upp oc hans menn; þá kom þar Þórir oc greiddi silfr; var þar reitt or einom siód X merkor vegnar. Þá let Þórir bera fram knyti skauta marga: var í summom mörk vegin, sumom hálf, edr aurar nockorir. Þá mællti Þórir: þetta er lán-fe, er vinir mínir oc ymsir menn hafa led mer; þvíat uppi ætla ec skotsilfr þat miök er ec á. Sídan geck Þórir á skip út, enn er hann kom aptr, reiddi hann silfr smám oc smám. Þá leid á daginn. Enn þegar er þingino sleit, þá gengo menn til skipa sinna, oc biuggoz til brot-lögo: tóko þá menn at sigla þegar er búnir voro; kom þá sva at flestir menn höfdo siglt. Sá Finnr þá at þynntiz lidit um hann: köllodo menn þá á hann, oc bádo hann verda búinn: Var þá enn eigi greiddr einn þridiúngr fiárins. Þá mællti Finnr: seint gengr nú Þóri greidslan; se ec at þer þickir mikit fyrir at greida feit; skal nú oc kyrt

láta vera fyrst; skallto nú giallda konungi þat er eptir er: Stód þá Finnr upp, oc sneri brott. Þórir segir: vel þicki mer þat, Finnr, at vid skiliom; enn vilia skal ec til hafa at giallda þessa skylld sva, at bádom yckor konungi þycki eigi vargolldit. Þá geck Finnr till skips sins, oc sigldi fram eptir lidi sino. Þórir verdr seint búinn or höfninni. Enn er segl þeirra kom upp, þá helldo þeir út um Vestfiörd, oc sidan á haf út, oc sva sudr med landi, at sær var í midiom hlidom, edr stundom vatnadi land: Let sva gánga sudr allt þar til er hann sigldi í Englandshaf, oc kom fram á Englandi; fór sidan á fund Knútz konungs; oc tók hann vel vid hönom: Kom þá þat upp, at Þórir hafdi of lausafiár, hafdi þar þat fe allt, er þeir höfdo tekit á Biarmalandi hvarirtveggio, oc Karli. Enn i tunnom þeim enom miklo, þá var þar botn skamt frá hinom botni, oc var þar í millom dryckr. Enn tunnan siálf hvartveggi var full af grám skinnom oc biór oc safala: Var Þórir þá med Knúti konungi. Finnr Arnason fór med lidi síno til fundar vid Olaf konung, oc segir hönom allt frá ferd sinni, oc sva þat, at hann qvadz hyggia, at Þórir var or landi farinn, oc vestr til Englands á fund Knúts ens Ríka; oc ætla ec hann muna vera oss allóþarfan. Konungr segir: trúi ec því, at Þórir muni vera oss óvinr, oc þicki mer hann ávallt betri fiárr mer, enn nær.

## CAP. CL.

## DEILA HÁREKS OC ÁSMUNDAR GRANKELSSONAR.

Asmundr Grankelsson hafdi verit vetr þann á Hálogalandi í syslo sinni, oc var heima med fedr sínom Grankeli. Þar liggr til hafs út ver, er bædi var sela at veida oc fugla, eggver oc fiskver; enn þat hafdi legit at fórno fari til bæiar þess er Grankell átti; enn Hárekr or Þióttó veitti þar tilkall: Var þá sva komit at hann hafdi haft af verino öll gögn nockor misseri, fyrir óiafnadar sakir. Enn þá þóttiz Asmundr oc þeir fedgar hafa traust konungs til allra rettra mála: Fóro þeir fedgar þá bádir um várit á fund Háreks, oc sögdo hönom ord oc iartegnir Olafs konungs, at Hárekr skylldi láta af tillkalli um verit. Hárekr svarar því þúngliga, segir, at Ásmundr fór til konungs med slíko rógi; oc hefir ec öll sannindi til míns máls; skylldir þú, Asmundr, kunna at ætla þer hóf, þótt þú þikiz nú mikill fyrir þer, er þú hefir konungs traust. Er sva oc, ef þer skal lyda at drepa suma höfdingia, oc göra at óbótamönnom; enn ræna oss, er enn þóttunz fyrr meirr kunna, at hallda til fullz, þó at oss væri iafnbornir menn. Enn nú er þat allfiarri, at þer set iafnadar-menn mínir fyrir ættarsakir. Asmundr svarar: þess kenna margir af þer, Hárekr, at þú ert frændstór oc ofreflismadr:

sitia margir um skördom lut fyrir þer. Enn þó er þat nú líkligast, at þú, Hárekr, verdir í annan stad til at leita, at hafa fram óiafnat þinn, enn vid oss, edr taka sva miök aflaga, sem þetta er: Skildoz þeir sídan. Hárekr sendi húskarla sína X edr XII med ródrar-ferio nockora mikla: þeir fóro í verit, tóko þar allzkonar veidifáng, oc lódo feriona. Enn er þeir voro brotbúnir, þá kom þar at þeim Asmundr Grankelsson med XXX manna, oc bad þá laust láta fáng þat allt. Húskarlar Háreks svörudo um þat helldr úbrátt. Sídan veitto þeir Asmundr þeim atgángo; kendi þá lidsmunar: Voro húskarlar Háreks sumir bardir, sumir særdir, sumir á kaf færdir, oc fengr allr í brot borinn af skipi þeirra; oc höfdo þeir Asmundr þat med ser: komo húskarlar Háreks heim vid sva búit, oc sögdo Háreki frá ferd sinni. Hann svarar: tídindi þyckia nynæmi öll! þetta hefir eigi fyrr gört verit at beria menn mína: Var þat mál kyrt, oc lagdi Hárekr eigi ord í, oc var hinn kátazti. Hárekr let búa um várit sneckio tvítugsesso, oc skipadi húskörlom sínom; oc var þat skip allvel búit, bædi at mönnom oc öllom reida: Fór Hárekr um várit í leidángr. Enn er hann fann Olaf konung, þá var oc þar fyrir Asmundr Grankelsson; þá kom konungr á stefnolagi med þeim Háreki oc Asmundi, oc setti hann þá: var festr á konungsdómr. Sídan let Asmundr framflytia vitni til þess, at Grankell hafdi átt Verit: Dæmdi konungr eptir því: Vo-

ro þá skröck mála efni: urdo bótalausir húskarlar Háreks, enn dæmt Verit til handa Grankeli. Hárekr qvad ser skammlaust at hlita konungsdómi, hvernog er mál þat skipadiz sidan.

## CAP. CLI.

## SAGA ÞÓRODDS.

Þóroddr Snorrason hafdi dvaliz i Noregi, at rádi Olafs konungs, þá er Gellir Þórkelsson feck leyfi at fara til Islands, sva sem fyrr var ritat: oc var hann þá med Olafi konungi, oc undi illa ófrelsi því, er hann skylldi eigi fara ferda sinna þannog er hann vildi. Öndurdan vetr þann, er Olafr konungr sat i Nidarósi, lysti konungr því, at hann vill menn senda til Jamtalands, at heimta skatt. Enn til farar þeirrar voro menn helldr ófúsir; þviat af lífi voro tecknir sendimenn Olafs konungs, þeir er hann hafdi fyrr sendt, Þrándr Hvíti oc þeir XII saman, sva sem fyrr var ritat; oc höfdo Jamtar sidan halldiz í lydskylldo vid Svia konung. Þóroddr Snorrason baudz til þeirrar farar; þviat hann hirdi þá allt litt hvat yfir hann geck, ef hann færi siálfrádi; þat þecktiz konungr; oc foro þeir Þoroddr XII saman; þeir komo fram austr á Jamtalandi, oc sótto heim þann mann er Þórar er nefndr: hann var þar lögmadr oc meterda-madr mestr. Þeir fengo þar gódar vidtökor. Enn er þeir höfdo þar dvaliz litla ríd, þá báro þeir upp erendi sın fyrir Þórari. Hann segir,

at fyrir þeim svörom redo engom mun midr enn hann adrir landsmenn oc höfdingiar, oc qvadz þíng skylldo tilqvedia: Var sva gert, at þíngbod var uppskorit, oc stefnt þíng fiölmennt: for þórar til þíngs, enn sendimenn dvöldoz medan at hans. þórar bar upp mál þetta fyrir alþydo: enn þat kom ásamt med öllom, at þeir vildo engan skatt giallda Noregs konungi. Enn sendimennina vildo sumir hengia láta, enn sumir láta þá hafa til blótz: enn hitt var afrádit, at þeim skylldi hallda þar, til þess er syslomenn Svía konungs qvæmi þar; skylldo þeir þá starfa fyrir þeim, slíkt er þeir vildi, med rádi landsmanna: enn gera hitt yfirbragd á, at sendimenn væri vel halldnir, at þeir væri fyrir því dvaldir, at þeir skylldi skattzins bída; oc skylldi skipta þeim á vistir tveim oc tveim saman. þóroddr var med annan mann at þórars. þar var Jólaveitzla mikil, oc samburdar öl: margir voro bændor þar í þorpino, oc druckö þeir allir samt um Jólin. Annat þorp var þadan skamt: þar bió mágr þórars, ríkr oc audigr; hann átti ser son roskinn; þeir mágar skyldo drecka hálf Jól at hvars þeirra, oc fyrr at þórars; þeir mágar druckoz á, enn þóroddr oc bóndason, oc var kappdryckia, oc um qvelldit kappmæli oc manniafnadr med Nordmönnom oc Svíom, oc því næst um konunga þeirra, bædi þá er fyrr höfdo verit, oc þessa er nú voro, oc sva þau skipti er verit höfdo landa í milli, i manndrápom oc ránom. þá mælti bóandason: ef várir konungar hafa fleirri

menn látit, þá muno syslomenn Svía konungs iafna þat med XII manna fiörvi, þá er þeir koma sunnan eptir Jólin: oc vitit þer ógerla, veslir menn, til hvers þer erot dvaldir. Þóroddr hugsadi sitt mál, oc margir drógo glott at, oc fundo þeim hneyxliyrdi, oc sva konungi þeirra: Fór þat þá óleynt, er ölit mælti med þeim Jamtom, er Þóroddr hafdi ádr ecki grunat. Eptir um daginn tóko þeir Þóroddr öll klædi sín oc vapn, oc lögdo ser til handar-gagns. Eptir um nóttina, er menn voro sofnadir, hlópo þeir brot til skógar. Um morguninn eptir, er menn urdo varir vid brotlaup þeirra, fóro menn eptir þeim med spor-hunda, oc hitto þá í skógi, þar er þeir höfdo fólgiz, oc höfdo þá heim, oc í skemmo; þar var gröf diúp, voro þeir þar ilátnir, oc hurd læst fyrir: höfdo þeir lítinn mat, oc eingin klædi nema sín. Oc er komo mid Jól, fór Þórar oc allir frelsingiar med hönom til mágs hans: Skylldi hann þar drecka enn efra lut Jólanna. Þrælar Þórars skylldo gæta grafarinnar; enn þeim var þá ætladr gnógr dryckr. Enn þeir stillto lítt dryckionni, oc gerdo sik ölóda þegar um qvelldit. Enn er þeir þóttoz fulldrucknir, þá mællto þeir sín í milli, er mat skylldo færa grafar-mönnom, at þá skylldi eigi skorta. Þóroddr qvad qvædi, oc skemti þeim þrælonom. Enn þeir qvado hann mundo vera virkta mann, oc gáfo hönom kerti miök mikit oc log á. Þá komo þeir þrælarnir út, er ádr voro inni, oc köllodo ákafliga, at hi-

nir skylldo innfara. Enn þeir voro hvarirtveggio ölódir, sva at þeir luko hvarki aptr gröfina ne skemmona. Þá risto þeir Þóroddr í sundr í strengi felldi sína, oc knytto saman, oc gerdo hnoda af endanom, oc köstudo upp á skemmo gólfit: þat vafdiz um aurkofót, oc vard fast; þeir leitudo þá til upp at fara: lypti Þóroddr föronaut sínom upp, til þess er hann stód á öxlom hönom: sídan las hann sik upp í gegnom glugginn; þá skorti eigi reip í skemmunni, oc let hann ofan síga móti Þóroddi; enn er hann skylldi draga Þórodd upp, þá feck hann hvargi komit hönom; þá mælti Þórodd at hann skylldi kasta reipino yfir bita þann, er var í húsino, enn gera lyckio á endanom, bera þar í vido oc grjót, sva at þat væri meir enn iafnvægi hans. Hann gerdi sva; fór þá sigin ofan í gröfina, enn Þóroddr upp. Þeir tóko ser klædi í skemmonni sem þeir þurfto. Þar voro inni hreinstökor nockorar, oc skáro þeir af fitiarnar, oc bundo öfgar undir fætor ser. Enn ádr þeir færi brot, þá lögdo þeir elld í kornlödo mikla, er þar var, oc liópo sídan í brot í nidamyrkri. Hladan brann, oc margt annara húsa í þorpino. Þeir Þóroddr fóro alla nótt á eydimörk, oc fáloz at degi. Um morguninn var saknat þeirra: var þá farit med sporhunda at leita þeirra, á alla vega frá bænom, enn hundarnir rökto sporin aptr til bæarins; þvíat þeir kendo af hreisfitionom, oc rökto þángat sporit, sem klaufirnar höfdo vitat af hreinsfitionom: oc vard eigi leitat þeirra. Þeir Þó-

roddr fóro lengi á eydimörkom, oc komo eitt qvelld at litlom húsabæ, oc gengo þar inn: þar sat inni karlmadr oc kona, vid elld; nefndiz hann Þórir, oc sagdi at sú var kona hans er þar sat, oc sva at þau átto húsakot þat; baud bóndi þeim þar at vera, enn þeir þágo þat. Hann sagdi þeim, at því var hann þar kominn at hann hafdi flyit or bygdinni, fyrir vígasakir: Var þeim Þóroddi unninn gódr beini; mötudoz þau öll vid elldinn. Sidan var búit um þá Þórodd þar í seti, oc lögdoz þeir til svefns. Enn þá var enn logi á elldinom. Þá sá Þóroddr, at þar geck fram madr or ödro húsi, oc hafdi hann engan mann set iafnmikinn; sá madr hafdi skarlatzklædi, buin gul-laudom, oc var hinn vegligasti synom. Þóroddr heyrdi, at hann ávitadi þau um þat, er þau tóko vid gestom, enn höfdo varla ser matbiörg. Húsfreyia svarar: ver þú eigi reidr, bródir; sialldan hefir þetta at móti borit; veitto þeim helldr nockora gagns muni: þviat þú ert betr tilfær enn vid. Þóroddr heyrdi þann inn mikla mann nefndan Arnliót Gellina, oc sva, at húsfreyia var systir hans. Þóroddr hafdi heyrt getit Arnliótz, oc þat med, at hann var hinn mesti stigamadr oc illvirki; Sváfo þeir Þóroddr um nóttina, þviat þeir voro mæddir ádr af gongo. Enn er lifa mundi þridiungr nætor, þá kom þar Arnliótr, bad þá uppstanda oc búaz ferdar sinnar; þeir, Þóroddr stódo þegar upp, oc klæddoz: var þeim gefinn dagverdr. Sidan feck Þórir skíd hvaromtveggia þeirra. Arn-

liótr redz til ferdar med þeim: steig hann á skíd; þau voro bædi breid oc laung. Enn þegar er Arnliótr laust vid geislinom, þá var hann hvar fiarri þeim; þá beid hann oc mælti, at þeir mundi hvargi komaz at sva búno, bad þá stiga á skidin med ser. Þeir gerdo sva: Fór Þóroddr nærri hönom, oc hellt ser undir bellti Arnliótz; enn förunautr Þóroddz hellt hönom: Skreid Arnliótr þá sva hart med alla þá, sem hann færi lauss. Þeir komo til sælohúss nockrs, er þridiungr var af nótt, drápo ser þar elld, oc biuggo til matar. Enn er þeir mötudoz, þá mælti Arnliótr, bad þá engo nidrkasta af matnom, hvarki beinom ne mola. Arnliótr tók or serk sinom silfrdisk einn, oc matadiz þar af. Enn er þeir voro mettir, þá hirdi Arnliótr leifar þeirra. Sídan biuggoz þeir til rekna. I annan enda húsins var lopt uppi á þvertriám; fóro þeir Arnliótr upp á loptit, oc lögdoz þar til svefns. Arnliótr hafdi höggspiót mikit, oc var gullrekinn falrinn, enn skaptit sva hátt, at tók hendi til falsins, enn hann var sverdi gyrdr; þeir höfdo bædi vapn sín oc klædi uppi á loptina hiá ser. Arnliótr bad þá vera liódsama. Hann lá fremstr á loptino. Litlo sídar qvamo þar til hússins menn XII; þeir voro kaupmenn er fóro med varning sinn til Jamtalands: enn er þeir komo í húsit, gerdo þeir um sik glaum mikinn, oc voro kátir; gerdo fyrir ser ellda stóra. Enn er þeir mötudoz, þá köstudo þeir út beinom öllom. Sídan biuggoz þeir til rekna, oc lögdoz nidr í seti þar vid

elldinn. Enn er þeir höfdo litla hríd sofit, þá kom þar til hússins tröllkona mikil. Enn er hon kom inn, sópadiz hon um fast, tók beinin, oc allt þat er henni þotti ætt, oc sló í munn ser: sídan greip hon mann þann er næst henni var, reif oc sleit allan sundr, oc kastadi á elldinn; þá vöknodo þeir adrir oc vid illan draum, oc hliópo allir upp. Enn hon færdi til heliar hvern at ödrom, sva at einn var eptir á lífi: Lióp sá innar undir lopt, oc kallar til hiálpar ser, ef nockr væri þess í loptino, er hönom mundi duga. Arnliótr seildiz til hans oc tók í herdar hönom, oc kipti hönom upp í loptit. Þá slóz hon fram at elldinom, oc tók at eta mennina þá er steikdir voro. Þá stód Arnliótr upp, oc greip höggspiót sitt, oc setti milli herda henni, sva at út lióp oddrin um briostit. Hon brá vid hart, oc qvad vid illiliga, oc lióp út. Arnlióti vard laust spiótit, oc hafdi hon þat med ser á brot. Arnliótr geck til, oc ruddi út hræom manna, setti fyrir skálann hurd oc gætti, þvíat hon hafdi þat allt frábrotit, er hon geck út; sváfo þeir þá þat er eptir var nætorinnar. Enn er lysti, stódo þeir upp, oc áto þá fyrst dagverd sinn. Enn er þeir höfdo mataz, mælti Arnliótr: nú munom ver her skiliaz; skolot þer nú fara eptir ak-braut þessi, er þeir fóro í gær híngat kauppmennirnir. Enn eo vil leita spiótz míns; mun ec hafa at verckaupi þat er mer þikir fenytt, af fe því er þessir menn hafa átt: Skallto, Þóroddr, bera Olafi konungi qvedio mína; oc seg

hönom þat, at hann er sá madr, er mer er mest forvitni at hitta; enn qvedia mín mun hönom þikia einskis verd: Tók hann þá silfrdiskinn oc strauk med dùknom, oc mælti: færdo Olafi konungi disk þenna, oc seg, at þat er qvedia mín. Sídan biuggoz þeir til ferdar hvarirtveggio, oc skildoz þeir at sva búno: Fór þóroddr oc þeir föronautar, oc sva sá madr, er undan hafdi komiz af þeim föronautom kaupmönnom: Fór þóroddr til þess, er hann fann Olaf konung í kaupángi, oc segir hönom allt frá ferdom sínom, bar hönom qvedio Arnliótz, oc færdi hönom silfrdiskinn. Konungr segir, at þat var illa, er Arnliótr hafdi eigi farit á konungs fund. Oc er skadi mikill, er sva íllt skylldi leggiaz fyrir sva gódan dreng, oc verkiligan mann. þóroddr var sídan med Olafi konungi, þat er eptir var vetrar, oc feck þá leyfi af hönom at fara til Islands um sumarit eptir; skildoz þeir Olafr konungr þá med vinátto.

## CAP. CLII.

## ÚTBOD OLAFS KONUNGS.

Olafr konungr bióz um várit or Nidarósi; oc drósk lid at hönom mikit, bædi þar or þrándheimi, oc sva nordan or landi. Enn er hann var búinn ferdar sinnar, þá fór hann med lidino fyrst sudr á Mæri oc heimti þar saman leidángrs lid, oc sva or Raumsdal. Sídan fór hann á Sunmæri: hann lá len-

gi í Hereyom, oc beid lids sins; átti þá optliga húsþíng: kom þar margt til eyrna hönom þat er hönom þótti umráda þurfa. Þat var á eino húsþingi er hann átti, at hann hafdi þat mál í munni: sagdi frá mannskada þeim, er hann hafdi látit af þeim Færeyingom; enn skattr sá, er þeir hafa mer heitit, kemr eigi fram. Nú ætla ec menn enn þángat at senda, eptir skattinom: veik konungr nockot þessi máli til ymissa manna, at til þeirrar ferdar skylldo rádaz. Enn þar komo þau svör ímót, at allir menn töldoz undan förinni. Þá stód upp madr á þíngino mikill oc allvörpoligr; sá hafdi raudan kyrtil, hiálm á höfdi, gyrdr sverdi, höggspiót mikit í hendi; hann tók til máls: þat er satt at segia, qvad hann, at her er mikill munr manna; þer hafit konung gódan, enn hann drengi illa, er nei qvedit sendiför eina, er hann bydr ydr, enn hafit þegit ádr af hönom vingiafir, oc marga sæmliga luti: enn ec hefi verit her til engi vinr konungs: Hefir hann oc verit úvinr minn; telr hann, at sakir se til þess. Nú vil ec bióda þer, konungr, at fara ferd þessa, ef ecki ero villdari faung á. Konungr svarar: hver er þessi madr enn drengiligi, er svarar máli míno? gerir þú mikinn mun ödrom mönnom er her ero, er þú bydz til farar; enn þeir töldoz undan, er ec hugda at vel mundo hafa vidskipaz. Enn ec kann á þer eingi deili, oc eigi veit ec nafn þitt. Hann svarar: nafn mitt er eigi vant, konungr; þess er mer ván, at þú munir heyrt hafa

mik nefndan; em ec kalladr Karl Mærski; konungr svarar: sva er þat, Karl; heyrt hefir ec þik nefndan fyrr, oc er þat satt at segia, at verit hafa þær stundir, at sá fundr ockra mundi hafa ordit, ef ec hefda rádit, er þú mundir ecki kunna segia frá tídindom. Enn nú vil ec eigi verr hafa enn þú, er þú bydr mer lidsemd þína, at leggia eigi þar á móti þöck oc aufúso: skallto, Karl, koma til min, oc vera í bodi mino í dag: skulo ver þá ræda þetta mál. Karl sagdi sva skylldi vera.

## CAP. CLIII.

## SAGA KARLS HINS MÆRSKA.

Karl hinn Mærski hafdi verit Víkingr, oc hinn mesti ránsmadr; hafdi konungr miök opt gerva menn til hans, oc vildi hann af lífi taka; enn Karl var madr ættstór, oc mikill athafnar-madr, íþróttamadr oc atgervi-madr um marga luti. Enn er Karl var rádinn til ferdar þessarar, þá tók konungr hann í sætt, oc því næst í kærleika; konungr let búa ferd hans sem best: Voro þeir á skipi nær XX menn; konungr gerdi ordsendingar til vina sinna í Færeyar: sendi Karl til halldz oc transtz, þar er var Leifr Özurarson, oc Gilli Lögsögomadr: sendí til þess iartegnir sínar: Fór Karl þegar er hann var búinn; byriadi þeim vel, oc komo til Færeya, oc lögdo í Þórshöfn i Straumsey. Sídan var þar þing stefnt,

oc kom þar fiölmennt; þar kom Þrándr or Göto, med flock mikinn; þar komo oc Leifr oc Gilli, oc höfdo þeir oc fiölmenni mikit. Enn er þeir höfdo tialldat oc umbúiz, þá gengo þeir til fundar vid Karl Mærska: voro þar qvedior gódar. Sidan bar Karl ord oc iartegnir Olafs konungs oc vin-mæli til þeirra Gilla oc Leifs: þeir tóko því vel, oc budo Karli til sín, oc at flytia erendi hans, oc veita hönom slíkt traust, sem þeir hefdi faung á; hann tók því þacksamliga. Litlo sídar kom þar Þrándr í Göto, oc fagnar vel Karli; em ec, segir hann, feginn ordinn, er slíkr drengr hefir komit hingat til lands várs, med erendi konungs várs, er ver erom allir skylldir undir at standa: Vil ec ecki annat, Karl, enn þú farir til mín til vetr-vistar, oc þat allt þins lids, er þinn vegr væri þá meiri enn ádr. Karl svarar: at hann var ádr rádinn at fara til Leifs. Enn ec munda elligar, segir hann, fúsliga þiggia þetta bod. Þrándr segir: þá mun Leifi audit vegsmuna af þesso. Enn ero nockorir þá adrir lutir þeir, er ec mega þá sva gera, at ydor se lídsemd at? Karl svarar: at hönom þótti mikit í veitt, at Þrándr drægi saman skattinn um Austrey, oc sva um allar Nordr-eyar. Þrándr segir, at þat var skyllt oc heimillt, at hann veitti þann beina at erindi konungs: Gengr Þrándr þá aptr til búdar sinnar: Vard á því þingi eigi fleirra til tídinda. Enn Karl fór til vistar med Leifi Özurarsyni; oc var hann þar um vetrinn eptir; heimti Leifr skatt saman um Straumey,

oc um allar eyar sudr þadan. Um várit eptir feck Þrándr or Göto van-heilso, hafdi augna þúnga, oc þó enn kramar adrar; enn þó bióz hann at fara til þings, sem vandi hans var. Enn er hann kom á þingit, oc bud hans var tiölldot, þá let hann tialda undir svörtom tiölldom innan af, til þess at þá væri sidr skírdræpt. Enn er dagar nockorir voro lídnir af þingino, þá gánga þeir Leifr oc Karl til búdar Þrándar, oc voro fiölmennir: enn er þeir komo at búdinni, þá stódo þar úti nockorir menn. Leifr spurdi, hvert Þrándr væri inni í búdinni; þeir segia, at hann var þar. Leifr mælti, at þeir skylldo bidia Þránd útgánga; eigo vid Karl erendi vid hann, segir hann. Enn er þeir menn komo aptr, þá segia þeir at Þrándr hafdi þann augna-verk, at hann mátti eigi útkoma; oc bad hann, Leifr, at þú skylldir inngánga. Leifr mællti vid föronauta sína, at þeir skylldo fara varliga, er þeir kæmi í búdina, þreyngvaz eigi, gángi sá fyrstr út, er sídarst gengr inn. Leifr geck fyrst inn, enn þar næst Karl, enn þá hans föroneyti, oc allir med allvæpni, sem þá at þeir skylldi til bardaga búaz. Leifr geck innar at enom svörto tiölldonom, spurdi þá, hvar Þrándr væri. Þrándr svarar, oc heilsadi Leifi. Leifr tók qvedio hans, spurdi sídan, hvart hann hefdi nockot skatt heimt um Nordr-eyar, edr hverr greidi þá mundi á vera um silfrit. Þrándr svarar, at eigi hefdi hönom þat or hug horfit, er þeir Karli höfdo rætt, oc sva at greidi mundi á verda um skattinn; er her siódr; Leifr, er þú skallt vidtaka, oc er fullr af silfri.

Leifr sáz um, oc sá fátt manna í búdinni: lágo menn í pöllom, enn fáir sáto uppi. Sidan geck Leifr til Þrándar, oc tók vid siódnom, oc bar utar í búdina, þar er lióst var; oc steypti silfrino ofan á skiölld sinn, rótadi í hendi sinni, oc mællti, at Karl skylldi siá silfrit. Þeir lito á um stund: þá spurdi Karl, hvernog Leifi syndiz silfrit; hann mællti: þat hygg ec, at hverr sá penningr, er illr er í Nordreyom, muni her kominn. Þrándr lieyrdi þetta, oc mælti: syniz þer eigi vel silfrit, Leifr? nei, segir hann. Þrándr mællti: eigi ero þeir þó medal mann-nidingar frændor várir, er þeim má til einskis trúa; ec hefi sent þá i vár, at heimta saman skatt nordr í Eyar, er ec var at eingo færr i vár; enn þeir hafa tekit mútor af bændom, at taka fals slikt, er eigi þikir gialld-gengt. Oc er hitt vænst, Leifr, at siá þetta silfr, er golldiz hefir í landskulldir mínar; bar Leifr þá aptr silfrit, enn tók vid siód ödrom; oc bar þann til Karls: rannsökodo þeir þat fe: Spurdi Karl, hverso Leifi syndiz þetta fe; hann sagdi, at hönom þótti þetta fe vant, oc eigi svá at eins, at um þær skulldir er óvandliga er fyrir mælt, at verdi þá tekit: enn eigi vil ec þetta fe konungi til handa taka. Madr einn sá er lá i pallinom, kastadi felldi af höfdi ser, oc mællti: satt er hit forn-qvedna: svo ergiz hverr sem elldiz; sva er þer oc, Þrándr: lætr Karl hinn Mærska reka fe fyrir þer i allan dag; þar var Gautr enn Raudi. Þrándr lióp upp vid ord Gauts, oc vard málódi; veitti þeim stórar átölor

frændom sinom. Enn at lyktom mælti hann, at Leifr skylldi selia hönom þat silfr; enn tak her vid siód, er landbúar minir hafa fært mer heim í vár. Enn þótt ec siá óskygn, þá er þó siálf höfid hollozt. Madr reis upp vid olboga, er lá í pallinom; þar var Þórdr enn Lági; hann mællti: eigi hliótom ver medal-orda skack af hönom Mæra Karli; oc væri hann launa fyrir verdr. Leifr tók vid siódnom, oc bar enn fyrir Karl; sá þeir þat fe; mælti Leifr: eigi þarf lengi at siá á þetta silfr: her er hverr penningr ödrom betri, oc viliom ver þetta fe hafa. Fá þú til, Þrándr, mann at siá reizlor. Þrándr segir, at hönom þótti bezt tilfengit, at Leifr sæi fyrir hans hönd: Gengo þeir Leifr þá út oc skamt frá búdinni; settoz þeir þá nidr, oc reiddo silfrit. Karl tók hiálm af höfdi ser, oc hellti þar í silfri því er vegit var; þeir sá mann gánga hiá ser, oc haldi refdi i hendi, oc hött sidan á höfdi, oc heklo græna, berfettr, knytt linbrokom at beini; hann setti nidr refdit í völlinn, oc geck fyrir Karl oc mælti: se þú vid, Mæra-Karl, at þer verdi eigi mein at refdi mino. Litlo sidar kom þar madr laupandi, oc kallar ákafliga á Leif Özurarson, bad hann fara sem skiótaz til búdar Gilla Lögsögo-mans; þar lióp inn um tialldskarir Sigurdr Þórlaksson, oc hefir særdan búdarmann Gilla til ólifis. Leifr stód þegar upp, oc geck á brot, til búdar Gilla, oc med hönom allt lid hans. Enn Karli sat eptir, enn Austmennirnir stódo umhverfis hiá hönom. Gautr Raudi lióp at, oc hió

med handeyxi yfir herdar mönnom, oc kom högg þat í höfot Karla; oc vard sár þat eigi mikit. Þórdr Lági greip upp refdit, er stód í vellinom hiá hönom, oc lystr ofan á öxar-hamarinn, sva at öxinn stód í heilanom. Þusti þá fiöldi manna út or búd Þrándar. Karl var þadan daudr borinn. Þrándr let illa yfir verki þesso, oc baud þó febætor til sátta fyrir frændor sína. Leifr oc Gilli gengo at eptir máli, oc kom þar eigi febótom fyrir: Vard Sigurdr útlagr fyrir áverka þann, er hann veitti búdonaut Gilla, enn þeir Gautr fyrir vig Karls. Austmenn biuggo skip þat, er Karl hafdi haft þángat, oc fóro austr á fund Olafs konungs, oc sögdo hönom tídindi. Hönom brá eigi vel vid; hótadi strax hefndom. Enn þess vard eigi audit, at Olafr konungr hefndi þessa vid Þránd, edr frændor hans, fyrir ófridi þeim, er þá hafdi gerz í Noregi, oc enn mun verda frásagt. Oc er nú lokit at segia frá þeim tídindom, er urdo af því, er Olafr konungr sendi menn til Færeya, at heimta skatt af þeim. Þó gerdoz stórar deilor sídan í Færeyom, eptir víg Karla Mærska, oc áttoz þá vid frændor Þrándar í Göto, oc Leifr Özurarson; oc ero frá því stórar frásagnir.

## CAP. CLIV.

## LEIDÁNGR OLAFS KONUNGS.

Nú er frá því at segia er fyrr var upphafit, er Olafr

Olafr konungr fór med lidi síno, oc hafdi leidángr úti fyrir öllo landi: fylgdo hönom þá allir lendirmenn nordan or landi, nema Einar þambarskelfir; hann hafdi um kyrt setit heima at búom sínom, sídan er hann kom í land, oc þiónadi eigi konungi: Atti Einar stórmiklar eignir, oc hellt sik þó vegsamliga, at hann hefdi eingar konungs veitzlor. Olafr konungr hellt lidi síno sudr um Stad; dróz þar enn til hans lid mikit or herödom. Þá hafdi Olafr konungr skip þat er hann hafdi ádr gera látit um vetrinn, er Vísundr var kalladr, allra skipa mest; var á framstafni Vísundar-höfot, gulli búit. Þess getr Sigvatr skálld:

Lyngs bar fiskr til fengiar
flugstyggs sonar Tryggva
giolnar gulli mölno,
God villdi sva, rodnar.
Annan let á unnir
Olafr búinn hala
laugr þó driúgt hinn Digri
dyrs horn Vísund sporna.

Fór konungr þá sudr á Hördaland.[1] Hann spurdi þau tídindi, at Erlingr Skiálgsson var or landi farinn, oc hafdi haft lid mikit, skip fiögr edr fimm. Hann hafdi siálfr skeid eina mikla, enn synir hans þrír tvítogs essor; oc höfdo siglt vestr til Englandz á fund Knútz ens Rika: Fór þá Olafr konungr austr med landi, oc hafdi allmikit lid. Hann leiddi at spurningom, ef menn vissi nockot til ferdar Knútz ens Ríka; enn þat kunno allir at segia, at hann var

á Englandi. Enn þat var oc sagt med, at hann hafdi leidángr úti, oc ætladi til Noregs. Enn fyrir þá sök, er Olafr konungr hafdi lid mikit, oc hann feck eigi et sanna spurt, hvert hann skylldi stefna til fundar vid Knút Konung, enn mönnom þótti ser illa gegna dvöl í einom stad med her sva mikinn; þá red hann þat af at sigla med herinn sudr til Danmerkr, oc hafdi þat lid allt med ser, er hönom þótti vigligast, oc best var búit, enn gaf hinom heim-leyfi, sva sem qvedit er:

Olafr knyr und árom
ordsniallr Vísund nordan;
brytr annarr gramr úti
nnnheim dreka sunnan.

Nú fór þat lid heim, er hönom þótti minni fylgd í: Hafdi Olafr konungr þar þá mikit lid oc fridt: Voro þar flestir lendir-menn or Noregi, nema þeir er ádr var sagt, at or landi væri farnir, edr eptir höfdo setz heima.

## CAP. CLV.

## FRÁ OLAFI KONUNGI OC ÖNUNDI KONUNGI.

Þá er Olafr konungr sigldi til Danmerkr, hellt hann til Siálands: enn er hann kom þar, tók hann at heria, veitti uppgöngor: Var þá bædi landzfólkit hrætt oc sumt drepit; sumt var handtekit oc bundit, flutt sva til skipa. Enn allt flydi þat er því kom vid, oc

vard eingi vidstada: Gerdi Olafr konungr þar et mesta her-virki. Enn er Olafr konungr var á Siálandi, þá spurdi hann þau tídindi, at Önundr konungr Olafsson haldi úti leidángr, oc fór med her mikinn austan fyrir Skáni; oc heriadi hann þar: Vard þá bert um ráda-gerd þá, er Olafr konungr oc Önundr konungr höfdo haft í Elfinni; þá er þeir gerdo samband sitt oc vináttو, at þeir skylldo bádir veita mótstödo Knúti konungi: Fór Önundr konungr til þess, er hann fann Olaf konung, mág sinn. Enn er þeir hittoz, þá gera þeir þat bert, bædi fyrir sino lidi oc landzfólkino, at þeir ætla undir sik at leggia Danmörk, oc beida ser vidrtöko af landzmönnom. Enn þat var, sem vída finnaz dæmi til, at þá er landsfólk verdr fyrir hernadi, oc fær eigi styrk til vidrtöko, þá iáta flestir öllom þeim álögom, er ser mega frid med kaupa: Vard þá sva, at margir menn gengo til handa þeim konungom, oc iátudo þeim lydni: Lögdo þeir vída landit undir sik, þar er þeir fóro, enn heriodo at ödrom kosti. Sigvatr skálld getr þessa hernadar í drápo þeirri, er hann orti um Knút konung enn Rika:

Knútr var und himnom
hygg ec ætt at frett
Haraldz í her
hug vel duga.
Let lyr göto
lid sudr or Nid
Olafr iöfurr
ársæll fara.
þurdo nordan

namz þat med giam
til sletz svalir
Sælunz kilir:
enn med annan
Önundr Dönom
á hendor at há
her Sænskan ferr.
Let um land lokit
lid gramr saman
mar-bediom med
mörg nef-biörgom:
þar er gråd fyrir gnód
grám hömlom lá
þorn heims þrymo
þyrn dröf cyndri.

## CAP. CLVI.

## FRÁ KNÚTI KONUNGI ENOM RÍKA:

Knútr konungr hafdi spurt vestr til Englandz, at Olafr Noregs konungr hafdi leidángr úti, sva oc þat, at hann fór med her sinn til Danmerkr, oc þar var ófridr mikill i ríki hans: Tók þá Knútr lidi at samna; dróz þar brátt saman her mikill, oc fiöldi skipa: Var Hákon Jarl annar höfodsmadr fyrir því lidi. Sigvatr skálld kom þat sumar til Englandz, vestan or Rudo af Vallandi, oc sá madr med hönom er Bergr het; þeir höfdo þángat farit kaupferd et fyrra sumar. Sigvatr orti flock þann, er kalladr var Vestrfarar vísor; oc er þetta upphaf:

Bergr hefir minzt hve margan
morgon Rúdo borgar

börd let ec í för firda
fest vid arm enn vestra.

Enn er Sigvatr kom til Englandz, þá fór hann þegar til fundar vid Knút konung, oc vildi beida ser orlofs at fara til Noregs; enn Knútr konungr hafdi sett bann fyrir kaupskip öll, fyrr enn hann hefdi búit her sinn. Enn er Sigvatr kom til hans, þá geck hann til herbergis þess, er konungr var inni; þá var herbergit læzt, oc stód hann lengi úti. Enn er hann hitti konung, þá feck hann lof, sem hann beiddi; þá qvad hann:

Utan vard ec ádr enn Jóta
annspilli feck stillis
mæld sá her fyrir höldi
hús dyr fyri spyriaz.
Enn crendi óro
áttungr í sal knátti
Gorms (ber ec opt á armi
iárn-stukor) vel lúka.

Enn er Sigvatr vard þess varr, at Knútr konungr byr herferd á hendor Olafi konungi, oc hann vissi hverso mikinn styrk Knútr konungr hafdi, þá qvad Sigvatr:

Örr tegaz Olaf gerva
allt hefr sá er fiör valltan
(konungs danda man ec qvída)
Knútr oc Hákon úti.
Haldiz vördr þó at vildit
varla Knútr oc Jarlar
dælla er first á fialli
fundr, ef hann siálfr kæmz undan.

Enn orti Sigvatr fleiri visor um ferd þeirra Knútz oc Hákonar: þá qvad hann enn:

Átti Jarl at sætta
allframr bóendr gamla
oc þeir er optaz tóko
Olaf at því máli.
Þeir hafa fyrr at fári
(framt er Eiríks kyn) meira
höfdom keypt enn heiptir
Hákon saman bundit.

## CAP. CLVII.

## FRÁ DREKA KNÚTS KONUNGS.

Knútr hinn Ríki hafdi búit her sinn or landi: hafdi hann of lids, oc skip furdoliga stór; hann siálfr hafdi dreka þann, er sva var mikill, at sextugr var at rúma-tali: voro þar á höfot gullbúin. Hákon Jarl hafdi annan dreka: var sá fertögr at rúma-tali; voro þar oc gyllt höfot á; enn seglin bædi voro stöfot öll med blá oc raudo oc græno: öll voro skipin steind yfir ofan sæ; allr búnadr skipanna var hinn glæsiligasti; mörg önnor skip höfdo þeir stór, oc búin afburdar vel. Þess getr Sigvatr skálld i Knútz drápo:

Knútr var und himnom
herr austan ferr,
frídr fylkis nidr
frán-eygr Dana.
Skreid vestan vidr
var glæstr sá er bar
út andskota
Adalráds þadan.
Oc báro i byr
blá segl vid rá
dyr var döglings för

drekar landreka.
Enn þeir er komo
kilir vestan til
um leid lido
Limafiardar brim.

Sva er sagt, at Knútr konungr hellt her þeim enom mikla vestan af Englandi, oc kom heilo öllo lidi sino til Danmerkor, oc lagdi til Limafiardar: var þar fyrir samnadr mikill landsmanna.

## CAP. CLVIII.

## HÖRDA-KNÚTR TIL KONUNGS TEKINN.

Ulfr Jarl Sprakaleggsson hafdi settr verit til landvarnar í Danmörk þá er Knútr konungr fór til Englands: hafdi hann sellt í hendor Ulfi Jarli son sinn, þann er kalladr var Hörda-Knútr: var þat et fyrra sumar, sem ádr er ritat. Enn Jarl segir þegar, at Knútr konungr hafdi bodit hönom þat erendi at skilnadi þeirra, at hann villdi at Danir tæki til konungs yfir Danavelldi Hörda-Knút, son Knútz konungs: feck hann fyrir þá sök hann oss í hendor; hefir ec, segir hann, oc margir adrir her-landsmenn oc höfdingiar, kært optliga þat fyrir Knúti konungi, at mönnom þikir þat her í landi vandi mikill, at sitia her konunglaust, er enom fyrrom konungom Dana þótti þat fullrædi at hafa konungdóm yfir Danavelldi eino saman. Enn þá er hin fyrri æfi var, redo þesso ríki margir konungar. Enn þó geriz þat nú miklo meira vandrædi

enn fyrr hefir verit; því ver höfom hér til nád í fridi at sitia fyrir útlendom höfdingiom; enn nú spyriom ver hitt, at Noregs konungr ætli at heria á hendor oss. Oc er mönnom þó grunr á, at Svía konungr muni oc til þeirrar ferdar rádaz. Enn Knútr konungr er nú á Englandi. Sídan bar Jarl fram bref oc innsigli Knúts konungs, þau er sönnodo allt þetta er Jarl bar upp. Þetta erindi studdo margir adrir höfdingiar: oc af þeirra fortölom allra saman, red mann-fólkit þat af, at taka Hörda-Knút til konungs, oc var þat gert á því sama þíngi. Enn í þessari rádagerd hafdi verit upphafsmadr Emma drottning; hafdi hon látit gera bref þessi, oc látit innsigla; hafdi hon med brögdom nád innsigli konungs: enn hann siálfr var leyndr þesso öllo. Enn er þeir Hörda-Knútr oc Ulfr Jarl urdo þess varir, at Olafr konungr var kominn nordan or Noregi, med her mikinn, þá fóro þeir til Jótlands, þvíat þar er mest megin Danavelldis: skáro þeir þá upp herör, oc stefndo saman her miklom. Enn er þeir spurdo at Svía konungr var oc þar kominn med her sinn, þá þóttoz þeir eigi styrk til hafa at leggia til bardaga vid þá báda. Þó helldo þeir samnadinom á Jotlandi, oc ætlado at veria þat land fyrir konungom. Enn skipa-herinn drógo þeir allan saman í Limafiörd, oc bido sva Knúts konungs. Enn er þeir spurdo at Knútr konungr var vestan kominn til Limafiardar, þá gerdo þeir sendimenn til hans, oc til Drottningar Emmo, oc bádo at hon skylldi verda

vís, hvart konungr var þeim reidr, edr eigi, oc láta þá þess verda vara. Drottning ræddi þetta mál vid konung, oc segir, at Hörda-Knútr, son þeirra, villdi bæta öllo því, sem konungr vildi, ef hann hefdi þat gert, er konungi þætti ímóti skapi. Hann svarar, at Hörda-Knútr hafdi ecki sínom rádom framfarit: hefir þat sva tekiz, qvad hann, sem ván var at, er hann var barn oc óviti, er hann vildi konungr heita, oc vanda nockorn bar til handa hönom, at land þetta allt mundi herskilldi farit, oc leggiaz undir útlenda höfdingia, ef eigi qvæmi várr styrkr til. Nú ef hann vill nockora sætt vid mik gera, þá fari hann á fund minn, oc leggi nidr hegóma-nafn þat, er hann hefir sik konung látit kalla: Sendi sídan drottning þessi sömo ord til Hörda-Knútz, oc þat med, at hon bad, at hann skylldi þessa ferd eigi undir höfot leggiaz; sagdi, sem var, at hann mundi eigi styrk til þess fá, at standa á móti fedor sínom. Enn er þessi ordsending kom til Hörda-Knútz, þá leitadi hann ráds vid Jarl, oc vid ádra höfdingia, þá er med hönom voro. Enn þat fannz brátt, þegar er landzfólkit spurdi, at Knútr hinn Gamli var kominn, þá dreif til hans allr múgr landsins, oc þótti þar traust sitt allt: Sá Ulfr Jarl, oc adrir felagar hans, at tveir voro kostir fyrir höndom: annathvart at fara á fund konungs oc leggia allt á hans valld; edr stefna af landi brott elligar. Enn allir fysto Hörda-Knút at fara á fund födor síns; red hann þat oc af. Enn er þeir hittoz, þá fell

hann til fóta fedor sínom, oc lagdi innsiglit í kné hanom, þat er konungs nafn fylgdi. Knútr konungr tók í hönd Hörda-Knúti, oc setti hann í sæti sva hátt sem fyrr hafdi hann setit. Ulfr Jarl sendi Sveinn, son sinn, á fund Knútz konungs. Sveinn var systorson Knútz konungs; hann leitadi grida fedor sínom, oc sættar af konungi, oc baud at setiaz í gísling af hendi Jarls. Þeir Sveinn oc Hörda-Knútr voro iafnalldrar. Knútr konungr bad þau ord segia Jarli, at hann safnadi her oc skipom, oc færi sva til fundar vid konung, enn þeir ræddi sídan um sættir sínar. Jarl gerdi sva.

## CAP. CLIX.

## HERNADR Á SKÁNEY.

Enn er Olafr konungr oc Önundr konungr spurdo, at Knútr konungr var vestan kominn, oc þat med, at hann hafdi þá óflyanda her, þá sigla þeir austr fyrir Skáni, taka þá at heria oc brenna herödin; sækia sva austr fyrir landit, til mótz vid ríki Svía konungs. Enn þegar er landsfólkit spurdi, at Knútr konungr var vestan kominn, þá vard eigi af handgaungo vid konunga. Þessa getr Sigvatr skálld:

Gátot drottnar
Danmörk spanit
und sik sökom

snarar herfarar.
þá let skarpla
Skáney Dana
hlödr heriada
höfot fremztr iöfurr.

Þá sótto konungar austr fyrir landit, oc lögdo at þar er heitir áin Helga, oc dvöldoz þar um hrid. Þá spyria þeir at Knútr konungr fór med her sinn austr eptir þeim. Þá bera þeir rád sín saman, oc tóko þat til, at Olafr konungr med lidi síno sumo geck á land upp, oc allt á markir til vaz þess, er áin Helga fellr or; gerdo þar í ár-ósinom stiflo med vidom oc torfi, oc stemdo sva upp vatnit; oc sva skáro þeir diki stór, oc leypto saman fleirom vötnom; oc gerdoz þar vídir flóar. Enn í ár-veginn hiuggo þeir stór-vido. Þeir voro í þesso starfi marga daga, oc hafdi Olafr konungr allt tilstilli um brögd þessi; enn Önundr konungr hafdi þá herstiórn yfir skipa-hernom. Knutr konungr spurdi til ferda þeirra konunga, oc sva skada þann allan, er þeir höfdo gert á ríki hans: helldr þá til mótz vid þá, þar þeir lágo í ánni Helgo, oc hafdi her mikinn, oc hálfo meira enn þeir bádir. Þessa getr Sigvatr:

Letat af iöfra
ætt manna fannz
Jótlandz etaz
Rendr at því.
Villdi folldar
fæst rán Dana
hlíf skiölldr hafa
höfot fremstr iöfr.

## CAP. CLX.

## OROSTA FYRIR ÁNNI HELGO.

Þat var einn dag at qvelldi, at niósnarmenn Önundar konungs sá sigling Knútz konungs, oc átti hann þá þángat eigi lángt. Þá let Önundr konungr blása herblástr: ráko menn þá tiölld af ser oc herklæddoz, rero út or höfninni, oc austr fyrir landit: lögdo þá saman skip sín, oc tengdo, oc biuggoz til bardaga. Önundr konungr leypti niósnar-mönnom á land upp: fóro þeir á fund Olafs konungs, oc sögdo hönom þessi tídindi. Þá let Olafr konungr brióta stiflornar, oc leypa ánni í veg sinn. Enn Olafr konungr fór um nóttina ofan til skipa sinna. Knútr konungr kom fyrir höfnina; þá sá hann hvar lá her konunga búinn til bardaga; þótti hönom sem þá mundi vera síd dags, at leggia til orosto vid þá, um þat er her hans væri allr búinn; þvíat floti hans þurfti rúm mikit á sænom, til at sigla; var lángt á milli hins fyrzta skips hans, oc ens sídarsta, sva oc þess er utarst fór, edr hins er næst fór landi. Vedr var lítit. Enn er Knútr konungr sá, at Svíar oc Nordmenn höfdo rymda höfnina, þá lagdi hann inn til hafnar, oc sva mörg skipin sem rúm höfdo. Enn þó lá megin herinn út á hafino. Um morguninn er miök var lióst, var lid þeirra margt á landi uppi, sumt á tali, enn sumt at skemtan sinni. Þá finna þeir eigi fyrr, enn þar geysaz vötn at þeim med fors-falli; þar fylgdo vidir stórir, er rak at skipom þeirra: meiddoz skipin þar fyrir; en vötnin flutо

um völluna alla; tyndiz þat fólkit er á landi var, oc margt þat er á skipom var. Enn allir, þeir er því komo vid, hiuggo festar sínar, oc leystoz út, oc rak skipin miök sundrlaus. Dreka hinn mikla, er siálfr konungr var á, rak út fyrir straumi; vard hanom ecki audsnúit med árom; rak hann út at flota þeirra Önundar konungs. Enn er þeir kendo skipit, þá lögdo þeir þegar at umhverfis. Enn fyrir þá sök, at skipit var bord-mikit, sva sem borg væri, enn fiöldi mans á, oc valit et bezta lid, vapnat oc sem örnggligast, þá vard skipit eigi audsótt: var oc stundin skaumm ádr Ulfr Jarl lagdi at med síno lidi, oc hófz þá orosta. Því næst drósk at her Knútz konungr öllom megin. Þá sá konungar Olafr oc Önundr, at þeir mundo unnit hafa þá at sinni þann sigr sem áudit var, leto þá síga skip sín á hömlo, oc leystoz í brot or her Knútz konungs, oc skildo flotana. Enn fyrir þá sök, at atlaga þessi hafdi eigi þannog tekiz, sem Knútr konungr hafdi tilskipat, þá vard ecki af atródrinom: tóko þeir þá at skipa lidino, oc búaz um. Enn er þeir höfdo skiliz, oc ser fór hvarr flotinn, þá könnodo þeir konungarnir lid sitt, oc fundo, at þeir höfdo ecki mannspell fengit. Þat sá þeir oc, ef þeir bidi þess, at Knútr konungr hefdi búit her þann enn mikla allan, er hann hafdi, oc legdi sídan at þeim, at lidsmunr var sva mikill, at lítil von var, at þeir mundi sigraz, enn aud-vitat, ef orosta tókz, at þar mundi verda et mesta mannfall. Nú var þat rád

tekit, at róa öllo lidino austr med landi. Enn er þeir sá, at Knútr konungr hellt ecki eptir þeim, þá reisto þeir vido, oc setto upp segl sin. Sva segir Ottar Svarti í drápo þeirri, er hann orti um Knút enn Rika:

Svíom hnectir þú sókna
siklingr örr enn mikli
ylgr þars áin Helga
Ulfs beito feck heitir.
Hellzto þar er hrafn ne sulltot
(hvatradr erto) ládi
ógnar stafr fyrir iöfrom
ygr tveim vid kyn heima

Sva qvad þórdr Siáreksson í erfi-drápo Olafs konungs:

Átti Egda drottinn
Olafr þrumo stála
vid ágætan Jóta
audling þann er klauf hrínga:
skaut nær skarpt at móti
Skánunga gramr hánom
Sveins vara sonr at reyna
slæfr, þaut Ulfr um hræfi.

## CAP. CLXI.

## RÁDAGERD OLAFS KONUNGS OC ÖNUNDAR KONUNGS.

Olafr konungr oc Önundr konungr sigldo austr fyrir velldi Svía konungs, oc at aptni dags, lögdo þeir at landi, þar er heitir Barvík; lágo konungar þar um nóttina. Enn þat fannz á um Svia, at þeir vo-

ro heim fúsir; þvíat megin herinn allr sigldi austr med landi um nóttina, oc letto eigi fyrr ferdinni, enn hverr kom heim til sinna heim-kynna. Enn er Önundr konungr vard þessa varr, oc þá lysti af degi, let hann blása til hús-þíngs; geck þá allt lid á land, oc var sett þíng. Önundr konungr tók þá til máls: sva er, segir hann, Olafr konungr, sem þer vitot, at ver höfom farit í sumar allir saman, oc heriat vída um Danmörk; höfom ver fengit mikit af fe, enn ecki af löndom: ec hefir haft í sumar hálft fiórda hundrat skipa; enn nú er ecki meir eptir enn hundrat skipa. Nú lítz mer sva sem ver munim vinna lítit til frama, med eigi meira lid, enn nú höfom ver, þótt at þer hafit LX skipa, sem þer hafit i sumar haft. Nú þycki mer þat syniligast, at fara aptr í ríki mitt; oc er gott heilom vagni heim at aka. Ver höfom aflat i ferd þessari nockors, enn ecki látit. Nú vill ec, Olafr mágr, bióda, at þú farir med mer, oc verom i vetr allir samt: takit slíkt af mino ríki sem þer vilit, oc þer fáit vel halldit ydor, oc lid er ydor fylgir: gerom þá er vár kemr slíkt rád sem oss syniz. Enn ef þer vilit helldr þann kost, at hafa land várt til yfir-ferdar, þá skall þat heimilt, oc vilit þer fara landveg í Noreg. Olafr konungr þackadi Önundi konungi vinsamlig bod, er hann hafdi veitt hönom; enn ef ec skál ráda, þá mun annat rád tekit, oc munom ver hallda saman lidino því er nú er eptir. Hafda ec fyrst í sumar, ádr ec fór or Noreg, hálft fiórda hundrot skipa;

enn er ec fór or landi, þá valda ec af her þeim öllom, þat er mer þótti bezt; skipadi ec þá sextío skipa, er nú hefir ec. Nú litz mer sva um ydart lid, sem þat muni hafa á brot laupit, er dádlausazt var, oc verst fylgdi; enn ec se her alla höldingia ydar oc herstióra, oc veit ec at þat lid er allt betra til vopns, er hirdlidit er: Höfom ver valit lid, oc skipa kost gódan; megom ver vel liggia á skipom í allan vetr, sem sidr her-konunga er til. Enn Knútr mun eigi lengi liggia í ánni Helgo, því þat er engi höfn slíkom fiölda skipa, sem hann hefir; man hann fara austr eptir oss, þá skulom vid taka undan, oc mun oss þá brátt lid dragaz. Enn ef hann snyr aptr þángat sem hafnir þær ero, er hann má liggia flota sinom, þá veit ec oc, at þar mun engom mun sídr heim-fúst lidit enn her: Vænti ec, at ver höfom sva um búit i sumar, at Þorparinn mun vita hvat hann skal vinna, bædi af Skáni oc á Siálandi; mun her Knútz brátt dreifaz víds vegar: Veit þá enn eigi, hveriom sigrs er audit: höfom á niósnir fyrst, hvert rád hann tekr: Lauk Olafr konungr sva síno máli, at menn gerdo gódan róm at; oc var þat ráds tekit, sem hann vildi: Voro þá niósnir gervar í her Knútz konungs. Enn þeir lágo þar bádir Olafr konungr oc Önundr konungr.

CAP.

CAP. CLXII.

## FRÁ KNÚTI KONUNGI OC ULFI JARLI.

Knútr konungr sá þat, at Noregs konungr, oc Svía konungr helldo lidi síno austr med landi: þá lét hann menn sína ríða et efra dag oc nótt; sva sem konungar sigldo et ytra; fóro þá adrír niósnarmenn fram, er adrir fóro aptr; hafdi Knútr konungr á hveriom degi tídindi frá ferd þeirra: hafdi Knútr konungr æ niósnir í her þeirra. Oc þá er hann spurdi, at mikill luti lids var sigldr frá þeim konungonom, þá hellt hann sínom her aptr til Siólands, oc lagdiz í Eyrarsund med allan herinn; lá sumt lid vid Skáni enn sumt vid Sióland. Knútr konungr reid upp til Roiskelldo dag enn næsta fyrir Michaelis-messo med mikla sveit manna. Ulfr Jarl, mágr hans, hafdi búit veitzlo ímót hönom; veitti Jarl allkappsamliga; enn konungr var úkátr oc úfrynn. Jarl orti marga vega á hann til gledi; oc leitadi þeirra máls enda, er hann vætti, at konungi mundi bezt þyckia; enn konungr var stuttmæltr oc fátaladr. Jarl baud hanom at leika at skáktafli; oc því iátadi hann; tóko þeir þá skáktafl oc leko. Ulfr Jarl var madr skiótrádr, oc úvæginn um alla luti, oc hinn mesti framqvæmdarmadr um ríki sitt, oc hermadr mikill, oc er saga mikil frá hönom sögd: hann var ríkastr madr í Danmörk, þegar Knút konung leid. Systir Ulfs Jarls var Gyda, er átti Gudini Jarl Ulfnadsson;

oc voro synir þeirra, Haralldr Engla konungr, oc Tosti Jarl, Valþiófr Jarl, Mauro-Kári Jarl, Sveinn Jarl. Gyda het dóttir þeirra, er átti Játvardr enn Gódi Engla konungr.

## CAP. CLXIII.
## VÍG ÚLFS JARLS.

Enn er þeir höfdo leikit um stund at skáktaflino, þá lek konungrinn fingr-brjót mikinn; þá skákadi Jarl af konunginom einn riddara; konungr bar aptr tafl hans, oc bad hann annat leika. Jarl reiddiz, oc skaut nidr tafl-bordino, stód upp, oc geck í brot; konungr mællti: rennr þú nú, Ulfr enn ragi? Jarl sneri aptr vid dyrin, oc mællti: lengra mundir þú renna í ánni Helgo, ef þú kæmir því vid: kalladir þú þá ecki Ulf enn raga, er ec lagda til at hiálpa þer, er Svíar bördo ydor sem hunda: Geck þá Jarl út, oc fór til svefns. Litlo sidar geck konungr at sofa. Eptir um morguninn er konungr klæddiz, mællti hann vid skósveinn sinn: gack þú, segir hann, til Ulfs Jarls, oc drep hann. Sveinninn geck, oc var í brot um hríd, oc kom aptr; konungr mællti: drapto Jarlinn? eigi drap ec hann, þvíat hann var genginn til Lucius kyrkio. Madr het Ivar Hvíti, Norrænn at kyni hann; var hirdmadr konungs, oc herbergis-madr hans; konungr mællti til Ivars: gackto oc drep Jarl. Ivar geck til kyrkio, oc innar í kórinn

oc lagdi sverdi í gegnom. Jarl: Let Ulfr Jarl þegar líf sitt. Ivar geck þá til konungs, oc hafdi sverdit blódugt í hendi; konungr mællti: drapto Jarlinn? drap ec hann, segir hann. Konungr mællti: vel gerdir þú þá. Enn eptir þat er Jarl var drepinn, leto múnkar læsa kyrkiona; þá var sagt konungi; konungr sendi menn til múnkanna, oc bad þá upplúka kyrkiona, oc syngia tidir. Þeir gerdo sem konungr baud. Enn er konungr kom til kyrkíonnar, þá skeytti hann iardir miklar til kyrkionnar, sva at þat var mikit herat, oc hófs sá stadr mikit sídan; oc því hafa þær iardir þar tillegit sídan. Knútr konungr reid ofan til skipa sinna, oc lá þar lengi um haustit med allmikinn her.

## CAP. CLXIV.

## FRÁ OLAFI KONUNGI OC SVÍOM.

Þá er Olafr konungr oc Önundr spurdo, at Knútr konungr hafdi halldit til Eyrarsunds, oc hann lá þar med her mikinn, þá átto konungar húsþing, oc tölodo margt um ráda-gerdir sínar; vildi Olafr konungr, at þeir lægi þar med allan herinn, oc bídi hvat Knútr konungr tæki ráda. Enn Svíar qvádo þat úrád at bída þar frera; oc var þat afrádit at Önundr konungr fór heim med allan her sinn, enn Olafr konungr lá þar eptir.

## CAP. CLXV.

## FRÁ AGLI OC TÓVA.

Enn er Olafr konungr lá þar, þá átti hann opt tal oc rádagerd vid lid sitt. Þat var einhveria nótt, at þeir átto at hallda vörd á konungs skipi Egill Hallsson oc Tóvi Vallgautsson: hann var kyniadr af Vestra Gautlandi, ættstórr madr. Enn er þeir sáto á verdinom, heyrdo þeir grát mikinn oc gaulon til lids þess er hertekit var: þat var bundit um nætor á landi uppi. Tóvi segir, at hönom þótti íllt at heyra á gaulan þeirra, oc bad Egil at fara med ser at leysa fólkit. Þetta bragd tóko þeir, skáro böndin, oc hleypto í brot fólkino, oc var þat verk allvinsælt af fólkino. Enn konungr var sva reidr, at hellt vid váda siálfan. Oc sídan er Egil var siúkr, vildi konungr lengi eigi siá hann, fyrr enn margir menn bádo fyrir hönom. Idradiz Egill þá miök, er hann hafdi sva gert, at konungi þótti illa, oc bad konung fyrir gefa ser: Gaf konungr þá upp Agli reidi sína, oc lagdi hendor sínar yfir sído hönom, þar er verkrinn lá undir, oc saung yfir bænir sínar; oc iafnskiótt tók or verk allan; eptir þat batnadi Agli. Tóvi kom ser í sætt, sva sem sagt er, at hann skylldi þat tilvinna, at koma á konungs fund Valgauti fedr sínom; hann var madr hund-heidinn; oc feck hann kristni af ordom konungs, oc andadiz þegar er hann var skírdr.

## CAP. CLXVI.

## SVIKRÆDI VID OLAF KONUNG.

Enn er Olafr konungr átti tal vid lid sitt, þá leitadi hann ráda vid lid sitt oc höfdingia, hvart rád skylldi upptaka; enn þat kom lítt ásamt med mönnom; kalladi þat annarr úrád, er ödrom þótti vænlikt; oc volkodo þeir lengi rádin fyrir ser miök. Knútr konungr hafdi ávallt niósnar-menn í her Olafs konungs, oc komo ser í tal vid marga menn; höfdo fram febod oc vinátto-mál af hendi Knúts konungs: leto þar margir eptir leidaz, oc seldo þar til trú sína, at þeir skylldo geraz menn Knútz konungs, oc hallda landi hönom til handa, ef hann kæmi í Noreg: Urdo margir at þesso berir sídarr, þótt þat færi þá leynt fyrst. Sumir tóko þá þegar vid fegiöfom, enn sumom var heitit fe sídarr. Enn hinir voro allmargir, er ádr höfdo þegit af hönom vingiafir stórar; fyrir því at þat var satt at segia frá Knúti konungi, at hverr er á hans fund kom, þeirra manna, er hönom þótti nockot mans mót at, oc vildi hann þydaz, þá feck hverr af hönom fullar hendor fiár: Vard hann af því stórliga vinsæll. Oc bar mest at um örleik hans vid útlenda menn, oc þá mest er lengst voro atkomnir.

## CAP. CLXVII.

## RÁDAGERD OLAFS KONUNGS.

Olafr konungr átti opt tal oc stefnor vid menn

sína, oc spurdi at rádagerdom. Enn er hann fann, at sitt lagdi hverr til, þá grunadi hann, at þeir voro sumir, er annat mundo um mæla, enn synaz mundi rádligast; oc mundi þá eigi rádit, hvart allir mundo hönom retta skulld giallda um trygdina. Þess eggiodo margir, at þeir skylldo taka byr, oc sigla til Eyrarsunds, oc sva nordr til Noregs; sögdo þeir, at Danir mundo eigi þora at þeim at leggia, þótt þeir lægi fyrir med lid mikit. Enn konungr var madr sva vitr, at hann sá, at slikt var ófæra: vissi hann oc, at annan veg hafdi tekiz Olafi Tryggvasyni þá er hann var fá-lidr, er hann lagdi til orosto, þar er her mikill var fyrir, enn Danir þordo þá eigi at beriaz: Vissi konungr oc, at í her Knútz konungs var fiöldi Nordmanna; grunadi konung, at þeir er slikt redo hönom, mundi vera hollari Knúti konungi, enn hánom: Veitti Olafr konungr þá orskurd oc sagdi, at menn skulo búaz þeir er hönom vilia fylgia, oc fara landveg um et efra Gautland, oc sva til Noregs. Enn skip vár, segir hann, oc allan þúnga, þann er ver megom eigi eptir oss flytia, vil ec senda austr í veldi Svía konungs, oc láta þar vardveita oss til handa.

## CAP. CLXVIII.

## UM FERD HÁREKS OR ÞIÓTTO.

Hárekr or Þiótto svarar máli Olafs konungs sva:

þat er audsætt, at eigi má ec fæti fara til Noregs; em ec madr gamall oc þúngr, oc vanr lítt göngom; ætla ec traudr at skiliaz vid skip mitt; hefi ec lagt þá stund á um skip þat oc búnat þess, at mer mun leitt, at liá óvinom mínom fángs á skipi því. Konungr svarar: far þú med oss, Hárekr; ver skulom bera þik eptir oss, ef þú mátt eigi gánga. Hárekr qvedr þá viso:

Rádit hefik at rída
rínleygs hedan mínom
láds dynmari leidar
lángom, helldr enn gánga,
þótt leggfiöturs liggi
lundr í Eyrar-sundi
(kann þiód kerski minni)
Knútr herskipom úti.

Þá let Olafr konungr búa ferd sína; höfdo menn ígángs-klædi sín oc vapn, oc þat sem feckz af reidskiótom, þá var klyfiat af klædom oc lausafe. Enn hann sendi menn, oc let flytia skip sín austr í Kálmar-nes; leto þeir þar uppsetia skipin, oc flytia reida allan oc annan varnat til vardveitzlo. Hárekr gerdi sem hann hafdi sagt, at hann beid byriar, oc sigldi sídan vestr fyrir Skáni, til þess er hann kom austan at Hólonom, oc var þat aptan dags, enn byr var á blásandi. Þá let hann ofan leggia seglit, oc sva vido, taka ofan vedr-vitann, oc sveipa skipit allt fyrir ofan siá med grám tiölldom, oc let róa í nockorom rúmom fram oc aptr, enn let flesta menn sitia lágt í skipino; oc sá vardmenn Knútz konungs skipit,

oc ræddo um sín í milli, hvat skip þat mundi vera, oc gáto þess, at vera mundi flutt sallt edr sílld, en þeir sá fá mennina, enn lítinn ródrinn, enn skipit syndiz þeim grátt oc brád-laust, oc sem skipit mundi skinit af sólo, oc sá þeir at skipit var sett miök. Enn er Hárekr kom fram í sundit, oc um herinn, þá let hann reisa vidona, oc draga seglit; let setia upp gyllta vedrvita; var seglit hvítt sem drift, oo s afat raudo oc blá med vendi. Þá sá menn Knúts konungs siglingina, oc segia konungi, at meirri ván var, at Olafr konungr hefdi þar umsiglt. Enn Knútr konungr segir sva, at Olafr konungr væri sva vitr madr, at hann hefdi eigi farit einskipa í gegnom her Knútz konungs, oc letz líkligra þykia, at þar mundi verit hafa Hárekr or Þiótto, edr hans maki. Þat hafa menn fyrir satt, at Knútr konungr hafi vitat um ferd Háreks, oo mundi eigi sva farit hafa, ef eigi hefdi ádr farit vináttomál milli þeirra Knútz konungs; oc þótti þat birtaz eptir þat er vinátta þeirra Knútz konungs oc Háreks gerdiz alkunna. Hárekr orti víso þessa þá er hann sigldi nordr um vedr-ey:

Lætkat ec Lundar eckior
læbaugs at því hlæia
(skiótom eik fyrir utan
ey) ne Danskar meyiar,
Jörd at ec eigi þorda
ílla flaustz á hausti
á flat slódir Fróda
fara aptr vali krapta.

Fór Hárekr þá ferdar sinnar, oc letti eigi fyrr enn hann kom nordr á Hálogaland, oc til búss síns í Þiótto.

## CAP. CLXIX.

## FERD OLAFS KONUNGS OR SVÍÞIOD.

Olafr konungr byriar ferd sína; fór fyrst upp um Smálönd, oc kom fram í Vestra-Gautland; fór spakliga oc fridsamliga, enn lands-menn veitto þeim gódan forbeina; fór konungr til þess er hann kom ofan í Vikina, oc sva nordr eptir Víkinni, til þess er hann kom í Sarps-borg; dvaldiz hann þá þar, oc let þá þar búa til vetr-seto; gaf konungr þá heimleyfi mestom luta lidsins, enn hafdi med ser þat af lendom mönnom, er hönom syndiz. Þar voro med hönom allir synir Arna Armódssonar: voro þeir mest virdir af konungi. Þá kom til Olafs konungs Gellir Þórkelsson, oc hafdi komit ádr um sumarit af Íslandi, sva sem fyrr var ritat.

## CAP. CLXX.

## FRÁ SIGVATI SKÁLLDI.

Sigvatr skálld hafdi verit lengi med Olafi konungi, sva sem fyrr er ritit, oc hafdi konungr gert hann stallara sinn. Sigvatr var eigi hradmæltr madr í

sundrlausom ordom: enn skálldskapr var hönom sva tiltækr, at hann qvad af túngo fram, sva sem hann mællti annat mál. Hann hafdi verit í kaup-ferdom til Vallands, oc ı þeirri ferd hafdi hann komit til Englands, oc hitt Knút enn Rıka, oc fengit af hönom leyfi, at fara til Noregs, svá sem fyrr var ritat. Enn er hann kom í Noreg, þá fór hann þegar til fundar vid Olaf konung, oc hitti hann í Borg, geck fyrir konung, þá er hann sat yfir bordom. Sigvatr qvadddi hann; konungr leit vid hönom, oc þagdi. Sigvatr qvad:

Heim erom híngat komnir
hygg þú at iöfr skatna
mein nemi mál sem ec inni
mín, stallarar þínir.
Segdo hvar sess hafir hugdan
seims þiód-konungr beima
allr er þeckr med þöllom
þinn skáli mer innan.

Þá sannadiz þat er fornqvedit mál er, at mörg ero konungs eyro. Olafr konungr hafdi spurt allt um farar Sigvatz, at hann hafdi hitt Knút konung. Olafr konungr mællti til Sigvatz: eigi veit ec, hvert þú ætlar nú at vera minn stallari, eda hefir þú nú gerz madr Knútz konungs. Sigvatr qvad;

Knutr spurdi mik mætra
mildr ef ec hánom vilda
hendi-laugr sem hrínga
hugreifom Oleifi.
Einn qvad ec senn at sönno,
svara þóttumz vel drottinn,
giör ero gumna hveriom
gód dæmi mer sæma.

Þá mællti Olafr konungr, at Sigvatr skylldi gánga til sætis þess, er hann var vanr at hafa fyrr: Kom Sigvatr ser þá enn brátt í kærleika vid konung, ena sömo sem ádr hafdi hann haft.

## CAP. CLXXI.

## FRÁ ERLINGI SKIÁLGSSYNI OC SONOM HANS.

Erlingr Skiálggsson oc synir hans allir höfdo verit um sumarit í her Knútz konungs, oc í sveit med Hákoni Jarli: þar var þá oc Þórir Hundr, oc hafdi metord mikill. Enn er Knútr konungr spurdi, at Olafr konungr hafdi landveg farit til Noregs, þá leysti Knútr kónungr leiddángrinn, oc gaf leyfi öllom mönnom at búa ser til vetrvistar: Var þá í Danmörk her mikill útlendra manna, bædi Enskra manna oc Nordmanna, oc af fleirom löndom, er lid hafdi komit til hersins um sumarit. Erlingr Skiálgsson fór um haustit til Noregs med lidi sino, oc þá af Knúti konungi stórar giafir at skilnadi þeirra. Þórir Hundr var eptir med Knúti konungi. Med Erlingi fóro nordr í Noreg sendimenn Knúts konungs, oc höfdo med ser of lausa-fiár: fóro þeir um vetrinn vída um land; reiddo þá af hendi fe þau, er Knútr konungr hafdi heitit mönnom um haustit til lids ser enn gáfo hinom mörgom, er þeir fengo med fe keypt vinátto Knúti konungi. Enn þeir höfdo traust Er–

lings til yfir-ferdar: Gerdiz þá sva, at fiöldi manna sneriz til vináttо vid Knút konung, oc heto hanom þiónosto sinni, oc því med, at veita Olafi konungi mótstödo: gerdo þat sumir þerliga, enn hinir voro miklo fleiri, sem leyndoz at fyrir alþydo. Olafr konungr spurdi þessi tídindi; kunno margir hanom at segia frá þessom tídindom, oc var þat fært miök í fiölmæli þar í hirdinni. Sigvatr skálld qvad þetta:

Fiandr gánga þar þengils
þiód bydr opt med siódа
höfgan málm fyrir hilmis
hans ófalann lausa.
Sik veit hverr ef harra
hollan selr vid golli
vert er slíks í svörto
sinn helvíti innan.

Oc enn qvad Sigvatr þetta:

Kaup vard daprt þar er diúpan
drottin rækt um sótto
þeir er heim á himnom
Hás elds svikom helldo.

Opt var sù umræda þar i munni höfd, hverso illa þat samdi Hákoni Jarli at færa her á hendor Olafi konungi, er hann hafdi hanom líf gefit, þá er Jarl hafdi á hans valld komit; enn Sigvatr var hinn mesti vinr Jarls, oc þá enn er Sigvatr heyrdi Jarlinom ámælt, qvad hann:

Gerdoz hilmis Hörda
húskarlar þar Jarli
er vid Olafs fiörvi
ofvægir fe þægi.

Hird erat hans at verda
hálikt fyrir því máli,
dælla er oss ef allir
ero ver um svik *skærir*.

## CAP. CLXXII.

## FRÁ JÓLAGIÖFOM OLAFS KONÚNGS.

Olafr konúngr hafdi Jólabod mikit, oc var þá komit til hans margt stórmenni: þat var enn siöunda dag Jóla, at konungr geck, oc fáir menn med hanom. Sigvatr fylgdi konungi dag oc nótt; hann var þá med hanom. Þeir gengo í hús eitt; þar voro hirdir í dyr-gripir konungs; hann hafdi þá hafdan vidrbunad mikin, sem vandi var til, heimt saman dyrgripi sína, til þess at gefa vin-giafir et áttunda qvelld Jóla; þar stódo í húsino sverd eigi allfá gullbúin. Þá qvad Sigvatr:

Sverd standa þar sunda
sárs leyfom ver árar
her-stillis verdr hylli
holloz búin gulli.
Vid tækia ec vika
(var ec endr med þer) sendir
elldz ef þú eitthvert villdir
allvalldr gefa skálldi.

Konungr tók eitthvert sverdit þat er var gulli vafdr medal-kaflinn, oc gullbúin hiöllt, oc gaf hönom; var sá gripr allgódr. Enn giöfin var eigi öfundlaus, oc heyrdi þat sidan. Þegar eptir Jólin byriadi Olafr konungr ferd sína til Upplanda, þvíat hann hafdi fiölmenni mikit: enn tekior nordan or landi höfdo eingiar til hans komit þá um haustit, þvíat leidángr

hafdi úti verit um sumarit; oc hafdi þar konungr allan köstnad tillagt þann er faung var á; þá voro oc eingi skip at fara med lid sitt nordr í land. Hann spurdi oc þat eina nordan, er hanom þótti eigi fridsamlikt, ef hann færi eigi med lidi miklo: Red konungr fyrir þá sök þat af at fara yfir Upplönd: Enn eigi var þá svá lángt lidit, sidan er hann hafdi þar farit á vetzlom, sem lög stódo til, edr vandi konunga hafdi verit. Enn er hann sótti á Uplönd, þá budo hanom heim lendír-menn, oc ríkir bændor; oc letto sva hans kostnadi.

## CAP. CLXXIII.

## FRÁ BIRNI ÁRMANNI.

Biörn er madr nefndr, Gautskr at kyni; hann var vinr oc kunningi Astridar drottningar; oc nockot skylldr at frændsemi, oc hafdi hon fengit hönom ármenning oc syslo á ofanverdri Heidmörk; hafdi hann oc yfirsókn í Eystri-dali. Ecki var Biörn konungi kær, oc ecki var hann madr þockasæll af bændom. Þat hafdi oc atboriz í bygd þeirri; er Biörn red fyrir, at þar urdo hvörf stór á nautom oc svínom; let Biörn þar qvedia þíngs til; oc leitadi þar eptir hvörfom; hann kallar þá menn líkligsta til slíkra luta oc illbrigda, er sáto í markbygdom, fiarri ödrom mönnom: veik hann því máli til þeirra er bygdo Eystri-dali: sú bygd var miök sundr-laus bygt,

vid vötn edr riódor í skógom, enn fá stadar stórbygdir saman.

## CAP. CXXLIV.

## FRÁ SONOM RAUDS.

Raudr het madr er þár bygdi í Eystri-dölom. Ragnhilldr var nefnd kona hans; Dagr oc Sigurdr synir: þeir voro enir efniligozto menn: þeir voro staddir á þíngi því, oc heldo svörom uppi af hendi þeirra Dæla oc baro þá undan sökom. Birni þótto þeir láta stórliga, oc vera drambsmenn miklir at vapnom oc klædom. Biörn sneiddi rædonni á hendor þeim brædrom, oc taldi þá eigi ólíkliga til at hafa slíkt gert. þeir syniodo fyrir sik, oc sleit sva því þíngi. Litlo sídar kom til Biarnar Armans Olafr konungr med lidi síno, oc tók þar veitzlo; var þá kært fyrir konungi þat mál, er fyrr var uppi haft á þíngi; sagdi Biörn at hönom þótti Rauds synir líkligaztir til, at valda slíkom ótila. þá var sendt eptir sonom Rauds: enn er þeir hitto konung, þá taldi hann þá óþiófliga menn, oc bar þá undan kenndzlom þessom. þeir budo konungi til födr sins, at taka þar þriggia nátta veizlo, med öllo lidi síno. Biörn latti ferdarinnar; konungr fór eigi at sidr. At Rauds var en prydiligzta veitzla. þá spurdi konungr hvat manna Raudr væri edr kona hans. Raudr svaradi, at hann var madr Sænskr, audigr oc kynstór: enn ec liópumz

þadan í brot med kona þessa, segir hann, er ec hefi átta sídan; hon er systir Hríngs konungs Dagssonar. Þá vaknadi konungr vid ætt þeirra beggia: Fann hann þat; at þeir fedgar voro menn forvitrir, oc spurdi þá eptir íþróttom sínom. Sigurdr sagdi; at hann kann drauma at skilia, oc at deila dægra far, þótt engi sæi himin-túngl; konungr reyndi þessa íþrótt; oc var þat sem Sigurdr hafdi sagt. Dagr fann þat til íþrótta ser, at hann mundi siá kost oc löst á manni hveriom, er hanom bar fyrir augo, ef hann villdi hug á leggia; oc athyggia. Konungr bad hann segia skaplöst hans; þann er hann sæi. Dagr fann þat til; er konungi þótti rett: Þá spurdi konungr um Biörn Armann, hvern skaplaust hann hefdi. Dagr sagdi, at Biörn var þiófr, oc þat med, at hann segir, hvar Biörn hafdi fólgit á bæ sínom, bædi bein, oc horn oc húdir, af nautom þeim; er hann hafdi stolit þá um haustit: er hann valdi, segir hann, allra þeirra stulda; er í haust hafa horfit; oc hann hefir ödrom mönnom kent: sagdi Dagr konungi öll merki til, hvar konungr skylldi leita. Enn er konungr fór í brot frá Rauds, þá var hann leiddr út med stórom vin-giöfom; voro med konungi synir Rauds: Fór konungr fyrst til Biarnar, oc reyndiz hönom allt sva sem Dagr hafdi sagt. Sídan let konungr Biörn fara brot or landi, oc naut hann drottningar at því, er hann hellt lífi oc limom.

CAP.

## CAP. CLXXV.

## DRÁP ÞÓRIS.

Þórir, son Ölvis á Eggio, stiúpson Kálfs Arnasonar, oc systorson Þóris Hunds, var manna frídastr, mikill madr oc sterkr; hann var þá áttián vetra gamall, oc hafdi fengit gott qvan-fáng á Heidmörk, oc aud fiár med; var hann hinn vinsælazti madr, oc þótti vænn til höfdingia: hann baud konungi heim til veizla enn virduligazta: var veitt allkappsamliga enn öll voro faung hinn bezto. Konungr oc menn hans ræddo þat sín í milli, at þeim þótti þat miök hæfaz vid, oc vissi eigi hvat þeim þótti framazt, húsa-kynni Þóris edr húsbúnadr, bordbúnadr edr dryckr, edr madr sá er veitti. Dagr let ser fátt um finnaz. Olafr konungr var vanr at hafa opt rædor vid Dag, oc spurdi hann ymissa luta: reyndiz konungi allt þat med sannindom, er Dagr sagdi, hvart sem þat var lidit edr ókomit fram; festi þá konungrinn trúnad mikinn á rædom hans. Þá kallar konungr Dag á einmæli, oc rædi þá miök marga luti fyrir hönom; þar kom nidr ræda konungs, at hann tiádi þat fyrir Degi, hve sköruligr madr Þórir var, er þeim gerdi þá veizlo virdoliga. Dagr let ser fátt um finnaz; oc let þat allt satt er konungr sagdi. Þá spurdi konungr Dag, hveria skaps-muni edr annmarka hann sæi Þóris. Dagr qvaz hyggia, at Þórir mundi vel skapi farinn, ef hanom væri þat sva gefit, sem hitt er alþyda mætti siá;

konungr bad hann segia ser þat er hann spurdi: segir at hann var þess skylldr. Dagr svarar: þá munto, konungr, vilia veita mer, at ec rádi hefndinni, ef ec skal finna löstinn. Konungr segir, at hann vill eigi dómom sínom skióta undir adra menn, enn bad Dag segia ser þat er hann spurdi. Dagr svarar: dyrt er drottins ord; þat mun ec til skaplastar Þóri finna, sem marga kann henda; hann er madr of fegiarn; konungr svarar: er hann þiófr edr ránsmadr? Dagr svarar: eigi er þat, ssgdi hann; hvat er þá? sagdi konungr. Dagr svarar: hann vann þat til fiár, at hann gerdiz drottins-sviki. Hann hefir tekit fe af Knúti enom Ríka til höfuds þer; konungr svarar: hvernog gerir þú þat satt? Dagr mællti: hann hefir á hinni hægri hendi fyrir ofan ólboga digran gullhring, er Knútr konungr hefir gefit hánom, oc letr engan mann siá. Eptir þat slito þeir konungr tali síno, oc var konungr reidr miök. Þá er konungr sat yfir bordom, oc menn höfdo druckit um hríd, oc voro allkátir, enn Þórir geck um beina, þá let konungr kalla Þóri til sín; hann geck framan at bordino, oc tók höndom upp á bordit; konungr spurdi: hverso gamall madr erto, Þórir? ec em áttián vetra gamall, segir hann. Konungr mællti: mikill madr erto, Þórir, iafn-gamall, oc gæfoligr. Þá tók konungr um hönd ena hægri, oc strauk upp um ólboga. Þórir mællti: tak þú kyrt þar á, ec hefi full á hendi; konungr hellt kyrt hendinni, oc kendi at þar var hart undir; konungr

mællti: hefir þú eigi spurt þat, at ec em læknir? oc látto mik siá sullinn. Þórir sá, at þá mundi ecki tiá at leyna, oc tók þá hríngin oc let fram. Konungr spurdi, hvart þat var Knúts konungs giöf. Þórir segir, et ecki var þá því at leyna. Konungr let Þóri taka höndom oc setia í iárn. Þá geck Kálfr at, oc bad Þóri fridar, oc baud fyrir hann fe, oc margir menn studdo þat mál, oc budo sitt fe fram; konungr var sva reidr, at eigi mátti ordom vid hann koma; sagdi, at Þórir skylldi hafa slikan dóm, sem hánn hafdi hanom hugdan. Sídan let konungr drepa Þóri. Enn verk þat vard at enni mesto öfund, bædi þar um Upplönd, oc engom mun sidr nordr um Þrándheim, þar sem ætt Þóris var flest. Kálfi þótti oc mikils verd aftaka þessa mans, þvíat Þórir hafdi verit fostr-son hans i æsko.

## CAP. CLXXVI.

## FALL GRIÓTGARDS.

Griótgardr, son Ölvis oc bródir Þóris, hann var ellri þeirra brædra; var hann oc hinn göfugligsti madr, oc hafdi sveit manna um sik; hann var þá oc staddr á Heidmörk. Enn er hann spurdi aftöko Þóris, þá veitti hann árásir þar sem fyrir voro menn konungs edr fe hans. Enn at ödro hverio hafdiz hann vid á skógom, edr i ödrom fylsknom. Enn er konungr spurdi ófrid þann, þá let hann niósnom tilhallda um ferdir Griótgards: Verdr konungr varr

vid ferdir hans: hafdi Griótgardr tekit nótt-stad eigi lángt frá því er konungr var. Olafr konungr fór þegar um nóttina; kom þar er dagadi; slóg mann-hríng um stofona, þar er þeir Griótgardr voro inni. Þeir Griótgardr vöknodo vid manna gny oc vapna-brak; hlópo þeir þá þegar til vapna: hlióp Griótgardr út í forstofuna. Griótgardr spurdi, hverr fyrir því lidi redi; hanom var sagt, at þar var kominn Olafr konungr. Griótgardr spurdi ef konungr mætti nema ord hans. Konungr stód fyrir dyronom. Hann segir, at Griótgardr mætti mæla slíkt er hann vildi: heyri ec ord þín, segir konungr. Griótgardr mællti: ecki mun ec grida bidia. Þá hlióp Griótgardr út, hafdi skiölld yfir höfdo ser, enn sverd brugdit í hendi; lítt var lyst, oc sá hann ógerla. Hann lagdi sverdi til konungs, enn þar vard fyrir Arnbiörn Arnáson; kom lagit undir bryniona, oc rendi upp í qvidinn; feck Arnbiörn þar bana. Griótgardr var oc þegar drepinn, oc flest allt lid hans. Eptir þessa atburdi sneri konungr ferdinni aptr sudr til Víkurinnar.

## CAP. CLXXVII.

## FRÁ SENDIMÖNNOM OLAFS KONUNGS.

Nú er Olafr konungr kom til Túnsbergs, þá gerdi hann frá ser menn í allar syslor, oc krafdi ser lids oc leidángrs. Skipakostr hans var þá lítill; voro

þá engi skip nema bóanda för; enn lid dróz vel til hans þar or herodom; enn fátt kom um lángan veg. Oc fannz þat brátt, at landsfólkit mundi þá vera snúit frá einordinni vid konung. Olafr konungr gerdi lid sitt austr á Gautland, eptir skipom sínom, oc þeim varnadi, er þeir leto eptir um haustit. Enn ferd þeirra manna vard sein; þviat þá vard eigi betra enn um haustit, at fara í gegnom Danmörk; þvíat Knútr konungr hafdi her úti um várit, um allt Danavelldi, oc hafdi eigi færra enn tólf hundrot skipa.

## CAP. CLXXVIII.

## RÁDAGERD OLAFS KONUNGS.

Þau tídindi spurdoz till Noregs, at Knútr hinn Ríki dró saman her óvígan um alla Danmörk, oc þat med, at hann ætladi at hallda lidi því öllo til Noregs, oc leggia þar land undir sik. Enn er slíkt spurdiz, þá urdo mennirnir Olafi konungi þvi verri tiltaks, oc feck hann sídan lítit af bændom. Hans menn tölodo optliga um þetta sín í milli. Þá qvad Sigvatr:

Ut bydr allvaldr sveitom
Englands: enn ver fengom
(lítt se ec lofdúng óttaz)
lid færra oc skip smærri.
Rád ero liót ef láta
landsmenn konung þenna
(lætr einord fe firda)
ferd lid þrota verda.

Konungr átti hirdstefnor, enn stundom húsþíng vid lid sitt allt, oc spurdi menn rádz, hvat þá syndiz tiltækiligazt: þurfom ver ecki í at dyliaz, segir hann, at Knútr konungr mun koma at vitia vár í sumar, oc hefir hann her mikinn, sem þer manot spurt hafa, enn ver höfom lid lítit at sva búno til mótz vid her hans: enn landzfólk er oss nú ecki trúlikt. Enn rædo konungs svörodo menn misiafnt, þeir er hann orti ord á. Enn er frá því sagt er Sigvatr sagdi.

Flyia getr, enn fryio
fiandor leggr oss til handa,
verd ec fyrir ædro ordi
allvallds enn fe giallda.
Hvarr skal þegn þó at þverri
þengils vina gengi
up hvalfa svik sialfan
sik lengzt hafa miklo.

## CAP. CLXXIX.

## BRENNA GRANKETILS.

Þat sama vár gerdoz þau tídindi á Hálogalandi, at Hárekr or Þiótti minntiz þess, er Asmundr Granketilsson hafdi rænta oc barda húskarla hans. Skip þat er Hárekr átti, tvítugsessa, flaut fyrir bæ hans tiölldot oc þiliot: Gerdi hann þat ord á, at hann ætladi at fara sudr til Þrándheims. Eitthvert qvelld geck Hárekr til skips med húskarla lid sitt, oc hafdi nær LXXX manna; rero þeir um nóttina oc

komo er mornadi til bæiar Grankels, slogo þar hríng um hús, veitto þar sídan atgöngo, lögdo sídan eld í hús; brann þar Grankell inni, oc heima menn hans med hönom, enn sumir voro úti drepnir: Letoz þar allz XXX manna: Fór Hárekr heim eptir verk þetta, oc sat í búi síno. Asmundr var med Olafi konungi, þá er hann spurdi þetta; var þat bædi um þá menn er á Hálogalandi voro, at engi beiddi Hárek bóta fyrir verk þat, enda baud hann eigi.

## CAP. CLXXX.

## FERD KNÚTS KONUNGS Í NOREG.

Knútr enn Ríki dróg saman her sinn, oc hellt til Lima fiardar; enn er hann var búinn, þá sigldi hann þadan öllo lidi til Noregs, fór skyndiliga, oc lá eigi vid land austanfiardar; sigldi þá yfir Folldina, oc lagdi at Ögdom, oc krefdi þar þínga; komo bændor ofan, oc helldo þíng vid Knút konung: Var þar Knútr til konungs tekinn um land allt: Setti hann þar þá menn í syslor, enn tók gislar af bændom; mællti engi madr ímóti hanom. Olafr konungr var þá í Túnsbergi, er her Knútz fór et ytra um Folldina. Knútr konungr fór nordr med landi: komo þar til hans menn or herodom, oc iátodo hanom allir lydni. Knútr konungr lá i Einkundasundi nockora hríd; kom þar til hans Erlingr Skiálgsson med lid mikit. Þá bundo þeir Knútr konungr vinátto

sina enn at nyo: Var þat í heitom vid Erling af hendi Knútz konungs, at hann skylldi hafa land allt til forráda milli Stadar oc Rygiar-bítz. Sídan fór Knútr konungr leidar sinnar: oc er þat skiótazt frá ferd hans at segia, at hann letti eigi fyrr, enn hann kom nordr í Þrándheim, oc hellt til Nidaróss: stefndi hann þar í Þrándheimi átta Fylknaþíng: Var á því þíngi Knútr til konungs tekinn um allan Noreg. Þórir Hundr hafdi farit or Danmörk med Knúti konungi, oc var hann þar, oc Hárekr or Þióttó var oc þá þar kominn: Gerdoz þeir Þórir lendir-menn Knútz konungs, oc bundo þat svardögom. Knútr konungr gaf þeim veizlor storar oc feck þeim Finnferd; gaf þeim giafir stórar á þat ofan. Alla menn, þá er til hans vildo snúaz, gæddi hann bædi at veitzlom oc lausafe; let þá alla hafa meira ríki, enn þeir höfdo ádr haft.

## CAP. CLXXXI.

## FRÁ KNÚTI KONUNGI.

Knútr konungr hafdi þá lagt land allt undir sik í Noregi; þá átti hann þing fiölmennt, bædi af síno lidi oc landzmönnom. Þá lysti Knútr konungr yfir því, at hann vill gefa Hákoni Jarli, frænda sínom, at yfirsókn land þat allt í Noregi, er hann hafdi unnit í ferd þeirri. Pat fylgdi því, at hann leiddi oc í hásæti hiá ser Hörda-Knút, son sinn, oc gaf hönom konungs nafn, oc þar med allt Danavelldi.

Knútr konungr tók gislar af öllom lendom-mönnom oc stór-bændom í Noregi: tók sono þeirra edr brædor, edr adra náfrændor, edr þá menn er þeim voro kærstir, oc hanom þótto bezt tilfallnir: festi sva trúnat manna vid sik, sem nú er sagt. Þegar er Hákon Jarl hafdi tekit vid ríki í Noregi, þá redz til lags vid hann Einar Þambarskelfir, mágr hans: tók hann þá upp veitzlor allar þær, sem hann hafdi fyrr haft, þá er Jarlar redo landi. Knútr konungr gaf Einari stórar giafir, oc batt hann í kærleikom miklom vid sik; het því, at Einar skylldi vera mestr oc göfgastr ótíginna manna í Noregi, medan valld hans stædi yfir landi. Enn þat let hann fylgia, at hönom þótti Einar best fallinn til at bera tignarnafn í Noregi, ef eigi væri Jarls vid kostr i Noregi, edr sonr hans Endridi, fyrir ættarsakir hans. Þau heit virdoz Einari mikil, oc het þar ímót trúnadi sínom: Hófz þá at nyo höfding-skapr Einars.

## CAP. LXXXII.

## FRÁ ÞÓRARNI LOFTÚNGO.

Þórarinn Loftúnga var madr kalladr; hann var Islendskr madr at kyni, skálld mikit, oc hafdi verit miök med konungom edr ödrom höfdingiom. Hann var med Knúti konungi enom Ríka, oc hafdi ort um hann flock. Enn er konungr vissi at Þórarinn hafdi ort flock um hann, þá vard hann miök reidr, oc bad hann færa ser drápuna um daginn eptir, þá

er konungr sæti yfir bordom. Enn ef hann gerdi eigi sva, þá segir konungr at Þórarinn mundi uppi hánga fyrir dirfd þá, er hann hafdi ort dræpling um Knút konung. Þórarinn orti þá stef, oc setti í qvædit, oc iók nockorom erendom edr vísom; oc er þetta stefit:

Knútr verr grund, sem gætir
Gríkialandz himinríki.

Knútr konungr launadi qvædit L marka silfurs. Sú drápa er köllot Höfotlausn. Þórarinn orti adra drápo um Knút konung, er köllot er Tog-drápa. I þeirri drápo er sagt frá þessom ferdom Knútz konungs, er hann fór or Danmörk sunnan til Noregs; oc er þetta einn stefia-bálkr:

Knútr er und sólar
sid nemr med lid
fór miök mikit
minn vinr þinnig.
Færdi or firdi
fimr gramr Lima
út ólítinn
Otrheims flota
Ugdo Egdir
aurbeidis för
svans sigr lana
sök rammn miök.
Allt var gulli
grams skip framit
var of sión sögo
slíks ríkari.
Oc fyrir Lista,
lido fram vidir
hádyrs um haf
hart kol-svartir.

Bygt var innan
allt brim gallta
sudr sæ skídom
sund Eíkunda.
Oc fyrir fornan
frid menn lido
haug hiörnagla
hvast gridfastir;
Þar er stód fyrir Stad
stafnklyfs dríso
varat eydilig
ör–beidis för.
Knátto súdir
svangs miök langar,
byr raumm bera
brim drif fyrir stím.
Sva lido sunnan
svalheims valar,
at kom nordr í Nid
nytr her–flytir.
Þá gaf sínom
sniallr görvallan
Noreg næfa
niótr veg jótra;
Oc gaf sínom
(segik Þat) megi
dals döcksalar
Daumörk svana.

Her getr þess, at þeim var sión sögo ríkri, um ferd Knútz konungs. Er þetta qvedit því, at Þórarinn hrósar því, at hann var þá í för med Knúti konungi, er hann kom í Noreg.

## CAP. CLXXXIII.

## FRÁ SENDIMÖNNOM OLAFS KONUNGS.

Menn þeir er Olafr konungr hafdi sendt austr á

Gautland eptir skipom sínom, þá fóro þeir med þau skip, er þeim þótti bezt: enn hin brendo þeir; höfdo med ser reida, oc annan varnad, þann er konungr átti oc menn hans; þeir sigldo austan, þá er þeir spurdo, at Knútr konungr var farinn nordr í Noreg, sigldo þá austan um Eyrarsund, oc sva nordr til Víkrinnar á fund Olafs konungs, færdo hanom skip sín: Var hann þá í Túnsbergi. Enn er Olafr konungr spurdi at Knútr konungr fór lidi síno nordr fyrir land, þá hellt Olafr konungr lidi sino inn í Oslóar fiörd, oc upp í vatn þat er Drafn heitir, oc hafdiz hann þar vid, til þess er her Knútz konungs var farinn um sudr. Enn í ferd þeirri er Knútr konungr fór nordr med landi, átti hann þing í hverio fylki; enn á hvario þíngi var hanom land svarit, oc gefnir gislar: Fór hann austr yfir Folldina til Borgar, oc átti þar þíng; var hanom þar land svarit, sem annarstadar. Sídan fór Knútr konungr til Danmerkr sudr; oc hafdi hann Noreg eignaz orostolaust; red hann þá fyrir þrem þiód-löndom. Sva segir Hallvardr Háreksblesi, er hann orti um Knút konung:

Englandi rædr yngvi
einn hófsk fridr ot beinni
böd-rackr bænar nöckva
börk riódr oc Danmörko.
Oc hefir odda leiknar
jálmfreyr und sik (málma
hialldr örr hankom þverrir
húngr) Noregi þrúngit.

## CAP. CLXXXIV.

## FRÁ OLAFI KONUNGI OC FERD HANS.

Olafr konungr hellt skipom sínom út til Túnsbergs, þegar er hann spurdi at Knútr konungr var farinn sudr til Danmarkar. Sídan bió hann ferd sína med lid þat er hönom vildi fylgia; oc hafdi hann þá þrettan skip: Sídan hellt hann út eptir Víkinni; oc feck hann lítit af fe, oc sva af mönnom, nema þeir fylgdo hanom er eyar bygdo edr út-nes: geck konungr þá ecki á land upp, hafdi slíkt af fe edr mönnom sem á leid hans vard. Hann fann þat, at landit var þá svikit undan hanom: Fór hann þá sva sem byriadi: var þat öndverdan vetr. Þeim byriadi helldr seint; lágo þeir í Sóleyom miök lengi, oc spurdo þar tídindi af kaupmönnom nordan or landi: Var konungi þá sagt, at Erlingr Skiálgsson hafdi lid-samnat mikinn á Jadri; skeid hans lá fyrir landi albúin, oc fiöldi annara skipa er bændor átto; voro þat skútor oc lagnar-skip, oc ródrar-ferior stórar; konungrinn hellt þá austan lidino, oc lá um hríd í Eikunda-sundi: Spurdo þá hvarir til annara: Fiölmenntiz Erlingr þá sem mest.

## CAP. CLXXXV.

## FRÁ SIGLING OLAFS KONUNGS.

Tumas-messo fyrir Iól, þegar á dagan, tók konungr út or höfninni: var þá allgódr byr, oc helldr

hvass; sigldo þeir þá nordr fyrir Jadar: Var vedr vátt, oc mörqva flaug nockor. Þegar fór niósn et efra um Jadar, er konungr sigldi et ytra. Enn er Erlingr vard þess varr, at konungr sigldi austan, þá let hann blása lidi síno öllo til skipanna; dreif þá fólk allt á skipin, oc bióz til bardaga. Enn skip konungs bar skiótt at nordr um Jadar; þá stefndi hann innleid, oc ætladi sva ferd sína, at fara í Fiördo inn, oc fá ser þar lid oc fe. Vid þetta vard varr Erlingr Skiálgsson, oc sigldi eptir hönom, oc hafdi her mans oc fiöllda skipa: Voro skip þeirra örskreid, er þeir höfdo ecki á nema menn oc vapn; geck þá skeidin Erlings miklo meir enn önnor skipin; þá let hann hefla seglit, oc beid annara skipanna. Þá sá Olafr konungr at þeir Erlingr sótto eptir miök, þvíat skip konungs voro sett miök, oc sollin af sió, er þau höfdo flotit á sæ allt sumarit, oc um haustit, oc vetrinn allt þar til. Hann sá at lidsmunr mundi mikill vera, ef mætti öllo í senn lidi Erlings. Þá let hann kalla skip frá skipi, at menn skylldo síga láta seglin, oc helldr seint, enn svipta af hand-rifi; oc var sva gert. Þeir Erlingr funno þat; þá kallar Erlingr, oc het á lid sitt, bad þá sigla meira: siáit þer, segir hann, at nú lægir seglin þeirra, oc draga þeir undan oss: Let hann þá leypa or heflonom segli á skeidinni: geck hon fram brátt undan ödrom skiponom. Erlingr var miök ákafr í eptir-sókninni.

## CAP. CLXXXVI.

## FALL ERLINGS SKIÁLGSSONAR.

Olafr konungr stefndi fyrir innan Bokn, oc fal þá syn milli þeirra. Sidan bad konungr leggia seglin, oc róa fram í sund þraungt er þar var; lögdo þeir þar þá saman skiponom: Geck kleppor-nes fyrir utan þá. Menn voro þá allir herklæddir. Erlingr sigldi þá at sundino; oc fundo þeir eigi fyrr at her lá fyrir þeim, enn þeir sá at konungs menn rero öllom skiponom senn at þeim. Þeir Erlingr kippto ofan seglino, oc gripo til vapna; enn konungs herinn lagdi öllom meginn at skipono: Tókz þar orosta, oc var hin snarpasta; þá sneri mannfallino brátt í lid Erlings. Erlingr stód í lyptingo á skipi síno; hann hafdi hiálm á höfdi, oc skiölld fyrir ser, oc sverd í hendi. Sigvatr skálld hafdi verit eptir í Víkinni, oc spurdi hann þar þessi tidindi. Enn Sigvatr var enn mesti vinr Erlings, oc hafdi þegit giafir af hönom, oc verit med hönom. Sigvatr orti flock um fall Erlings, oc er þessi vísa þar í:

Ut red Erlingr setia
eik sá er raud hinn bleika
íflaust er þat iöfri
arnarfót at móti.
Skeid hans lá sva sídan
siklings í her miklom
snarir bördoz þar sverdom
síbyrd vid skip fyrdar.

þá tók at falla lid Erlings, oc þegar er á ortiz, oc uppgánga var greidd á skeidina, þá fell hverr í sino rúmi; konungr siálfr geck hart fram. Sva segir Sigvatr:

Rackr þengill hió recka
reidr geck hann um skeidar
valr lá þránugt á þiliom
þúng var sókn fyrir Túngom.
Bragningr raud fyrir breidan
bordvöll Jadar nordan
blód fell varmt í vídan
vá frægr konungr ægi.

Sva fell vandliga lid Erlings, et eingi madr stód upp á skeidinni nema hann einn: Var þá bædi, at menn beiddo litt grida, feck oc engi þótt beiddi, mátti oc ecki á flótta snúaz, þviat skip lágo umhverfis skeidina: er sva sagt sannliga, at eingi madr leitadi at flyia. Enn segir Sigvatr:

Öll var Erlings fallin
(úngr fyrir nordan Túngor
skeid vann skiölldungr auda)
skip sókn vid þröm Bóknar.
Einn stód sonr á síno
snarr Skiálgs vinom fiarri
í lyptingo lengi
læ traudr skipi audo.

þá var Erlingi veitt atsókn bædi or fyrirrúmino oc ödrom skipom; rúm mikit var í lyptingonni, oc bar þat hátt miök upp frá ödrom skipom, oc mátti engo vidkoma nema skotom, oc nockot spiótalögom, oc hió hann þat allt af ser. Erlingr vardiz sva prúdliga,

liga, at engi madr vissi dæmi, at einn madr hefdi stadit sva lengi fyrir iamn-margra manna atsókn, enn alldri leitadi hann undan qvamo, edr grida at bidia. Sva segir Sigvatr:

Red eigi grid gygiar
gedstirdr konungs firda
skærs þó at skúrir þyrrit
Skiálgs hefnir ser nefna.
Enn vardkeri verdar
vid Bokn ne kemr sidan
glyggs á gialfri leygdan
geirs ofrhugi meiri.

Olafr konungr sótti þá aptr í fyrir-rúmit, oc sá hvat Erlingr hafdiz at; konungr orti þá á Erling, oc mælti sva: öndverdr horfir þú vid í dag, Erlingr. Hann svarar: öndverdir skulo ernir klóaz. Þessa orda getr Sigvatr:

Öndverda bad iardar
Erlingr sá er vel lengi
geymdi lystr ne lamdiz
landvörn klóaz örno.
Þá er hann at sig sönnom
sá var ádr búinn ráda
atz vid Utstein hitzig
Olaf of tók málom.

Þá mælti konungr: villto á hönd gánga, Erlingr? Þat vil ec, sagdi hann; þá tók hann hiálminn af höfdi ser, oc lagdi nidr sverdit oc skiölldinn, oc geck fram í fyrir-rúmit; konungr stack vid hánom öxarhyrnonni, í kinn hánom, oc mællti: merkia skal drottinn-svikann. Þá hiop at Aslákr Fitiaskalli oc

hió med öxi í höfot Erlingi, sva at stód í heila nidri; var þat þegar banasár; let Erlingr þar líf sitt. Þá mælti Olafr konungr vid Aslák: högg þú allra manna armastr; nú hiótto Noreg or hendi mer. Aslákr mælti: illa er þat, konungr, ef þer er mein at höggi; ec þóttumz nú Noreg í hönd þer höggva: enn ef ec hefi þer mein gert, konungr, oc kanto mer óþöck fyrir þetta verk, þá mun mer kostlaust vera; þviat hafa mun ec sva margra manna óþöck oc fiandskap fyrir þetta verk, at ec munda helldr þurfa, at hafa ydvart traust oc vináttu. Konungr svarar, at sva skylldi vera. Sídan bad konungr hvern mann gánga á sitt skip, oc búaz þar fyrir sem hvatligaz. Enn er þeir voro búnir, þá rendo skipin í sundit sunnan. Búanda lidit var þá, sem opt ero raunir, þótt lid mikit komi saman, er menn fá slög stór, oc láta höfdingia sína, at menn verda eigi gódir tilrædis, oc se þá höfdingialausir. Synir Erlings voro engir þar; vard ecki af atlögo bóanda; oc sigldi konungr nordr ferd sína: enn bændor tóko lik Erlings, oc biuggo um oc flutto heim á Sóla, oc sva val þann allan er þar hafdi fallit: Var Erlingr et mesta harmadr; oc hefir þat verit mál manna, at Erlingr Skiálgsson hafi verit madr göfugastr oc ríkastr í Noregi, þeirra er eigi bæri tignarnafn meira. Sigvatr skálld orti enn þetta:

Erlingr fell enn olli
allríkr tapad slíkom
bídrat betri dauda
bragna konr med gagni,

Mann veit ec eingi annan
allbrátt þó at liör láti
enn sá er allan kunni
alldr fullara at hallda.

Þess getr Sigvatr oc, at Aslákr hefdi frænd-víg upphafit, oc miök ósynio:

Aslákr hefir aukit
er vördr drepinn Hörda
fáir skylldo sva folldar
frænd-sekio styr vekia:
ættvígi má hann eigi
á líti þeir níta
frændor skyli böls of bindaz
bornir, mál hin forno.

## CAP. CLXXXVII.

## HERLAUP EGDA.

Synir Erlings voro sumir nordr í Þrándheimi, med Hákoni Jarli; enn sumir nordr á Hördalandi; sumir inn í Fiördom; oc voro þeir þar í lidsamnadi. Enn er spurdiz fall Erlings, þá fylgdi þeirri sögo útbod austan um Agdir, oc um Rogaland oc Hördaland: Var þar her bodit út, oc var þat et mesta fiölmenni: oc fór her sá med sonom Erlings nordr eptir Olafi konungi. Þá er Ólafr konungr fór frá bardaga þeirra Erlings, sigldi hann nordr um sund; oc var þá dagr miök lidinn. Sva segia menn, at hann orti þá víso þessa:

Lítt mun halr hinn hvíti
(hrafn etr af ná getnom)

ver unnom gny gunnar
gladr í nótt á Jadri.
Sva hefir öllungis illa
ættgódr of rof sætta
Erlingr beid til árla
andrán, gefiz hánom.

Fór konungr sídan nordr, med landi med lid sitt. Hann spurdi allt et sanna um bóanda samnad; þar voro þá med Olafi konungi margir lendir-menn: þar voro þeir allir Arnasynir. Þess getr Biarni Gullbrár-skálld, i qvædi því er hann orti um Kálf Arnason:

Vasto þar er vígs bad kosta
vapndiarfr Haralllds arfi
(kynniz kapp þitt mönnom)
Kálfr vid Boku austr siálfa.
Gátot grídar sóta
gólig faung til ióla
kendr varto fyrstr á fundi
fletto griótz oc spióta.
Ölld feck íllt or deilldom
Erlingr var þar fínginn
ódo blöck i blódi
bord fyrir Utstein nordan.
Liós er raun at ræsir
rádinn var frá láði
lagdiz land und Egda
lid þeirra frá oc meira.

Fór Olafr konungr til þess, er han kom nordr um Stad, oc lagdi til Hereya, oc spurdi þar þau tídindi, at Hákon Jarl hafdi lid mikit í Þrándheimi. Sídan leitadi konungr ráds vid lid sitt. Kálfr Arnason eggiadi miök, at sækia til Þrándheims, oc ber-

iaz vid Hákon Jarl, þótt lidsmunr væri mikill. Því rádi fylgdo margir adrir, enn sumir lötto; var þá skotit til orskurdar konungs.

## CAP. CLXXXVIII.
## DRÁP ÁSLÁKS FITIASKALLA.

Sídan hellt Olafr konungr inn til Steinavágs, oc lá þar um nótt. Enn Aslákr Fitiaskalli hellt skipi sino inn til Borgundar; dvaldiz hann þar um nóttina; þar var fyrir Vigleikr Arnason. Enn um morgoninn er Aslákr vildi gánga til skips síns, þá veitti Vigleikr hönom atgöngo, oc vildi hefna Erlings; þar fell Aslákr. Þá komo menn til konungs, hirdmenn hans, nordan or Frekeyarsundi, þeir er heima höfdo setit um sumarit, oc sögdo konungi þau tídindi, at Hákon Jarl, oc margir lendir-menn med hánom, voro komnir um qvelldit í Frekeyarsund med miklo fiölmenni, oc vilia þik taka af lífi, konungr, oc þitt lid, ef þeir eigo valld á. Enn konungr gerdi menn sína uppá fiall, þat er þar er; enn þá er þeir koma uppá fiallit, þá sá þeir nordr til Biarneyar, at nordan fór lid mikit oc mörg skip; oc fóro ofan aptr, oc segia konungi, at herinn fór nordan. Enn konungr lá þar fyrir XII skipom. Sídan let hann blása; oc fóro tiölld af skipom hans, oc tóko þeir til ára. Enn þá er þeir voro albúnir, oc þeir lögdo or höfninni, þá fór her bóanda nordan fyrir Þió-

tanda oc höfdo XXV skipa. Þá stefndi konungr fyrir innan Nyrfi, oc inn um Hunds-ver. Enn þá er Olafr konungr kom iafnfram Borgund, þá fór oc skip móti hánom er Aslákr hafdi átt. Enn er þeir hitto Olaf konung, þá sögdo þeir sin tidindi, at Vigleikr Arnason* hafdi tekit af lifi Aslák Fitiaskalla, fyrir þat er hann hafdi drepit Erling Skiálgsson; konungr let illa yfir þessom tidindom, oc mátti þó eigi dvelia ferd sinni fyrir ófridi, oc fór þá inn um Vegsund oc um Skot. Þá skildiz sumt lid vid hann; fór frá hánom Kálfr Arnason, oc margir adrir lendir-menn oc skip-stiórnarmenn, oc helldo þeir til mótz vid Jarl. Enn Olafr konungr hellt fram sinni ferd, oc letti eigi fyrr, enn hann kom i Todrarfiördinn, oc lagdi at i Valldali, oc geck þar af skipom sinom, oc hafdi þar V skip, oc setti þau upp, oc feck þar til hirdzlo segl oc reida. Sidan setti hann þar landtialld sitt á eyrinni, sem Sullt hét, oc ero þar fagrir vellir, oc reisti kross þar hiá á eyrinni. Enn bóndi sá bió á Mærinni er Brúsi het, oc var hann höfdingi yfir dalnom. Sidan kom Brúsi ofan oc margir adrir bændor, á fund Olafs konungs, oc fögnudo hanom vel, sem verdugt var. Enn hann gerdi sik blidan ímóti fagnadi þeirra. Þá spurdi konungr ef fært veri þar á land upp or dalinom oc á Lesiar. Brúsi segir hanom, at urd sú var i dalnom, er Sefsurd heitir, oc er þar hvarki fært mönnom, ne hrossom. Olafr konungr svarar hánom: til mun nú hætta verda, bóandi; tekz sem Gud vill,

oc komit her nú í morgin med eyki ydra, oc siálfa ydor, oc siám sídan hverr vöxtr á se, þá er ver komom til urdarinnar, hvart ver megom þar nockor brögd siá yfir at komaz med hrossom edr mönnom.

## CAP. CLXXXIX.
## FRÁ URDARBRIÓTI.

Enn er dagr kom, þá fóro bændor ofan med eyki sína, sva sem konungr hafdi mælt vid þá: Flytia þeir þá med eykionom varnad sinn oc klædi, enn allt lid geck oc konungr siálfr. Enn hann geck þar til er Aróss-brecka heitir, oc hvíldiz er hann kom á breckona, oc sat þar um hríd, oc sá ofan í fiördinn oc mællti: erfida ferd hafa þeir fengit mer í hendor lendir-menn mínir, er nú hafa skipt um trúnadinn, er um hríd vóro vinir mínir oc fulltrúar. Þar standa nú krossar tveir eptir á breckunni er konungr sat. Konungr steig þá á bak hesti einom, oc reid upp eptir dalnom, oc letti eigi fyrr enn þeir komo til urdarinnar. Þá spurdi konungr Brúsa, ef nockot sel væri þar í nánd, þau er þeir mætti í búa. Hann qvad vera. Enn konungr setti landtialld sitt, oc var þar um nóttina. Enn um morgininn bad konungr þá fara til urdarinnar, oc freista ef þeir mætti kema vögnom yfir urdina. Þá fóro þeir til, enn konungr sat heima í landtialldi; enn at qvelldi komo þeir heim hirdmenn konungs oc

bændor, oc qvadoz hafa haft mikit erfidi, oc ecki á leid komit, oc sögdo at þar mundi alldri vegr yfirkomaz edr leggiaz, oc voro þar adra nótt; oc var konungr á bænom sínom alla nóttina; oc þegar er hann fann at dagadi, þá bad hann menn fara til urdarinnar, oc freista enn, ef þeir gæti vögnom yfirkomit; þeir fóro oc voro traudir; þeir sögdo, at þeir mundo eigi geta at unnit. Enn er þeir voro brotfarnir, þá kom sá madr til konungs, er red fyrir vistom, oc sagdi at eigi var vist meiri, enn tvö naut-föll sláturs, enn þú, konungr, hefir CCC þins lids, oc C bóanda. Þá mællti konungr, at hann skylldi láta upp katla alla, oc í hvern ketil láta nockot af slátri; oc sva var gert. Enn konungr geck til, oc gerdi yfir krossmark, oc bad þá búa mat. Enn konungr fór til Sefsurdar, þar sem þeir skylldo veginn rydia. Enn þá er konungr kom þar, þá sáto þeir allir, oc voro módir ordnir af erfidi. Þá mællti Brúsi: ec sagda ydor, konungr, oe vildot þer eigi trúa mer, at ecki mátti vinna at urd þessari. Sídan lagdi konungr nidr skickio sína, oc mællti, at þeir skylldo gánga til urdarinnar: Var sva gert, oc færdo þá steina XX menn, þannog sem þeir vildo, er eingan veg gáto ädr hrært C manna, oc var vegrinn ruddr at midiom degi, sva at fært var bædi mönnom oc hrossom med klífiom, eigi verr enn á slettom velli. Sídan fór konungr ofan aptr þángat sem vistin var, oc nú heitir Olafs-hellir; kellda er oc þar nær hellinom, oc þó konungr ser

í. Enn ef bú fe manna verdr siúkt í dalnom, oc dreckr þar af vatni því, þá batnar því sótta. Sídan fór konungr til matar oc allir þeir; oc þá er konungr var mættr, þá spurdi hann eptir, ef sætor nockor væro þar í dalnom upp frá urdinni, oc nær fiallino, er þeir mætti búa í um nóttina. Enn Brúsi segir: ero sætor, er heita Græningar, oc má þar engi madr vera um nætor fyrir trölla gángs sakir, oc mein vetta, er þar ero hiá sætrino. Sídan mællti konungr, at þeir skylldo búa ferd sína, oc segir at hann vildi þar vera um nóttina á sætrino. Þá kom sá madr til hans, er fyrir vistom red, oc segir at þar er örgrynni vista, oc veit ec eigi hvadan komnar ero; þackar konungr Gudi sending sína, oc let hann gera byrdir matar bændom þeim er ofan fóro eptir dalnom, enn var á sætri um nóttina. Enn at midri nótt er menn voro í svefni, þá let á stödli úti afskræmiliga, oc mællti sva: brenna mik nú bænir Olafs konungs, segir sú vettr, at eigi má ec nú vera at híbylom mínom; oc verd ec nú flyia, oc koma alldrei á þenna stödol sídan. Enn um morgininn er menn vöknodo, þá fór konungr til fiallz, oc mællti vid Brúsa: her skal nú bæ gera, oc mun sá bóndi æ hafa ser framdrátt er her byr; oc alldri skal her korn friósa, þó at bædi friósi fyrir ofan bæ oc nedan. Þá fór Olafr konungr yfir fiall, oc kom fram í Einbúa, oc var þar um nótt. Olafr konungr hafdi þá verit konungr í Noregi XV vetor, med þeim vetri, er þeir Sveinn Jarl voro bá-

dir í landi, oc þessom, er nú um hríd hefir verit frásagt, oc þá var lidin um Jól fram, er hann let skip sín; oc geck á land upp, sem nú var sagt. Þessa grein konungdóms hanns ritadi fyrst Ari prestr Þórgilsson hinn Fródi, er bædi var sann-sögull, minnigr, oc sva gamall madr, at hann mundi þá menn, oc hafdi sögor af haft, er þeir voro sva gamlir, at fyrir alldrs sakir mátto muna þessi tídindi, sva sem hann hefir siálfr sagt í sínom bókom, oc nefnda þá menn til, er hann hafdi frædi afnumit. Enn hitt er alþydo sögn, at Olafr væri XV vetor konungr yfir Noregi, ádr hann fell; enn þeir er sva segia, þá telia þeir Sveini Jarli til ríkis þann vetr, er hann var sídarst í landi: þvíat Olafr var sídan XV vetor konungr, sva at hann lifdi.

## CAP. CXC.
## SPÁSÖGN OLAFS KONUNGS.

Sidan er Olafr konungr hafdi verit um nótt á Lesiom, þá fór hann med lidi síno dag eptir dag, fyrst til Gudbrandsdala, enn þadan út á Heidmörk: Syndiz þá hverir vinir hans voro, þvíat þeir fylgdo þá hanom; enn hinir skildoz þá vid hann, er med minna trúleik höfdo þiónat hánom; enn sumir sneroz til úvinátto, oc fullz fiandskapar, sva sem bert vard; kendi þess miök at um marga Upplendinga, at illa hafdi likat aftaka Þóris, sva sem fyrr var getit.

Olafr konungr gaf heimleyfi mörgom mönnom sínom, þeim er bú átto oc börn fyrir at hyggia, þvíat þeim mönnom þótti ósynt hverr fridr gefinn væri varnadi þeirra manna, er af landi brot færi: Gerdi konungr þá bert fyrir vinom sínom, at sú var ætlan hans, at fara þá or landi brot fyrst austr í Svíaveldi, oc gera þá rád sitt hvert hann ætlar, edr sneri þadan af. Enn bad sva vini sína til ætla, at hann mundi enn ætla til landzins at leita, oc aptr til ríkis síns, ef Gud ledi hanom lánglífis: sagdi at þat var hugbod hans, at allt fólk í Noregi mundi enn verda þiónusto bundit vid hann. Enn ec munda ætla, segir hann, at Hákon Jarl muni litla stund hafa valld yfir Noregi, oc mun mörgom mönnom þat eigi þyckia undarligt, þvíat Hákon Jarl hefir fyrr skort vid mik hamingio. Enn hino muno fáir menn trúa, þótt ec segia, þat er mer bodar fyrir, er kemr til Knútz hins Ríka, at hann man á fárra vetra fresti vera daudr, oc farit allt ríki hans, oc mun eingi verda uppreist hans kyn-slódar, ef sva fer sem mín ord horfa til. Enn er konungr hætti rædo sinni, þá bioggo menn ferd sína: Sneri konungr þá med þat lid er hanom fylgdi austr til Eidaskógs; þar var þá med hanom Astrídr drottning, oc Ulfhilldr dóttir þeirra, Magnús son Olafs konungs, Rögnvalldr Brúsason, þeir Arna synir Þórbergr, Finnr, Arni, oc enn fleiri lendir-menn; hafdi konungr gott mann-val. Biörn Stallari feck heimleyfi; fór hann aptr, oc heim til bús síns, oc margir adrir vinir konungs fóro aptr til

búa sinna í leyfi konúngs: Bad konungr þess, at þeir skylldo hann vita láta, ef þau tídindi gerdiz í landino, er hanom bæri naudsyn til at vita: Snyr konungr þá leid sína.

## CAP. CXCI.

## FERD OLAFS KONUNGS Í HÓLMGARD.

Þat er at segia frá ferd Olafs konungs, at hann fór fyrst or Noregi austr um Eidaskóg, til Vermalands, oc þá út í Vatsbú, oc þadan yfir skóg þann, sem leid liggr, oc kom fram á Næríki; þar var fyrir ríkr madr oc audigr, er het Sigtryggr. Ivar het son hans, er sídan vard göfgr madr; þar dvaldiz Olafr konungr um várit med Sigtryggvi. Enn er sumradi, þá bió konungr ferd sína; oc feck ser skip; fór hann um sumarit, oc letti eigi fyrr, enn hann kom austr í Gardaríki, á fund Jarizleifs konungs, oc þeirra Ingigerdar drottningar; enn Astrídr drottning oc Ulfhilldr konungs dóttir voro eptir í Svíþiód; enn konungr hafdi austr med ser Magnús son sinn. Jarizleifr konungr fagnadi vel Olafi konungi, oc baud hanom med ser at vera, oc hafa þar land til sliks kostnadar, sem hann þurfti at hallda lidsitt med. Þat þeckiz Olafr konungr, oc dvaldiz þar. Sva er sagt, at Olafr konungr var sidlátr oc bæn-rækinn til Guds alla stund ævi sinnar. Enn sídan er hann fann at ríki hans þvarr, enn mótstödomenn efldoz, þá lag-

di hann allan hug á þat, at gera Guds þiónosto; dvaldi hann þá ecki frá adrar áhyggior, eda þat starf sem hann hafdi ádr med höndom haft: þvíat hann hafdi þá stund er hann sat í konungdóminom starfat þat, er hönom þótti mest nytsemd at vera, fyrst at frida oc frelsa landit af áþián útlendra höfdingia, enn sídan at snúa landzfólkino á retta trú, oc þar med at setia lög oc landzrett, oc þann lut gerdi hann fyrir rettdæmis sakir, at hegna þá er rángt vildi.

## CAP. CXCII.

## ORSAKIR UPPREISTAR MÓTI OLAFI KONUNGI.

Þat hafdi mikill sidr verit í Noregi, at lendramanna synir edr ríkra bóanda fóro á herskip, oc öflodo ser sva fiár, at þeir heriado bædi útanlandz oc innanlandz. Enn sídan er Olafr tók konungdóm, þá fridadi hann sva land sitt, at hann tók af rán öll þar í landi; oc þótt ríkra manna synir gerdi frid-brot, edr þat er konungi þætti vera aflaga, oc mætti hann refsingom vid þá koma, þá let eingo ödro vid þá koma, enn þeir leto lif edr limar: hvarki tydi bæn manna þar fyrir, ne febod. Sva segir Sigvatr skálld:

Gull budo opt þeir er ollo
úthlaupom gram kaupaz
rantt enn ræsir nitti
ríklundodom undan.
Skör bad hann med hiörvi

her land skal veria
ráus bido reckar sína
refsing fírom, efsa.

Oc enn qvad hann sva:

Fæddi mest sá er meiddi
margdyrr konungr varga
hvinna ætt oc hlenna
hann skyfdi sva þyfdir.
Þydr let þermlaz bædi
þiófr hvern konungr ernan
fridr bættiz sva fóta
fylkiz landz oc handa.
Vissi hellzt þat er hvössom
hundmörgöm let grundar
vördr med vapnom skerda
víkingom skör ríkis.
Milldr let mörgo valldit
Magnús fadir gagni
fremd Olafs qved ec frömdo
flestan sigr ens Digra.

Hann let iafna refsing hafa ríkan oc úríkan, enn þat þótti landzmönnom ofrausn, oc fylldoz þar fiandskapar upp ímót, er þeir leto frændor sína at rettom konungsdómi, þótt sannar sakir væri: Var þat upphaf til þeirrar uppreistar, er landzmenn gerdo ímót Olafi konungi, at þeir þoldo hanom eigi rettendi. Enn hann vildi helldr láta af tigninni, enn af rettdæmino: enn eigi var sú sök vid hann rett fundin, at hann væri hnöggr fiár vid sína menn; hann var hinn milldasti vid vini sína. Enn þat bar til, er menn reisto ófrid ímóti hánom, at mönnom þótti hann hardr, oc refsingasamr: enn Knútr konungr baud fram ofr fe; enn þá urdo stórhöfdingiar-

nir blekdir, er hann het hveriom þeirra tign oc ríki, miklo meira enn ádr höfdo þeir; oc þat med, at menn voro fúsir í Noregi, at taka vid Hákoni Jarli, þvíat hann var hinn vinsælsti madr af landzfólki, þá fyrr er hann red fyrir landi.

## CAP. CXCIII.
## FRÁ JÖKLI BÁRDARSYNI.

Hákon Jarl hafdi halldit lidi síno or þrándheimi, oc farit ímót Olafi konungi sudr á Mæri, sem fyrr var ritat; enn er konungr hellt inn í fiördo, þá sótti Jarl eptir þannog; kom þá til mótz vid hann Kálfr Arnason, oc fleiri þeir menn, er skiliz höfdo vid Olaf konung: var Kálfi þar vel fagnat. Sidan hellt Jarl inn þannog, sem konungr hafdi uppsett skip sín í Todarfirdi í Valldal: Tók Jarl þar skip þau er konungr átti; let Jarl setia út skipin oc búa; voro þá menn lutadir til skipstiórnar. Sá madr var med Jarlinom, er nefndr var Jökull, Islendskr madr, son Bárdar Jökulssonar or Vatzdal. Jökull laut at styra Vísundinom, er Olafr konungr hafdi haft. Jökull orti þá víso þessa:

Hlaut ec frá Sullt enn sæta
síd fregn at ec qvída
van erumk hreggs at hreini
hlyr vangs skipi styra,
þvi er y stettar átti
Oleifr suna kleifar

gramr var siálfr á sumri
sigri ræntr hinn Digri.

Þat er her skiótast af at segia, er sídarr vard miök miklo, at Jökull vard fyrir lidi Olafs konungs á Gotlandi, oc vard handtekinn, oc let konungr hann til höggs leida; oc var vöndr snúinn í hár hánom, oc hellt á madr; settiz Jökull nidr á backa nockorn; þá red madr til at höggva hann: enn er hann heyrdi hvininn, retfiz hann upp, oc kom höggit í höfot hanom, oc vard allmikit sár; sá konungr at þat var bana-sár; bad konungr þá hætta vid hann. Jökull sat upp, oc orti þá víso þessa:

Svída sár af mædi
setit hef ec opt vid betra
und er á oss sú er sprændi
ótraud legi raudom.
Bys mer blód or þesso
beni, tek ec vid þrek veniaz:
verpr hiálm-gösugr hilmir
heid særr á mik reidi.

Sídan dó Jökull.

## CAP. CXCIV.
## FRÁ KÁLFI ÁRNASYNI.

Kálfr Arnason fór med Hákoni Jarli nordr til Þrándheims, oc baud Jarl hanom til sín, oc geraz ser handgenginn. Kálfr segir, at hann mundi fara fyrst inn á Eggio til bús síns, oc láta sídan geraz rád sitt. Kálfr gerdi sva. Enn er hann kom heim, þá

fannz

fannz hánom þat brátt í, at Sigrídr, kona hans, var helldr skapstór, oc taldi up harma sína, þá er hon kalladiz fengit hafa af Olafi konungi: þat fyrzt, er hann let drepa bónda hennar Ölvi; enn nú sídan, segir hon, sono mína tva; oc varto, Kálfr, at þeirra aftöko, oc mundi mik þess síst af þer vara. Kálfr segir, at þat var miök at hans óvilia, er Þórir var af lífi tekinn: baud ec, segir hann, fe fyrir hann. Enn þá er Griótgardr var felldr, let ec Arnbiörn bródr minn. Hon segir: vel er þat þú hlautz slíkt af konungi, þvíat vera má, at þú vilir hefna hans, þóttú vilir eigi hefna minna harma: Sátto, þá er Þórir var drepinn, fóstrsonr þinn, hverso mikils konungr virdi þik þá. Þvílíkar harmatölor hafdi hon iafnan uppi fyrir Kálfi; Kálfr svarar opt styggt: enn þá vard hitt at lyktom, at hann leiddiz eptir fortölom hennar, oc het þá því, at geraz Jarli handgenginn, ef Jarl vildi auka veizlor hans. Sigrídr sendi ord Jarlinom, oc let segia, hvar þá var komit um mál Kálfs. Enn þegar er Jarl vard þess vís, þá sendi hann ord Kálfi þau, at hann skylldi koma út til bæiar á fund Jarls. Kálfr lagdiz þá ferd eigi undir höfot, oc fór litlo sídarr út til Nidaróss, oc fann þar Hákon Jarl, feck þar gódar vidtökor, oc átto þeir Jarl tal sitt: Kom þar allt ásamt med þeim; oc rédo þeir þat, at Kálfr gerdiz handgenginn Jarli, oc tók af hánom veitzlor stórar. Sídan fór Kálfr heim til búss síns; hafdi hann þá mest

yfirsókn allt inn í Þrándheimi. Enn þegar er váradi, bió Kálfr skip sitt, er hann átti; oc þegar hann var búinn, þá sigldi hann á haf, oc hellt skipi því vestr til Englandz; þvíat hann spurdi þat til Knútz konungs, at hann sigldi snemma um várit or Danmörk vestr til Englands. Þá hafdi Knútr konungr gefit Jarldóm í Danmörk Haralldi, syni Þórkels Háva. Kálfr Arnason fór á fund Knútz konungs, þegar er hann kom til Englandz. Sva segir Biarni Gullbrárskalld:

Austr red allvalldr rista
ótála haf stáli
vard at vitia garda
vígmódr Haralldz brödir.
Enn um idnir manna
emkat ec tamr at samna
skröki at skilnat yckarn
skiótt lezto Knút of sóttan.

Enn er Kálfr kom á fund Knútz konungs, þá fagnadi konungr hanom forkunnar vel, oc hafdi á tali vid sik: Vard þat í rædom þeirra Knútz konungs, at hann beiddi Kálf þess, at bindaz fyrir, at gera uppreist ímóti Olafi hinom Digra, ef hann leitadi aptr í landit: enn ec, segir konungr, mun gefa þer þá Jarldóm, oc láta þik þá ráda Noregi; enn Hákon, frændi minn, skal fara til mín, oc er hanom þat bezt fallit; þvíat hann er sá heilhugi, at ec ætla hann eigi muno eino skapti skióta móti Olafi konungi, ef hann leitadi aptr í landit. Kálfr lyddi á þat, er Knútr konungr mællti; oc gerdiz hann

fúss til tignarinnar; oc stadfestiz sú rádagerd med þeim Knúti konungi oc Kálfi: Bióz þá Kálfr til heimferdar; enn at skilnadi gaf Knútr konungr hanom giafir vegsamligar. Þess getr Biarni skálld:

Átto Engla drottni
ógnrackr giafar þacka
Jarls nidr komto ydro
ótala vel máli.
Þer let folld ádr færir.
frest urdo þess, vestan
líf þitt era lítit
Lundúna gramr fundna.

Sídan fór Kálfr aptr til Noregs, oc kom heim til búss síns.

## CAP. CXCV.

## DAUDI HÁKONAR JARLS.

Hákon Jarl fór þat sumar or landi, oc vestr til Englands. Enn er hann kom þar, þá fagnar Knútr konungr hanom vel. Jarl átti festar-mey þar á Englandi, oc fór hann þess ráds at vitia, oc ætladi brullaup sitt at gera í Noregi, enn afladi til á Englandi þeirra fánga, er hánom þótto torfengst í Noregi: Bióz Jarl um haust til heimferdar, oc vard helldr sídbúinn: sigldi hann í haf þá er hann var búinn. Enn frá ferd hans er þat at segia, at skip þat tyndiz, oc kom engi madr af. Enn þat er sumra manna sögn, at skipit hafi set verit nordr fyrir Katanesi at aptni dags, í stormi miklom, oc stód

vedrit út á Petlandsfiörd: Segia þeir sva er slíko vilia fylgia, at skipit mani hafa rekit í svelginn; enn hitt vita menn med sannindom, at Hákon Jarl tyndiz í hafi, oc ecki kom til landa þat er á skipi því var. Þat sama haust komo kaupmenn til Noregs, oc sögdo þessi tídindi, sva borinn um land, at menn hugdo at Jarl væri tyndr; enn hitt visso menn allir, at hann kom hvarki til Noregs á því hausti, ne til Englandz. Oc var land þá höfdingia-laust um vetrinn.

## CAP. CXCVI.

## FRÁ BIRNI STALLARA.

Biörn Stallari sat heima at búi síno, sídan er hann hafdi skiliz vid Olaf konung. Biörn var frægr, oc spurdiz þat brátt vída, at hann hafdi setz um kyrt; spurdi þat Hákon Jarl, oc adrir landrádamenn. Sídan gerdo þeir menn oc ordsendingar til Biarnar; enn er sendimenn komo fram ferd þeirri, þá tók Biörn vel vid þeim. Sidan kallar Biörn til tals vid sik sendimenn, oc spurdi þá eptir erendom sínom: enn sá er fyrir þeim var mællti, bar qvedio Knútz konungs oc Hákonar Jarls Birni, oc enn fleiri höfdingia, oc þat med, segir hann, at Knútr konungr hefir spurn mikla af þer, oc sva um þat, at þú hafir lengi fylgt Olafi Digra, enn verit úvinr mikill Knútz konungs; oc þykir hanom þat illa: þviat hann vill vera vinr þinn, sem allra annara dugandi man-

na, þegar er þú villt af hverfa at unna Olafi, oc at vera hans óvinr. Oc er þer nú sá einn til, at snúaz þángat til traustz oc vináttu sem gnógzt er at leita, oc nú láta allir menn ser sóma í nordrhálfo heimsins: megot þer á þat líta, er fylgt hafit Olafi konungi enom Digra, hvernòg hann hefir nú vid ydor skilit, þar þer erot allir traustlausir fyrir Knúti konungi, oc hans mönnom, enn heriodot land hans et fyrra sumar, oc drápot vini hans; þá er þetta med þöckom at taka, er konungr bydr sína vináttu; oc væri hitt makligra, at þú bædir, edr bydir fe til. Enn er hann hafdi lokit rædo sinni, þá svarar Biörn: ec vil nú sitia um kyrt heima at búi mino, oc þióna ecki höfdingiom. Sendimadr svarar: slikt ero konungs menn sem þú ert; kann ec þer þat at segia, at þú átt tvo kosti fyrir höndom: sá annar, at fara útlagr af eignom þínom, sva sem nú ferr Olafr, felags-madr ydarr; hinn er annar kostr er syniligri má þickia, at taka vid vináttu Knútz konungs oc Hákonar Jarls, oc geraz þeirra madr, oc selia til þess trú þína, enn taka her mála þinn; oc steipti fram Ensko silfri or siód miklom. Biörn var madr fegiarn, oc var hann sinkr miök, oc þagnadi, er hann sá silfrit, oc hugdi þá at fyrir ser hvat af skylldi ráda: þótti mikit at láta eigor sinar, enn þótti ósyn uppreist Olafs konungs at verda mundi í Noregi. Enn er sendimadr sá at Birni geckz hugr vid feit, þá kastadi hann fram gullhríngom tveim digrom, oc mællti: tak þá nú feit, Biörn, oc

sver eidinn Knúti konungi: ec heiti þer því, at litils er þetta fe verdt hiá hino er þú munt þiggia, ef þú sækir heim Knút konung. Enn af mikilleik fiárins, oc heitom fögrom, oc stórom fe-giöfom, þá vard hann snúinn til fegirni, tók upp feit, oc geck sídan til handgaungo, oc eida trúnadar vid Knút konung, oc Hákon Jarl: Fóro þá sendimenn í brot.

## CAP. CXCVII.

## FERD BIARNAR STALLARA.

Biörn Stallari spurdi tídindi þau er sagt var, at Hákon Jarl væri tyndr; þá sneriz skiótt skaplyndi hans, oc idradiz hann miök þess, er hann hafdi brugdit trú sinni vid Olaf konung; þóttiz hann þá lauss vera þeirra einkamála, er hann hafdi veitt til lydni Hákoni Jarli. Þótti Birni þá geraz nockor ván til uppreistar um ríki Olafs konungs, ef hann qvæmi til Noregs, at þá væri þar hötdingialaust fyrir. Biörn byr þá ferd sína skyndiliga, oc hafdi med sér nockora menn; fór sídan dag oc nótt ferdar sinnar, þat á hestom er sva mátti, þat á skipom er þat bar til, letti eigi ferd þeirri fyrr, enn hann kom um vetrinn at Jólom austr í Gardaríki til Olafs konungs; oc vard konungr allfeginn er Biörn hitti hann: Spurdi þá konungr marga tídinda nordan or Noregi. Biörn segir at Jarl var þá tyndr, oc land var þá höfdingialaust; þeim tídindom urdo menn allfegnir, þeir er Olafi konungi höfdo fylgt or Noregi, oc þar höfdo átt eigor, frændor oc vini, oc

leko miklir land-munir til heimferdar. Mörg önnor tídindi sagdi Biörn konungi or Noregi, þau er hönom var mikil forvitni á at vita; þá spurdi konungr eptir vinom sínom, hvernog þeir helldi trúnadi vid hann. Biörn qvad þat allmisiafnt. þá stód Biörn upp, oc fell til fóta konungi, ok tók um fót hönom oc mællti: allt á Guds valldi oc ydro, herra; ec hefi tekit fe af Knúts mönnom, oc svarit þeim trúnadar eida; enn nú vil ec þer fylgia, oc eigi vid þik skiliaz, medan vid lifom bádir; konungr svarar: statto upp, Biörn; sáttr skallto vera vid mik; bætto þetta vid Gud; vita má ec þat, at fáir muno nú vera í Noregi, þeir er einord sinni halldi nú vid mik, er slikir bregdaz sem þú ert; er þat oc satt, at menn sitia þar í miklo vandqvædi, er ec em fiarri, enn verda fyrir ófridi fiandmanna minna. Biörn segir frá því, hverir mest bundoz fyrir at reisa fiandskapar ófrid upp ímóti konungi oc hans mönnom; nefndi hann til þess sono Erlings á Jadri, oc adra frændor þeirra, Einar þambarskelfi, Kálf Arnason, þóri Hund, oc Hárek or þiótto.

## CAP. CXCVIII.
## FRÁ OLAFI KONUNGI.

Sidan er Olafr konungr var kominn í Gardariki, hafdi hann stórar áhyggior, oc hugsadi hvat rád hann skylldi upptaka. Jarizleifr konungr oc Ingigerdr drottning budo Olafi konungi at dveliaz med

ser, oc taka upp ríki þat er heitir Vúlgaria; oc er þat einn lutr af Gardaríki, oc var þat fólk heidit í þvi landi. Olafr konungr hugsadi fyrir sér um þetta bod, enn er hann bar þat fyrir menn sína, þá lötto allir at stadfestaz þar, oc eggiodo konung at ráda nordr til Noregs til ríkis síns: konungr hafdi þat enn í ráda-gerd sinni at leggia nidr konungs tign, oc fara út i heim til Jorsala, edr í adra helga stadi, oc gánga undir regló. Þat taldiz lengst um í huginn, at hugsa ef noekor faung mundi til verda, at hann nædi ríki síno í Noregi. Enn er hann hafdi þar á huginn, þá minntiz hann þess, at ena fyrsto X vetor konungdóms hans váro hönom allir lutir hagfellir oc farsælligir, enn sídan voro hönom öll umrád sín þúng hörd oc torsótt, enn gagnstadligar allar hamingio raunirnar. Nú efadi hann um fyrir þá sök, hvart þat mundi vera vitrlikt rád at treysta sva miök á hamingiono, at fara med sva lítinn styrk í hendor fiandmanna sinna, er allr landsmúgr hafdi tilslegiz at veita Olafi konungi mótgöngo. Slíkar áhyggior bar hann optliga, oc skaut til Guds síno máli, oc bad hann láta þat uppkoma, er hann sæi at bezt gegndi; valkadi hann þat í huganom, oc vissi eigi hvat hann skylldi upptaka, þviat hönom syndiz mein audsyn á þvi sem hann talldi fyrir sér.

## CAP. CXCIX.

## DRAUMR OLAFS KONUNGS.

Þat var eina nótt at konungr lá i reckio sinni oc

vakti lengi um nóttina, oc hugdi at rádagerdom sínom, oc hafdi stórar áhyggior í skapi síno; enn er hugrinn mæddiz miök, þá seig á hann svefn ímóti degi, oc sva lauss, at hann þóttiz vaka, oc siá öll tídindi í húsino: hann sá mann standa fyrir reckionni mikinn oc vegligan, oc hafdi klædnad dyrligan; bodadi konungi þat hellzt í hug, at þar mundi vera kominn Olafr konungr Tryggvason; sá madr mællti til hans: erto miök hugsiúkr nú um ráda ætlan þína, hvart rád þú skallt upptaka; þat þickir mer undarligt, er þú velkir þetta sva miök fyrir þer, sva þat; er þú ætlaz þat fyrir at leggia nidr konungs tign þá er Gud hefir gefit þer, slíkt et sama sú ætlan at vera her oc þiggia ríki af útlendom konungom oc ókunnom; far þú helldr aptr til ríkis þíns, er þú hefir at erfdom tekit, oc rádit lengi fyrir med þeim styrk er Gud gaf þer, oc lát eigi undirmenn þína ræna þik: þat er konungs frami at sigraz á óvinom sínom, enn vegligr daudi at falla í orosto med lidi síno; eda efar þú nockot um þat, at þú hafir rett at mæla í ydarri deilo; eigi skallto þat gera, at dylia siálfan þik sannenda; fyrir því máttu diarfliga sækia til landsins, at Gud mun þer bera vitni at þat er þín eiga. Enn er konungr vaknar, þá þóttiz hann siá á herdar mannsins er brott geck. Enn þadann í frá herdi hann hugiun, oc einstreingdi þá ætlan fyrir ser at fara aptr til Noregs sva sem hann hafdi ádr verit fúsastr til, oc hann fann at allir hans menn vildo hellzt vera láta; taldi hann

þat þá í huginn, at landit mundi vera audsótt er höfdingialaust var, sva sem þá hafdi hann spurt; ætladi hann, ef hann qvæmi siálfr til, at margir mundo þá enn hönom lid sinnadir. Enn er konungr birti þessa rádagerd fyrir mönnom sínom, þá tóko allir því þacksamliga.

## CAP. CC.
## AF LÆKNIS LIST OLAFS KONUNGS.

Sva er sagt, at sá atburdr vard í Gardaríki þá er Olafr konungr var þar, at sonr einnar göfugrar eckio feck kverka-sull mikinn, oc sótti sva miök, at sveinninn mátti engom mat nidr koma, oc þótti hann ban-væun; modir sveinsins geck til Ingigerdar drottningar, þvíat hon var kunn kona hennar, oc syndi henni sveininn. Drottning segir, at hon kunni eingar lækningar til at leggia; gack þú, segir hon, til Olafs konungs; hann er her læknir bestr; oc bid hann fara höndom um mein sveinsins, oc ber til ord min, ef hann vill eigi elligar. Hon gerdi sva sem drottning mællti; enn er hon fann konung, þá segir hon hönom, at sonr hennar var ban-vænn af kverka-sull, oc bad hann fara höndom um sullinn; konungr segir henni, at hann var eingi læknir, bad hana þingat fara, sem læknar voro; hon segir at drottning hafdi henni þángat vísat, oc hon bad mik sín ord tilbera, at þer legdit lækning til sem þer

kynnit, oc sagdi hon mer at þú værir beztr læknir her í stadinom. Þá tók konungr til, oc fór höndom um kverkar sveininom, oc þukladi sullinom miök lengi med höndom sínom, til þess er sveinninn hrærdi munninn; þá tók konungr braud oc braut, oc lagdi í kross í lófa ser, sídan lagdi hann þat í munn sveininom, enn hann svalg nidr, enn þadan af tók verk allan or kverkonom, oc var hann á fám dögom alheill; módir hans vard feginn miök, oc adrir frændor allir, oc kunn-menn sveinsins: Var þá fyrst á þannog virdt sem Olafr konungr hefdi sva miklar læknishendor, sem mællt er'um þá menn, sem miök er sú íþrótt lögd, at þeir hafi hendor gódar. Enn sídan er iartegna-gerd hans var allkunnog, þá var þat tekit fyrir sanna iartegn.

## CAP. CCI.

## ÖLAFR KONUNGR BRENDI SPÁNO.

Sá atburdr vard á einom sunno-degi, at Olafr konungr sat í hásæti síno yfir bordom, oc hafdi sva fasta áhyggio, at hann gádi eigi stundanna; hann hafdi í hendi kníf oc hellt á tannara, oc rendi þar af spáno nockora. Skutulsveinn stód fyrir hönom oc hellt bord-keri; hann sá hvat konungr gerdi, oc skildi þat at hann siálfr hugdi at ödro; hann mællti: mánadagr er á morgon, herra; konungr leit til hans er hann heyrdi þetta, oc kom þá í hug hvat

hann hafdi gert. Sídan bad konungr færa ser kertis liós: hann sópadi spónonom öllom í hönd ser þeim er hann hafdi telgt, þá brá hann þar í logino, oc let brenna spónana í lófa ser; oc mátti þadan af marka, at hann mundi fast hallda lög oc bodord, oc vilia eigi yfirgánga þat er hann vissi rettazt at gera.

## CAP. CCII.

## FRÁ OLAFI KONUNGI.

Sídan er Olafr konungr hafdi rádit fyrir ser, at hann vildi snúaz til heimferdar, þá bar hann þat upp fyrir Jarislafi konungi oc Ingigerdi drottningo; þau lötto hann þeirrar ferdar, sögdo at hann skylldi hafa í þeirra ríki þat velldi, er hönom þætti ser sæmiligt, enn bádo hann eigi fara á valld fiandmanna sinna, med sva lítinn lidskost sem hann hafdi þar; þá sagdi Olafr konungr þeim draum sinn, oc þat med, at hann qvadz hyggia at þat væri Guds forsiá. Enn er þau funno at konungr hafdi rádit fyrir ser at fara aptr til Noregs, þá budo þau hönom allan þann farar-beina er hann vildi af þeim þiggia; konungr þackar þeim med fögrom ordom sinn gódvilia, segir at hann vill fúsliga þiggia af þeim þat er hann þarf til ferdar sinnar.

## CAP. CCIII.

## AUSTANFERD OLAFS OR GARDARÍKI.

Þegar á bak Jólom bió Olafr konungr sik oc hafdi

nær CC sinna manna: feck Jarislafr konungr öllom þeim eyki oc annat þat er þeir þurfto til þeirrar ferdar, enn er hann var búinn þá fór hann; leiddi Jarislafr konungr hann oc Ingigerdr drottning vegsamliga af hendi, enn Magnús, son sinn, let hann þar eptir med konungi. Olafr konungr fór þá austan fyrst at frerom allt út til hafsins. Enn er váradi oc ísa leysti, þá biuggo þeir skip sín; enn er þeir voro búnir oc byr kom, þá sigla þeir, oc greiddiz ferd sú vel; kom Olafr konungr skipom sínom vid Gautland; spurdi hann þar tídindi bædi af Svíavelldi oc Danmörko oc allt or Noregi; var þá spurt til sanns at Hákon Jarl var tyndr, enn land í Noregi var höfdingialaust; þótti konungi oc hans mönnom þá vænt um sína ferd: Sigldo þeir þadan þá er byr gafz, oc helldo til Svíþiódar; lagdi konungr skipom sínom inn í löginn, oc hellt upp í land til Aróss, gerdi sídan menn á fund Önundar Svía konungs oc lagdi stefno vid hann. Önundr konungr vard vel vid ordsendingo mágs síns, oc fór til fundar vid Olaf konung, sva sem hann hafdi ord tilsend; kom oc til Olafs konungs Astridr drottning med þá menn er henni höfdo fylgt; var þar fagnadarfundr med öllom þeim; fagnar Svía konungr vel Olafi konungi, mági sínom, er þeir hittaz.

## CAP. CCIV.

## FRÁ LENDOM-MÖNNOM.

Nú skal segia hvat þeir höfdoz at í Noregi um

þessar hrídir. þórir Hundr hafdi Finnferdir haft þessa tvo vetor; oc hafdi hann verit hvarntveggia vetor lengi á fialli, oc fengit of fiár; hann átti margskonar kaup vid Finna. Hann let þar gera ser XII hrein-bialba med sva mikilli fiölkyngi, at ecki vapn beit edr festi á, oc sídr miklo enn á hrínga-brynio; enn et sídara vár bió þórir lángskip er hann átti, oc skipadi húskörlom sínom; hann stefndi saman bændom, oc krafdi leidángrs, allt um hina norsto þíng-há, dró þar saman fiölmenni mikit, oc fór nordan um várit med lidi því. Hárekr or þiótto hafdi oc mikinn lid-samnad oc feck mikit lid; urdo til þeirrar farar miklo fleiri virdinga menn, þó at þessir se ágætaztir; lysto þeir yfir því, at lidsamnadr sá skylldi fara á móti Olafi konungi, oc veria hönom land ef hann qvæmi austan.

## CAP. CCV.

## FRÁ EINARI ÞAMBARSKELFI.

Einar þambarskelfir hafdi mest forrád út um þrándheim, sídan er fráfall Hákonar Jarls spurdiz; þótti hönom þeir Endridi fedgar vera bezt komnir til eigna þeirra er Jarl hafdi átt oc lausafiár: mintiz Einar þá heita þeirra oc vinmæla, er Knútr konungr hafdi veitthönom at skilnadi; let þá Einar búa skip gott er hann átti, geck þar á sialfr med mikit föroneyti, enn er hann var búinn, hellt hann sudr med landi, oc sidan vestr um haf, oc letti eigi ferd sinni fyrr, enn hann kom til Englands; fór þá þe-

gar à fund Knútz konungs; fagnadi konungr hönom vel. Sídan bar Einar upp erindi sín fyrir konungi, segir at hann var þá kominn at vitia heita þeirra er Knútr konungr hafdi mælt, at Einar skylldi bera tignar-nafn yfir Noregi, ef Hákonar Jarls væri eigi vidkostr. Knútr konungr segir, at þat veik annan veg vid; hefir ec nú, sagdi hann, sendt menn oc iartegnir mínar til Danmerkr til Sveins, sonar míns, oc þat med, at ec hefi hönom heitit ríki í Noregi; enn ec vill hallda vid þik vinátto; skallto hafa þvílíkar nafn-bætor af mer, sem þú hefir burdi til, oc vera lendr madr, enn hafa veitzlor miklar, oc vera því framar enn adrir lendir-menn, sem þú ert meiri framqvæmdarmadr enn adrir lendir menn. Sá Einar þá um lut sinn, hvart hans erendi mundi verda; byz hann þá til heimferdar. Enn er hann vissi fyrir-ætlan konungsins, oc sva þat at mikill var ván, ef Olafr konungr kæmi austan, at eigi mundi fridsamligt í landi, kom Einari þat í hug, at eigi mundi undir at hrapa ferdinni meir, enn sva sem hófligazt væri, ef þeir skylldi beriaz vid Olaf konung, enn hafa ei til framflutningar ríkis síns þá heldr enn ádr: Sigldi Einar þá i haf, er hann var at því búinn, oc kom sva til Noregs, at ádr voro framkominn þau tídindi er þar gerdoz á því sumri.

## CAP. CCVI.

## FRÁ HÖFDINGIOM I NOREGI.

Höfdingiar í Noregi helldo niósnom austr til Svíþiódar oc sudr til Danmerkr, ef Olafr konungr kvæmi austan or Gardaríki; fengo þeir þegar spurt, sva sem menn fengo skiótaz farit, er Olafr konungr var kominn til Svíþiódar; enn þegar er þat var sannspurt, þá fór herbod um land allt; var stefnt út almenning at lidi; kom þá her saman; enn þeir lendir-menn er voro af Ögdom oc Rogalandi oc Hördalandi, þá skiptoz þeir vid; snero sumir nordr, enn sumir austr, oc þótti hvartveggia lid fyrir þiggia; snero austr synir Erlings af Jadri med allt lid þat er austr var frá þeim, oc voro þeir höfdingiar fyrir því lidi; enn nordr sneriz Áslákr af Finneyio, oc Erlendr or Gardi, oc þeir lendir-menn er nordr voro frá þeim. Þessír er nú ero nefndir, voro allir eidsvarar Knútz konungs, til þess at taka Olaf konung af lífi, ef þeim gæfi færi á því.

## CAP. CCVII.

## FERD' HARALLDAR SIGURDARSONAR.

Enn er þat spurdiz í Noreg, at Olafr konungr var austan kominn til Svíþiódar, þá samnadoz saman vinir hans þeir er hönom villdo lid veita; var í þeim flocki tignaztr madr Haralldr Sigurdarson, bro-

dir

dir Olafs konungs; hann var þá XV vetra gamall, mikill madr vexti oc roskin-mannligr; margt var þar annara göfugra manna; þeir fengo alls VI hundrot manna, þá er þeir fóro af Upplöndom, oc stefndo med lid þat austr um Eidaskóg til Vermalands. Sídan stefndo þeir austr um markir til Svíþiódar, oc spurdoz þá fyrir um ferdir Olafs konungs.

## CAP. CCVIII.

## FERD OLAFS KONUNGS OR SVÍÞIÓD.

Olafr konungr var í Svíþiód um várit, oc hafdi þadan niósnir nordr í Noreg, oc feck þadan þá eina spurn, at ófridsamlikt mundi þángat at fara, oc þeir menn er nordan komo lötto hann miök at fara í landit; hann hafdi þá einrádit fyrir ser at fara slikt sem ádr til Noregs; spurdi hann Önund konung, hvern styrk hann mundi veita hönom at sækia land sitt. Önundr konungr svarar, at Svíom var lítit um at fara í Noreg her-för; vitim ver, segir hann, at Nordmenn ero hardir oc orostomenn miklir, oc illir heim at sækia med ófridi; skal þat eigi seint at segia þer hvar ec vil til leggia; ec mun fá þer CD manna, oc velit af hirdsveinom mínom góda drengi, oc vel buna til bardaga. Sidan vil ec gefa þer lof til at þu farir yfir land mitt, oc fáir þer lid allt þat er þú mátt, oc þer vill fylgia. Olafr konungr tók þenna kost, bióz sídan til ferdar sinnar. Astridr drottning var eptir í Svíþiód, oc Ulfhilldr konungs dóttir.

## CAP. CCIX.

## FERD OLAFS KONUNGS TIL JARNBERALANDS.

Enn er Olafr konungr hóf ferd sína, þá kom til hans lid þat, er Svía konungr feck hönom, oc voro þat CD manna; fær konungr þær leidir, er Svíar kunno fyrir; stefndi þá konungr upp á land til marka, oc kom þar fram er kallat er Jarnberaland. Þar kom ímóti konungi lid þat, er farit hafdi af Noregi til móts vid hann, sem her er fyrr frásagt; hitti hann þar Haralld, bródor sinn, oc marga adra frændor sína, oc vard þat enn mesti fagnadarfundr; höfdo þeir þá allir saman XII hundrot manna.

## CAP. CCX.

## FRÁ DEGI RÍNGSSYNI.

Dagr er madr nefndr, er sva er sagt, at hann var son Hríngs konungs, þess er land hafdi flyit fyrir Olafi konungi; enn menn segia þat Hríngr væri sonr Dags Hríngsonar, Haralldsonar ens Hárfagra. Dagr var frændi Olafs konungs; þeir fedgar Hríngr oc Dagr höfdo stadfestz í Svíavelldi, oc höfdo þar fengit ríki til forráda. Um várit er Olafr konungr var kominn austan til Sviþiódar, sendi hann ord Degi frænda sínom þau, at Dagr skylldi rádaz til ferdar med hönom, med þann styrk allan, er hann hefir til; enn ef þeir fá land eignaz í Noregi, þá

skylldi Dagr hafa ríki þar eigi minna enn forellri hans hafdi haft; enn er þessi ordsending kom til Dags, þá fell hönom þat vel í skap; lek hönom landmunr miök á at fara í Noreg oc taka þar vid ríki því sem frændor hans höfdo fyrr haft; svarar hann skiótt þesso máli oc het ferd sinni. Dagr var madr skiót-ordr oc skiót-rádr, hávadamadr mikill oc hreystimadr, enn eingi spekingr at viti. Sídan samnadi hann ser lidi, oc feck nær XII hundrot manna; fór hann med þat lid til fundar vid Olaf konung.

## CAP. CCXI.
## FERD OLAFS KONUNGS.

Olafr gerdi ord fyrir ser í bygdir þeim mönnom, er þat villdo hafa til fefangs ser at afla lut-skiptis, oc hafa upptektir þær er óvinir konungs sæti fyrir, þá skylldo þeir til hans koma oc hönom fylgia. Olafr konungr flutti þá her sinn, oc fór um markbygdir, enn sumt um eydi-merkor oc optliga um vötn stór; þeir drogo edr báro skipin eptir ser milli vatnanna; fiölldi dreif lids til konungs markamanna, oc stigamenn sumt; er þar vida sídan kallat Olafs búdir, sem hann hafdi nátt-stadi; hann letti eigi ferdinni fyrr enn hann kom fram á Jamtaland, fór þá sídan nordr til Kialar; skiptiz þá lid hans í bygdirnar, oc fór miök sundrlaust, medan þeir visso eigi ófridar vánir; enn iafnan er þeir skipto lidi sí-

no, þá fylgdi konungi Nordmanna lid, enn Dagr fór þá í annan stad med lid sitt, enn Svíar í þridia stad med síno lidi.

## CAP. CCXII.
## FRÁ STIGA-MÖNNOM.

Menn þeir ero nefndir, er annarr het Gauka-Þórir, enn annarr Afarfasti; þeir voro stigamenn oc hinir mesto ránsmenn, höfdo med ser XXX manna, sína maka; þeir brædor voro meiri oc sterkari enn adrir menn; eigi skorti þá árædi oc hug: þeir spurdo til hers þess er þar fór yfir land, oc mællto sín á milli, at þat mundi vera sniall-rædi at fara til konungs, oc fylgia hönom til lands síns, oc gánga þar í fólkorosto med hönom, oc reyna sik sva; þvíat þeir höfdo eigi fyrr í bardögom verit þeim er lidi var fylkt til; var þeim þat forvitni mikil at siá konungs fylking; þetta rád líkadi vel föronautom þeirra; gerdo þá ferd sína til fundar vid Olaf konung, enn er þeir koma þar, þá gánga þeir med sveit sína fyrir konung, oc höfdo þeir föronautar alvæpni sitt; þeir qvöddo hann; hann spurdi hvat mönnom þeir se; þeir nefndo sik, oc segia at þeir váro þar landsmenn; þá bera þeir upp erindi sín, oc budo konungi at fara med hönom. Konungr segir, at hönom leitz sva sem í slikom mönnom mundi vera gód fylgd; ec em fús, segir hann, vid slíkom mönnom at taka,

edr hvart ero þer kristnir menn? segir hann. Gauka Þórir svarar, at hann var hvarki kristinn, ne heidinn; höfom ver felagar engan annan trúnad, enn trúom á ockr, oc afl ockar oc sigrsæli, oc vinnz ockor þat at gnógo; konungr svarar: skadi mikill er, at menn sva lidmannligir skulo eigi á krist trúa, skapara sinn. Þórir svarar: er nockr sá í þíno föroneyti, konungr, kristmadrinn, er meira hafi á degi vaxit, enn vid brædor? konungr bad þá skíraz láta, oc taka trú retta þar med; oc fylgit mer sidan; skal ec þá gera yckor virdinga-menn mikla; enn ef þit vilit þat eigi, þá farit aptr til idnar yckarar. Afarfasti svarar, at hann villdi ecki vid kristni taka: Snúa þeir sidan í brott. Þá mællti Gauka-Þórir: þetta er skömm mikill, er konungr þessi gerir oss lidræka; þar kom ec alldrei fyrr, er ec vera eigi lut-gengr vid adra menn; skal ec alldrei aptr hverfa at sva búno. Sídan slógoz þeir í sveit med ödrom marka-mönnom oc fylgdo flockinom; sækir þá Olafr konungr vestr til Kialar.

## CAP. CCXIII.

## SÝN OLAFS KONUNGS.

Enn er Olafr konungr fór austan um Kiöl, oc sótti þá vestr af fiallino, sva at land lægdi þadan vestr at siá, oc sá þá þannog landit, fór margt lid fyrr enn konungr, oc margt sídarr, reid hann þar er rúmt

var um hann; var hann liódr, oc mællti engi madr vid hann; reid hann sva lánga ríd dags, at hann sáz litt um. Þá reid biskop at hönom oc mællti, oc spurdi hvat hann hugsadi, edr hví hann var sva liódr: Þvíat konungr var iafnan gladr oc marg-málugr vid menn sína í ferdinni, oc gladdi sva alla þá er nær hönom voro; þá svarar konungr, med áhyggio mikilli: undarliga luti hefir borit fyrir mik um ríd; ec sá nú yfir Noreg, er ec leit vestr af fiallino; kom mer þá í hug, at ec hafda margan dag gladr verit í því landi: mer gaf þá syn, at ec sá um allan Þrándheim, oc því næst um allan Noreg, oc sva lengi sem sú syn hafdi verit fyrir augom mer, þá sá ec æ því vídara, allt þar til er ec sá um vída verölld, bædi lönd oc sæ; ec kenda gerla þá stadi er ec hafdi fyrr komit oc set, suma þá er ec hefi haft spurn af, oc iafnvel hina er ec hefi eigi fyrr heyrt getit, bædi bygda oc óbygda, sva vítt sem veröldin er. Biskop svarar, at sú syn var heilaglig oc stórmerkilig.

## CAP. CCXIV.
## JARTEGN UM AKOR.

Sidan er konungr sótti ofan af fiallino, þá var bær sá fyrir þeim er á Sulo heitir í ofanverdri bygdinni í Verdælafylki. Enn er þeir sótto ofan at bænom, þá lágo akrar vid veginn; konungr bad menn fara spakliga, oc spilla eigi ökronom fyrir bændom; gerdo

menn þat vel medan konungr var vid; enn þær sveitir er sídar fóro, þá gáfo ecki þesso gaum; oc liópo menn sva um akrin, at hann var allr lagdr at iördo. Sá bóandi er þar bió, er nefndr Þórgeir Fleckr: hann átti tvo sono vel frumvaxta. Þórgeir fagnar vel konungi oc hans mönnom, oc baud hönom allan þann forbeina, er hann hafdi faung á; konungr tók því vel, oc spurdi þá Þórgeir at tídindom, hvat titt væri í landino, edr hvert samnadr nockr mundi þar vera ger ímóti hönom. Þórgeir segir at lid mikit var samandregit þar i Þrándheimi, oc þar voro komnir lendir-menn bædi sunnan af landi oc nordan af Hálogalandi; enn eigi veit ec, segir hann, hvart þeir ætla því lidi at stefna ydor ímót, edr í annan stad. Sídan kærdi hann fyrir konungi skada sinn, oc óspekt manna hans er þeir höfdo nidrbrotit oc trodit akra hans alla; konungr segir at þat var, illa ordit, at hönom var mein gert. Sídan reid konungrinn til þar sem akrinn hafdi stadit, oc sá at akrinn var allr at iördo lagdr; hann reid umhverfis akrinn, oc mællti sídan: þess vænti ec, bóandi, at Gud man leidretta skada þinn, oc man akr þessi betri á víko fresti; oc vard þat enn besti akr, sem konungr sagdi; konungr dvalldiz þar um nóttina, enn at morgni bió hann ferd sína, segir at Þórgeir bóndi skylldi fara med hönom; enn hann baud til ferdar tvo sono sína; þá segir konungr, at þeir skuli eigi fara med hönom; enn sveinarnir villdo þó fara; konungr bad þá eptir vera; enn er þeir villdo eigi le-

tioz, þá villdo hirdmenn hans binda þá; konungr mællti, er hann sá þat: fari þeir, aptr muno þeir koma; oc sva vard, sem konungr sagdi, um sveinana.

## CAP. CCXV.

## SKÍRDIR MARKA-MENN.

Þá flytia þeir her sinn út til Stafs; enn er konungr kom á Stafamyrar, þá átti hann dvöl; þá spurdi hann til sanns, at bændor fóro med her móti hönom, oc þat at þá mundi hann orosto eiga brátt. Þá kannadi konungr lid sitt, oc var skorat brátt mannatal; oc hafdi hann meir enn XXX hundrot manna; þá fundoz í hernom IX hundrot heidinna manna; enn er hann vissi þat, þá bad hann þá skíraz láta, sagdi sva, at hann vill eigi heidna menn hafa í orosto med ser; munom ver, segir hann, eigi mega treystaz lids fiöllda; Gudi skulom ver treystaz, þvíat med hans krapti oc miskunn munom ver sigr fá; enn eigi vil ec blanda heidno fólki vid menn mína. Enn er þat heyrdo heidingiar, þá báro þeir saman rádin, oc at lyktom leto skíraz CD manna, enn fimm hundrot neitto kristni; oc sneri þat lid aptr til síns lands. Þá gánga þar fram þeir brædor med lid sitt Gauka-Þórir oc Afarfasti, oc bióda konungi enn gengi sitt. Konungr spyr, ef þeir hefdi þá skírn tekit. Gauka-Þórir segir, at þat var eigi; konungr bad þá taka skírn oc trú retta, edr fara brott at ödrom kosti. Þeir snero þá í brot, oc tóko tal sín í mil-

li, oc redo um hvert rád upp skylldi taka; þá mællti Afarfasti: sva er at segia frá míno skapi, at ec vil eigi aptrhverfa; mun ec fara til orosto, oc veita lid ödrom hvarom, enn eigi þicki mer skipta í hvarom flocki ec em; þá svarar Gauka-Þórir: ef ec skal til orosto fara, þá vil ec konungi lid veita, þvíat hönom er lidsþörf meiri; enn ef ec skal á Gud nockorn trúa, hvat er mer verra at trúa á hvíta Crist, enn á annat God; nú er þat mitt rád, at ver látim skíraz, ef konungi þyckir þat miklo máli skipta; förom þá sídan til orosto med hönom; þesso iáta þeir allir, gánga sídan til konungs, oc segia at þeir vília þá skírn taka: Voro þeir þá skírdir af kennimönnom, oc voro biskopadir. Konungr tók þá í hirdlög med ser, oc sagdi at þeir skylldo vera undir merki hans í orosto.

## CAP. CCXVI.

## TALA OLAFS KONUNGS.

Olafr konungr hafdi þá til sanns spurt, at skamt mundi vera til þess er hann mundi orosto eiga vid bændor; enn sídan er hann hafdi kannat lid sitt, oc skorat var mann-tal, oc hafdi hann þá meir enn XXX hundrot manna, oc þótti þat þá vera mikill her á einom velli; sídan taladi konungr fyrir lidino, oc mælti sva: ver höfom mikinn her oc frítt lid; nú vil ec segia mönnom, hveria skipan ec

vil hafa á lidi váro: oc man láta fara fram merki mitt í midio lidi, oc skal þar fylgia hird mín oc gestir, oc þar med þat lid, er til vár kom af Upplöndom, oc sva þat lid er her-kom til vor í þrándheimi; enn til högri handar frá míno merki skal vera Dagr Hríngsson, oc med hönom þat lid allt er hann hafdi til föroneytis vid oss; skal hann hafa annat merki; enn til vinstri handar frá minni fylking skal vera þat lid er Svía konungr feck oss, oc allt þat lid, er til vor kom í Svíavelldi; skulo þeir hafa et þridia merki; vil ec at menn skiptiz í sveitir, oc heimtiz saman frændor oc kunnmenn, þvíat þá mun hverr annars best gæta, oc hverr annan kenna; ver skulom marka lid várt allt, gera herkumbla á hiálmom várom oc skiölldom, draga þar med bleykio á krossinn helga; enn ef ver komom í orosto, þá skulum ver allir hafa eitt ordtak: framm, framm kristzmenn, krossmen, kongsmenn; ver munom hlióta þunnar fylkingar, ef ver höfom lid færra, þvíat ec vil at þeir hríngi eigi um oss sino lidi. Skiptiz men nú í sveitir, enn sídan skal sveitom skipta í fylkingar, oc viti þá hverr sína stödo, oc gefi hverr gaum at, hvart hann er frá merki því er hann er undirskipadr; ver munom nú hallda vorri fylkingo, oc skulo menn hafa alvæpni dag oc nótt, þar til er ver vitom hvarr fundr várr mun verda oc bóanda. Sídan er konungr hafdi talat, þá fylkto þeir lidi síno, oc skipodo eptir því sem konungr hafdi fyrirmællt.

## CAP. CCXVII.

## MÁL-STEFNA OLAFS KONUNGS.

Eptir þat átti konungr stefno vid sveitar höfdingia; voro þá komnir þeir menn er konungr hafdi sendt í heradit at krefia bændor lids; þeir kunno þau tídindi or bygdinni at segia, þar sem þeir höfdo farit, at vída var aleyda at vígom mönnom, oc var þat fólk farit í bænda samnat; enn þar sem þeir hitto menn, þá villdo fáir þeim fylgia, enn flestir svörodo því, at fyrir þá sök sáto heima, at þeir villdo hverigom fylgia, villdo eigi beriaz móti konungi, oc eigi móti frændom sínom; höfdo þeir fátt lid fengit. Þá spurdi konungr menn ráds, hvat tiltækiligazt væri. Finnr Arnason svarar máli konungs: segia mun ec, sagdi hann, hvernog gert skylldi, ef ec mundi ráda; þá mundom ver fara herskilldi um allar bygdir, ræna fe öllo, enn brenna sva vendiliga bygd alla, at alldrei stædi kot eptir, gialda sva bændom drottins-svikin; hygg ec at margr mundi þá lausari vera vid flockinn, ef hann ser heim reyk edr loga til búa sinna, enn veit ógerla hvat er títt er um börn edr konor edr gamal menni, fedor þeirra edr mædor, edr annat frændlid; vænti ec, segir hann, ef nockorir ráda til at riúfa samnadinn, at þá muni brátt þynnaz fylkingar þeirra; þvíat sva er bændom gefit, at þat rád er þá er nyast, þat er þá öllom kærst. Enn er Finnr lauk máli sino, þá gerdo menn þar at godan róm; líkadi mör-

gom vel at ráda til fe-fánga, enn öllom þótto bænddor makligir til skada, enn likligt þat er Finnr sagdi, at bændor mundo verda margir lausir vid samnadinn. Þórmódr Kólbrúnarskálld qvad þá viso:

Brennom öll fyrir innan
inni þau er ver finnom
lönd skulom hverr med hiörvi
herbiörg fyrir gram veria.
Iss hafi allra húsa
Inn-þrændir kol sinna;
angr skal kveikt í klúngri
kölld ef ec má vallda.

Enn er Olafr konungr heyrdi ákafa lidsins, þá krafdi hann ser hlióds oc mællti sva: hafa bændor verdleik til þess, at sva væri gert sem þer vilit; þat vita þeir, at ec hefi gert þat at brenna innin fyrir þeim, oc veitt þeim adrar stórar refsingar; gerdá ec þá þat at brenna fyrir þeim, er þeir höfdo ádr gengit af trú sinni, oc tekit upp blót, enn villdo eigi láta at ordom minom; átto ver þá Guds rettar at reka; nú ero þessi drottins svik miklo minna verd, þótt þeir halldi eigi trú sína vid mik, oc muno þó þessi eigi þickia vel sama þeim er manndóms menn vilia vera; nú á ec her nockoro heimilla at veita nockora frían, er þeir misgera vid mik, enn þá er þeir hötudoz vid Gud; nú vil ec at menn fari spakliga, oc geri engi hervirki; vil ec fara fyrst til fundar vid bændor; oc sættumz ver þá, er vel; enn ef þeir hallda bardaga imóti oss, þá ero þeir tveir kostir fyrir höndom, oc ef ver föllom í orosto, þá er því vel rádit, at fara þángat eigi med

ránfe, enn ef ver sigrumz, þá skulo þer vera arftöko-menn þeirra, er nú beriz móti oss, þvíat þeir muno þar sumir falla, enn sumir flyia, oc hafa hvarirtveggio þá fyrirgert allri aleigo sinni; enn þá er gott at gánga til búa stórra, enn bæir vegligir, enn þess nytr eingi madr er brent er, sva ránfe fer at spellom miklo meiri luti enn þat er nytt verdr af; skulom ver nú fara dreift út eptir bygdinni, oc hafa med oss alla vigamenn, þá er ver fám; skulo menn oc höggva bú, edr taka adra vist sem menn þurfa til at fæda sik, enn menn geri ei annat spillvirki; vel þickir mer, at drepnir se niósnarmenn bónda, ef þer takit þá: Skal Dagr fara oc hans lid et nordra ofan eptir dalnom, enn ec mun fara út þiód-veginn, oc hittomz at qvelldi, oc höfom allir eitt náttból.

## CAP. CCXVIII.

## FRÁ SKÁLLDOM OLAFS KONUNGS.

Sva er sagt, at þá er Olafr konungr fylkti lidi síno, þá skipadi hann mönnom í skialldborg, er hallda skylldi fyrir hönom bardaga, oc valdi þar til þá menn er sterkastir voro oc best hugadir; þá kalladi konungr til sín skálld sín, oc bad þá gánga í skialldborgina; skulot þer, segir konungr, her vera, oc siá þau tídindi er her geraz, er ydor þá eigi segiandi saga til; þvíat þer skulot frá segia, oc yrkia um sídan. Þar var þá Þórmódr Kolbrúnar-skálld, oc

Gitzor Gullbrár-skálld, fóstri Hofgarda Refs, oc Þórfinnr Munnr. Þá mællti Þórmódr til Gitzorar: stöndom eigi sva þraungt, lagsmadr, at eigi nái Sigvatr skálld rúmi sino, þá er hann kemr; hann mun vera vilia fyrir konungi, oc ei mun konungi annat líka; konungr heyrdi þetta oc svarar: eigi þarf Sigvat at sneida, þótt hann se eigi her; opt hefir hann mer vel fylgt; hann mun nú bidia fyrir oss, oc mun þess enn allmiök þurfa. Þórmódr svarar: vera má þat, konungr, at þer se nú bæna mest þörf; enn þunt mnndi vera um merkistöngina, ef allir hirdmenn þínir væri nú á Rumavegi; var þat oc satt, at ver töldom þá at því, er engi feck rúm fyrir Sigvati, þótt mæla villdi vid ydor. Þá mællto þeir skálldin sín á milli, sögdo at þat væri vel fallit, at yrkia áminningarvísor nockorar um þau tídindi er þá mundi brátt at hendi beraz. Þá qvad Gitzor;

Skala ógladan æfa
ord fregni þat borda
búumz vid þröng á þíngi
þegns dóttir mik fregna.
þótt sig runnar svinnir
segi ván hedins qvánar
verom í ala eli
austr bragningi traustir.

Þá qvad Þórfinnr Munnr adra víso;

Röckr at regni miklo
randa gards ens harda
vill vid vísi sniallan
Verdæla-lid beriaz.
Veriom allvalld örvan
ölom teitan má sveita

fellom þrændor í þundar
þess eggiumz ver hreggi.

Þá qvad Þórmódr:

Ala þreyngr at eli
örstiklandi miklo
skylldo eigi skelnir hölldar
skálm ölld vex nú fálma.
Búumz vid sóku enn slökni
seggir skyli ord um fordaz
er at geir-þíngi göngom
gunn-reifir med Olieli.

Vísor þessar namo menn þá þegar.

## CAP. CCXIX.

## SÁLO-GIÖF OLAFS KONUNGS.

Sidan bió konungr ferd sína oc sótti út eptir dalnom; hann tók ser nátt-ból, oc kom þar þá samau allt lid hans, oc lágo um nóttina úti undir skiölldom sínom, enn þegar er lysti, bió konungr herinn; fluttoz þá enn út eptir dalnom, er þeir voro at því búnir. Þá komo til konungs bændor miök margir, oc gengo flestir í lid med hönom, oc kunno allir eitt at segia, at lendir-menn höfdo samandregit her óvígan, oc þeir ætlado bardaga at hallda vid konung; þá tók konungr margar merkor silfurs, oc feck í hendor einom bóanda, oc mællti sídan: fe þetta skallto vardveita, oc skipta sídan; leggia sumt til kyrkna, enn sumt gefa til kennimanna, sumt ölmuso-mönnom, oc gefa fyrir líf oc sál þeirra manna er falla í orosto oc beriaz ímóti óss; bóndi svarar:

skal fe þá gefa til sálobótar ydrom mönnom, konungr? þá svarar konungr: þetta fe skal gefa fyrir sál þeirra manna er med bændom ero í orosto, oc falla fyrir vapnom várra manna; enn þeir menn er oss fylgia í orosto, oc þar falla, þá munom ver biargaz at allir saman.

## CAP. CCXX.

## FRÁ ÞÓRMÓDI KOLBRÚNAR SKÁLLDI.

Þá nótt er Olafr konungr lá i samnadinom oc ádr er frásagt, vakti hann löngom, oc bad til Guds fyrir ser oc lidi síno, oc sofnadi lítt; rann á hann höfgi móti deginom; enn er hann vaknar, þá rann dagr upp. Konungi þótti helldr snemt at vekia herinn. Þá spurdi hann hvar Þórmódr skálld væri; hann var þá nær oc svarar, spurdi hvat konungr villdi hönom; konungr segir: tel þú oss qvædi nockot; Þórmódr settiz upp, oc qvad hátt miök, sva at heyrdi um allan herinn, hóf upp Biarkamál en forno, oc er þetta upphaf:

Dagr er uppkominn,
dynia hauar fiadrar,
mál er vilmögom
at vinna erfidi.
Vaki æ oc vaki
vina höfot
allir enir özto
Adils of sinnar.

Har

Hár hinn hardgreipi
Hrólfr skiótandi
ættom gódir menn,
þeim er ei flyia.
Veckat ec ydor at víni
ne at vífs rúnom,
helldr vek ec ydor at hördom
hilldar leiki.

Þá vaknadi lidit, enn er lokit var kvædino, þá þöckudo menn hönom qvædit, oc fannz mönnom mikit um, oc þótti vel tilfundit, oc köllodo qvædit húskarla-hvöt; konungr þackadi hönom skemtan sína, oc tók gullhring, er stód hálfa mörk, oc gaf hönom. Þórmódr þackadi konungi giöf sína, oc mællti: gódan eigom ver konung, enn vant er nú at siá hverso láng-lífr konungr verdr; enn su er bæn mín, konungr, at þú látir ockr hvarki skiliaz lífs ne dauda; konungr svarar: allir munom ver saman fara, medan ec ræd fyrir, ef þer vilit eigi vid mik skiliaz. Þórmódr mællti: þess vætti ec, konungr, hvart sem fridr er betri edr verri, at ec se nær ydor staddr, medan ec á þess kost, hvat sem ver spyriom til hvar Sigvatr fer med gullinn-hialltann. Sídan qvad Þórmódr:

Þer man ec enn uns ödrom
allvalldr nait skálldom,
nær vættir þú þeirra,
þíngdiarfr fyrir kne hvarfa.
Braut komumz ver þó veitim
val-tafn frekom hrafni
víkz eigi þat vaga
viggiudr, edr her liggiom.

## CAP. CCXXI.

## OLAFR KONUNGR KEMR Á STIKLASTDI.

Olafr konungr flutti herinn út eptir dalnom; fór þá enn Dagr med síno lidi adra leid; konungr letti eigi ferd sinni ádr hann var kominn út á Stiklastadi; þá sá hann her bænda, oc fór þat lid dreift miök, oc var sva mikill fiöldi, at á hveriom stig dreif lid, enn vída þar er stór-flockar fóro saman. Þeir sá hvar sveit manna fór ofan or Veradal, oc höfdo þeir á niosn verit, oc fór sva nær því sem lid konungs var, at þeir kendoz; þar var Rútr af Viggio med XXX manna. Sídan mællti konungr at gestir skylldo fara at móti Rúti, oc taka hann af lífi; voro menn þess verks fliótir. Þá mællti konungr til þeirra Islendinga: sva er mer sagt, at þat se sidr á Islandi, at bændor se skylldir á haustom at gefa hús-körlom sínom slátra saud; nú vil ec þar gefa ydor rút til slátrs. Þeir enir Islendsko voro þess verks aud-eggiadir, oc fóro þegar at Rúti med ödrom mönnom; var Rútr drepinn, oc öll sveit sú er hönom fylgdi. Konungr nam stadar oc stödvadi her sinn, er hann kom á Stiklastadi: bad konungr menn stíga af hestom, oc búaz þar um. Menn gerdo sva sem konungr mællti. Sídan var skotit á fylkíng, oc setl upp merkin. Dagr var þá enn eigi kominn med lid sitt, oc misti þess fylkingar armsinns. Þá mællti konungr at þeir Upplendingar skylldo þar framgánga, oc taka upp merkin; þicki

mer þat rád, segir konungr, at Haralldr, bródir minn, se eigi í orosto, þvíat hann er barn at alldri. Haralldr svarar: ec skal vera at víso í orosto, enn ef ec em sva ósterkr, at ec má eigi vallda sverdino, þá kann ec þar gott rád til, at binda skal höndina vid medal-kaflann; eingi skal vera viliadr betr enn ec at vera óþarfr þeim bændonom; vil ec fylgia sveitungom m.nom. Sva segia menn, at Haralldr qvad þá víso þessa:

þora man ec þann árm veria
þat er eckio munr .neqvat
riódom ver af reidi
rönd er ec í hlyt standa:
Gengr at greppr enn úngi
gunn-blídr þar er slög rída
herda menn at mordi
mót á hæl fyri spiótom.

Haralldr red því at hann var í orostunni.

## CAP. CCXXII.

## FRÁ ÞÓRGILS HALMOSYNI.

Þórgils Halmoson er madr nefndr, bóndi sá er þá bió á Stiklastödom, fadir Grims goda. Þórgils baud konungi lidsemd sína at vera í bardaga med hönom; konungr bad hann hafa þöck fyrir bod sitt: enn ec vil, segir konungr, at þú, bóandi, sert eigi í bardaganom; veit oss helldr hitt, at biarga mönnom vorom eptir bardagann, þeim er sárir ero, enn veit hinom umbúnat er falla í orosto. Sva, ef þeir atburdir kunna verda, bóandi, at ec fell i bardaga þessom,

veit þá þiónosto liki míno sem naudsyn ber til, ef þer er þat eigi bannat. Þórgils het þesso konungi, sem hann beiddi.

## CAP. CCXIII.

## TALA OLAFS KONUNGS.

Enn er Olafr konungr hafdi fylkt lidi sino, þá taladi hann fyrir þeim, oc mællti sva, at menn skylldo herda hugi sína, oc gánga diarfliga fram, ef orosta verdr, segir hann: höfom ver lid gott oc mikit, enn þótt bændor hafi lid meira nockoro, þá man audna ráda sigri; er því ſyrir ydor at lysa, at ec mun eigi flyia or orosto þessi; skal ec annathvart sigraz á bændom, edr falla í orosto ella; vil ec þess bidia, at sá lutr komi upp, er Gud ser at mer gegnir best; skulom ver því treystaz, at ver höfom rettara at mæla enn bændor, oc því þar med, at Gud muni oss frelsa oc eigor vorar eptir orosto þessa, enn elligar veita oss miklo meiri laun fyrir þat lát er ver höfom her í heimi, enn ver kunnim siálfir at æskia oss; enn ef ec hlyt um at mæla eptir orosto, þá skal ec gæda ydor hvern eptir ydar verdleikom, oc eptir því sem hver gengr fram í orosto; mun þá, ef ver höfom sigr, vera gnógt bædi lönd oc lausir aurar, at skipta því med ydor, er nû fara med ádr óvinir várir; veitom sem hardazta atgaungo ena fyrzto, þvíat skiótt mun umráda; ef at lids-munr er mikill, eigom ver sigr ván af

skiótom atburdom; enn hitt mun oss þúngt falla, ef ver beriumz til mædi, sva at menn verdi fyrir því óvígir; muno ver eiga minna deilldar-lid, enn hinir, er ymsir gánga fram, enn sumir hlífaz oc hvílaz: enn ef ver gerom sva harda ena fyrzto rídina, at þeir snúa undan er fremztir ero, þá man hverr falla yfir annan, oc verda þeirra ófarar þess at meiri, er þeir ero fleiri saman. Enn er konungr hætti rædonni, þá gerdo menn gódan róm at máli hans, oc eggiadi hverr annan.

## CAP. CCXXIV.

## FRÁ ÞÓRDI FOLASYNI.

Þórdr Folason bar merki Olafs konungs; sva segir Sigvatr skálld í erfi-drápo þeirri er hann orti um Olaf konung, oc stællti eptir Uppreistar sögo:

Þórd fra ec þat sinn herda
þreifz sókn med Oleifi
gód fóro þar geirom
giort víg saman hiörto.
Staung bar hátt fyrir brínga
hialldr módom gram bródir
fullt vann fagurla gyllta
framlundadr Ögmundar.

## CAP. CCXXV.

## FRÁ BÚNADI OLAFS KONUNGS.

Olafr konungr var sva búinn, at hann hafdi hiálm gullrodinn á höfdi, enn hvitan skiölld oc lagdr á

med gulli kross enn helgi; í annari hendi hafdi hann kesio þá, er nú stendr í kristzkirkio vid alltari; hann var gyrdr sverdi því er Hneytir var kalladr, et bitrazta sverd, oc gulli vafdr medalkaflinn; hann hafdi hrínga-brynio. Þess getr Sigvatr skálld:

Ölld vann Olafr fellda
öflgan sigr enn Digri
geck sókn þorinn sækia
Siunior fram í brynio.
Enn þeir er austan runno
óx hilldr med gram milldom
mærgt segi ec bert í biarta
blódraust Svíar ódo.

## CAP. CCXXVI.

## DRAUMR OLAFS KONUNGS.

Enn er Olafr konungr hafdi fylkt lidi síno, þá voro bændor enn hvargi nærri komnir; þá mællti konungr, at lidit skylldi nidrsetiaz oc hvíla sik; settiz konungr þá siálfr nidr oc allt lid hans, oc sáto rúmt; hann halladiz, oc lagdi höfudit í kne Finn Arnasyni; þá rann á hann svefn, oc svaf hann um hríd; þá sá þeir her bónda, oc sótti þá lidit til mótz vid þá, oc höfdo uppsett merkin, oc var þat enn mesti múgr manns. Þá vakti Finnr konung, oc sagdi hönom at bændor sótto þá til þeirra. Enn er konungr vaknadi, mællti hann: hví vakdir þú mik, Finnr, oc letz mik eigi nióta draums míns? Finnr

svarar: eigi mundi þik þat dreyma, at eigi mundi skylldra at vaka, oc búaz vid hernom er at oss ferr; edr ser þú eigi hvar nú er kominn bónda múgrinn?' Konungr svarar: eigi ero þeir enn sva nær oss, at eigi væri betr at ec hefdi sofit. Þá mællti Finnr: hvat dreymdi þik, konungr, þess er þer þikir sva mikill missa í, er þú vaknadir eigi siálfr? Þá segir konungr draum sinn, at hann þóttiz siá stiga háfan, oc gánga þar eptir í lopt upp sva lángt at himin opnadiz, oc þángat var stiginn til; var ec þá, segir hann, kominn í efzta stig, er þú vaktir mik. Finnr svarar: eigi þickir mer draumr siá sva gódr sem þer mun þickia; ætla ec þetta muni vera fyrir feigd þinni, ef þat er nockot annat enn svein-órar einar, er fyrir þik bar

## CAP. CCXXVII.
## SKÍRDR ARNLIÓTR GELLINA.

Enn vard sá atburdr, þá er Olafr konungr var kominn á Stiklastadi, at madr einn kom til hans; enn þat var eigi af því undarlikt, at margir menn komo til konungs or herödom, enn því þótti þat nynæmi, at þessi madr var eigi ödrom mönnom likr, þeim er þá höfdo til hans komit; hann var madr sva hár, at eingi annarra tók betr enn í öxl hönom; hann var manna frídaztr synom oc fagrhárr; hann var vel vapnadr; hann hafdi hiálm allfrídan oc

hrínga-brynio, skiölld raudan, oc gyrdr med sverdi búno, hafdi í hendi gullrekit spiót mikit, oc sva digurt skaptit at hand-fyllr var í. Sá madr geck fyrir konung oc qvaddi hann, oc spurdi ef konungr villdi þiggia lid af hönom; konungr spurdi hvert nafn hans væri edr kynferd, edr hvar hann var landsmadr; hann svarar: ec á kyn á Jamtalandi oc Helsingialandi; ec em kalladr Arnliótr Gellina; kann ec ydor þat hellzt frá at segia, at ec veitta forbeina mönnom þinom, þeim er þer sendot til Jamtalands, at heimta þar skatt; feck ec þeim i hendor silfr-disk, er ec senda ydor til iartegna, at ec vilda vera vinr ydarr. Þá spurdi konungr, hvart Arnliótr væri kristinn madr, edr eigi; hann segir þat frá átrúnadi sínom, at hann trydi á mátt sinn oc meginn; hefir mer sá átrúnadr unniz at gnógo her til; enn nú ætla ec helldr at trúa á þik, konungr; konungr svarar: ef þú villt á mik trúa, þá skallto þvi oc trúa er ec kenni þer; því skallto trúa, at Jesus Cristr hefir skapat himin oc iörd, oc menn alla, oc til hans skulo fara allir menn eptir dauda, þeir er gódir ero oc rett-trúadir. Arnliótr svarar: heyrt hefi ec getit hvita Cristz, enn eigi er mer kunnigt um athöfn hans, edr hvar hann rædr fyrir; nú vil ec trúa þvi öllo er þú segir mer; vil ec fela á hendi þer allt mitt rád. Sídan var Arnliótr skírdr; kendi konungr hönom þat af trúnni, er hönom þótti skylldaz vera, oc skipadi hönom í öndverda fylking fyrir merki síno; þar var oc Gauka-Þórir oc Afafarsti, oc sveitungar þeirra.

## CAP. CCXXVIII.

## FRÁ SAMNADI Í NOREGI.

Frá því er nú at segia er ádr var frá horfit, at lendir-menn oc bændor höfdo samandregit her úvígan, þegar er þeir spurdo at konungr var austan farinn or Gardariki, oc hann var kominn til Svíþiódar; enn er þeir spurdo, at hann var kominn til Jamtalands, oc hann ætladi at fara austan um Kiöl til Veradals, þá stefndo þeir herinom inn í Þrándheim, oc söfnodo saman þar allri alþydo, þegn oc þræl, oc fóro sva út til Veradals, oc höfdo þar sva mikit fiölmenni, at eingi madr var sá þar í Noregi, er sed þóttiz hafa iafnmikinn her saman kominn; var þar sem iafnan kann verda í iammiklom her, at lid var þar allmisiafnt. Þar var margt lendramanna, oc mikill fiöldi rikra bóanda, enn þó var hitt allr múgr, er voro þorparar oc verk-menn; oc var þat allr megin herrinn er saman hafdi samnaz þar í Þrándheimi; var þetta lid allmiök geyst til fiandskapar oc mótgángs vid konung.

## CAP. CCXXIX.

## FRÁ SIGURDI BISKOPI.

Knútr konungr enn Ríki hafdi lagt undir sik land allt í Noregi, sem fyrr var ritat, oc þat med, at hann setti til ríkis þar Hákon Jarl; hann feck Jarli hird-biskop þann er Sigurdr er nefndr; hann var

Danskr at kyni, oc hafdi lengi verit med Knúti konungi; var biskop sá ákafa-madr í skapi, oc sundrgerda-madr í ordom sínom; veitti hann Knúti konungi orda fullting allt þat er hann mátti, enn var hinn mesti óvinr Olafs konungs. Sá biskop var i her þessom oc taladi optliga fyrir bóandalidi, oc eggiadi miök til uppreistar móti Olafi konungi.

## CAP. CCXXX.

## TALA SIGURDAR BISKUPS.

Sigurdr biskup taladi á eino hús-þingi, þar sem þá var mikit fiöl-menni; hann tók sva til orda: her er nú samankomit mikit fiölmenni, sva at i þesso fátæka landi mun eigi kostr at siá meiri her innlendskan; skylldi ydor nú vel at halldi koma þessi styrkr fiölmennis, þvíat nú er ærin naudsyn til, ef Olafr þessi ætlar enn eigi af at láta at heria á ydor; vandiz hann því þegar á únga alldri, at ræna oc drepa menn, oc fór til þess vida um lönd, enn at lyktom sneri hann híngat til lands, oc hóf sva upp, at hann óvingadiz mest þeim, er bestir menn voro oc ríkastir, Knúti konungi, sem allir ero skylldastir at þióna sem kunno, oc settiz í skattlönd Knútz konungs; slíkt sama veitti hann Olafi Svia konungi; enn Jarlana Sveinn oc Hákon rak hann á brott af ættleifdom sínom; enn siálfs síns frændom var hann þó grimmaztr, er hann rak konunga alla á brot af Upplöndom; oc var þat þó vel sums kostar, þvíat

þeir höfdo ádr brugdit trú sinni oc svardögom vid Knút konung, enn fylgt þessom Olafi at hverio óradi er hann tók upp; nú sleit þeirra vináłto makliga; konungr veitti þeim meidzlor, enn tók undir sik ríki þeirra, enn eyddi sva í landino öllom tignom mönnom; enn sídan munot þer vita hvernog hann hefir búit vid lenda-menn: drepnir ero enir agætzto, enn margir ordnir landflótta fyrir hönom; hann hefir oc vída farit um land þetta ráns-flockom, brent herödin, enn drepit oc rænt fólkit; edr hverr er sá her ríkismanna, er eigi muni hönom eiga at hefna stórsaka? nú fer hann med útlendan her, oc er þat flest marka-menn oc stiga-menn, edr adrir ráns-menn; edr ætlit þer hann nú muno ydor linan, er hann fer med þetta ill-þydi, er hann gerdi þá slík hervirki, er allir lötto hann þeir er hönom fylgdo? kalla ec nú hitt rád, at þer minniz nú orda Knútz konungs, hvat hann red ydor, ef Olafr leitadi aptr til lands, at þer skylldot hallda frelsi ydro, því er Knútr konungr het ydor; hann bad ydor standa ímót oc rekaz af höndom óalldar-flocka slíka; er nú sá til at fara á móti þeim, oc drepa nidr ill-þydi þetta fyrir Ulf oc Örn, oc láta þar liggia sem höggvinn er, nema þer vilit helldr draga hræ þeirra í hollt oc hreysi; verdi engi sva diarfr at þá flyti til kyrkna, þvíat þat ero allt víkingar oc illgiorda-menn. Enn er hann hætti tölo þessi, þá gerdo menn mikinn róm at máli hans, oc gulldo allir iá-qvædi til at göra sem hann mællti.

## CAP. CCXXXI.

## FRÁ LENDOM-MÖNNOM.

Lendir-menn þeir er þar voro saman komnir, átto stefno oc tal sitt oc rædo, oc skipado þá til hverso fylkia skylldi, edr hverr höfdingi þá skylldi vera fyrir lidino. Þá mællti Kálfr Arnason, at Hárekr or Þiótto væri bezt til felldr at geraz höfudzmadr fyrir her þessom, þvíat hann er kominn af ætt Haralld ens Hárfagra; hefir konungr á hönom allþungan hug, fyrir sakir vígs Grankels, oc mun hann sitia fyrir hinom mestom afar-kostom, ef Olafr kemz til ríkis; er Hárekr reyndr miök í orostom oc madr metnadar-giarn. Hárekr svarar, at þeir menn væri þar til best fallnir, er þá voro á lettazta alldri; enn ec em nú, segir hann, madr gamall oc hrumr, oc eigi vel til orosto færr; er oc frændsemi mikill med ockor Olafi konungi, enn þótt hann virdi lítils þat vid mik, þá samir mer þó eigi at gánga framar í þenna ófrid móti hönom, enn einhverr annara í várom flocki; ertú, Þórir, vel til fallinn at vera höfudsmadr at hallda bardaga vid Olaf konung; ero þar oc ærnar sakir til; bædi átto hönom at hefna frænda láts, oc þess er hann rak þik útlaga af eignom þínom öllom; hefir þú oc því heitit Knúti konungi, oc sva frændom þínom, at hefna Asbiarnar frænda þíns; edr ætlar þú at betra færi muni gefaz vid Olaf, enn sva sem nú er, at hefna þeirrar svívirdingar allrar saman? Þórir svarar máli hans: ecki ber

ec traust til at reisa merki ímóti Olafi konungi, edr geraz höfdingi fyrir lidi þesso; hafa Þrændir her mann-múg mestan; kann ec stórlæti þeirra, at þeir muno ecki mer vilia hlyda, edr ödrom Háleyskom manni; enn ecki mun þurfa at minna mik á sakir þær, er ec á at giallda Olafi konungi; man ec þat mannlát er Olafr hefir af lífi tekit fióra menn, göfga alla at metordom oc kynferdom, Asbiörn bródorson minn, Þóri oc Griótgard systra-syni mína, oc födr þeirra Ölvi; oc em ec hvers þeirra skylldr at hefna. Nu er þat frá mer at segia, at ec hefi valit til af húskörlom mínom menn XI þá er snarpastir ero, oc ætla ec þat, at ver skylim eigi vid adra meta at skipta höggom vid Olaf konung, ef ver kommumz í færi um þat.

## CAP. CCXXXII.

## TALA KÁLFS ÁRNASONAR.

Kálfr Arnason tók þá til máls: þess mano ver þurfa um mál þat er ver höfom upptekit, at gera þat eigi at hegóma-máli, er herinn er saman kominn; munom ver annars þurfa, ef ver skulom hallda orosto vid Olaf konung, enn þess, at hverr færi sik undan öllom vanda; þvíat sva megom ver tilætla, þó at Olafr konungr hafi eigi lid mikit, hiá her þeim er ver höfom, þá er þar öruggr odd-vitinn, oc mun allt lid hans vera hönom tryggt til orosto oc fylgdar; enn ef ver erom nú nockot skelfir, er hellzt

skulom vera forstiórar lids várs, oc viliom ver eigi treysta herinn, oc eggia oc veita fyrir at gánga herinom, þá mun þat allr fiölldi vorra manna, at stall mun drepa hiarta, oc því næst hverr ser ráds leita; enn þótt her se herr mikill saman kominn, þá muno ver þó koma í þá raun, ef ver hittunzt oc Olafr konungr med her sinn, at oss er ósigrinn viss, nema ver seom skelegir siálfir rádamennirnir enn nu grin geysiz fram med eino samþycki; enn ef eigi verdr sva, þá er oss betra at hætta eigi til bardaga, oc mun þá sá kostr audsær þickia at hætta til miskunar vid Olaf konung, ef hann þótti þá hardr, er minni voro sakir til, enn nú mun hönom þikia; enn þó veit ek, at sva er mönnom skipat í lidi hans, at mer mun þar grida kostr, ef ec vil þess leita. Nú ef þer vilit sem ec, þá skallto, Þórir mágr, oc þú, Hárekr, gánga undir merki þat er ver skulom allir uppreisa oc fylgia sídan; geromz ver allir snarpir oc skelegir í þessom rádom er ver höfom upptekit, oc hölldom sva fram bónda-herinom, at þeir megi eigi finna á oss ædro; oc mun þat al-þyduna frameggia, ef ver göngom gladir til at fylkia, oc eggia lidit. Enn er Kálfr hafdi lokit at tala örendi sitt, þá vikoz allir vel undir rædo hans, oc sögdo at þeir villdo þat allt hafa, er Kálfr sæi rád fyrir þeim; vildo þeir þá allir, at Kálfr væri höfdingi fyrir lidino, oc skipadi þar hveriom í sveit sem hann villdi.

## CAP. CCXXXIII.

## FRÁ MERKISBURDI LENDRA-MANNA.

Kálfr Arnason setti þá upp merki, oc skipadi þar húskörlom sínom undir, oc þar med Háreki or Þiótto, oc hans lidi. Þórir Hundr med sinni sveit var i öndverdo briósti fylkingar fyrir merkino; þar var oc valit lid af bændom á tvær hlidar Þóri, þat sem snarpazt var oc best vapnat; var sú fylking gör bædi laung oc þyck, oc voro þar í fylkingo Þrændir oc Háleygir; enn á hægra veg frá fylkingonni var önnor fylking sett; enn til vinstri handar fra adalfylkingo höfdo þeir fylking Rygir oc Hördar, Firdir oc Sygnir, oc höfdo þar et þridia merki.

## CAP. CCXXXIV.

## FRÁ ÞÓRSTEINI KNARRARSMID.

Þórsteinn Knarrar-smidr er nefndr madr, hann var kaupmadr oc smidr, mikill oc sterkr, kappsmadr mikill um alla luti, víga-madr mikill; hann hafdi ordit ósáttr vid Olaf konung, oc hafdi konungr tekit af hönom kaup-skip nytt oc mikit, er hann hafdi gert, var þat fyrir óspektir Þórsteins, oc þegngilldi er konungr átti. Þórsteinn var þar í hernom; hann geck fyrir framan fylking, oc þar til er stód Þórir Hundr; hann mællti sva: her vil ec í sveit vera, Þórir, med ydor, þvíat ec ætla, ef vid Olafr konungr hittunzt, at bera fyrstr vapn a hann, ef ec má sva nær verda staddr, at giallda hönom skip-

tökuna, er hann rænti mik skipi því, er eitt er bezt haft í kaupferdom. Þeir Þórir tóko vid Þórsteini; oc geck hann í sveit med þeim.

## CAP. CCXXXV.

## FRÁ LIDSKIPAN BÆNDA.

Enn er skipat var til um lid oc fylkingar bænda; þá tölodo lendir-menn, oc bádo lidsmenn gefa gaum at um stödor sínar, hvarr hveriom var skipat, edr undir hverio merki hverr skylldi vera, edr hvart fyrir merkino, edr hverso nær hönom var skipat merkino; bádo þeir menn þá vera vakra oc skióta at gánga í fylking, þvíat þeir átto þá enn leid lánga miök at flytia herinn, oc var þess ván, at fylkingar mundo bregdaz í her-gaungunni. Sídan eggiodo þeir lidit; mællti Kálfr, at allir þeir menn, er harma sinna ætto at ræka vid Olaf konung, skylldo þá framgánga undir þau merki, er fara skylldo á móti merki Olafs konungs, vera þá minnugir þeirra meingerda er hann hafdi þeim veitt, sagdi at þeir mundo eigi komaz í betra færi at hefna harma sinna, oc frelsa sik sva frá þeirri ánaud oc þrældóm, er hann hafdi þá undirlagt: veri nú sá, segir hann, bleydi-madr, sem eigi berzt nú sem diarfligazt, þvíat eigi er saklaust vid þá er ímóti ydor ero; muno þeir eigi ydor spara ef þeir komaz í færi. At máli hans vard allmikill rómr; var þá kall mikit oc eggian um allan herinn.

CAP.

## CAP. CCXXXVI.

## FRÁ HER KONUNGS OC BÆNDA.

Sídan flutto bændor her sinn til Stiklastada; þar var Olafr konungr fyrir med síno lidi; foro í öndordo lidino Kálfr oc Hárekr fram med merkino; enn er þeir mættoz, þá tókz eigi allskiótt árásin, þvíat bændor frestodo atgaungo, fyrir þá sök at lid þeirra fór hvergi nær allt iafnfram, oc bido þeir þess lids er sídar fór. Þórir Hundr hafdi farit sídarst med sveit sinni, þvíat hann skylldi tilgæta, at eigi slægiz aptr lidit þá er her-ópit qvæmi upp, edr lidit sæiz; oc bido þeir Kálfr Þóris. Bændor höfdo þat ord-tak í her sinom at eggia lid sitt í orosto: framm, framm bóand-menn. Olafr konungr gerdi eigi atgöngona, fyrir því at hann beid Dags oc lids þess er hönom fylgdi: Sá þeir konungr þá lid Dags hvar þat fór. Sva er sagt at bendor höfdo eigi minna lid, enn hundrat hundrada. Sigvatr skálld qvad sva:

Olmr erumk harmr er hilmir
hafdi gulli vafdan
iöfr kreisti sá austan
allfátt medal-kafla.
Gagn fengo því þegnar
þeir at hálfo fleiri
hvotad tældi þat hilldar
hvarungi fra ec varo.

## CAP. CCXXXVII.

## FUNDR KONUNGS OC BÆNDA.

Þá er lidit hvarttveggia stód, oc kendoz menn, þá

mællti konungr: hví erto þar; Kálfr, þvíat ver skildomz vinir sudr á mæri; illa samir þer at beriaz ímóti oss, edr skióta geir-skott í lid várt, þvíat her ero fiórir brædor þinir. Kálfr mællti: margt fer nú annan veg, konungr, enn bezt mundi sama; skildoz þer sva vid oss, at naudsyn mundi þykia at ſridaz vid þá er eptir voro; verdr nú hverr at vera þar sem staddr er: enn sættaz mundo vid enn, ef ec skylldi ráda. Þá svarar Finnr: þat er mark á um Kálf ef hann mælir vel, at þá er hann rádinn til at gera illa; konungr mællti: vera kann þat Kálfr, at þú vilir nú sættaz, enn eigi þickir mer þer bændornir láta fridliga. Þá svarar Þórgeir af Kvistzstödom: þer skulot nú hafa slikan frid sem margir hafa ádr af ydor haft, oc munot þer nú þess giallda; konungr svarar: eigi þarfto at fysaz sva miök til várs fundar, þvíat eigi mun þer sigurs audi í dag á oss, þvíat ec hefi hafit þik til ríkis af litlom manni.

## CAP. CCXXXVIII.

## UPPHAF STIKLASTADA ORROSTO.

Þórir Hundr kom þá, oc geck fram med sveit sína fyrir merkit, oc kalladi: framm, framm bóandmenn; lusto þá bóandmenn upp her-ópi, oc skuto bædi örom oc spiótom. Konungs menn æpto þá her-óp, enn er því var lokit, þá eggiodo þeir fram lidit, oc sögdo: framm, framm kristzmenn, kross-menn, kongsmenn. Enn er þetta heyrdo bændor þeir er útstó-

do i arminn, þá mællto þeir slikt hit sama sem þeir heyrdo adra mæla, enn er adrir bændor heyrdo þat, þá hugdo þeir þat vera konungs menn, oc báro vapn á þá, oc bördoz þeir þá siálfir, oc fell margt ádr þeir kannadiz vid. Vedr var fagurt oc skein sól í heidi; enn er orosta hófz, þá laust roda á himin, oc sva á sólina, oc ádr enn letti, gerdi myrkt sem um nótt. Olafr konungr hafdi fylkt lidi síno þar er hæd nockor var, oc steyptoz þeir ofan á lid bónda, oc veitto sva hart athlaupit, at fylking bænda bognadi fyrir, sva at þar stód þá brióstit konungs fylkingar, sem ádr höfdo stadit þeir er efztir voro í bóanda lidi; oc var þá bænda lidit margt búit at flyia, enn lendir-menn oc lendra-manna húskarlar stódo fast, oc vard þá allsnörp orosta. Sva segir Sigvatr:

Vítt var folld und fótom,
fridbann var þar mönnom,
þá red i baud bráda
bryniat fólk at dynia.
Þá er, árliga ærir
álms med biarta hiálma
mikill vard á stad Stikla
stálgustr ofan þusto.

Lendir-menn eggiodo lid sitt, oc knúdoz til framgöngo. Þess getr Sigvatr:

Fór í fylking þeira
fram idraz nú midri
snarir fundoz þar þrænda
þess verks bændor merki.

Þá sótti lid bóanda at öllom megin; hiuggo þeir er fremztir stódo, enn þeir er þar voro næst lögdo spiótom, enn allir þeir er sidar gengo skuto spió–

tom edr örom, edr köstodo grióti edr handöxom edr skepti-flettom; gerdiz þá brátt bardagi mannskædr, oc fell margt af hvarotveggiom. I fyrsto hrid fello þeir Arnliótr Gellina oc Gauka-Þórir oc Afarfasti, oc þeirra sveit öll, oc hafdi hverr þeirra mann fyrir sik, edr tvo, edr sumir fleiri; þá þynntiz skipanin fyrir framan merki konungs; bad konungr þá Þórd bera fram merkit, enn konungr fylgdi siálfr merkino, oc sú sveit manna, er hann hafdi valit til at vera ser nær í orosto; voro þeir menn í hans lidi einna vapn diarfaztir, oc bezt búnir. Þess getr Sigvatr:

Mest fra ec merkiom næstan
minn drottinn fram síuom
stöng ód fyrir gram gánga,
gnógr styr var þar fyrri.

Þá er Olafr konungr geck fram or skialld-borginni oc í öndorda fylking, oc bændor siá í andlit hönom, þá ræddoz þeir, oc felloz þeim hendor. Þess getr Sigvatr:

Geirs bygg ec grimmlikt veri
gunnreifom Oleifi
lögbreitendom líta
lións í hvassar siónir.
Þordot þrænskir fyrdar
þótti hersa drottinn
ógrligr í augo
orm-frán siá hánom.

Þá vard allhörd orosta; geck konungr hart fram siálfr í högg-orosto. Sva segir Sigvatr:

Raud í recka blódi
rönd med gumna höndom

dreyrog sverd þar er dyran
drótt þiód-konung sótti.
Oc at iárna leiki
Inn-þrændom let finnaz
rækinn gramr í reikar
raud brúnan hiör túnom.

## CAP. CCXXXIX.

## FALL ÞÓRGEIRS Á KVIZTSTÖDOM.

Olafr konungr bardiz þá alldiarfliga; hann hió til Þórgeirs af Kvistzstödom lendsmans, þess er fyrr er getit, um þvert ándlit oc í sundr nefbiörgina á hiálminom, oc klauf höfudit fyrir nedan augo, sva at nær tók af; enn er hann fell, mællti konungr: hvart er þat satt, er ec sagda þer, Þórgeir, at þú mundir ecki sigraz í ockrom vidrskiptom. I þeirri svipan skaut Þórdr nidr merki-staunginni sva hart at staungin stód; þá hafdi Þórdr fengit banasár, oc fell hann þar undir merkino; þá fello þar oc Þórfidr Mudr, oc Gitzor Gullbrárskálld, oc höfdo hann sótt tveir menn, dráp hann annan þeirra, enn særdi annan, ádr hann fell. Sva segir Hofgarda-Refr:

Einn bádi gny gunnar
gall bál hárs stála
rimmo askr vid röskva
regndiarfar tvo þegna.
Dal stef pir hió draupnis
döggfrey bana höggvi
(hann raud iárn) enn annan
árstrauma vann sáran.

Þávard þat, er fyrr var sagt, at himinn var heidr,

enn sól horfin at syn, oc gerdi myrkt. Þess getr Sigvatr skálld:

Undr láta þat ytar
eigi smátt er máttit
skeniörduńgom skordo
skylaus rödull hlyia.
Driúg vard á því dægri
dagr nádit lit fögrom
orosto fra ec austan
atburd konungs furda.

I þenna tíma kom Dagr Hringsson med lid þat er hann hafdi haft, oc tok hann þá at fylkia lidi síno, oc setti upp merki sitt; enn fyrir því at myrkr var mikit, þá vard ei sva skiótt um atgaunguna, þvíat þeir visso eigi víst hvat fyrir var; enn þó snero þeir at þar sem fyrir voro Rygir oc Hördar; voro þessir atburdir margi iafnsnemma, edr sumir litlo fyrir edr sídar.

## CAP. CCXL.

## FALL OLAFS KONUNGS.

Olafr oc Kálfr heto frændor Kálfs Arnasonar; þeir stodo á adra hlid hönom med mikit oc hraust lid. Kalfr var son Arnfinnz Armodssonar, brodrson Arna Armódssonar; á adra hlid Kálfi Arnasyni geck fram Þórir Hundr. Olafr konungr hió til Þóris Hunds um herdarnar þverar. Sverdit beit eigi, enn sva syndiz sem dyst ryki or hreinbiálbanom. Sva qvad Sigvatr:

Milldr fann gerst hve galdrar
gramr siálfr megin rammir

fiölkunnugra Finna
fullstórom barg þóri.
þá er hvr-sendir Hundi
húna gulli búno
slæt red sízt at bíta
sverdi laust um herdar.

þórir hió til konungs; skiptoz þeir þá nockorom höggom vid, oc beit ecki sverd konungs þar er hreinbiálbinn var fyrir, enn þó vard þórir sár á hendi; enn qvad Sigvatr:

þollr dylr sadrar snilli
seims enn oc fra heima;
hverr sæi hunds verk stærri
hugstórs er fryr þóri.
Enn þvergarda þordi
þróttr hinn er fram sótti
glyggs í gegn at högga
gunn-rannz konung manni.

Konungr mællti til Biarnar Stállara: ber þú hundinn er eigi bita iárn. Biörn sneri öxinni i hendi ser, oc laust med hamrinom; kom þat högg á öxl þórir, oc vard allmikit högg, oc hratadi þórir vid; enn því iafnskiótt sneri konungr á móti þeim Kálfs frændom, oc veitti banasár Olafi frænda hans. þá lagdi þórir Hundr spióti til Biarnar Stallara á midiom hönom, oc veitti hönom banasár. þá mællti þórir: sva beitom ver biörnona. þórsteinn Knarrar-smidr hió til til Olafs konungs med öxi, oc kom þat högg á fótinn vinstra fyrir ofan kné. Finnr Arnason drap þegar þórstein; enn vid sár þat hneigdiz konungr upp vid stein einn, oc kastadi sverdino, oc bad ser Gud hiálpa. þá lagdi þórir Hundr spióti til hans;

kom lagit nedau undir bryniona, oc rendi upp i qvidinn. Þá hió Kálfr til hans; kom þat högg enom vinstra megin utan á halsinn. Menn greinaz at því, hvart Kálfr veitti konungi sár á hálsinom. Þessi þriú sár hafdi Olafr konungr til lífláts; enn eptir fall konungs, þá fell flest öll sú sveitin er fram hafdi gengit med konungi. Biarni Gullbrárskálld qvad þetta um Kálf Arnason:

Iörd retto vígi at varda
vígreifr fyri Oleifi;
brauzto vid bragning nyztan
bág þat qved ec mik frago.
Fyrr geckto á Stad Stikla
stórverkr enn ód merki
satt er at sókn um veittir
sniallr unns gramr var fallinn

Sigvatr skálld qvad þetta um Biörn Stallara:

Biörn fra ec auk af örnom
endr stallorom kendi
hug hve hallda dugdi
hann sótti fram drottinn,
Fell í her med hollom
hann verdungar mönnom
le fdr er at hilmis höfdi
hródr audigs sá daudi.

## CAP. CCXLI.

## UPPHAF DAGS HRÍDAR.

Dagr Hríngsson hellt þá upp orosto, oc veitti ena fyrsto atgaungo sva harda, at bændor rucko fyrir, enn sumir snero á flótta; þá fell fiöldi lids af bændom, enn þessir lendir-menn: Erlendr or Gerdi, Aslákr af Finneyo; var þá merki þat nidrhöggvit,

er þeir höfdo ádr medfarit; var þá orosta en ákafasta; köllodo menn þat Dags-hrid. Þá snero þeir á móti Dag Kálfr Arnason oc Hárekr or Þiótto oc Þórir Hundr, med þá fylking er þeim hafdi fylgt; var þá Dagr borinn ofrlidi, oc sneri hann þá á flótta, oc allt lid þat er eptir var; oc var þar dalr nockor upp, sem megin flóttinn fór; fell þar þá margt lid; dreifdiz þá fólkit tveggia vegna í brot; voro margir menn sárir miök, enn margir sva miök mæddir, at til einskis voro færir. Bændor ráko skamt flótta, þvíat höfdingiar snero brátt aptr, oc þar til er valrinn var, þvíat margir átto þar at leita eptir vinom sínom oc frændom.

## CAP. CCXLII.

## JARTEGNIR OLAFS KONUNGS VID ÞÓRI HUND.

Þórir Hundr geck þar til er var lik Olafs konungs, oc veitti þar umbúnat, lagdi nidr likit oc retti, oc breiddi klædi yfir; oc er hann þerdi blód af andlitino, þá segir hann sva sídan, at andlit konungs var sva fagurt, at rodi var í kinnom sem þá at hann svæfi, enn miklo biartara enn ádr var medan hann lifdi. Þá kom blód konungsins á hönd Þóri, oc rann uppá greypina, þá er hann hafdi ádr sár fengit, oc þurfti um þat sár eigi umband þadan í frá, sva gröri þat skiótt; vattadi Þórir siálfr þenna atburd, þá er helgi Olafs konungs kom upp fyrir al-

þydo; vard þórir Hundr fyrst til þess at hallda upp helgi konungsins þeirra ríkis-manna, er þar höfdo verit í mótstödo flocki hans.

## CAP. CCXLIII.
## FRÁ BRÆDROM KÁLFS ÁRNASONAR.

Kálfr Arnason leitadi at brædrom sínom, er þar voro fallnir; hann hitti þórberg oc Finn; oc er þat sögn manna, at Finnr kastadi at hönom saxi, oc vildi drepa hann, oc mællti til hans hördom ordom, kalladi gridníding oc drottins-svika. Kálfr gaf eigi því gaum, oc let Finn bera oc þá báda brot or valnom; var þá leitat um sár þeirra, oc höfdo þeir engi sár banvæn; höfdo þeir mest fallit fyrir vapnaburd oc mædi. þá leitadi Kálfr at flytia brædor sina ofan til skips, oc fór med þeim siálfr. Enn þegar er hann sneri í brot, þá fór í brot allt búandalid þat er þar átti heimili í nánd, nema þeir menn er þar störfodo at frændom sínom oc vinom þeim er sárir voro, edr líkom þeirra er falnir voro; voro sárir menn fluttir heim á bæinn, sva at hvert hús var fullt af þeim, enn tialldat úti yfir sumom. Enn sva undarliga margt fólk sem safnaz hafdi í bónda-herinn, þá þótti mönnom þat eigi midr frá líkindom, hvernog skiótt ruddi samnadinn, þá er til þess tok; oc var þat miök til, at et mezta fiölmennit hafdi þar samnaz or herödom, oc voro miök heimfúsir.

CAP. CCXLIV.

FRÁ VERDÆLOM.

Bændor þeir er heimili átto í Veradal, gengo til fundar vid höfdingia, Hárek oc Þóri, oc kærdo fyrir þeim sín vandrædi, sögdo sva: flóttamenn þessir, er her hafa undankomiz, muno fara upp eptir Veradal, oc muno búa óheppiliga at heimilom várom, enn oss er ei fært heim, medan þeir ero her í dalnom. Nú gerit sva vel, farit eptir þeim med lidi, oc látit ei mans-barn undan komaz med fiörvi, þvíat slíkan kost mundo þeir oss ætla, ef þeir hefdi betr haft í várom fundi, oc sva muno þeir enn gera, ef ver hittumz sídar, sva at þeir hafi meira kost enn ver; kann vera at þeir dveliz í dalnom, ef þeir vænta ser einskis ótta, muno þeir þegar fara óspakliga um bygdir várar: Ræddo bændor um þetta mörgom ordom oc eggiodo med ákafa miklom, at höfdingiar skylldo fara oc drepa þat fólk sem undan hafdi komiz. Oc er höfdingiar ræddo þetta sín í milli, þá þótti þeim bændor margt satt sagt hafa í sinni rædo: Redo þeir þat af, at þeir Þórir Hundr sneroz til ferdar med Verdælom, oc hafdi hann DC manna þat er hans lids var; fóro sídan, tók þá at nátta; leitti Þórir eigi fyrr ferdinni, enn hann kom um nóttina á Súlo; oc spurdi hann þar þau tídindi, at um qvölldit hafdi þar komit Dagr Hríngson, oc margar adrar sveitir af Olafs konungs mönnom, oc höfdo haft þar náttverdar-dvöl, enn farit sídan á fiöll upp. Þá segir Þórir, att hann mundi ecki rekaz

eptir þeim um fiöll; oc sneri Þórir þá aptr ofan í dalinn, oc fengo þeir þá fátt drepit af mönnom; sídan fóro bændor til heimila sinna; enn Þórir fór eptir um daginn, oc hans lid út til skipa sinna; enn konungs menn, þeir er færir voro, fordodo ser, leyndoz i skógom, enn sumir höfdo hiálp af mönnom.

## CAP. CCXLV.

## FRÁ HARALLDI SIGURDARSYNI.

Haralldr Sigurdarson var miök sárr, enn Rögnvalldr Brúsason flutti hann til bónda nockrs um nóttina eptir bardagann; tók sá bóndi vid Haralldi, oc græddi hann á laun. Sídan fær hann son sinn at fylgia hönom í brott; fóro þeir hulldo höfdi um fiöll oc eydi-merkor, oc komo fram á Jamtalandi. Haralldr Sigurdarson var þá XV vetra er Olafr konungr fell. Haralldr fann Rögnvalld Brúsason á Jamtalandi; oc fóro þeir bádir samt austr í Gardaríki til Jarizleifs konungs, sva sem sagt er í sögo Haralldz Sigurdarsonar.

## CAP. CCXLVI.

## FRÁ ÞÓRMÓDI KOLBRÚNAR-SKÁLLD.

Þórmódr Kolbrúnarskálld var í orosto undir merkiom Olafs konungs; oc er konungr var fallinn, oc atsókn var sem óduzt, þá fell konungs lid hverr vid annan, enn þeir voro flestir sárir, er uppi stódo.

Þórmóðr vard sárr miök; gerdi hann þá sem adrir, at allir opodo þar frá er mestr þótti lífs háski, enn sumir runno; þá hófz sú orosta er Dags hríd er köllot; sótti þá þángat til allt konungs lidit, þat er vapn-fært var, enn Þórmódr kom þá ei í orosto, þvíat hann var óvígr bædi af sárom oc mædi; oc stód hann þar hiá felögom sínom, þótt hann mætti eigi annat athafaz; þá var hann lostinn med öro í sídona vinstri; braut hann af ser örvar skaptit, oc geck þá brot frá orosto heim til húsanna, oc kom at hlödo nockorri; var þat mikit hús. Þórmódr hafdi sverd bert í hendi, oc er hann geck inn, þá geck madr út ímóti hönom; sá mællti: furdo ill læti ero her inni, veinan oc gaulan; skömm mikill er, at karlmenn hraustir skuli eigi þola sár sín; oc vera má, at konungs menn hafi vel framgengit, enn illa þola þeir sár sín, segir hann. Þórmódr svarar: hvert er nafn þitt? hann nefndiz Kimbi. Þórmódr sagdi: varto í bardaga? var ec, segir hann, med bændom, er betr var. Erto nockot sárr? segir Þórmódr, lítt, sagdi Kimbi; eda varto í bardaga? Þórmodr svarar: var ec med þeim er betr höfdo. Erto nockot sár? segir Kimbi; litit er um þat, segir Þórmódr. Þá sá Kimbi, at Þórmódr hafdi gullhríng á hendi; hann mællti: þú munt vera konungs madr, fá þú mer gullhrínginn, enn ec mun leyna þer; bændor muno drepa þik, ef þú verdr á veg þeirra. Þórmódr segir: haf þú hríng, ef þú nåir; látit hefir ec nú meirra. Kimbi retti fram höndina,

oc villdi taka hringinn. Þórmódr sveifladi til sverdino, oc hiá af hönom höndina; oc er sva sagt, at Kimbi bar sár sitt engom mun betr, enn hinir er hann haldi fyrr áleztat: Fór Kimbi brot, enn Þórmódr settiz nidr i hlödunni, oc sat þar um ríd, oc heyrdi á rædor manna; þat var mællt þar mest, at hverr segir þat er sed þóttiz hafa í orosto, oc rætt um framgöngor manna; lofodo sumir mest hreysti Olafs konungs, enn sumir nefndo adra menn til ecki sidr. Þá qvad Þórmódr:

Ört var Olafs hiarsa
ód fram kongr í blódi
rekin ero stál á Stikla
stödom qvaddi lid bödvar.
El Þolla fra ec alla
iálfads nema gram siálfan
reyndr var flestr í fastri
fleina drífo ser hlífa.

## CAP. CCXLVII.

## DAUDI ÞÓRMÓDAR KOLBRÚNAR-SKÁLLDS.

Þórmódr geck sídan í brot til skemmo nockorrar, geck þar inn; voro þar margir adrir menn inni fyrir, sárir miök, var þar at kona nockor, oc batt um sár manna; elldr var á golfino, oc vermdi hon vatn til at lægia sárin; enn Þórmódr settiz nidr fyrir dyr utan; þar geck annar madr út, enn annar inn, þeir er störfudo at sárom mönnom. Þá sneri einnhverr at Þórmódi, sá á hann, oc mællti sídan: hví erto

sva fölr, erto sár? edr fyri hví bidr þú eigi lækningar? þórmódr qvad þá viso:

Emkak riódr enn raudom
rædr grönn skögol manni
haukasetrs hin hvíta
byggr fár um mik sáran.
Hitt velldr mer at melldrar
mordveniandi fenio
diúp oc Danskra vapna
Dags hrídar spor svída.

Sídan stód þórmódr upp, oc geck innar at elldinom, oc stód þar um hríd; þá mællti læknirinn til hans: þu madr gack út, oc tak mer skídin er her liggia fyrir dyrom úti; hann geck út, oc bar inn skída fángit oc kastadi nidr á gólfit. þá sá læknirinn í andlit hönom, oc mællti: furdo bleikr er þessi madr; hví erto slikr? þá qvad þórmódr:

Undraz öglis landa
eik hví ver seim bleikir
fár verdr fagr af sárom
fann oc örva drif svanni.
Mik fló málmr hinn klöqvi
magni kördr í gögnom
hvast beit hiarta et næsta
hættlikt iárn er ec vætti.

þá mællti læknirinn: látto mik siá sár þín, oc mun ec veita umbúnat. Sidan settiz þórmódr nidr, oc kastadi klædom af ser, enn er læknir sá hans sár, þá leitadi hon um þat sár, er hann hafdi á sídonni; kendi hon at þar stód iárn í, enn þat vissi hon eigi til visso, hvert iárnit hafdi snúit; hon hafdi þar gört í steinkatli, stappat lauk oc önnor grös, oc vellt

þat saman, oc gaf at eta enom sárom mönnom, oc reyndi sva hvart þeir hefdo holsár, þvíat kendi af laukinom út or sári þvi er á hol var; hon bar þat at Þórmódi, bad hann eta; hann svarar: ber brott þetta, ecki hefir ec graut-sótt. Sídan tok hon spenni-taung, oc villdi draga út iárnit, enn þat var fast oc geck hvergi, stód oc lítit út, þvíat sárit var sollit. Þá mællti Þórmódr: sker þú til iárnsins sva at vel megi ná med taunginni; fá mer sidan taungina, oc lát mik kippa; hon gerdi sem hann mællti. Þá tók Þórmódr gull-hríng af hendi ser, oc feck lækninom, bad hana gera af slíkt er hon villdi; gódr er nautr at, sagdi hann, Olafr konungr gaf mer hring þenna í morgin. Sídan tók Þórmódr taungina, oc kippti á brot iárnino, enn þar voro á krókar, oc lágo þar á taugar af hiartano, sumar raudar, sumar hvítar; oc er hann sá þat, mællti hann: vel hefir konungrinn alit oss, feitt er mer enn um hiarta-rætor. Sídan hne hann aptr, oc var þá daudr; oc lykr þar frá Þórmódi at segia.

## CAP. CCXLVIII.
## FRÁ ATBURDOM OROSTO.

Olafr konungr fell midvikodag IV Kalendas Augusti mánadar; þat var nær midiom degi er þeir fundoz, enn fyrir mid-munda hófz orostan, enn hann

fell

fell fyrir nón, enn myrkrit hellzt frá mid-munda til nóns. Sighvatr skálld segír sva frá lykdom orostunar:

Hörd er sítz her menn firdo
hlíf raufz fyrir gram lífi
audn at engla strídi
ómiúk konung siúkan.
Ör brá Olafs fiörvi
ölld þars herr klauf skiölldo
fólks odda geck fylkir
fund enn Dagr hellt undan.

Oc enn qvad hann þetta:

Ádr vito eigi meidar
ógnarskers ne hersar
þiód red þengils dauda
þann styrk búand-manna.
Er slíkan gram sóknom
sár ellds vidir felldo
mörg lá dyr í dröra
drótt sem Olafr þótti.

Bændor rænto ecki valinn, oc vard þegar eptir orosto helldr sva, at hræzlo sló á marga þá er ímóti konungi höfdo verit; enn þó helldo þeir illvilianom, oc dæmdo þat sín í millom, at allir þeir menn, er med konungi höfdo fallit, skylldo hafa eingan þann umbúning edr gröpt, sem gódom mönnom sómdi, oc köllodo þá alla ránsmenn oc útlaga. Enn þeir menn er ríkir voro, oc þar átto frændor í valnom, gáfo eigi því gaum; flutto þeir sína frændor til kyrkna, oc veitto umbúnad.

## CAP. CCXLIX.

## JARTEGNIR VID BLINDAN MANN.

Þórgils Halmoson oc Grimr son hans fóro til valsins um qvölldit, er myrkt var ordit; þeir tóko upp lík Olafs konungs, oc báro brott þar til er var húskytia nockor lítil oc aud, annan veg frá bænom, höfdo liós med ser oc vatn; tóko þeir þá klædi af líkino, oc þógo líkit, oc sveipto sídan med líndúkom, oc lögdo þar nidr í húsino, oc huldo med vidom, sva at eingi mátti siá, þótt menn qvæmi í húsit; gengo þeir sídan í brott, oc heim til bæarins. Þar hafdi fylgt hernom hvaromtveggia margt staf-karlar, oc þat fátækisfólk er ser bad matar, enn þat qvelld eptir bardagann hafdi þat fólk þar margt dvaliz, oc er náttadi, leitadi þat ser herbergis um öll hús, bædi smá oc stór. Þar var einn blindr madr, sá er sagt er frá; hann var fátækr, oc fór sveinn hans med hönom, oc leiddi hann; þeir gengo út um bæinn, oc leitodo ser herbergis; þeir komo at því sama eydi-húsi; voro dyrnar sva lágar, at nær vard at kriúpa inn; oc er hinn blindi madr kom inn í húsit, þá þreifadiz hann fyrir um gólfit, leitadi hvar hann mundi mega nidrleggiaz; hött hafdi hann á höfdi, oc steyptiz hattrinn fyrir andlit hönom er kann laut nidr; hann kendi fyrir höndonom, at tiörn var á gólfino; þá tók hann upp hendinni vatri, oc retti upp höttinn, oc komo fingornir upp vid augon, enn þegar brá kláda á hvarmana sva miklom, at hann strauk med fingronom vátom um augon siálf; sídan hopa-

di hann út or húsino, oc sagdi at þar mátti ecki liggia inni, þvíat þar var allt vátt; oc er hann kom út or húsino, þá sá hann fyrst skil handa sinna, oc allt þat er nær hönom var, þat er hann mátti siá fyrir nátt-myrkri; hann geck þegar heim til bæiarins oc inn i stofona, oc sagdi þar öllom mönnom, at hann hafdi fengit syn sína, oc hann var þá skygn madr: enn þat visso þar margir menn, at hann hafdi lengi blindr verit, þvíat hann hafdi þar ádr verit, oc gengit um bygdir; hann sagdi at þá sá hann fyrzt, er hann kom út or húsi nockoro litlo oc vando; oc var þar vátt allt inni, segir hann; greip ec í vætona, oc gnera ec vátom höndom um augo mer; hann segir oc hvar þat hús stód: enn þeir menn er þar voro, oc sá þessi tídindi, undrodoz miök um þenna atburd, oc ræddo sín í milli hvat þar mundi inni vera í því húsi; enn Þórgils bóndi oc sonr hans Grímr þóttoz vita hvadan af mundi vera þessi atburdr; þeir ræddoz miök, at óvinr konungs mundo fara oc rannsaka húsit; sídan leyndoz þeir i brott oc fóro til hússins oc tóko likit oc flutto i brot út í hagann, oc fólo þar, fóro sídan til bæiar, oc svafo af þá nótt.

## CAP. CCL.

## FRÁ ÞÓRI HUND.

Þórir Hundr kom fimta dag ofan or Veradal út á Stiklastadi, oc fylgdi hönom lid margt; þar var oc margt fyrir-fólk oc bændalid; var þá enn rofinn val-

rinn; flutto menn þá brott lík frænda sinna oc vina, oc veitto hiálp sárom mönnom þeim er menn villdo græda, enn fiölldi mans hafdi þá andaz sídan er lokit var bardaga. Þórir Hundr geck þar til er konungrinn hafdi fallit, oc leitadi líksins; enn er hann fann þat eigi, spurdiz hann fyrir, ef nockor madr kynni segia hönom hvar líkit væri komit; enn þat vissi engi et segia. Þá spurdi hann Þórgils bónda, ef hann vissi nockot til hvar lík konungsins mundi vera. Þórgils svarar: ecki var ec í bardaga; veitt ec þadan fá *tídindi* segia; fara nú margar sögor frá; þat er nú sagt, at Olafr konungr hafi hittr verit í nótt uppi hiá Staf, oc sveit manna med hönom: enn ef *hann* hefir fallit *i* orosto, þá *muno* sveitungar ydar hafa fólgit lík hans í holltom edr hreysom. Enn þótt Þórir þættiz vita et sanna at konungr var fallin, þá *tóko* þó margir undir, oc gerdo þann kur, at hann mundi hafa á brot komiz or orostunni, oc skamt mundi til, at hann mundi enn aptr koma med her á hendor þeim: Fór þá Þórir til skipa sinna, oc sídan út eptir Firdi; þá tók at dreifaz allt bónda-lidit, oc flutto í brott ena sáro menn alla þá sem hrærandi voro.

## CAP. CCLI.

## LÍKFERD OLAFS KONUNGS.

Þórgils Halmoson oc þeir Grímr fedgar höfdo í sinni vardveitzlo lík Olafs konungs, oc voro um þat

miök hug-siukir, hvernog þeir fengi tilgætt, at eigi nædi óvinir konungs at misfara med likinó, þvíat þeir heyrdo þær rædor bænda, at þat rád mundi tilliggia, ef lik konungs finniz, at brenna þat edr flytia út á sæ, oc söcqva því nidr; þeir fedgar höfdo set um nóttina sva sem kyndil-liós brynni þar yfir, er lík Olafs konungs var í valnom, oc sva sídan er þeir höfdo fólgit likit, þá sá þeir iafnan um nætor liós yfir líki konungsins; þeir ræddoz at óvinr konungs mundi leita liksins þar er var, ef þeir sæi þessi merki; var þeim Þórgilsi títt at flytia líkit í brott, til þess stadar nockors er þat væri vel komit. Þeir Þórgils gerdo kisto, oc vöndudo sem mest, oc lögdo þar í lik konungs; enn sídan gerdo þeir adra kisto, oc lögdo þar í hálm oc griót, sva at þat skylldi vera mans-höfgi, oc lykdo þá kisto vandliga; oc er brott var af Stiklastödom allt lid bænda, þá biuggo þeir Þórgils ferd sína; feck hannródrar-ferio nockora; voro þeir saman menn siö edr átta oc allir frændor edr vinir Þórgils; þeir flutto lík konungs til skips leyniliga, oc sætto kistona undir þilior nidr; kisto þá höfdo þeir oc med ser, er griótit var í, oc setto hana í skip, sva at allir menn mátto siá, fara sídan út eptir firdi, fengo gott leidi, komo at qvelldi, er myrqva tók, út til Nidaróss, oc lögdo at vid konungs bryggio. Sídan sendi Þórgils menn upp í bæinn, oc let segia Sigurdi biskupi, at þeir fóro þar med lík Olafs konungs. Enn er biskup spyr þessi þídindi, sendi hann þegar menn sína ofan á

bryggior; þeir tóko þar ródrar-skúto, oc lögdo at skipi Þórgils, oc bádo fá ser lík konungsins. Þeir Þórgils tóko þá kisto þá er uppi stód á þiliojom, oc báro í skútona. Sídan reyro þeir menn út á fiörd, oc seykdo þar nidr kistonni; þá var myrkt af nótt. Þeir Þórgils rero þá upp eptir ánni til þess er þraut bæinn, oc lögdo þar at landi er Saur-hlíd heitir; þat var fyrir ofan bæinn. Þá báro þeir upp lík konungs, oc inn í eydi-skemmo nockora, er þar stód upp frá ödrom húsom; vökto þeir þar um nóttina yfir líkino. Þórgils geck ofan í bæinn; fann hann þá menn at máli, er hellst höfdo verit vinir Olafs konungs; spurdi hann þá ef þeir villdi taka vid líki konungs; þat þordi engi madr at gera. Sídan flutto þeir Þórgils líkit upp med anni, oc grófo þar nidr á sand-mel þeim er þar verdr, biuggo þar um eptir, sva at eigi skylldi þar nyvirki á siá; höfdo þeir þesso öllo lokit ádr dagadi, fóro þá til skips síns, oc lögdo þegar út or ánni, oc fóro sídan ferdar sinnar, til þess er þeir komo heim á Stiklastadi.

## CAP. CCLII.
## UPPHAF SVEINS KONUNGS ALFÍFUSONAR.

Svein, son Knútz konungs oc Alfífo dóttor Alfrims Jarls, hann hafdi verit settr til ríkis á Vindlandi í Jómsborg, enn þá hafdi komit til hans ordsending Knútz konungs, födr hans, at hann skylldi fara til

Danmarkar, oc þat med, at hann skylldi sidan fara til Noregs, oc taka þar vid ríki því til forráda, er í Noregi var, oc hafa þar med konungs nafn yfir Noregi. Sidan fór Sveinn til Danmarkar, oc ha di þadan lid mikit; fór med hönom Haralldr Jarl, oc margt annara rikismanna. Þess getr Þórarinn Loftúnga í kvædi því, er hann orti um Sveinn Alfífoson, er kallat er Glælogns qvida:

> Þat er dul-laust
> hve Danir gerdo
> dygga för
> med döglingi.
> Þar var Jarl fyrst
> at upphafi
> oc hverr madr
> er hönom fylgdi
> annarr drengr
> ödrom betri.

Sidan fór Sveinn í Noreg, oc med hönom Alfífa módir hans; oc var hann þar til konungs tekinn á hverio lög-þíngi. Hann var þá kominn austan í Víkina, er orosta var á Stiklastödom, oc Olafr konungr fell. Sveinn letti eigi ferdinni fyrr enn hann kom um haustit nordr í Þrándheim; var hann þar til konungs tekinn, sem í ödrom stödom.

## CAP. CCLIII.
## FRÁ LÖGOM SVEINS KONUNGS.

Sveinn konungr hafdi ny lög í landi um marga luti oc var þat eptir því sett sem lög voro í Danmörk,

enn sum miklo frekari. Eingi madr skylldi af landi fara nema med konungs leyfi, enn ef færi, þá felli undir konung eignir þess. Enn hverr er mann vægi, skylldi hafa vegit landi oc lausom eyri. Ef madr vard í útlegd, oc tæmdiz hönom arfr, þá eignadiz konungr arf þann. At Jólom skylldi hverr madr fá konungi mæli malltz af arni hveriom, oc lær af uxa þrevetrom, þat var kallat vinar toddi, oc spann Smiörs, oc húsfreyia hver ryckiar tó, þat var lín ó-rent, sva mikit at spent fengi um mesta fíngri oc lengsta. Bændor voro skylldir at gera hús þau öll, er konungr villdi hafa á bustödom sínom. VII menn skylldo gera einn lid-fóran, oc gera fyrir hvern er fimm vetra gamall væri, oc þar eptir hömlor eiga. Hverr madr er á haf reri, skylldi giallda konungi landvördo, hvadan sem hann reri, enn þat ero fimm fiskar. Skip hvert er færi af landi brot, skylldi hall-da konungi rúm um þvert skip. Madr hverr er til Islands færi, skyldi giallda landaura, þarlendskr oc útlendskr. Þat fylgdi oc þesso, at þá skylldo Dan-skir menn hafa sva mikinn metnad í Noregi, at eins þeirra vitni skylldi hrinda X Nordmanna vitnom. Enn er þessi lagasetning var byrt fyrir al-þydo, þá tóko menn þegar at reisa hugi sína upp ímót, oc gerdo kurr sín í milli; mælltо þeir sva, er eigi höf-do verit í mótferdom vid Olaf konung: takit þer nú, Inn-Þrændir, vinátto oc laun af Knytlingom, þess er þer bördoz vid Olaf konung, oc felldot hann frá landi; ydor var heitit fridi oc rettar-bót, enn nú

hafit þer ánaud oc þrælkan, oc þar med stór-glæpi oc nídingskap. Enn þar var eigi gott til mótmælis; sá þá allir at óheppiliga var umrádit; báro menn þó ei traust til at gera uppreist ímóti Sveini konungi; bar þat mest til, at menn höfdo gislat Knúti konungi sono sína, edr adra náfrændor, oc þat med, at þá var eingi forstióri til uppreistar; brátt höfdo menn ámæli mikit til Sveins konungs, oc kendo menn mest þó Alfífo módor hans allt þat er ímóti skapi þótti: enn þá nádiz sannmæli af mörgom mönnom til Olafs konungs.

## CAP. CCLIV.

## KOM UPP HELGI OLAFS KONUNGS.

Vetr þann hófz umræda sú af mörgom manni þar í Þrándheimi, at Olafr konungr væri madr sannheilagr, oc iartegnir margar yrdi at helgi hans; hófo þá margir áheit til Olafs konungs, um þá luti er mönnom þótti máli skipta; fengo margir menn af þeim áheitom bót, sumir heilsobætor, enn sumir fararbeina, edr adra þá luti er naudsyn þótti tilbera.

## CAP. CCLV.

## FRÁ EINARI ÞAMBARSKELFI.

Einar Þambarskelfir var kominn heim vestan af Englandi til búa sinnna, oc hafdi veitzlor þær sem Knútr konungr hafdi fengit hönom, þá er þeir fun-

doz í Þrándheimi, oc var þat nær Jarlsríki. Einar Þambarskelfir hafdi eigi verit í mótgöngo vid Olaf konung; rósadi hann því siálfr. Einar mintiz þess er Knútr hafdi heitit hönom Jarlsdæmi yfir Noregi, oc sva þat, at konungr efndi eigi heit sín. Einar vard fyrstr til þess ríkis-manna at hallda upp helgi Olafs konungs.

## CAP. CCLVI.

## FRÁ ÁRNA SONOM.

Finnr Arnason dvalldiz litla hríd á Eggio med Kálfi bródr sínom, þvíat hann kunni stórilla því, er Kálfr hafdi verit í bardaga móti Olafi konungi; veitti Finnr Kálfi iafnan hardar átölor um þær sakir. Þórbergr Arnason var miklo betr ordstilltr enn Finnr, enn þó fystiz Þórbergr í brott at fara, oc heim til bús síns; feck Kálfr þeim bádom brædrom sínom lángskip gott med öllom reida oc ödrom búnadi, oc gott föroneyti: Fóro þeir sídan heim til búa sinna, oc sáto um kyrt heima. Arni Arnason lá lengi í sárom, oc vard heill oc örkumblalaus; fór hann sídan um vetrinn sudr til bús síns; tóko þeir allir brædor ser grid af Sveinni konungi, oc settoz þeir heima allir brædor um kyrt.

## CAP. CCLVII.

## FLÓTTI SIGURDAR BISKUPS OR LANDI.

Eptir um sumarit gerdiz mikill ræda um helgi Olafs

konungs, oc sneri öllom ord-róm um konunginn; voro þeir þá margir er þat sönnodo at konungr mundi heilagr vera, er fyrr höfdo af öllom fiandskap móti hönom gengit, oc látit hann í engi stad ná af ser sann-mæli; toko menn þá at snúaz til ámælis vid þá menn, er mest höfdo eggiat mótgaungo vid konunginn; var af því mikit kennt Sigurdi biskupi; gerdoz menn þar hans óvinir sva miklir, at hann sá þann hellzt sin kost, at fara í brot oc vestr til Englands á fund Knúts konungs. Sídan gerdo þrændir menn oc ord-sendingar til Upplanda, at Grimkell biskup skylldi koma nordr til þrándheims. Olafr konungr hafdi sent Grimkell biskup aptr til Noregs, þá er konungr fór austr í Gardaríki; hafdi Grímkell biskup sídan verit á Upplöndom. Enn er þessi ord-sending kom til biskups, þá bióz hann þegar til þeirrar farar; bar þat oc miök til er hann fór, at biskup trúdi at þat mundi med sannindom er sagt var frá iartegna-gerd oc helgi Olafs konungs.

## CAP. CCLVIII.

## TEKINN UPP HEILAGR DÓMR OLAFS KONUNGS.

Grímkell biskup fór til fundar vid Einar þambarskelfi; tók Einar feginsamliga vid biskupi; ræddo þá sídan marga luti, sva þat er þar hafdi í landi stór-

tidindi ordit; urdo þeir á allar rædor sáttir sín á milli. Sídan fór biskupinn til kaupángs; tók þar öll al-þyda vel vid hönom; hann spurdi vendiliga eptir um tákn þau er sögd voro frá Olafi konungi; spurdiz hönom vel til þess. Sídan gerdi biskup ordsendingar inn á Stiklastadi til Þórgils oc Gríms sonar hans, oc stefndi þeim út til bæiar á fund sinn; þeir fedgar lögdoz þá ferd eigi undir höfot; fóro þeir ut til bæiar á fund biskups; þá sögdo þeir hönom öll þau merki er þeir höfdo vísir ordit, sva þat oc hvar þeir höfdo komit líki konungs. Sídan sendi biskup eptir Einari Þambarskelfi, oc kom Einar til bæiar; höfdo þeir Einar oc biskup þá rædo vid konung oc Alfífo, oc bádo at konungr skylldi lof tilgefa at lík Olafs konungs skylldi taka upp or iördo. Konungr lagdi þar lof á, oc bad biskup þar medfara sem villdi; þá var þar mikit fiölmenni í bænom; biskup oc Einar, oc menn med þeim, fóro til þar er lík konungs var íardat, oc leto þar tilgrafa; kistan var þá komin lángt upp miök sva or iördo; þat var margra manna tillag, at biskup leti konung grafa nidr í iörd at Klemens kyrkio; var sva gert. Enn er lidit var frá andláti Olafs konungs XII mánadir oc V nætor, þá var upptekinn heilagr dómr hans; var þá enn kistann kominn miök upp or iördo, oc var þá kistan Olafs konungs spánósa, sva sem ny-skafin væri. Grímkell biskup geck þar til, er upp var lokin kistan Olafs konungs; var þar dyrligr ilmr. Þá beradi biskup andlit konungs oc var

engan veg brugdit ásiáno hans, sva rodi í kinnom, sem þá mundi ef hann væri ny sofnadr. A því fundo menn mikinn mun, þeir er sed höfdo Olaf konung þá er hann fell, at sídan hafdi vaxit hár oc negl, því næst sem þá mundi, ef hann hefdi lifs verit her í heimi, alla þá stund sídan er hann fell. Þá geck til at siá líkama Olafs konungs Sveinn konungr oc allir höfdingiar þeir er þar voro. Þá mællti Alfifa: furdo seint fúna menn í sandinom; eigi mnndo sva vera ef hann hefdi í molldo legit. Sídan tók biskup söx, oc skar af hári konungs, oc sva at raka af kaumponom; hann hafdi haft lánga kampa, sva sem þá var mönnom titt; þá mællti biskup til konungs oc Alfifo: nú er hár konungs oc kampar sva sitt sem þá er hann andadiz enn þvilikt vaxit, sem nú sáit þer her afskorit; þá svarar Alfífa: þá þiki mer hár þat heilagr dómr ef þat brennr eigi í elldi; enn opt höfom ver set hár manna heillt oc ósakat þeirra er í iördo hafa legit lengr enn þessi madr. Sídan let biskup taka elld í glódar-keri oc blessadi, oc lagdi á reykelsi; sídan lagdi hann í elldinn hár Olafs konungs, oc þá er brunnit var reykelsit allt, þá tók biskop upp hárit or elldinom oc var þá hárit óbrunnit; let biskup þat siá konung oc adra höfdingia. Þá bad Alfifa leggia hárit i óvígdan elld; þá svarar Einar þambarskelfir, bad hana þegia oc vakdi henni mörg hörd ord; var þat þá biskups atqvædi, oc konungs samþycki, oc dómr allsheriar, at Olafr konungr væri sann-heilagr madr;

var þá likami konungs borinn inn í Klemens kyrkio, oc veittr umbúnadr yfir há-alltari; var kistan sveift pelli, oc tialldat allt gudvefiom; urdo þá þegar margskonar iartegnir at helgom dómi Olafs konungs.

## CAP. CCLIX.

## FRÁ JARTEGNOM OLAFS KONUNGS.

Þar á melnom sem Olafr konungr hafdi á iördo legit, kom upp fagr brunnr, oc fengo menn bót meina sinna af því vatni; var þar veittr umbúnadr, oc hefir þat vatn verit iafnan sidan vandliga vardveitt. Kapella var fyrst gör, oc þar sett alltarit sem verit hafdi leidi konungsins, enn nú stendr í þeim stad Kristz-kyrkia; let Eysteinn Erkibiskup þar setia há-alltari í þeim sama stad, sem leidit hafdi verit konungsins, þá er hann reisti þetta et mikla músteri er nú stendr; hafdi oc verit í þeim stad alltari í forno Kristz-kyrkio. Sva er sagt, at Olafs kyrkia standi nú, þar sem þá stód sú eydi skemma er lik Olafs konung var nóttsett í; þat er nú kallat Olafs lid, er heilagr dómr konungs var borinn upp af skipi; oc er þat nú i midiom bænom; biskup vardveitti helgan dóm Olafs konungs; skar hann hár hans oc negl, þviat hvart-tveggia vóx sva sem þá at hann væri lifandi madr her í heimi; sva segir Sigvatr skálld:

Lyg ec nema Olafr egi
yf sem kykver tífar,
gædi ec hellzt í hródri
hár-vóxt konungs áro.

Enn hellzt þeim er syn selldi
svördr þann er vóx í gördom
hann feck læs af liósom
lausn Valldhamar hausi.

Þórarinn Loftunga orti um Sveinn Alfífoson qvædi þat, er Glælogns qvædi heitır, oc ero þessar vísor þar í:

Nú hefir ser
til sess hagat
þiód-konungr
í Þrándheimi.
Þar vill æ
æfi sína
bauga briótr
bygdom ráda.
Þar er Olafr
ádan bygdi
ádr hann hvarf
til himinríkis.
Oc þar vard
sem vito allir
kyrkio settr
or konungmanni.
Hafdi ser
harla rádit
Haralds sonr
til himinríkis.
Adr hodd-briótr
af heimi fór
oc nú sitr
med syni Drottins.
Þar sva at hreinn
med heilo liggr
lofsæll gramr
líki síno.
Oc þar kná
sem á kvikom manni

hár oc negl
hönom vaxa.
Þar bordvegs
bióllor knego
um sæng hanns
siálfar hríngiaz.
Oc hvern dag
heyra þiódir
klukna hlióð
um konung menni.
Enn þar upp
af alltari
kristi þæg
kerti brenna.
Sva hefir Olafr
ádr hann andadiz
synda laus
sálo borgit.
Þar kemr herr
at heilagr er
konungr siálfr
krypr at gagni.
Enn beidendor
blindir sækia
þiódar máls
enn þadan heilir.
Bid þú Olaf
at hann unni þer
hann er Guds madr
grundar sinnar.
Hann um getr
af Gudi þegit
ár oc frid
öllom mönnom.
Þar er þú rekr
fyrir reginn-nagla
bóka máls
bænir þínar.

Þórarinn Loftúnga var med Sveini konungi, oc heyrdi þessi stórmerki heilagleiks Olafs konungs, at af himneskom kröptom mátto menn heyra yfir hans helgom dómi hlióm, sva sem kluckor hríngdiz, oc kerti tendradiz siálf þar yfir alltari af himneskom elldi; enn sva sem Þórarinn segir, at til hins helga Olafs konungs kom her mans, halltir oc blindir, edr á annan veg siúkir, enn fóro þadan heilir, getr hann ecki annars edr greinir, enn þat mundi vera ú-taligr fiöldi manna er heilso fengo þá þegar í upphafi at iartegnagerd hins helga Olafs konungs; enn hinar fyrzto iartegnir Olafs konungs þá ero þær mest ritadar oc greindar, oc þær er sidarr hafa gerzt.

## CAP. CCLX.

## FRÁ ALLDRI OC RÍKI OLAFS KONUNGS.

Sva segia menn, þeir er glöggliga telia, at Olafr konungr enn Helgi væri konungr yfir Noregi XV vetra, sídan er Sveinn Jarl fór or landi: enn ádr um vetrinn tók hann konungs nafn af Upplendingom. Sva qvad Sigvatr:

Olafr red et öfra
andprútt höfot landi
fulla vetr ádr felli
fimmtán á því láne.
Hverr hefir hanns enn nordra
heims enda ser kendan
skiölldungr hellz enn skylldi
skemr land-reki fremri.

Olafr konungr enn Helgi var þá hálf-fertogr at alldri, er hann fell, at sögo Ara prestz ens Fróda; hann hafdi átt XX fólk-orostor. Sva segir Sigvatr skalld:

Sumir trúdo á Gud gummar
grein vard lids á midli
fólk-orostor fylkir
framrádr tiogo hádi.
Frægr bad hann á hægri
hönd kristit lid standa
fedr Magnús bid ec fagna
fliótt skærom Gud drottinn.

Nú er sagdr nockr luti sögo Olafs konungs, frá tídindom þeim er gerdoz, medan hann red Noregi, oc sva frá falli hans, oc því er helgi hans kom upp: enn nu skal þat eigi nidri liggia, er hönom er þó mest vegsemd í, at segia frá iartegnagerd hans, þótt þat se sídarr ritat í þessari bók.

## CAP. CCLXI.

## FRÁ ÞRÆNDOM.

Sveinn konungr Knútzson red fyrir Noregi nockora vetor; hann var bernskr bædi at alldri oc at rádom. Alfifa, módir hans, hafdi þá mest landrád, oc voro landz-menn miklir óvinir hennar bædi þá oc iafnan sidan. Danskir menn höfdo þá yfirgáng mikinn í Noregi, enn lands-menn kunno því illa; þá er slíkar rædor voro uppi hafdar, þá kendo landsmenn þat adrir Þrændom, at þeir hefdi mesto umvalldit, er Olafr konungr enn Helgi var felldr frá landi, enn Noregs menn höfdo lagz undir þetta illa ríki, er á-

naud oc ófrelsi geck þar yfir allt fólk, bædi ríka menn oc úrika oc alþydo: köllodo þeir þrændor skyllda til at veita rád oc uppreist til þess at hrinda þesso riki af landsmönnom; var þat oc virding landsmanna, at þrændir hefdi mestan styrk þá í Noregi, bædi af höfdingiom sinom oc fiölmenni því er þar var. Enn er þrændir visso at landsmenn veitto þeim ámæli, þá könnodoz þeir vid, at þat var sann-mæli, oc þá hafdi hent glöpska mikil, er þeir höfdo Olaf konung tekit af lifi oc ládi, oc þat med, at þeim var sín óhamingia miklo illo golldin; höfdo þeir höfdingiar stefnor oc ráda-gerdir sín í milli; var þar Einar þambarskelfir upphafs-madr at þeim rádom. Sva var oc um Kálf Arnason, at þá fann hann í hveria snöro hann hafdi gengit af áeggian Knútz konungs: þau heit er hann hafdi Kálfi heitit edr veitt, þá rufoz þau öll, þviat Knútr konungr hafdi hönom heitit Jarldómi, oc yfirsókn um Noreg allan, enn Kálfr hafdi verit höfuds-madr at hallda orosto vid Olaf konung, oc fella hann frá landi; hafdi Kálfr engar nafn-bætor meiri enn ádr; þóttiz hann vera blektr miök, oc fóro þá ordsendingar milli þeirra brædra Kálfs oc Finns, þórbergs oc Arna, oc samdiz þá frændsemi þeirra.

## CAP. CCLXII.

## ÚTBOD SVEINS KONUNGS.

Þá er Sveinn hafdi verit þriá vetor í Noregi, spurdoz þau tidindi til Noregs, at fyrir vestan haf elldiz

flockr, oc var sá höfdingi fyrir er nefndiz Tryggvi; hann kalladiz son Olafs Tryggvasonar oc Gydo Ensko. Enn er Sveinn konungr spurdi þat, at útlendr her mundi koma í land, þá baud hann leidángri út nordan or landi, oc fóro flestir lendir-menn med hönom or Þrándheimi. Einar Þambarskelfir settiz heima, oc villdi eigi fara med Sveini konungi; enn er ord-sending Sveins kom til Kálfs Arnasonar inn á Eggio sú, at hann skylldi róa leidángr med konungi, þá tók Kálfr tvítug-sesso er hann átti; geck hann þar á med húskarla sína, oc bióz sem ákafligazt, hellt sidan út eptir firdi, oc beid eigi Sveins konungs; hellt Kálfr sidan sudr á Mæri, lettir þeirri ferd eigi fyrr enn hann kom sudr í Gizka til Þórbergs, bródr sins. Sidan lögdo þeir stefno med ser allir brædor Arna synir, oc höfdo ráda-gerd milli sin. Eptir þat fór Kálfr nordr aptr, enn er hann kom i Frekeyiarsund, þá lá þar fyrir í sundino Sveinn konungr med her sinn. Enn er Kálfr reri sunnan í sundit, þá köllodoz þeir á; bádo konungs menn Kálf atleggia oc fylgia konungi oc veria land hans. Kálfr svarar: fullgert hefir ec þat, ef ec hefi eigi ofgert, at beriaz vid vára landzmenn til rikis Knytlingom. Þeir Kálfr rero þá nordr leid sina; fór hann þá til þess er hann kom heim á Eggio. Engi þeirra Arna sona reri þenna leidángr med konungi. Sveinn konungr hellt lidi síno sudr í land, enn er hann spurdi eigi til, at herinn væri vestan kominn, þá hellt hann sudr á Rogaland oc allt á Agdir, því-

at menn gáto þess til, at Tryggvi mundi vilia leita fyrst í Víkina austr, þvíat þar hafdi verit forellri hans, oc haft traust mest, oc átti hann þar mikinn frænda-styrk.

## CAP. CCLXIII.
## FALL TRYGGVA KONUNGS OLAFSSONAR.

Tryggvi konungr, er hann hellt vestan, kom lidi síno utan at Hördalandi; þá spurdi hann, at Sveinn konungr hafdi sudr siglt; hellt þá Tryggvi konungr sudr á Rogaland; enn er Sveinn konungr feck niósn um för Tryggva, þá er hann var vestan kominn, þá sneri hann aptr nordr med her sinn; oc vard fundr þeirra Tryggva fyrir innan bokn í Soknar sundi, nær því er fallit hafdi Erlingr Skiálgsson; þar vard mikil orosta oc hörd, þat var á sunnodegi. Sva segia menn at Tryggvi skaut bádom höndom senn gaflökom; hann mællti: sva kendi minn fadir mer at messa. Þat höfdo mællt óvinir hans, at hann mundi vera son prestz eins: enn hann rósadi því, at hann liktiz þá meir Olafi konungi Tryggva syni; var Tryggvi oc hinn gerviligazti madr. I þeirri orosto fell Tryggvi konungr, oc margt lid hans, enn sumt kom á flótta, enn sumt geck til grida. Sva segir í Tryggva flocki

Tir-eggiadr för Tryggvi
tókz mörd af því nordan
enn Sveinn konungr sinni
sunnanferd at gunni.
Nær var ec þausnom þeirra
þat bar skiótt at móti.

her tyndi þar hörda
hiörgöll var þá fiörvi.

Þessar orosto getr í þeim flocki, sem ortr var um Sveinn konung:

Var á sunnodag svanni
seggr hne margr und eggiar
morgin þann sem manni
mær lauk edr öl bæri.
Þá er Sveinn kongr sína
saman tengia bad drengi
hrátt gafz holld at slíta
hrafni skeidar-stafna.

Sveinn konungr red þá enn landi eptir orosto þessa; var þá gódr fridr; sat Sveinn konungr þann vetr eptir sudr í landi.

## CAP. CCLXIV.

## RÁDA-GERD KÁLFS ÁRNASONAR OC EINARS ÞAMBARSKELFIS.

Einar Þambarskelfir oc Kálfr Arnason átto þann vetr stefnor sín í milli oc rádagerdir, oc hittoz í kaupángi; þá kom þar til Kálfs Arnasonar sendimadr Knúts konungs, oc bar hönom ordsending Knúts konungs til þess, at Kálfr skylldi senda hönom þrennar tylptir öxa, oc láta vanda miök. Kálfr svarar: öngar mun ec öxar senda Knúti konungi; seg hönom, at ec skal fá öxar Sveini, syni hans, sva at hönom skal eigi þickia skorta.

## CAP. CCLXV.

## FERD EINARS ÞAMBARSKELFIS OC KÁLES ÁRNASONAR OR LANDI.

Um várit snemma byria þeir ferd sína Einar Þambarskelfir oc Kálfr Arnason, oc höfdo mikla sveit manna oc et bezta mann-val, er til var í Þrændalögom. Þeir fóro um várit austr um Kiöl til Jamtalands, þá til Helsingialands, oc komo fram í Svíþiód, redo þar til skipa, fóro um sumarit austr í Gardaríki, komo um haustit til Aldeigio-borgar; gerdo þeir þá sendimenn upp til Hólmgardz á fund Jarizleifs konungs, med þeim erendom, at þeir budo Magnúsi, syni Olafs konungs ens Helga, at taka vid hönom oc fylgia hönom til Noregs, oc veita hönom styrk til þess, at hann nái födor-leifd sinni, oc hallda hönom til konungs yfir landi. Enn er þessi ordsending kom til Jarizleifs konungs, þá tók hann rádagerd vid drottningina oc adra höfdingia sína; kom þat ásamt med þeim, at Nordmönnom voro ord ger, oc stefnt þeim þannog á fund Jarizleifs konungs oc þeirra Magnús; voro þeim grid selld til þeirrar ferdar. Enn er þeir komo til Hólmgards, þá stadfestiz þat med þeim, at Nordmenn þeir er þar voro komnir gengo til handa Magnúsi, oc gerdoz hans menn, oc bundo þat svardögom vid Kálf oc adra þá menn er á Stiklastödom höfdo verit ímót Olafi konungi; veitti Magnús þeim trygdir oc fulla sætt, oc festi svardögom, at hann skylldi vera þeim öllom tryggr

oc trúr, þótt hann fengi i Noregi ríki oc konungdóm; skylldi hann geraz fóstrson Kálfs Arnasonar, enn Kálfr vera skylldr at gera þau verk öll, er Magnúsi þætti þá vera sitt ríki meira edr friálsara enn ádr.

---

